# MAÐUR OG KONA.

SKÁLDSAGA

EPTIR

JÓN THÓRODDSEN,

SÝSLUMANN.

GEFIN ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGI.

KAUPMANNAHÖFN.

PRENTUÐ HJÁ BIANCO LUNO.

1876.

# FORMÁLI.

Þegar Bókmentafèlagið hafði komið sèr saman við erfíngja Jóns sýslumanns Þórðarsonar Thóroddsens um að gefa út kvæði hans og skáldsögu þá, sem hèr birtist á prenti, þá var kosin nefnd þriggja manna á ársfundi 30. Juni 1870 til að standa fyrir útgáfu rita þessara. Í formála fyrir kvæðunum, sem komu út á prent 1871, skýrði nefnd þessi frá störfum sínum, og sagði um leið, að skáldsagan «Maður og kona» væri svo mikil fyrirferðar, að hún væri ætluð sèr í bindi, og var hálfvegis gjört ráð fyrir, að hún kynni að geta komið út árið næsta eptir, ef að fèlagsmenn Bókmentafèlagsins fjölguðu að þeim mun, að fèlagið fengi efni á því. Þetta heppnaðist nú ekki, og því hefir það orðið að dragast að koma sögunni á prent, svo að hún ur nú fyrst komið fyrir almeníngs sjónir. haustið 1872 fór einn af nefndarmönnum, ingrímur Thorsteinson, til Íslands, og varð

kennari við latínuskólann, en í stað hans var kosinn í nefndina á fundi 18. Januar 1873 bókavörður fèlagsins hèr í deildinni Sigurður L. Jónasson. þegar nefndarmenn fóru að skoða skáldsöguna, var hún enganveginn svo greið aðgöngu, sem við var búizt. Höfundurinn hafði reyndar látið skrifa hana upp að nokkru leyti undir prentun, en hann hafði hvorki fengið tíma eða tækifæri til að gánga frá henni til fullnustu, og ekki heldur til að fullgjöra hana. það sem hann mátti kallast vera búinn með, og vantaði einúngis að leggja á seinustu hönd, náði yfir fyrra hluta sögunnar, — því höfundurinn ætlaðist til hún skyldi vera í tveim hlutum, — eða fyrstu tuttugu og fimm kapítulana, og fram í sjötta kapítula af síðara hlutanum, og var upphafið á þessum kapítula með höfundarins eigin hendi. Fimm fyrstu kapítula síðara hlutans hafði hann látið skrifa, en þó ekki litið yfir þá til fullnustu. Að síðustu skulum vèr geta þess, að með handritinu fylgdi, ritað á tveim örkum, «Efniságrip af endanum á skáldsögunni Maður og kona»; var það með hendi þess hins sama, sem hafði ritað mestan hluta handritsins, og saman sett eptir því, sem höfundurinn sjálfur hafði skýrt frá, að hai hugsaði sèr framhald og lyktir sögunnar.

þegar nú efnið lá þannig fyrir oss nefn(

armönnum, kom oss saman um, að láta prenta söguna öldúngis eins og hún var komin frá hendi höfundarins. Þó gátum vèr ekki komizt hjá, að gjöra nokkrar breytíngar í handritinu, þar sem bersýnilega var misritað og höfundurinn hafði ekki leiðrètt, því engin sýnileg merki voru til, að hann hefði lesið handritið yfir að lyktum. Þar á móti höfum vèr látið halda sèr talshætti og mállýzkur, sem tíðkast á Vesturlandi, þó þær sè ekki venjulegar annarstaðar, eða nokkuð frábrugðnar, því vestanmál hefir verið ríkast hjá höfundinum, sem von var, þareð hann var uppalinn og kunnugastur fyrir vestan, og mun mestmegnis hafa haft fyrir augum sèr í þessari sögu, eins og í »Pilti og Stúlku,» menn, sem hann þekkti fyrir vestan, eða sviplíka þeim. Að norðan getum vèr ekki vísað á nema eina fyrirmynd, sem vèr þykjumst þekkja með vissu. Auk þessara smábreytínga, sem þannig hafa gjörðar verið, en þó með mestu varkárni, skulum vèr geta einnar breytíngar, sem vèr þóktumst neyddir til að gjöra; hún sýnist vera stórkostleg í fyrsta áliti, en er í sjálfu sèr mjög lítilvæg, því hún breytir engu í sjálfri sögunni. Það er sú, að vèr höfum látið falla úr skiptínguna í «fyrra part» og «annan part,» og látið kapítulatöluna halda áfram, með tuttugasta og sjötta kapítula o. s. frv. Þannig stendur

á því, að sagan er hèr fullir þrjátíu kapítular, og nær nokkuð fram í hinn þrítugasta og fyrsta, auk «Efniságripsins,» en það lètum vèr fylgja óbreytt, eins og það var. Menn munu taka eptir því, að einkennisklausur eða «Motto» stendur við suma kapítula, en ekki við suma, og helzt framanaf sögunni. Þetta kann að vísu að benda til, að höfundurinn mundi smásaman hafa safnað sèr þesskonar klausum og sett við alla kapítula í sögunni, en þessa gátum vèr ekki haft neitt tillit til, og lètum oss það mestu varða, að verk höfundarins kæmist óskemmt og verulega óbreytt í hendur lesöndum.

Kaupmannahöfn 22. April 1876.

*Jón Sigurðsson. Eiríkur Jónsson.*
*Sigurður L. Jónasson.*

---

# ÆFIÁGRIP.

Jón Þórðarson Thóroddsen er fæddur á Reykhólum á Reykjanesi í Barðastrandarsýslu um haustið undir veturnætur (5. Oktober) 1819. Reykhólar (Reykjahólar) eru, eins og kunnugt er, eitt hið merkasta höfuðból á Íslandi að fornu og nýju, og það er ekki ómerkilegt að taka eptir því, að þó Jón Thóroddsen væri ekki kominn af lángfeðgum, sem höfðu búið á Reykhólum maður eptir mann, þá má rekja kyn hans til Reykhólamanna fram í ættir, og það þeirra, sem heyrðu til stærstu kynþáttanna: til Þorleifs hirðstjóra, Björnssonar hins ríka, Þorleifssonar; til Guðmundar ríka Arasonar, sem bjó á Reykhólum á fyrra hluta fimmtándu aldar og átti Helgu Þorleifsdóttur, systur Björns; til Ólafs tóna hins eldra, Þorleifssonar, Svartssonar, Þor-
ifssonar, sem var á Reykhólum á fjórtándu
'd snemma; til Jóns Brandssonar, sem bjó
Stað í Steingrímsfirði og á Reykhólum snemma
þrettándu öld og átti Steinunni, dóttur Sturlu

í Hvammi og Íngibjargar, dótturdóttur þorgils Arasonar á Reykhólum, hins merka höfðíngja, sem getið er í Grettis sögu og víðar að leysti þann vanda af hendi, að halda þá þrjá ofstopamenn í einu, Gretti Ásmundarson, þormóð Kolbrúnarskáld og þorgeir Hávarsson. En þorgils Arason var af hinum elzta Reyknesínga kynþætti, sem var kominn frá Hjörleifi Hörðakonúngi, er kallaður var hinn kvennsami. Úlfur hinn skjálgi, sem var fjórði maður frá Hjörleifi konúngi, nam Reykjanes (hèrumbil 895) og mun hafa tekið sèr bústað á Reykhólum, en hann átti Björgu, dóttur Eyvindar Austmanns, og var því mægður hinum stærsta og víðlendasta kynþætti landnámsmanna á Íslandi. Sonarsonur Úlfs hins skjálga var Már á Reykhólum, sem talað er um í Kötludraumi, því kona hans hèt þorkatla, dóttir Hergils hnappraz úr Flatey, en sonur þeirra Márs og þorkötlu var Ari, sem sagt er að færi til Hvítramannalands (Ameríku) og staðfestist þar; þorgils sonur hans, sem þegar var getið, tók þá við Reykhólum.

þessar ættir má allar rekja víðara út, ef maður vill, en hèr þykir oss það ekki vert, og skulum vèr einúngis telja það sem nálægast e[illegible] þess má þá helzt geta, að faðir Jóns Thórodd sens var þórður þóroddsson, sem lengi bjó Reykhólum og hafði lært beykis iðn í úngdæn

sínu; faðir hans var Þóroddur beykir á Vatneyri († 1799), sem átti Bergljótu Einarsdóttur, systur Bjarna sýslumanns í Barðastrandarsýslu, föður Gudmundar Schevings. Bergljót var kvennskörúngur mikill og merkiskona; þau Þóroddur beykir og hún áttu ellefu börn, og voru margir synir, sem allir lærðu ýmiskonar iðnað. Faðir Þórodds beykis var Þóroddur Þórðarson, heyrari í Hólaskóla fyrst á átjándu öld; kona hans var Herdís Illugadóttir prests á Auðkúlu, Þorlákssonar; Illugi prestur andaðist í stóru bólu 1707, og kona hans sömuleiðis. Þóroddur heyrari var af Suðurlandi; hann var sonur Þórðar Jónssonar hríngjara í Skálholti og Guðrúnar, en móðir Guðrúnar var Steinunn Jónsdóttir frá Hamarsholti í Hrunamanna hrepp. — Móðir Jóns Thóroddsens var Þórey Gunnlaugsdóttir, prests á Ríp, Magnússonar, og Arnfríðar Þorláksdóttur frá Núpufelli, lögrèttumanns; þau Þórey voru mörg syskin. Síra Gunnlaugur á Ríp, og seinast að Reynistaðar klaustri († 1804), var sonur Magnúsar prófasts Pèturssonar á Höskuldstöðum, merkisprests, sem ritaði annál og fleira. Pètur faðir hans var Þorsteinsson, Eiríkssonar, Krákssonar norðan úr Fljótum. Kona Magnúsar rófasts var Ásgerður Pálsdóttir, systir sira 'unnars í Hjarðarholti, Bjarna landlæknis og eirra syskina; þau sira Magnús áttu tólf börn

saman, og varð Ásgerður 97 ára gömul að aldri, áður hún andaðist. Hennar föðurætt var frá Reykhólamönnum fram í kyn, því sira Páll faðir hennar, prestur á Hvanneyri og síðan á Upsum (✝ 1731), var sonur sira Bjarna í Vesturhópshólum, þorsteinssonar prests þar samastaðar, Ásmundarsonar, þorsteinssonar, Guðmundarsonar undir Felli í Kollafirði, Andrèssonar á Reykhólum, Guðmundarsonar hins ríka á Reykhólum, sem fyr var getið, og koma þar til ættir Reykhólamanna, því Andrès Guðmundarson hins ríka átti þorbjörgu, dóttur Ólafs tóna hins ýngra á Hvoli í Saurbæ og á Rauðamel, Geirmundarsonar, Herjólfssonar; en Geirmundur átti Guðrúnu, dóttur Ólafs tóna hins eldra á Reykhólum, þorleifssonar, sem fyr var nefndur.

Fyrstu tvö ár æfi sinnar var Jón hjá foreldrum sínum á Reykhólum, en þegar hann var tvævetur fór hann í fóstur til Jónasar bónda Jónssonar í Sælíngsdalstúngu í Dölum, og var þar níu vetur, þartil hann var ellefu ára að aldri. Jónas var sonur merkisbónda, Jóns Egilssonar á Vatnshorni í Haukadal, mágur Jóns sýslumanns Espólíns; Jónas bóndi var skýr maður og guðhræddur, og unnust þeir fóstrar mjög, svo að Jón hafði minníng fóstra síns innilega kæra til æfiloka, sem ráða má af vísunni eptir hann (Kv. bls. 149). þá er Jón var nú orðinn

ellefu vetra, var farið að hugsa um að koma honum til náms; var honum fyrst komið fyrir hjá Ólafi stúdent Pálssyni, syni sira Páls Hjálmarssonar að Stað á Reykjanesi, sem síðan var prestur í Otrardal. Hann bjó þá á Miðhúsum í Reykhólasveit, og var Jóni ætlað að nema hjá honum barnalærdóminn, skript og reikníng. Næsta vetur eptir átti að byrja á skólalærdómi, og var Jóni þá komið til kennslu til sira Sigurðar Jónssonar á Rafnseyri í Arnarfirði; fór hann þángað um haustið 1832 og var þar fjóra vetur, en vorið 1836 fór hann þaðan, og var honum þá komið fyrir að haustinu til á Eyvindarstöðum á Álptanesi, hjá Sveinbirni Egilssyni, til að kynna sèr latínuskólann á Bessastöðum og búa sig undir hann. Haustið eptir (1837) fèkk hann skólann og gekk undir próf, fór það svo, að hann reyndist fær um að setjast í efra bekk, og var þar síðan þrjá vetur, sem tíðast var venja til, og skrifaðist út með heiðarlegum vitnisburði um vorið 1840. Hann var þá á fyrsta árinu um tvítugt.

Þegar Jón var nú útskrifaður úr skóla, fór hann norður um sumarið eða haustið 1840, og var hjá sira Hallgrími prófasti Thorlacius á ·afnagili; með Ólöfu dóttur prófasts átti hann óttur, sem hèt Elín, og er gipt Páli Blöndal, ·kni í Borgarfirði. Sumarið eptir fór hann

vestur til foreldra sinna, og var þá ákveðið hann skyldi fara til háskólans í Kaupmannahöfn; sigldi hann þá um sumarið með Búðaskipi (1841), og er af vísum hans að ráða, sem hann hafi tregur farið að heiman og út í veröldina.

Frá æsku-árum Jóns eru mjög fá ljóðmæli til eptir hann. Vísan um Barmahlíð, sem hann orti þrettán vetra, vorið eða sumarið áður hann fór að Rafnseyri, og önnur staka (Kv. 188) eru einstakar sèr, og ekki vitum vèr neinn vott þess, að hann hafi ort kvæði meðan hann var að læra, eða á skólaárum sínum, þó líklegt sè hann hafi borið það við. En þegar hann var fyrir norðan, kynntist hann nokkuð Bjarna amtmanni Thorarensen, tók amtmaður honum vingjarnlega í frændsemis skyni, því þeir voru að þriðja manni og fjórða frá sira Páli á Hvanneyri, sem fyr var nefndur[1], og þá var einnig Bjarni Bjarnason

---

1) Ættliðirnir eru þannig:

| | |
|---|---|
| Bjarni Pálsson<br>landlæknir | Ásgerður Pálsdóttir<br>á Höskuldsstöðum |
| \| | \| |
| Steinunn Bjarnadóttir<br>á Hlíðarenda | Gunnlaugur Magnússon<br>á Ríp |
| \| | \| |
| Bjarni Thorarensen<br>amtmaður. | Þórey Gunnlaugsdóttir<br>húsfreyja á Reykhólum |
| | \| |
| | Jón Þórðarson Thóroddsen |

frá Ásgarði, jafnaldri Jóns og barndómsvinur, skrifari hjá amtmanni. Maður sèr á frásögu Jóns um kveðskap nokkurn, sem þeim Bjarna amtmanni og Sveinbirni Egilssyni fór á milli,[1] að hann hefir þá veitt eptirtekt ræðum Bjarna og kveðskap, og átt tal um þesskonar efni við hann. það má og ráða af vísunni um «málskrúð í Eyjafirði» (Kv. 261), að Bjarni amtmaður hefir orðið var við að Jón væri hagmæltur, og verið að ýta undir hann til að yrkja. Frá því hann kom að norðan og heim til foreldra sinna, og hann fór utan (1841), fer smásaman að bera meira á skáldskap hans, en þó einúngis við stöku tækifæri, og mest í gamni eða hálfspèlni.

þegar Jón Thóroddsen kom til Kaupmannahafnar 1841, tók hann aðgángspróf við háskólann. Tregara gekk með annað próf, og í embættisnáminu dró að því, að honum lèk meiri hugur á að gánga aðrar leiðir en þær, sem leiddu til embættisprófanna. þó lá hugur hans til Íslands, og með miklum áhuga tók hann þátt í öllu því, sem snerti stjórnarleg málefni landsins, en þá voru þessi mál í fremsta rúmi meðal Íslendínga í Kaupmannahöfn, því þá stóð að alþíngi yrði stofnað, og yrði fulltrúaþíng lendínga sèrílagi, en því fögnuðu allir og ekki

---

[1] Íslendíng. IV,91 (1865. Mai).

minnst íslenzkir námsmenn. Um haustið 1842 hèldu þeir fundi með sèr, og sendu ávörp fulltrúum sínum í Hróarskeldu, og þó einkum einum af þíngmönnum Dana, málafærslumanni Balthazar Christensen, sem snarpast tók það fram, er allur þorri Íslendínga vildi. Jón skrifaði undir ávörp þessi ásamt öðrum, svosem frá Barðastrandarsýslu,[1] því hver einn af þeim, sem undir skrifuðu, greindi til hvaðan úr hèraði hann væri. Um veturinn eptir voru enn fundir með Íslendíngum í Kaupmannahöfn, og var þá ritað konúngi ítarlegt ávarp, og konúngsefni sömuleiðis beðinn liðveizlu. Þar fyllti Jón Thóroddsen einnig fúslega flokk landa sinna, og skrifaði undir einn með öðrum.[2] Um þetta leyti orti hann nokkur ljóðmæli, sem lýsa því, að hugur hans var ekki við námið, en hann leit þó eins og um öxl til prófs og embættis, og sneri uppá það efni sálminum «Sæll er sá mann sem hafna kann.» Snúníngurinn er fyndinn, en þeim sem ekki þola lèttúð eða gázka, þykir hann nokkuð keskilegur, og er hann þó í rauninni sömu teg-

---

1) «Jón Þórðarson, úr Barðastrandarsýslu.» Ávörpin eru dagsett 6. Septembr. 1842. Frèttir frá fulltrúaþínginu í Hróarskeldu 1842, bls. 219—223.

2) «Jón Þórðarson, stud. juris.» Ávörp þessi eru dagsett 25. Febr. 1843. Frèttir frá fulltrúaþínginu Hróarskeldu 1842, bls. 225—233.

undar og yms þessháttar kvæði eptir íslenzk skáld, bæði eldri og ýngri, svo sem til dæmis nokkur, sem prentuð eru eptir Jón Þorláksson, Sigurð Pètursson og fleiri. Kvæðið lýsir því sjálft, að það hittir hið einkennilega í skáldskap þeim, sem Jóni var bezt laginn, og er lýst svo, að hann hafi verið í þeirri grein «manna fyndnastur og orðheppnastur, snarphæðinn, en þó græzkulaus.»[1] Þetta er með beztu kvæðum þeirrar tegundar. Um vorið 1843 fýstist hann að vitja Íslands aptur, og var þá hjá foreldrum sínum á Reykhólum um sumarið, en fór um haustið aptur til Kaupmannahafnar; var hann nú stöðugt þrjú ár hin næstu í Kaupmannahöfn, og lèk þó heldur lausu við vísinda-iðkanir, orti og heldur ekki mikið, svo á hafi borið. Þó er ein vísa í kvæðum hans, sem er í svipuðum anda og fyr var sagt, og þótti fyndin vel.[2] Hann orti og um þetta bil Nýjársvísur 1847 (Kvæðin bls. 6) og fleiri kvæði í minníngu Íslands, sem sum votta brennandi ást til fósturjarðarinnar (Kv. bls. 6. 4 og víðar). Sum voru glenskvæði og drykkjuvísur, og sum beggja blands, gaman og alvara. Um vorið 1847 fór hann út til

---

[1] «Sæll er sá mann, sem hafna kann hrekkvísra okurráði,» o. s. frv. Kv. 248.

[2] «Í Babýlon við Eyrarsund,» o. s. frv. Kv. 184.

Íslands, og var þá hjá móður sinni um sumarið, því faðir hans var þá dáinn árið áður, en um haustið fór hann enn til Danmerkur, og var í Kaupmannahöfn um veturinn.

Í Marts 1848 varð sú mikla breytíng í Danmörku, að lokið var hinu fyrra einveldi konúnganna, og skyldi nú innleiða lögbundna konúngsstjórn; en ósamlyndi það, sem um hríð hafði staðið og ávallt magnazt millum Dana og Þjóðverja á Holsetalandi, brauzt nú út í fullan fjandskap, svo að hvorutveggju bjuggust til bardaga. Jón Thóroddsen hafði þá um veturinn, meðan kyrð var á, tekið sig saman við Gísla (Gíslason) Brynjúlfsson að gefa út nýtt ársrit handa Íslendíngum, og var svo til ætlazt, að það skyldi koma út þá um vorið og heita «Norðurfari». En þegar allt varð á tjá og tundri, þá fèkk Jón fýsn á að fara í stríð með Dönum, var það á svipstundu ályktað og framkvæmt, og lagði hann að fám dögum liðnum af stað til hersins í Slesvík, en skyldi fèlaga sínum eptir Norðurfara. Ritið kom þá út um vorið, «útgefendur: Gísli Brynjúlfsson, Jón Þórðarson,» og átti Jón að vísu hinn minna þátt í ritinu, en þó eru þar nokkur kvæði eptir hann, og »Dálítil ferðasaga» með vísum í; vísur þær eru síðan allar prentaðar í kvæðab[ók]inni. Jón hefir þó haft þá töluverðan áhug[a á] tímaritinu, því hann getur um í brèfi til G[ísla]

3. Mai 1848, að hann hafi engan kvadt þegar hann fór af stað frá Kaupmannahöfn, en ef hann falli í orustu, kveðst hann hafa ásett sèr að koma upp á Garð (Regens) og blaða í Norðurfara, «sem nú mun að vísu út kominn, klæddur í kápu blá, og kannske farinn af stað til Íslands». Jón var þá í Melgerði á Als, og kvaðst eiga heima í fjórða flokki þrettándu fylkíngar; hafði hann þá verið með hernum í Slesvík, og komizt suður að Danavirki, verið í orustunni við Slesvíkurbæ 23. April, og síðan með Dana her, þegar hann hopaði undan og yfir á Als, en nú kvað hann mundu vera von á stórtíðindum bráðlega, og bjóst við hvorutveggja, annaðhvort að komast lifandi af eða falla á vígvelli. En tíðindin urðu ekki svo stórkostleg sem á horfðist, því Prússa her fór norður á Jótland og lèt þar fyrirberast og þjáði Jóta fram eptir sumrinu, þar til vopnahlè var samið og þeir fóru leiðar sinnar suður eptir aptur, þegar Nikulás Rússakeisari hafði bandað við þeim. Það er sagt, að Jón Thóroddsen hafi orðið undirforíngi (undiroffisèri), en herþjónustan varð ekki lángvinn, því um haustið 1848 fèkk hann lausn og fór þá heim aptur til Kaupmannahafnar og var ır um veturinn. Um lagalestur mun þá hafa erið lítið til frásagnar, en hann samdi þá um eturinn skáldsögu sína, sem fèkk nafnið «Piltur

og stúlka.» Ymsar tilraunir hafa áður verið gjörðar á voru landi til að semja skáldsögur, eptir því sem tíðkast í útlöndum nú á síðari tímum um nokkra hríð, og menn kalla enska nafninu *novels* eða nýsögur, af því þær taka efni sitt úr hinu daglega hversdagslífi, en ekki frá fornum viðburðum eða söguritum, svosem riddarasögur gjöra; en þessi saga Jóns Thóroddsens er hin atkvæðamesta af þessum sögum öllum, og því er hún almennt talin hin fyrsta nýsaga, sem samin sè á Íslenzku.

Um vorið 1849 var Jón Thóroddsen aptur með að gefa út Norðurfara, «útgefendur Gísli Brynjúlfsson, Jón Þórðarson.». Ártalið MDCCCXLIX stendur á kverinu, en ekki er þess getið, að það sè annað ár ritsins. Þar eru nokkur kvæði eptir Jón, sem prentuð eru síðan í kvæðabók hans, en engin ritgjörð í óbundnu máli. Árriti þessu var ekki síðan fram haldið, og þótti þó mörgum kynlegt, því það var samið með miklu úngdómsfjöri, og þótti girnilegt meðal alþýðu til fróðleiks og skemtunar, en þess gátu menn, að Norðurfari væri «ekki konúngkjörinn,» þar sem hann væri á ferð til Íslands. Þá um sumarið og veturinn eptir hafði Jón Thóroddsen meira fyrir stafni, þá lèt hann prenta skáldsögu sína og kom hún út árið eptir (1850). Hún va 146 + 2 bls. með smáu letri í litlu átta blað.

broti og hefir titil þannig: «Piltur og stúlka, | dálítil frásaga. | útgefandi | Jón þórðarson Thóroddsen. | Khöfn. | Prentuð hjá S. L. Möller | 1850». — Sama ár tóku þeir sig saman Gísli Magnússon og Jón, að safna í íslenzka kvæðabók og koma henni á prent; hún kom út jafnframt og hefir svo látandi titil: «Snót, | nokkur kvæði | eptir | ýmiss skáld. | Útgefendur: | Gísli Magnússon | og | Jón þórðarson Thóroddsen. | Khöfn. | prentuð hjá J. D. Kvisti, | bókaprentara og nótnaprentara. | 1850.» Bókin er XII+238 blss. í tólf blaða broti, með upphafshendíngum kvæðanna fyrir framan og orðaregistri aptast, sem útskýrir nokkrar kenníngar og vönd orð eða nöfn.

þegar Jón hafði lokið störfum sínum, þessum sem nú var frá sagt, fór hann heim til Íslands um vorið 1850. þá stóð svo á, að Brynjólfur (Benediktsson) Svenzon, sem hafði verið nokkur ár sýslumaður í Barðastrandarsýslu, hafði fengið Borgarfjarðarsýslu 16. Mai um vorið, og var Barðastrandarsýsla laus. Amtmaðurinn í Vesturumdæminu, sem þá var Páll Melsteð, beiddi þá Jón að taka að sèr að stjórna sýslunni, tókst hann það starf á hendur og settist fyrst að í Flatey. Eiginlega var það tilgángur Jóns, að 'eita kosníngar og gjörast fulltrúi Barðstrendnga til þjóðfundarins, en hann segir vin sínum ìísla Brynjúlfssyni í brèfi úr Flatey 6. Febrúar

1851 hvernig það fór. «þú manst, að eg í vor fór heim til Fróns í því skyni, að verða valinn í Barðastrandarsýslu. Til allrar ólukku hafði brèf það, sem eg ritaði í vetur móður minni til, og eg hafði lagt innaní brèf til Barðstrendínga um að kjósa mig, ekki komið fram, en verið sent af klaufaskap aptur suður til Reykjavíkur, Barðstrendíngar hefðu annars að vísu kosið mig. Eg hafði meira en þriggja vikna útivist, og var því eigi kominn þegar kosníngar fram fóru.» — Af því þetta fór fram um þær mundir, sem einna mest bar á þjóðernisfjöri hjá Íslendíngum, tökum vèr úr sama brèfi nokkurn kafla, sem segir frá «frjálsum fundi» Vestfirðínga á hinum forna þíngstað að Kollabúðum. Hann segir svo frá: «Nokkrum dögum eptir að eg var kominn, var þorskafjarðarfundur að venju haldinn, og hafa þorskfirðíngar búið þar til búð mikla, 24 álna lánga og að því skapi breiða, og er hún gjör þar sem búð Gests Oddleifssonar var forðum. Fundurinn var fjölmennur, nl. 140 manns auk kvenna og piltúnga. Fundurinn stóð í þrjá daga, og veðrið var hið fegursta, og varla hefi eg lifað skemtilegri tíma en þá; við sváfum í tjöldum, og höfðum gnægð vista og víns. Prófastur Ólafur Sivertsen í Flatey var kosinn forseti í stað sýslumanns Magnúsar Gíslasonar en eg aptur, í stað prófasts, aukaforseti. Tölur-

voru þar fluttar þrjár, þá þíngið var sett, af Magnúsi Gíslasyni, mèr og presti Eiríki O. Kuld, síðan var tekið til starfa og níu manna nefnd kosin, að ræða um stjórnarlaga frumvarp, því þá hugðu menn, að þjóðfundurinn mundi verða samsumars. Í nefndinni vòru fjórir þjóðþíngismenn, Lárus (prófastur í Holti í Önundarfirði), Ólafur Johnsen, Brynjólfur Benediktsen og Ásgeir; eg var og einn í nefnd þeirri. Frumvarp var samið, sem að mestu mun verða haft til undirstöðu í sýslunefndar-álit það, sem Barðstrendíngar eru nú að semja, og þú munt fá að sjá á prenti einhverntíma í vor.[1] Á þíngvallafundinn fer eg að vori, en ekki gat eg farið á hann í fyrra vor, fyrir því, að þá var eg að taka við sýslunni.» — Um störf sín fer hann þessum orðum í sama brèfi: «Í sýslumanns embættinu kann eg dável við mig, og eg hefi ekki híngað til orðið var við, að sýslubúar mínir sè óánægðir með mig. Ærið hefi eg haft að gjöra síðan eg tók við, í ymsum þrætum. Í einu þjófnaðarmáli hefi eg dæmt, og var dómurinn staðfestur af amtinu; einnig hefi eg dæmt í fjársök einni millum kaupmanns Thorsteinsens og Eyjólfs dannebrogsmanns í Svefneyjum, og verður það víst hæstarèttar mál; að öllu samtöldu hefi eg þíng-

[1] Álitsskjal þetta mun aldrei hafa komið á prent.

að átján sinnum í þjófnaðar og þrætumálum.» Heldur gjörir sýslumaður lítið úr tekjum sínum, því þángaðtil í Januarmánaðar lok veturinn eptir (1851) hafði hann ekki fengið í aukatekjur nema tæpa 70 dali, en hafði mátt borga fyrir fæði og húsnæði yfir 80 dali, auk þess sem hann þarfnaðist ymsra hluta og varð að kaupa. Í hinu fyrnefnda brèfi 6. Febr. fór hann enn nokkrum orðum um bústað sinn og aðsetur, og segir á þá leið: «Eg hefi þetta árið verið hèr í Flatey, það er skemtilegasti staðurinn hèrna í sýslunni og flestir «höfðíngjar» þar saman komnir: prófastur Ólafur Sivertsen, kaupmaður og þjóðþíngismaður Brynjólfur Benediktsen, gáfaður og sèrlega fróður maður í Íslands sögu; sira Eiríkur Kuld og kaupmaður Sigurður Jónsen, báðir skemtilegir menn. Herbergi og skrifstofu mína hefi eg í húsi kaupmanns Sigurðar Jónsens, og eru þau mikið góð og falleg, sem í Höfn væri. Hefði eg tíma afgángs, er hèr og nóg af handritum og íslenzkum óprentuðum druslum að skemta sèr við, því Brynjólfur Benediktsen erfði öll handrit og bækur föður síns, Boga á Staðarfelli; einnig er nú hèr hjá prófasti um tíma skemtilegur maður, fróður og feikilega ríkur af kvæða- þulu- draugasagna- álfasagna- safni, það er Gísli Konráðsson. Han hefir einnig mikið safn af smásögum um merki

lega menn og afkáralega, t. d. Magnús sálarháska, og svo hefir hann líka samið sögu *sui temporis*[1] um Húnavatns sýslu, og er hún afar falleg og fróðleg.»

þegar Jón var nú orðinn sýslumaður, varð það mest starf hans að reka sýsluna og að skemta sèr við kunníngjana. Um það, sem hann hugsaði til ritstarfa, skrifar hann Gísla Brynjúlfssyni úr Flatey 2. Febr. 1852, útaf því, að Gísli hafði hvatt hann til að semja «reglulega þjóðsögu»: «þó eg vantreysti mèr til þess,» segir hann, «þá býr alltaf hjá mèr löngun til þess, en umsvif og veraldarsýsl hafa, síðan eg kom híngað, hindrað mig frá að ráðast í slíkt.» Nú kom það til þar að auki, að hann fór að hugsa til að festa ráð sitt og fá sèr konu; sneri hann huga sínum að dóttur þorvalds í Hrappsey, Kristínu, en þar varð nokkur fyrirstaða, því faðirinn var vandur að ráðahag fyrir dóttur sinnar hönd, og þótti lítil staðfesta þó maðurinn væri «settur» sýslumaður, sem víkja mætti frá þegar minnst varði, og einhver sækti, sem hefði tekið próf. Nú kom að því, sem skáldið hafði kveðið í gamni, að hollara var að vera «examensmaður», og var nú farið að ráðgast um, hvernig þessu yrði fyrir komið. það varð að ráði, að Jón skyldi fara til háskólans og

[1] þ. e. sinnar tíðar (sögu).

...g brætumálum.»
taka próf í dönskum lögum, og er það hepp[illegible]ist, skyldi hann ná ráðahagnum, e[illegible], í Flatey Bogason tók að sèr [illegible] veturinn eptir unni á meðan. þegar búið [illegible] aukatekjur nema í lag, hèlt Jón ekki lengi [illegible] borga fyrir fæði suður um veturinn eptir nýjár., og tók sèr far með póstskipi í Februar 1853. Nokkrar vísur, ortar á ferðinni til Danmerkur, eru prentaðar í kvæðum Jóns (Kv. 93. 94). Vera hans í Kaupmannahöfn að þessu sinni var ekki löng, og er skjótt yfir að fara, að hann gekk undir próf í dönskum lögum um vorið 1854 og fèkk bezta vitnisburð. þess skulum vèr þó geta, að 29. Septbr. um haustið áður ritaði hann boðsbrèf til Íslendínga, og þeir með honum: Karl Andersen og Arnljótur Ólafsson, um samskot til styrks við Sigurð Guðmundsson úr Skagafirði, til að fullkomna sig í uppdráttarlist (Norðri II, bls. 6—7). Um vorið eptir, 30. April 1854, flutti Gísli Brynjúlfsson honum kvæði að skilnaði (Ný Fèlagsr. XVI, 146—147), áður hann fór til Íslands, og með konúngs úrskurði 22. Juni 1854 var honum veitt Barðastrandarsýsla til fulls, og 100 dalir til ferðarinnar. þegar hann kom heim, settist hann að í Flatey eins og áður, og tók við sýslunni snemma í September mánuði sama ha[illegible] eptir að hann hafði haldið brúðkaup sitt f[illegible] dögum á undan.

lega mer[illegible] ekki lýst betur æfi Jóns Thór-
hás[illegible], [illegible]þetta sumar en með því, sem hann
*temporis*[1] um [illegible] brèfi 25. Novbr. um haustið.
falleg og fróðleg.» [illegible]hann, «svo að segja leikið

þegar Jón [illegible] við skildum síðast; eg fèkk allfljóta og hagstæða ferð til Reykjavíkur, var þar skamma hríð, og reið síðan vestur góðum hestum og þurra vegi, og hafði fyrir svein minn Ólaf hinn fagra Skagfirðíng;[1] 25. dag Julimánaðar komst eg til Hrappseyjar, og þegar eg fór að gæta í almanakið mitt, sá eg, að eg í Höfn hafði gjört kross við þann dag, til merkis uppá, að eg vildi þá vera heim kominn, og svona hafði þá allt ítarlega að óskum gengið. Þegar eg var kominn í faðm kærustunnar, var öll armæða afstaðin; tilhugalífið varð skammt, eptir það eg var heim kominn, því 29. August var brúðkaup okkar hèr í Flatey; var það, eins og nærri má geta, skemtilegast fyrir mig, en eg held líka góður fagnaður fyrir boðsgestina. Amtmaður Melsteð var í því, og allur þorri höfðíngjanna í Breiðafirði; sátu allflestir þeirra hèr í viku, og var stundum drukkið fast, datt mèr þá við og við í hug, að mikill gleði-auki hefði það verið að hafa þig, og svosem tvo eða þrjá af [illegible]æðrunum í Höfn nærstadda. Síðan eg kom í

---

[1]) Hann mun hafa verið Húnvetníngur.

hjónabandið hefir mèr liðið sannarlega vel, og engu óinndælla hefir það reynzt mèr, en tilhugalífið. Í vetur, sem yfir stendur, verðum við hjónin hèr í Flatey, en að vori komanda flytjum við, ef guð lofar, að Haga á Barðaströnd, og kaus eg þá jörð heldur en Reykhóla, af því hún bæði er betur í sýslu komin og umsvifaminni, og þó fallegt höfðíngjasetur, eins og við var að búast þar, sem Gestur Oddleifsson kaus sèr forðum bólstað. — Margt held eg verði örðugt fyrst við búskapinn, en þeir örðugleikar finnast mèr nú svo lèttir sem lauf. — Býsna mikið hefi eg haft að gjöra, síðan eg settist að sýslunni, og fáar hafa orðið enn mínar andlegu skemtistundir — svo kalla eg þær stundirnar, sem maður má lesa, og hnýsast í það, sem mann lángar til, og hugsa það, sem mann mest fýsir að hugsa um, — en eg vænti nú bráðum betri stunda í því falli, því eg hefi nú að mestu lokið málaþrasi, sem eg í haust hefi orðið að standa í, og óumflýjanlegustu embættis-skriptum.» — Í brèfi þessu drepur hann enn á hið fyrra efni, um að búa til skáldsögur, með þessum orðum: «Gísli gamli sagnaþulur Konráðsson situr við nótt og nýtan dag, að rita upp sögur og druslur; Vestfirðíngasögu hefir hann samið, og er margt í henni fróðlegt, og æfisögur ymsra, og er í þein mörgum ágætt efni, ef til væri maður vel me

að fara, að semja úr þjóðsögur, líkar Scotts. — Mikið er hèr sumstaðar til af rímum, ljóðabrèfum og druslum, en fátt hefi eg enn lesið þesshàttar.»

Áður en Jón Thóroddsen fór frá Kaupmannahöfn, um vorið 1854, hafði þjóðólfur (VI, 138—140) grein, sem kölluð var «saga af Vestfjörðum,» og sveigði hún heldur að sýslumanninum í Barðastrandarsýslu. Jón eignaði hana beinlínis eða óbeinlínis Eyjólfi hreppstjóra í Svefneyjum, og svaraði henni snarplega með nokkurri þykkju til Eyjólfs, því honum þótti hann ráðríkari í sveit sinni, en hann vildi að hreppstjóri væri (þjóðólf. VI, 274—75, 284—285, 290 sbr. VII, 62—63, 66—67). Sú deila sjatnaði þó smásaman. Þegar Jón var seztur að í Flatey um veturinn, tók hann þátt í ritstjórn Gests Vestfirðíngs, og var fimmta ár ritsins prentað í Kaupmannahöfn um vorið. Þar var í æfi Hallgríms prests Pèturssonar og Ólafs Snóksdalins eptir Gísla Konráðsson, og lofað í næsta ári þætti um Guðmund Bergþórsson, en þetta varð seinasta ár ritsins, og kom það ekki optar út. Jón sat þá í friði í sýslu sinni, og bjó í Haga á Barðaströnd, fyrst á hálflendunni, og síðan á allri jörðinni, en sendi einúngis end-·r og sinnum kvæði til blaðanna, einkum til ·óðólfs, og fengu þau þar fúsar viðtökur. Þó .nti einusinni í glettni nokkurri útúr kosn-

íngunum til alþíngis 1858, og spruttu út af því veturinn eptir og vorið 1859 vísur nokkrar (Kvæð. 265—266) og blaðagreinir (Þjóðólf. XI, 95—96), en Jón lèt prenta svar sitt og gaf út í bæklíng sèr á nokkrum blöðum; það er ritað í Haga 6. Juni 1859 og prentað sama ár (í prentsmiðju Íslands 1859) en hefir enga fyrirsögn. Þá varð ekki meira úr þessari deilu, en þó kann vera, að hún að nokkru leyti hafi verið hvöt til þess, að sýslumaður hafi farið að óska sýsluskipta, bæði vegna þess, að honum hafi þótt vináttan kólna síðan kosníngarnar urðu seinast, og svo hitt, að Barðastrandarsýsla var mjög rýr að tekjum. Hann sókti því um Borgarfjarðarsýslu eptir Jón Snæbjarnarson, sem var andaður 31. August 1860, og fèkk þá sýslu með konúngsúrskurði 25. Mai 1861.

Um sumarið, þegar hann frètti að hann hafði fengið Borgarfjarðarsýslu, fór hann suður á land og skoðaði sig um, og síðan vestur aptur, og var fyrir vestan þar til um vorið eptir, 1862, að hann flutti sig búferlum suður, og tók sèr bólfestu á Leirá. Vèr vitum það seinast til embættisstarfa hans í Barðastrandarsýslu, að hann lèt prenta markaskrá sýslunnar í prentsmiðjunni í Reykjavík («Markatafla í Barðastrandarsýslu, sem sýslumaður Jón Thóroddsen samd eptir skýrslum hreppstjóranna í nefndri sýslu.»

Rvík. 1862. 64 blss. í 16 blaða broti). Sira Ísleifur Einarsson, nú prestur í Hvammi í Laxárdal, sá um prentunina.

Eptir að Jón Thóroddsen var kominn suður, gekk í fyrstu allt vel og friðsamlega, en ekki leið á löngu áður en misþykkja kom upp milli hans og ritstjóra Þjóðólfs, en þeim hafði áður verið fremur vel á milli. Blaðið hafði getið þess í Februar 1864 (Þjóðólf. XVI, 57), að þjófnaðarmál í Grafardal hefði staðið órannsakað frá því haustið áður. Útaf þessu reiddist sýslumaður og skrifaði ritstjóra og beiddist leiðréttíngar; ritstjórinn tók að vísu ekki «leiðréttínguna» orðrétt, en tók ágrip af henni (Þjóð. XVI, 78) og svaraði að öðru leyti hógværlega, en sýslumanni þókti það ekki nóg og lèt prenta svar, sem hèt «Þjóðólfur Jónsson og faðir hans. Nr. 1.» Það var ritað á Leirá 25. April 1864 (16 blss. 8vo) og leit út sem ætti að vera fyrirrennari annara rita móti ritstjóra Þjóðólfs, því hann hafði um þær mundir marga mótstöðumenn, en þetta varð þó ekki, og lenti heldur í smáertíngum, þar til sætt var samin við sáttamála nefndina í Reykjavík (Þjóðólf. XVII, 107, 116, í Mai 1865).

Í Juni 1864 gekk Jón Thóroddsen inn í fèlag með þeim mönnum, sem gáfu út blaðið «Íslendíng.» Það hafði komið út í þrjú ár, en var síðan hætt um tíma, frá því í April og til

þess í Juni. Af þeim sjö mönnum, sem höfðu stofnað blaðið, voru nú tveir eptir, og Jón sýslumaður Thóroddsen varð hinn þriði. Blaðið var nú mínkað að brotinu til, en var þó kallað «fjórða ár,» en þar með hætti blaðið algjörlega (26. Juni 1865). Jón Thóroddsen átti töluverðan þátt í blaðinu, meðan það stóð; þar voru allmörg kvæði eptir hann, sem síðan eru prentuð meðal kvæða hans, og í einu af seinustu blöðunum var svo harðorð ritgjörð eptir hann um Magnús Eiríksson, útaf riti hans um Jóhannesar guðspjall («Nokkur orð um Magnús Eiríksson og stóru bókina,» Íslendíngur IV, 89—80), að hún vakti mótmæli frá Íslendíngum í Kaupmannahöfn allmörgum, sem þótti ofdjúpt tekið í árinni (Norðanfari IV, 61, 7. Oktbr. 1865).

Sumarið 1864 var haldinn þíngvallafundur í Augustmánuði (þjóðólf. XVI, 169—170; XVII, 87; XX, 21; Íslend. IV, 62—63). þar var Jón Thóroddsen á fundi, og tók mikinn þátt í fundarstörfum. þar var ritað ávarp til Kristjáns konúngs hins níunda, sem þá var nýkominn til ríkis, og kosin nefnd til að færa stiptamtmanni ávarp þetta; í þá sendinefnd var Jón sýslumaður kosinn, ásamt með þeim sira Jóni Hallssyni, prófasti Skagfirðínga, og Jóni Pèturssyni yfirdómara, en stiptamtmanni var ætlað að senda ávarpið konúngi. Annað fundarmál var það, sem Jón sýslumaður

bar upp, að þá þegar skyldi verða tekið til skýlisbyggíngar á þíngvöllum. Málinu var gefinn góður rómur, og nefnd kosin til að segja álit sitt og leggja á ráð, og önnur síðan, til að gángast fyrir framkvæmdunum. Í þessa síðari nefnd var Thóroddsen kosinn, ásamt með Benidikt Sveinssyni og Halldóri Friðrikssyni; var skotið saman 24 rd. þar á fundi, en áður var til samskotafè 230 rd. og úr Borgarfirði komu eða var lofað 70 rd. (Jón Thóroddsen sjálfur gaf eða lofaði 50 rd.) Aðgjörðir nefndarinnar urðu þó ekki svo greiðar, sem á horfðist, því boðsbrèfið varð ekki búið fyr en kom fram á vetur, af því nefndarmenn voru sundraðir og fjarri hver öðrum, og þegar uppkast kom til boðsbrèfs, skoraðist Halldór undan að rita nafn sitt undir; fengu þá hinir tveir yfirdómara Jón Pètursson í nefndina með sèr, og lètu nú þessir þrír, Benidikt, Jón Thóroddsen og Jón Pètursson, boðsbrèf út gánga í Februar 1865 (Íslend. IV, 66—67. 69. 87—88) með sterkum meðmælum í blaði sínu, til að safna samskotum um allt land til skýlisins; en þar sáust engar sýnilegar verkanir af þeirri áskorun, og datt það mál niður enn um nokkur ár. — það var enn þriðja fundarmál, að skerast í að útrýma fjárkláðanum. þar var enn kosin nefnd, og var Jón Thóroddsen einn af nefndarmönnum, með Benidikt Sveinssyni og

Jóni Guðmundssyni, ritstjóra þjóðólfs. Með þeim voru fjórir bændur kosnir í nefndina. Framkvæmdir nefndarmanda urðu ekki miklar, nema hvað sumir þeirra ferðuðust um til að fá bændur til að skera niður fè sitt; en þeir voru heldur ófúsir á það, og eptir að stiptamtmaður hafði bannað Jóni Thóroddsen að starfa í þessari nefnd, urðu störf hennar ennþá linari, og hættu seinast með öllu í þetta sinn. Frá gángi máls þessa er nokkuð skýrt í «Íslendíngi» (IV, 62 — 63). — Fjórða fundarmál var það, sem Sveinn Skúlason bar upp, að fara skyldi þá þegar að hugsa fyrir hæfilegri minníngu þess, að árið 1874 hefir Ísland byggt verið í þúsund ár. Kosin var nefnd þriggja manna til að koma þessu máli nokkuð á veg, og skora á sýslumenn alla og yfirvöld að styrkja það. Í þessari nefnd var Jón Thóroddsen ekki, og vèr hyggjum, að það mál hafi farizt fyrir og engin áskorun komið út að þessu sinni. — Um fundarlokin fóru menn að tala sig niður á kosníngum til alþíngis, sem áttu að fara fram um haustið, og voru nefndir til menn fyrir tuttugu sýslur, sem þá áttu ókosið; meðal þeirra var Jón Thóroddsen, og var stúngið uppá honum eða Jóni Bjarnasyni í Ólafsdal til alþíngismanns fyrir Dala sýslu, en yrð hann ekki kosinn þar, stúngu menn uppá að kjósa hann eða Brynjólf í Flatey fyrir Barða-

strandarsýslu (Íslendíng. IV, 19). Kosníngarnar fóru svo, sem kunnugt er, að Jón Bjarnason var kosinn fyrir Dala sýslu, en Brynjólfur í Flatey og sira Eiríkur Kúld (varaþíngmaður) fyrir Barðastrandarsýslu, en Jón Thóroddsen náði ekki kosníngu.

Um sýslustörf Jóns Thóroddsens þenna tíma skulum vèr enn geta þess, að það má sjá af auglýsíngu hans, sem er gefin út á Leirá 23. Novbr. 1864, að hann vildi reyna að halda uppi vegabótum. Hann skýrir þar frá, að vegurinn yfir Geldíngadraga, eða Dragann, sem kallaður er, hafi verið að miklu leyti ruddur þá um sumarið eptir hinum nýju vegabótalögum (Tilsk. 15. Marts 1861) og hlaðnar vörður, en tveimur af þeim hafði verið hrundið niður, auðsjáanlega af mannavöldum, og höfðu Borgfirðíngar utanhèraðsmann grunaðan um þetta spillvirki. Sýslumaður auglýsir þessvegna, að lögstjórnin í Borgarfjarðarsýslu muni hèr eptir láta hafa nákvæmt eptirlit og fyrirspurn á því, hvort nokkrir kynni að gjöra sig seka í slíkum lagabrotum, það er: vísvitandi að spilla þjóðvegum og vörðum á fjallvegum, og sjá um að þeir, sem grunaðir verða, hvar sem þeir eru, sè ákærðir, og ef ekir reynast dæmdir til hegníngar eptir tilskipninni um vegina á Íslandi (Íslend. IV,56).

Árið 1865 hafði Jón Thóroddsen það fyrir

stafni, að gefa út kvæðabókina «Snót» á ný. Þeir voru í fèlagi með honum til þess Gísli Magnússon og Egill Jónsson, og mun Gísli hafa átt mestan þátt í að vinna að útgáfunni, en Jón ætlaði að yrkja «Eptirmála» og varð heldur seinn, svo bókin var fullprentuð áður (Kv. 145). Snót var nú miklu stærri en fyr, og með formála frá «Útgefendunum.» Þar er sagt, að í stað þess sem hin fyrri útgáfan hafði hundrað og tíu ljóðmæli, þá hefði nú þessi hin síðari tvö hundruð og níutigi ljóðmæla alls, en þrjú voru felld úr, sem voru í fyrri útgáfunni og önnur inn sett í staðinn. Bókin hafði nú þann titil: «Snót, | nokkur kvæði | eptir | ýmis skáld. | önnur útgáfa, aukin. | Reykjavík, árið 1865. | Útgefendur: | Egill Jónsson, Gísli Magnússon | og | Jón Þórðarson Thóroddsen. | IV + 416 blss. í tólf bl. broti, og átti að kosta í kápu 1 rd. — Annað rit kom út sèrstakt eptir Jón á þessu ári, sem hèt Veiðiförin. Hún var fyrst prentuð neðanmáls í Íslendíngi IV. ári, bls. 50—56, 58—60, 66—69, en síðan sèrstök með þessum titli: «Veiðiför. | Gamanríma | eptir | J. Þórðarson Thóroddsen. | Rvík. 1865. 24 blss. 8^vo^. Í Íslendíngi voru einnig prentuð yms kvæði eptir hann önnur, þar til blað þetta hætti um fardaga leytið fyrir fullt og allt. Ljóðmæli Jóns, sem prentuð eru í íslenzkum blöðum, munu öll, eða

þvínær öll, hafa merkið «J. Þ. Th.», en allmörg hittast einnig, með merki «J. Th.,» og eru þau ekki eptir Jón Thóroddsen, þó sumir hafi eignað honum þau, af því þau eru í betra lagi kveðin.

Vinsældir Jóns Thóroddsens jukust ekki eptir að hann kom á Suðurland, og bar margt til þess, sem vèr hvorki getum tilgreint, enda þykir óþarfi að segja frá. Hann var fljótur til þykkju og til sáryrða, ef honum mislíkaði, og sumir, sem ekki voru óhefnigjarnari en hann, sátu ekki af sèr færi. Sá kvittur fór að koma upp og breiðast út, að sýslumanni þætti góður sopinn, og að ekki væri sú regla í stjórn hans, sem vera ætti. Það var þessvegna hljóðbært, að Hilmar Finsen, sem varð stiptamtmaður og kom út um sumarið, hefði haft sèrstaklegt umboð til að líta eptir hjá honum og gá að embættisfærslu hans (Þjóðólf. XVIII, 12). Jón fór suður í Reykjavík og heilsaði uppá stiptamtmann, og fagnaði komu hans með kvæði (Kv. 212). Hann var þá viku í Reykjavík (Kv. 285) og má heyra á kvæðum hans, að honum fer þá heldur að kippa til þess, sem menn kalla embættisríg, og að þola miður en vel útásetníngar og aðfinningar. Sumarið eptir (1866) ferðaðist stiptamtmaður upp um Borgarfjörð, og kom til Thóroddsens að Leirá. Mun hann þá hafa rann-

sakað embættisfærslu hans og embættisbækur, og bar ekki á öðru, en að það væri allt í góðu lagi, og ekki þess getið, að neitt væri að fundið. Stiptamtmaður ætlaði þaðan upp í Surtshelli, og var Jón Thóroddsen með öðrum í fylgdinni; þetta var 13. Juli 1866; en á leiðinni hrepptu þeir óveður mikið og urðu að snúa aptur á Drageyri; lèt skáldið, sem Surtur í Surtshelli hefði ekki hirt um heimsókn þeirra, hvorki lækna nè lögfræðínga (Kvæð. 219). Eptir þetta var allt með kyrð og spekt, en þó heyrði sýslumaður stundum utanað sèr, að mönnum þætti dragast hjá honum sum mál í meira lagi fyrir aðgjörðaleysis sakir, og kunni hann illa þesskonar orðrómi (Kvæð. 189). Honum var ekki heldur vel við, þegar málum var skotið frá dómi hans, og svo var þegar skiptagjörníngi hans var skotið til yfirdóms í erfðamálinu frá þíngnesi, og erfíngjar fengu til þess gjafsókn hjá stiptamtmanni; þá kvað hann þessa vísu, sem ekki er í kvæðabókinni:

Blessuð mildin bæta kann
brest, svo rètti náum,
þó eigum þras við andskotann
allir gjafsókn fáum.

Hann var þó ekki heppinn í þessu máli,

yfirdómurinn dæmdi skiptagjörníng hans ómerkan (1867; Þjóðólf. XX, 79).

Árið 1867 kom skáldsagan út á prent í annað sinn. Titill hennar er: «Piltur og stúlka, | dálítil frásaga. | önnur útgáfa, aukin. | útgefandi: Jón Þórðarson Thóroddsen. | Rvík. í prentsmiðju Íslands. Einar Þórðarson. 1867. 8.» Sagan er þar breytt nokkuð og töluvert aukin, og nýr «Eptirmáli» aptanvið, svo bókin var nú 190 blaðsíður og kostaði 80 skildínga. — Í hinni dönsku útleggíngu sögunnar eptir Kålund er farið mest eptir hinni eldri útgáfu, og felldir úr viðaukarnir í þessari hinni síðari.[1]

Þá um sumarið kom Jón Thóroddsen til Reykjavíkur um alþíngistímann, og var þá sýnilega farinn að missa mjög heilsu og fjör. Hann hafði þá látið skrifa upp mikið af kvæðum sínum, og verið að búa til skáldsögu sína hina nýju og láta smásaman skrifa hana; vildi hann fá Bókmentafèlagið til að prenta kvæðin að minnsta kosti. Söguna var hann í nokkrum vafa um hvernig hann skyldi nefna, og vèr höfum sèð talið með ritum hans ýmist «Hlíðarhjónin, eða fólkið í Hlíð, skáldsaga. brot.» eða «Bóndi og kona, brot.

---

[1] Indride og Sigrid. Fortælling af Jon Thordsson Thoroddsen. Oversat fra islandsk af Kr. Kålund. Khavn. Wilh. Priors Forlag. 1874. 174 blss. 8vo.

vantar þriðjúnginn. skrifað upp veturinn 1867—68, en ekki búið þá höfundurinn dó.» Vèr höfum það fyrir satt, að bæði þessi rit sè sama og «Maður og kona,» sem nafnið er á handriti því, sem kom í fèlagsins hendur. Þriðja nafnið er «Karl og kerlíng», sem höfundurinn hefir hugsað sèr undir árslokin 1867, þegar hann var að láta hreinskrifa söguna, svo sem hann getur um í einu brèfi sínu. Þar á móti vitum vèr ekki til, að rit eptir Jón Thóroddsen, sem hefir verið nefnt «Lífið við Ísafjörð, drama í ljóðum (?),» hafi nokkurstaðar komið fram enn sem komið er, hvort sem það nú leynist einhverstaðar, eða það er undir lok liðið.

Jón Thóroddsen hafði ætíð áhuga á alþíngi og alþíngismálum, þó hugmyndir hans í þeim efnum væri fremur bygðar á tilfinníngum og álitum, heldur en á föstum rökum, sem ekki var undarlegt, þar sem skáldið átti í hlut. Á alþíngi 1867 komu hugmyndir alþíngismanna í nokkuð ljósari stefnu en fyr í ymsum merkilegum atriðum, og þar á meðal um ábyrgð stjórnarmánnanna; en stjórnarsinnar höfðu mikla viðleitni og beittu allri mælsku til að sannfæra menn um, að stjórnlagaleg ábyrgð væri öldúngis þýðíngarlaus, og því ætti alþíng að fella hana ( hirða ekki um að hafa hana í stjórnarskrá sinn en þeir áttu þó bágt með að svara þeirri spurı

íngu: hversvegna þá tæki svo sárt til ábyrgðarinnar, ef þeim þækti hún svo lítils virði, því þá væri einfaldast að gjöra enga rekistefnu um hana, og lofa alþíngi að hafa hana eins og það vildi. Jón Thóroddsen sýnist hafa þar verið á máli stjórnarsinna, og hafa viljað gjöra skop að ráðgjafa-ábyrgðinni, þar sem hann kveður svo (vísur þessar eru kveðnar 1867, en eru ekki í kvæðabókinni):

Reynið til með ráðgjafann
að rústa svo út karlinn þann,
að hann ekki út úr leið
ábyrgðarlaust hlaupi skeið.

Hross- í -hári bitran brand
bezt mun vera «uppástand,»
að hengja yfir höfði þess,
er halda á hinn dýra sess.

Svo ef útúr leggur leið
lögum móti stjórnarskeið
ráðgjafans hann rjúki á háls
og ríkisstjórnin verði frjáls.

Þegar hann kom heim að sunnan, sat hann um kyrt að mestu, og mun hafa smásaman haldið ...m störfum sínum við skáldsöguna, en heilsan ... farin, svo hann gat ekki lengur unnið með ...n fjöri, og gekk verkið seinna fram en hann

vildi og ætlaðist til í fyrstu; en þetta var þó án efa þjóðsaga sú, sem hann hafði lengi hugsað um og ætlað sèr að semja. Rètt undir árslokin (12. Decbr. 1867) skrifar hann Gísla Brynjúlfssyni frá Leirá á þessa leið: «Eg hefi lengst af verið lasinn (síðan alþíngi sleit) og stundum hálfruglaður útúr svefnleysi, er á mig hefir sótt gríðarlega. — Eg get ekki talað neitt við þig núna um syrpu,[1] verði hún álitin hæfileg til prentunar af fèlagsbræðrunum, þá vil eg eiga þig að sem vin, að sjá um útgáfuna, svo hún verði mèr ekki til stórrar vanvirðu hvað snertir niðurröðun og annað. Svo fel eg þèr á hendur að kippa því burt, sem þèr virðist of persónulegt, sem ekki mun vera svo feikilega mart, utan þórðarvísurnar og þjófabænin, en með því þetta er í sjálfu sèr græzkulaust gaman, og vísurnar þess utan í hvers manns munni, virðist mèr ekki til neins að sleppa þeim; annað mál kynni að vera «Kláða-Síon,» — og er það samt spaug. Með póstskipi í vor vænti eg að fá eitthvað að heyra, máske mèr þægilegt, og ef kverið verður tekið, hefi eg í hyggju að semja stuttan eptirmála, og um leið senda þèr ef eitthvað fæðist þángað til. Annars er eg nú allur í því, að

---

[1]) Þ. e. Kvæðabók hans.

hreinskrifa «Karl og kerlíngu,» skáldrit í líkum anda sem «Piltur og stúlka» er, en hèrumbil þriðjúngi stærra.»

Eptir þetta hyggjum vèr að lítið hafi ágengt orðið bæði með kvæðin og söguna, því höfundurinn andaðist ekki löngu síðar, 8. Marts 1868. Hann lèt ekki mikið eptir sig, því hvorki voru tekjur hans miklar, nè heldur mun hann hafa verið búmaður mikill, svo hann gæti auðgazt af bújörðum sínum, þó góðar væri. Um tekjurnar í Barðastrandarsýslu er svo frá skýrt, að árin 1853—54 hafi þær verið að kostnaði frádregnum 300 til 350 rd., en 1862—63 ekki nema 200—250 rdala (Norðanfari III, 7. í Febr. 1864). Borgarfjarðarsýsla hefir að vísu verið betri, en þó hefir hún ávallt verið talin með hinum minni sýslum. Það sem eptir var, mun því mest hafa gengið til að standa skil á því, sem inni stóð, eða sýslumaður hafði að geyma.

Þau kona hans höfðu átt saman átta börn, og lifðu eptir fjórir synir, er hinn elzti nú við háskólann í Kaupmannahöfn, tveir eru í skóla, og einn mun vera næst því að byrja skólalærdóm. Svili Jóns Thóroddsens, Jón Árnason skólavörður, hefir bróðurlega staðið við ekkjnar hlið, og styrkt hana trúlega til að bera byrði, sem lagðist á herðar henni við andlát innsins, að koma börnunum fram.

Mynd Jóns Thóroddsens, sem er framanvið kvæðabók hans, sýnir nokkurnveginn vel hina ytri ásýnd hans. Hann var í minna lagi meðalmaður, nokkuð lotinn í herðum, breiðleitur og kríngluleitur, augun grá og snarpleg, nefið í þykkara lagi og varirnar, dökkur á hár og skegg, þèttvaxinn og hvatlegur á fæti, snar og fylginn sèr.

Af blöðum Íslendínga var það «Baldur,» sem minntist andláts Jóns Thóroddsens með mestum sóma. Hann kemst svo að orði: «Ísland á þar á bak að sjá einhverju með helztu skáldum þessarar aldar. Eptir hann liggur margt prentað, en vèr viljum að eins nefna hina afbragðs-fögru skáldsögu hans, «Pilt og stúlku.» Það er hið fyrsta rit í sinni tegund, er samið hefir verið á Íslandi síðan í fornöld. Það er svo mikið afbragð, að eigi eru líkindi til að Ísland eignist að sinni annað slíkt í þeirri grein. Heyrt höfum vèr, að áður en Thóroddsen dó hafi hann verið að láta rita upp og búa til prentunar aðra skáldsögu, er heitir «Maður og kona» — en «nú er skarð fyrir skildi,
nú er svanurinn nár á tjörn[1].»
Af minníngarljóðum eptir hann færum vèr til þessi, eptir Matthías Jochumsson[2]:

---

[1]) Baldur I, 16. [2]) Baldur I, 19.

Flaug þar horskur hugur
heim, en Saga geymir
minnug íturmennis
málspjall, hins forsnjalla;
þakklát æ mun þekkja
þjóð mín skáldsins góða
róm, og drenglynd dæma
dómavönd frá grómi.

J. S.

# MAÐUR OG KONA.

## YFIRLIT.[1]



[1]) Fyrirsagnirnar með merkinu * framanvið hafa útgefendurnir búið til.

# FYRSTI KAPÍTULI.

*Hèr segir frá ymsum mönnum, er síðar koma til sögunnar.*

Maður er nefndur Sigvaldi, hann var Árnason, Sigurðarsonar, Hjaltasonar, Gunnarssonar glænefs úr Grafníngi. Móðir Gunnars glænefs var þorgerður í rauðum sokkum, Eyjólfs dóttir hins digra, Jónssonar, Finnssonar, Bjarna sonar skyrbelgs; hann dó í svartadauða, og andaðist eptir að hann hafði etið í einu átta merkur af ólekju. þessi ætt verður ekki lengra rakin, því að fáar ættatölu-bækur ná fram yfir svartadauða. Sigvaldi var prestur og bjó þar sem heitir að Stað; þar er prestsetur og staður góður, og á þeirri tíð, er sagan gjörðist, kirkja vegleg, og liggja til hennar þessir bæir, er nú skal greina: Holt og Hjalli, Háls og Hamar, Vatn og Vogur, Túnga og Tángi, Hóll, og fleiri bæir. Hlíð heitir og einn bær þar í Staðar sókn; þá jörð átti Sigvaldi prestur, og bjó þar sá maður, er Sig-

urður hèt, Jónsson. Hann var borgfirzkur að ætt; kona hans hèt þórdís Bjarnadóttir. Hún var kona vitur vel og hinn mesti kvennskörúngur. Sigurður bóndi var búsýslumaður mikill og átti vel lausafè, en ekki aðra fasteign en jörð eina, sem Hamar heitir; það er næsti bær við Hlíð og þrjátíu hundruð að dýrleika. Helmíngur jarðarinnar var konu-arfur, en hinn helmínginn hafði Sigurður keypt af þeim manni, er þórir hèt og þar bjó; var það í skilmálum með þeim Sigurði og þóri, að þórir skyldi eiga heimilt að búa á Hamri meðan hann lifði og kysi að vera þar. þau Sigurður og þórdís voru hnigin á hinn efra aldur; ekki áttu þau barna á lífi; höfðu þau átt börn saman, en þau dóu úng.

það var einn vetur, skömmu eptir þrettánda, að heimilisfólk í Hlíð var gengið til rökkursvefns, sem vandi er til á bæjum, nema sauðamaður; hann var úti. Húsum í Hlíð var svo varið, að þar var baðsfofa í fimm stafgólfum og þiljuð sundur uppi, og var lopthús í öðrum enda; það var herbergi þeirra hjóna, Sigurðar og þórdísar, og voru rúm þeirra sitt hvorum megin, lángsetis undir hliðunum, og borð eitt lítið á millum fyrir miðjum gafli. Frammi á baðstofuloptinu, og fyrir framan lopthúsdyrnar, voru rúm griðkvenna og svo vinnumanna, en fyrir

þverum gafli var flet kerlíngar nokkurrar, sem þuríður hèt; hún var hreppsómagi og gömul mjög. Ekki þótti hún dæl viðureignar, ef hún skipti skapi. þetta sama kvöld, sem fyrir skömmu er frá sagt, hafði Sigurður bóndi geng-ið til svefns, sem aðrir heimamenn; lá hann í rúmi sínu og svaf fast og hraut mjög. Hús-freyja hafði og lagzt niður, en sofnaði ekki. Tekur nú að dimma og líður fram að dagsetri, og sofnar hún ekki; leiðist henni að liggja svo lengur vakandi; stendur hún þá upp og gengur fram í húsdyrnar; þær voru opnar, því ekki var hurð fyrir húsinu. Húsfreyja hlustar eptir, hvort allir sofi frammi á baðstofuloptinu, og heyrir hún þá ekki annað en hrotur og svefnlæti í hverju rúmi, nema í rúmi þuríðar kerlíngar, og verður hún þess vís, að hún sefur ekki: situr hún uppi í rúmi sínu og tautar eitthvað fyrir munni sèr, en ekki heyrir þórdís nein orðaskil. Loks heyrir hún, að kerlíng stökkur upp hart og títt, og hleypur fram eptir loptinu allt fram að loptsgati, hrækir hún þar og skirpir ofan í gatið og segir: «svei þèr sneypa! svei þèr andstygðin! svei skratti, farðu fjandi, tu! — á, vartu feginn að hrökkva undan mèr? og svei þèr, tu!»

«Hvað gengur nú á fyrir þèr, þuríður gamla?» sagði húsfreyja. þuríður heyrði ekki

hvað þórdís mælti, eða gaf því engan gaum, gengur hún aptur til rúms síns og sezt þar niður, og tautar sem áður eitthvað í hálfum hljóðum; snýr þá húsfreyja til rúms þuríðar og kastar á hana orðum og segir: «það hefir þá farið líkt fyrir þèr, þuríður mín, eins og mèr, að þèr hefir ekki orðið svefnsamt í rökkrinu». Kerlíng segir svo vera, að ekki hafi hún sofnað í það skipti, enda hafi það verið hentast að einhver vekti. Húsfreyja innir hana þá eptir, hvört nokkuð hafi borið fyrir hana, lætur kerlíng í fyrstu fátt yfir: sèr sè nú tekin að glapnast sýn, segir hún, enda muni fáir trúnað á leggja, þó hún segði að eitthvað bæri fyrir hana: «en ekki mun mèr þykja undarlegt», segir hún, «þó einhver ókunnugur komi hèr áður kvöldið er á enda». Húsfreyju fýsti að heyra, hvað það væri, sem kerlíng lèt svo drjúgt yfir, og spyr hana ítarlega eptir, hvað henni hefði sýnzt; lætur þuríður þá loks til leiðast.

«Eg sat», segir kerlíng, «eins og eg er vön, og morraði hèrna á bólinu mínu þángað til það var sofnað fram á loptinu; þá fannst mèr eins og mig sækti einhver eyðilegleiki, og ætlaði eg að halla mèr útaf, kelli mín, tók skinnkoddableðilinn, sem þarna var í auða rúminu, og ætlaði að stínga honum undir mjaðmar-greyið á mèr, ef eg kynni heldur að hafa eitthvað við-

þol — æ — æ! — ekki! ekki ertu ennþá búin að yfirgefa mig! — nú hleypur hún í mjóhrygginn á mèr, æ — æ! — en í því varð mèr litið þarna fram á skörina, — — æ, æ! nú lætur þèr! og þá sá eg þar einhverjar he . . . bèaðar eldglæríngar, og færðust þær smátt og smátt uppá skörina, þetta leið hægt og hægt inn eptir miðju loptinu og þángað til það kom hèrna að fremri gaflinum á auða rúminu, þá fór mèr ekki að verða um sel, — æ, æ! ætlar hún að drepa mig þarna! eg stóð upp, kelli mín! hastaði á það, en mèr hefir verið svo varið, að þesshâttar sneypur hafa hrokkið undan mèr, og þá valt þessi skratti aptur fram eptir loptinu eins og hnykill ofan í stigann, þar skildi eg við það, það var á stærð við meðal spordall, eldrauður ósómi og tindraði úr því á allar hliðar. Þú mátt eiga von á því, Þórdís mín, hèr kemur einhver skrattinn í kvöld, þó eg sè orðin gömul og glámskygn.»

«Hver helldurðu það geti verið, sem komi hèr í kveld?» sagði húsfreyja.

«Og, það veit eg ekki, Þórdís mín», sagði kerlíng, «en helzt held eg að það sè einhver utansveitar, því ekki man eg eptir neinum hèr í sveit, sem þessi skolli fylgir, nema ef það er strákurinn sem kom í vor þar að Leiti, ekki man eg hvað hann heitir, Ásmundur eða Ámundi,

trúi eg, þó hefi eg heyrt að honum fylgi hrútur, sem dregur eptir sèr gæruna, en hann Jón á Grundum á hund, með ljósi í rófunni, og strákurinn þar í Hvammi á tvo hálfmána. Það er víst eitthvað, sem eg þekki ekki, kelli mín! en ekki hefi eg sèð leiðari sneypu undan nokkrum manni.»

«Það mun vera sem þú segir, Þuríður mín, ef hèr kemur einhver í kvöld, þá verður hann eitthvað lengra að, en þess vil eg biðja þig, að láta fátt yfir þessu, því annars fæ eg ekki stúlkurnar til að fara í fjósið í kvöld,» sagði húsfreyja.

«Þær eru þó ekki svo litlar á lopti, blessaðar ekki nótentáturnar hèrna, það er líklegt þær þori um þvert hús, þó ekki sè allt hreint. Ekki kveinkaði eg mèr á árunum, á meðan eg var og hèt, þó eg vissi af einhverjum slæðíng í kríngum mig; það gekk heldur ekki framan að mèr, á meðan heimakonuskrattinn var ekki búin að fara með mjöðmina á mèr og drepa mig, æ, æ!»

Við þetta slitu þær Þuríður talið; sat Þuríður gamla eptir á rúmi sínu, seildist á hyllu fyrir ofan rúm sitt, tók þar fiskþunnildi og tók að fást við það, og tautar við sjálfa sig í hálfum hljóðum, en húsfreyja gekk fram á loptið og að rúmi vinnukonu einnar, er þar svaf, vakti

hún hana og bað hana fara til eldhúss og kveikja, því nú væri mál að bregða rökkursvefni, segir hún. Vinnukonan vaknar skjótt, og er hún hefir klórað sèr um stund, og geispað og akað sèr allri, sem venja er til, stendur hún upp og gengur fram og kveikir. Vaknar þá hver af öðrum í baðstofu og setjast konur á rúm sín og taka til vinnu. Þar voru þrjár vinnukonur, Sigríður, Guðrún og Ástríður, og spunnu þær, en vinnumaður einn, sá er Hrólfur hèt, sat þar allskamt frá á kistli, og var honum ætlað það verk, að kemba fyrir þær á kvöldum. Ljósið var hengt í dyrastafinn á húsinu með þeim hætti, að gat eitt var borað í dyrastafinn ofanverðan, og haldinu á lampanum smeygt þar í. En því var ljósið þar sett, að það mætti lýsa inni í húsinu og svo fram á loptinu, að ekki þyrfti nema eitt ljósið í baðstofunni. Undir dyrastafnum á lopthúsinu að innanverðu, þeim megin sem ljósið var, var settur stóll einn, og lagður svæfill á ofan, þar var húsfreyja vön að sitja á kvöldum, er hún var að saumum, eða gjörði eitthvað annað, sem ljósvant þótti. Hinum megin við húsdyrnar, að framanverðu, og á þá hlið er vissi að loptslánni, stóð pallkistill lítill og breitt yfir samanbrotið brekán; það var sæti Þorsteins vinnumanns, sat hann þar um vökur og fèkkst við smíðar, bætti og gjörði við fötur og dalla,

bjó til hagldir og hornspæni, skar rúmfjalir og asklok, holaði innan tóbaksbauka eða fitlaði við annað þesskonar, en þess á millum hafði hann þann starfa, að lesa sögur og kveða rímur, því hann var maður allvel læs og kvæðamaður hinn mesti. Þorsteinn var á fimtugs aldri. Hann var í hærra lagi meðalmaður, jarpur á hár, fölleitur og grannleitur og óhraustlegur, og þó eigi óálitlegur. Sigurður bóndi virði hann mest allra hjúa sinna, var Þorsteinn honum og mjög fylgisamur og vann hvert verk með trúleika, og var hinn mesti þrifnaðarmaður. Ekki hafði Þorsteinn kvongazt, en barn hafði hann getið við bóndadóttur einni, er síðan var gefin öðrum manni og þá önduð. Barnið hèt Sigrún, og var hún á vistum með föður sínum þar í Hlíð, og þá níu vetra gömul og mjög mannvænleg. En er kveikt var, og búið var að setja ljósið í dyrastafinn, settist hver í sitt sæti; sat húsfreyja í stóli og saumaði; Þorsteinn settist hinum megin dyra og skepti nafar. Sigurður bóndi vaknar nú einnig og litast um, sèr hann þá, að fólk er sezt að vinnu; spyr hann húsfreyju, hvort lángt sè þegar liðið af vöku; segir hún honum sem var, að fyrir skömmu væri búið að kveikja; gengur hann síðan þar í horn eitt á húsinu og tekur þar hrosshársflèttu eina, bregður öðrum enda undir sperrukjálka, gagnvart rúmi

sínu, sezt síðan niður og tekur að flètta. Líður svo fram nokkra stund af vökunni, að fátt er talað í baðstofu. Kemur nú smalamaður heim. Ekki var honum ákveðið neitt verk á kvöldum, enda kunni hann lítið til ullarstarfa; lá hann jafnan um vökur og svaf, eður gambraði við konur, og þótti vel sækjast vinnan ef hann vatt af einni snældu allt kvöldið, eða prjónaði nokkrar umferðir neðan við sokk sinn. Nú kemur smali inn, gengur hann að rúmi sínu, það var gagnvart lopts-uppgángi, tekur hann hatt sinn og vetlínga, hendir því til fóta í rúmi sínu, fleygði sèr síðan endilángur uppílopt um þvert rúmið, og lèt býfurnar liggja fram á mitt loptið. Enginn mælti orð til hans, enda yrti hann á engan. Líður nú svo um hríð, að allir þegja í baðstofu, og situr hver þar sem hann er kominn við vinnu sína. Loks tekur húsfreyja svo til orða við Þorstein:

«Mèr virðist», segir hún, «ofur dauft og þegjandalegt hèrna í kvöld, Þorsteinn minn! ljúktu samt útaf við nafarinn þinn; en svo lízt mèr á stúlkurnar mínar, sem þær vænti venjunnar, að þú lesir eða kveðir eitthvað fyrir þær.»

Þorsteinn segir, að lítil mundi þess von, því nú hefði hann nálega lesið upp allar þær sögur, er til væri þar á bæ. Húsfreyja sagði, að ekki

mundi kveðskapurinn síður þeginn, «enda hefir þú sjaldan kveðið fyrir okkur í vetur, en gnægð er til af fallegum rímum». Heimilisfólk gjörði góðan róm að máli húsfreyju, og sögðu hana hafa vel mælt og skörulega, og báðu allir þorstein að kveða. En er um það var rætt, hverjar rímur kveða skyldi, urðu menn í fyrstu ekki allir á eitt sáttir. Bónda þótti bezt til fallið að kveða rímur af Rollant eða Ferakut, sagði, að þeir hefði verið hinir mestu garpar og kappar miklir. Griðkonur sögðu, að fáar rímur mundu betri en Brönurímur. Hrólfur vinnumaður lagði allfátt til þeirra mála, sagði að enginn fornmanna væri sèr jafnkær sem Grettir, kvaðst þó ógjörla vita, hvort af honum væri gjörðar rímur nokkrar. Smalamaður lá í rúmi sínu og heyrði á umræður manna, leggur hann í fyrstu fátt til málanna, en svo kemur, að hann þykist ekki lengur afskiptalaus hjá þeim málum sitja mega, rís hann nú upp og segir: «eru rímur af Herrauði og Bósa hèr til, þorsteinn?» — þorsteinn brosti við og mælti, að það væri ekki.

«þá vil eg að kveðnar sè Jannesarrímur», segir hann og hallaði sèr útaf aptur. Meðan menn eiga tal um þetta, hefir þorsteinn gengið inn í svefnhús þeirra hjóna, og kemur bráðum aptur með skrifaða rímnabók allþykka, sezt

niður, blaðar í henni um hríð, veltir vöngum, tekur af öll tvímæli og hóf að kveða:

«Cýrum nefna mildíng má,
margra er gætti láða,
Persía allri og Asíá
átti fyrir að ráða.»

það er upphaf fyrstu rímu af Úlfari hinum sterka, en mansöngnum fyrir þessari rímu varð þorsteinn að sleppa, af því að fremsta blaðið í kvæðabókinni var ólesandi. þorsteinn kvað hátt og snjallt, það var hin bezta skemtan; þögnuðu nú allir í baðstofunni og hlýddu, og var sem allir yrði hýrari og kviklegri í bragði en áður; nálin hjá húsfreyju gekk tíðara og liðugra. Ástríður vinnukona kvað undir með þorsteini, lagði undir flatt og dillaði og var öll sem á hjólum; þær Sigríður og Guðrún teygðu þriðjúngi lengra úr lopanum en áður. Sigurði bónda sóttist og betur verkið, flèttaði hann nú miklu hraðara en áður, og hnykkti fast á við hverja hendíngu, eptir því sem kvæðamaður hóf og herti á röddina. Kveður nú þorsteinn lengi og vel, og kemur svo, að hann hefir lokið hinni fyrstu rímu; tekur hann þá hvíld nokkra, áður hann byrjar hina næstu rímu og fara konur að tala um söguna. Verður þá sá atburður, að smali spratt upp hart og títt,

kveðst hann glöggt hafa heyrt, að barið hafi verið eitt eða tvö högg á bæjarhurðina, og segir, að einhver muni vera kominn. Ástríður vinnukona kvaðst og heyrt hafa, en aðrir sögðu sitt hver, þóttust nokkrir heyrt hafa, en aðrir neituðu; segir bóndi, að ekki sè vert að gánga til dyra, segir hann það ekki sið kristinna manna, að knýja hurðir eptir dagsetur og fara ekki á bæ og guða á glugga, enda sè það fjandar og forynjur einar, sem ekki berji þrjú högg. Nú ræða menn um þetta, og heyrast þá enn barin þrjú högg; segir þá bóndi, að víst skuli gánga til dyra; hleypur smali fram, dvelst honum um hríð frammi, og er hann kemur aptur, segir hann, að hann hafi ekki orðið var við neinn mann, kveðst hann hafa gengið í kríngum allan bæinn, en ekki sèð neinn mann, en hundarnir hafi allir hlaupið út með gelti og spangóli. Þetta þótti mönnum allkynlegt, en ræða þó fátt um. Tekur Þorsteinn enn að kveða og kveður um hríð, og líður á seinni hlut vöku; heyra menn þá, að hundar taka að gelta ákaflega í bæjardyrum, og líður ekki á löngu áður menn verða þess varir, að klifrazt er uppá baðstofu-hliðina hina syðri, og þessu næst er lagzt ofan að glugga þeim, sem var yfir sæng húsfreyju; hleypur Sigurður bóndi þángað, en komu-

maður kallar á gluggann og segir: «hèr sè Guð! sælt veri fólkið!»

«Guð blessi þig!» svaraði húsbóndi, og stakk nefinu sem þèttast verða mátti út að glugganum, «hvað heitir maðurinn!»

«Hallvarður Hallsson.»

«Hallvarður?» sagði bóndi, «Hallsson! þekkirðu hann nokkuð, gæzka?» sagði bóndi við konu sína.

«Nei,» sagði húsfreyja, «spurðu hann hvar hann eigi heima!»

Bóndi stakk enn nefinu að glugganum, og kallar út: «Hallvarður, segir þú, hvar áttu heima?»

«Ha? eg ætla að biðja að lofa mèr að vera í nótt,» sagði aðkomumaður, því ekki heyrði hann hvers Sigurður spurði.

«það skal verða komið ofan til þín, hvar áttu heima?»

«Sunnan af landi,» sagði komumaður.

«Sunnan af landi segist hann vera,» sagði bóndi. «þórdís mín! láttu hana Ástríði koma á eptir með ljós, eg fer til dyranna.»

Bóndi gjörir nú svo sem hann hafði sagt, gengur til dyra og fer Ástríður vinnukona brátt eptir honum með ljós; kemur bóndi að skammri stundu liðinni aptur og leiðir komumann. Gestur ber í annari hendi hatt sinn og vetlínga,

en í annari þverbakspoka lítinn, rönd óttan, og jafnskjótt sem hann skýtur höfðinu upp um loptsgatið, kastar hann kveðju á heimilisfólk og segir: «hèr sè Guð, sælt og blessað fólkið!» gengur síðan fyrir hvern mann og heilsar með kossi, hefir hann lokið því jafnsnemma sem Sigurður bóndi er upp kominn; vísar hann gesti til sætis og leiðir húsfreyja hann að rúmi Sigurðar bónda, og spyr, hvort hann sè eigi votur; gestur neitar því. þessu næst spyr hún hann, hvort hann vili ekki fá að drekka, og segir gestur þess ekki þörf, en húsfreyja skilur samt svo svar hans, að hann muni geta þegið það, ef honum sè borið það, og sækir honum mjólk. Á meðan tekur bóndi gest tali og segir:

«þèr heitið Hallvarður? rètt er það.»

«Já, Hallsson!» sagði gestur.

«Hallvarður Hallsson, rètt er það og átt heima í Borgarfirði; rètt er það,» sagði bóndi.

«Nei, Kjalarnesinu,» sagði gestur.

«Á, já, já, Kjalarnesi,» sagði bóndi, «rètt er það, það mun þá vera hèrna nær?»

«það kemur allt an uppá, hvern veginn maður fer: fari maður Sand og Kaldadal, þá get eg trúað að það sè jafnkortara; sè farið fyrir Ok og Arnarvatnsheiði, þá munu verða áhöld um, en skemmst verður að fara eins og eg er vanur að fara: eg set mig sumsè, karl minn, optast

undir eins upp á fjall, beint af Kjalarnesi eða úr Kjósinni, ellegar eg fer inn með Hvalfirði, dríf mig upp Þyrilinn, tek síðan kóssinn og trekki mig fjallasýn framhjá öllum jöklum, og kem svo hvergi til bygða fyr en í Skagafirði eða einhverstaðar; en ekki leika það allir eptir mèr.»

«Ofan í Skagafjörð, rètt er það, er það ekki feikna fjallvegur og ákaflega villugjarn?» sagði bóndi.

«Hann er það, beztur fyrir mig, en ekki hefi eg villzt á honum, enda hefir annað optar komið fyrir mig en að villast, þó eg hafi verið svona á ferðum stundum; hann sagði svo tíðum prófasturinn heitinn: ««Ekki veit eg, Hallvarður! hver þremillinn hjálpar þèr til að rata allstaðar!»» það var og sannast að segja, að eg man ekki eptir að kæmi nokkurntíma það veður í þau tíu ár, sem eg var hjá honum, að eg færi ekki allra minna ferða, hvað svartur sem hann var.»

«Rètt er það,» segir bóndi, «fóruð þèr þá fjallasýn núna?»

«Nei, nú fór eg með sveitum, en eg varð að fara svo, af því eg þurfti að finna mann í Miðfirði um leið; annars er eg norðlenzkur, þó eg hafi verið lengi fyrir sunnan.»

«Hugsið þèr lángt að ferðast?» frètti bóndi.

«Eg er nú á heimleið, eg var sendur með brèf frá sýslumanninum okkar híngað að staðnum til hans sèra Sigvalda míns, þar voru með peníngar: arfur eptir konu, sem dó fyrir sunnan í haust eð var, en þeir eru kunníngjar og skólabræður sýslumaðurinn og hann sèra Sigvaldi minn, og því beiddi hann prestinn að koma þeim til skila, en þesskáttar er ekki sent á skotspónum eða með óvissum mönnum; eg held það hafi verið framundir 100 dalir eða því nær eptir þýngdinni, — hann fèkk mig til að fara með þá, af því hann vissi til þess að eg hafði einhverntíma áður verið sendur með penínga, og ekki orðið að slysum held eg.»

«Sendur með penínga, rètt er það», sagði bóndi, «eru nokkur tíðindi úr yðar för?»

«Eg verst allra frètta,» sagði gestur.

«Allt meinhægt og ósjúkt?»

«Það frekast eg til veit, nema það er víða kránkfellt, þó hafa engir nafnkendir dáið, nema börnin eins og vant er, og skiptapinn sem varð á Akranesi núna skömmu fyrir jólin, þar drukknuðu þrír menn af bát, en fjórði komst af; þeir fóru úr Reykjavík á áliðnum degi, gjörði þá á þá suðaustan hrinu, en sjógutlandi var, báturinn slæmur og varði sig ekki, en til allrar ógæfu höfðu þeir gleymt austurtroginu, og höfðu ekkert í bátnum til að ausa

með, nema einn legil, sem var á brennivín; þá vildi einn þeirra brjóta botninn úr leglinum og ausa svo með honum, en fèkk því ekki ráðið fyrir formanninum, því hann átti brennivínið; það er haft eptir honum að hann hafi átt að segja: ««heldur drep eg mig en láta úr leglinum, því það er ekki gefið sem á honum er,»» og þarna fyllti hjá þeim og hvolfdi; en þessi, sem af komst, komst á kjölinn, sást daginn eptir úr Engey og varð bjargað.»

«Það tókst hraparlega til, að vinna það fyrir bannsett brennivínið. Eg kalla þèr segið fréttir», segir bóndi.

«En hitt hafi þið víst heyrt, um hollenzku dugguna?» sagði gestur.

«Nei, það höfum við ekki heyrt.»

«Nú, eg hèlt það hefði frètzt, hana rak upp í haust vestur á Seyðisfirði, er mèr fortalið, á Dröngum, eg kann að nefna það, í norðanveðrinu sem hann gjörði litlu eptir rèttirnar, þegar hann hljóp upp úr vestan-garranum uppí landnorðan-ofsann; hún hafði liðazt sundur þar við klettana.»

«En komust mennirnir þá af?»

«Nei, biddu fyrir þèr, ekki því líkt, ekkert mannsbarn nema kokkurinn og hundurinn skipherrans, sem var syndur og kvað bera sig hörmulega og ekki vilja þýðast nokkurn mann, en

horfir með tárin í augunum út á sjóinn. Því segi eg það, þær vantar ekki skynsemina skepnurnar, þó þeim sè varnað málsins. En það var ekki að búast við, að það færi öðruvísi fyrir þessu skipi, því það kvað vera sannfrètt, að þetta var sama skipið, sem kom inn fyrir austan árið fyrir það í hitt eð fyrra og hafði mannakjöt í beitu, þeir voru allstaðar að fala rauðbirkinn strák, og vildu láta fyrir hann tvær tunnur af grjónum, tvær tunnur af brauði, 8 færi og 10 sökkur, sem er helmíngi meira en þeir eru vanir að gefa fyrir beztu skurðarkú, það er að skilja mötuna, því skinninu skila þeir, og nú höfðu þeir ætlað að taka kokkinn og beita honum.» —

«Margir ætla, fyrst ekki strags
á fellur hefndin sama dags,» [1]

segir bóndi; «en varð nokkru bjargað af fjármununum?»

«Og það trúi eg, en það kvað nú hafa verið aðgángur í þeim þar; eg talaði við mann, sem kom að vestan og vissi það allt greinilega; þarna fengu þeir eins og þeir gátu komizt með, færin, strengina, grjónin lítt skemmd, röndóttar skyrtur og klútana eins og feldi, — það er satt þeir eru ónýtir! — og hollenzku ostunum

[1]) Passíusálm. sira Hallgríms 32, 16.

kvað ekki eiga að aka úr spesíu hjá þeim, en sírópið jusu þeir með höndunum í hattana sína upp úr fjörunni, og þetta fyrir alls ekkert, því þegar sýslumaðurinn loksins kom, sem kvað nú sjálfur hafa sèð um sig, var ekki annað eptir en skrokk-skriflið, sem þó ekki varð dýrt, og heila seglázían á fjóra duggarabands sokka, og sykur og járnið fyrir ekkert.»

«Eg vildi eg hefði verið kominn, að fá mèr járnmola», sagði bóndi, — «já, eg kalla þèr segið frèttirnar; nei, ekki höfðum við frètt þetta, rètt er það, og þetta frèttist ekki hèr; — á Dröngum, segið þèr mèr, er það ekki nálægt Drángajökli einhverstaðar?»

«Jú, fyrir vestan hann, held eg; eg hefi aldrei komið í þá paufa, þar kvað vera fullt af galdramönnum og allskonar óþjóð; — en meðal annara orða,» sagði gestur og þreifaði hendinni ofaní vasa sinn, «eg var nærri því búinn að gleyma brèfi, sem presturinn bað mig að skilja hèr eptir, eg held það sè til yðar;» — gestur lítur utaná brèf, er hann tekur úr brèfabagga: «heitið þèr ekki signor Sigurður Jónsson í Hlíð?»

«Jú, svo vænti eg það eigi að heita», sagði bóndi og saug upp í nefið.

Gestur fær honum þá brèfið, var kveðjan

utan á því skrifuð með alllæsilegri snarhönd og þannig:

«Eðlagöfugum
Sgr. Sigurði Jónssyni
á Hlíð.»

Sigurður bóndi tók við brèfinu, leit utan á það og horfði á um hríð, les síðan kveðjuna í hálfum hljóðum: «Eðlagöfugum Sgr. Sigurði Jónssyni á Hlíð,» rètt er það, það er til mín, og höndin hans sèra Sigvalda míns; hvað skal hann nú vilja, góði maður? — Eg ætla að láta bíða að lesa það þángað til konan mín finnur fyrir mig gleraugun mín.»

Í þessari svipan kemur húsfreyja og ber gesti mjólkurkönnu. Stendur þá bóndi upp og sýnir húsfreyju brèfið og biður hana um gleraugu; finnur húsfreyja þau og fær honum, og er hann hefir komið þeim fyrir á nefinu eins og honum líkar, lítur hann ennþá eitt skipti á kveðjuna, brýtur síðan upp brèfið, heldur því upp við ljósið, sem næst verða mátti, og tekur að lesa í hálfum hljóðum, og var það þannig:

«Stað 13. Jan. 17 . . .

Elskulegi eðlagöfugi trygðavin! Næst því að þakka yður, ásamt elskulegri hústrú, fyrir marg-auðsýnda og í tè látna trygðreynda vináttu, velvild og góðsemi við mig og mína, sem og fyrir

viðfeldna skemtilega og ástríka samfundi og ógleymanlegar velgjörðir á yðar heiðraða góðfræga heimili síðast, er það einasta efni þessa fáorða miða, að minnast á það, sem þèr nefnduð við mig fyrir yðar hönd að útverka og umgángast, nefnilega kýrkaupin, og er þá í stuttu máli frá að segja, að kýrin, sem þèr töluðuð um og báðuð mig að útvega, reynist eptir kunnugra manna frásögn lasta-gripur, seigmjólk, tannslæm og mesta stirtla, og gekk eg því fyrir yðar hönd frá kaupunum, en nú hefi eg fengið ádrátt um kú fyrir yður, og kýrin kvað, eptir sögn seljanda og nákunnugra, vera allvænn gripur, sjö vetra gömul, ekki stórmjólk en dropsöm og mesta happaskepna, og ef hún hafnast að venju, stendur hún til að verða snemmbær; samt sem áður þorði eg ekki að fullgjöra kaupin, fyr en eg talaði við yður; en maðurinn sem selur vill hafa það afgjört sem fyrst, þar fleiri af honum tèða kú falað hafa. Eg hefi sagt honum að koma híngað næsta sunnudag að færu veðri, verður því nauðsyn að þèr gjörðuð svo vel á greindum tíma híngað að koma, og áður áminnzt kýrkaup við hann að slúttera; ítem þarf eg mart fleira við yður að tala, mèr til ánægju og gagns og skemtunar. Fyrirgefið flýtis-línur þessar. Verið þèr svo með ástkærri

konu kærlegast kvaddir, af yðar þènustu-skuldbundnum elskandi vin og velunnara.

Sigvaldi Árnason.»

Þegar Sigurður bóndi hafði vel og vandlega lesið brèf þetta, sýnir hann það húsfreyju, og ræða þau um það um hríð. Ber nú ekkert til tíðinda það eptir var kvöldsins, annað en það, að gesti er reiddur kvöldverður, og er hann hinn kátasti og segir af ferðum sínum og stórvirkjum. Er nú lesinn húslestur að venju, en síðan er Hallvarður til sængur leiddur, og var honum búin hvíla í auðarúmi, því er þar var í baðstofunni, skamt frá rúmi Þuríðar kerlíngar. Það sáu menn, að Þuríður rendi engum vinaraugum á gest, tautaði hún að venju eitthvað fyrir munni sèr og var allófrýn, en lèt þó allt vera kyrt, og gengu menn nú að sofa í Hlíð, svo að ekki bar fleira til tíðinda.

---

# ANNAR KAPÍTULI.

Lofa skal mey að morgni en veður að kvöldi.
*Málsháttur.*

Daginn eptir að Sigurður bóndi hafði fengið brèf það, er vèr gátum um, fór Hallvarður af stað og hèlt áfram för sinni, og er hann úr sögunni. Nú líður fram til helgarinnar, en sunnudagsmorguninn hinn næsta á eptir vaknar Sigurður snemma, og er það nokkru fyrir dögun; túngl var í heiði og kastaði ljósi inn um loptsglugga, en allir voru enn í svefni í baðstofunni, nema bóndi; tekur hann nú klæði sín og fer hljóðlega og gengur út og lítur til veðurs. Engin dagsbrún var enn á lopti, en af sjöstirni og öðrum merkistjörnum sá Sigurður, að skammt var þess að bíða, að dagaði. Veður var hið fegursta sem verða má; himininn alheiður og svo mikil kyrð, að ekki blaktaði hár á höfði. Bóndi gengur því næst inn aptur og að rúmi þorsteins; það var rètt við lopts-uppgánginn, og svaf Sigrún litla dóttir hans þar til fóta hans. Sigurður stíngur hendi við þorsteini, og vaknar hann skjótt; segir bóndi, að nú sè mál að klæðast, ef þeir hugsi til kirkjuferðar eins og um var talað.

«Veðrið er hið ágætasta, logn og blessuð blíða; farðu hægt lagsmaður! eg vil ekki að neinn vakni, nema konan mín, og þegar þú ert kominn á fætur, skaltu skreppa inn í húsið til okkar og grípa þèr einhvern bita, áður en við förum», sagði bóndi.

Að svo mæltu gengur Sigurður aptur inn í svefnherbergi þeirra hjóna; var þá húsfreyja klædd; hafði hún vaknað við það, að bóndi hennar fór á fætur. Sigurður bauð henni góðan dag með kossi, og tekur þá húsfreyja svo til orða: «þið munuð ætla að fara til kirkju, eins og þið hafið gjört ráð fyrir; ekki veit eg hvernig stendur á því, en vænst hefði mèr þókt, að þú hefðir látið þessa kirkjuferð vera, en þú munt ekki vilja brjóta það á bágann við prestinn, og því ætla eg ekki að letja þig; er veðrið bærilegt?»

«það er logn og blíða og rennihjarn.»

«Búðu þig samt vel, hjartað mitt! það er gamalt orðtæki: fáir kunna sig í góðu veðri heiman að búa, og þó veðrið sè gott núna, þá getur hann spillzt áður en þið eruð komnir heim aptur. Fórstu í hvorutveggju sokkana, sem eg lagði hjá þèr? — já, eg sè þú hefir farið í þá; hèrna eru skinnsokkarnir þínir, það er verst, að

þeir eru svo stuttir; þarna hefir þú vetlíngana þína, og stíng þú þessum einhverstaðar á þig.»

«Æ! ekki get eg nú verið að hafa tvenna vetlínga, það er ekki til annars en eg týni þeim.»

«Sem eg segi, þú skalt hafa þá, hinir geta orðið votir, eg læt þá þarna í vasa þinn; mundu eptir treflinum þínum; sýndu mèr, láttu mig láta hann á þig, eg vil vera viss um að þú gleymir honum ekki, það veitir ekki af, að búa vel að hálsinum á sèr í hörkunum. Nú, þar kemur þorsteinn uppbúinn; takið ykkur nú dálítinn bita áður en þið farið og berið ykkur að borða vel, lángur er dagurinn og það er ekki víst að það verði undireins borið á borð fyrir ykkur á Stað.»

Húsfreyja setti þá fyrir þá tinfat með hángikjöti, og tóku þeir Sigurður og þorsteinn að matast, og er því var lokið, stóðu þeir báðir upp, og taka vetlínga sína og hatta; húsfreyja kvaðst mundu fylgja þeim út. Sigurður bað þorstein fara hljóðlega um baðstofuloptið, svo að heimamenn vöknuðu ekki. Húsfreyja gekk ofan á undan þeim, en Sigurður bóndi minntist þess, að honum hafði gleymzt að stínga á sig tveimur sendibrèfum, er fara áttu að Stað, og lágu inni í húsinu, sneri því aptur inn í loptið og fór að leita þeirra. þorsteinn gekk að rúmi sínu, og segir um leið við sjálfan sig í hálfum

hljóðum: «æ, eg verð að kveðja hana Rúnu litlu, þó hún sè sofandi.» Mærin var enn í fasta svefni og hafði ekki orðið vör við þegar faðir hennar klæddist; hún lá, eins og börnum er tamt, heldur óskipulega í sænginni; höfuðið var fyrir neðan allan kodda, niðri í miðju rúmi, og rekkjuvoðin í snargarði utanum herðarnar og hálsinn; brekanið lá að mestu leyti fram á palli, en fæturnir á Sigrúnu litlu voru þar sem höfðalagið hafði verið kveldið áður. þegar faðir hennar sá, hvernig rúmferðin var, segir hann: «æ nú fer illa um litla skinnið mitt, eg verð að laga þetta dálítið, Rúna!» Síðan tekur hann Sigrúnu, og lyptir henni upp í fáng sèr, snyrtir með annari hendi og hressir við koddann, sem lá allur í böggli fram á stokk, leggur meyna niður aptur á koddann, breiðir vandlega ofan á hana síðan og segir: «vertu nú sæl, litla yndið mitt! og gráttu nú ekki þegar þú vaknar, og sèr að hann babbi þinn er horfinn.» Ekki vaknaði Sigrún við allt þetta, en að eins mátti sjá, að hún ofurlítið losaði svefninn, af því að dálítill roði færðist í kinnarnar á henni. þegar þorsteinn hafði kysst og kvaðt dóttur sína svona sofandi, gekk hann ofan. Sigurði dvaldist nokkuð inni í húsinu, er hann fann ekki undireins brèfin, en síðan snýr hann aptur, og er hann kemur fram fyrir húsdyrnar, eru orðin

þau umskipti, að allir í baðstofunni eru glaðvaknaðir, og bar það til, að Þuríður kerlíng lèt svo illa í svefni, að enginn gat notið svefns eða værðar fyrir hennar illum látum; æpti hún ýmist ámátlega eða það korraði í henni sem hrút á blóðvelli, og brauzt um svo hræðilega, að hún ýmist stóð á hæl eða hnakka; þetta gekk um hríð, þar til allir voru vaknaðir sem voru í baðstofunni; tóku menn þá að æpa á hana, en hún vaknaði ekki að heldur. Í þessari svipan var það, að Sigurður bóndi kom fram á loptið, og heyrir hann þá, hvað um er að vera; kallar hann þá á einhverja stúlku, sem hann sá að var vöknuð, og segir: «hana dreymir eitthvað illa, Þuríði gömlu, kallaðu til hennar, Sigga! og láttu kerlínguna hætta þessum ólátum.»

«Eg hefi kallað í hana, en hún verður ekki vakin, kerlíngar-greyið,» sagði Sigga, «en nú skal eg ýta við henni»; og í því tekur Sigríður báðum höndum rúmfjölina og seilist með hana yfir í rúm Þuríðar og rekur fjalarendann í síðuna á henni; við það vaknar kerlíng; hún reis þá upp og blæs mjög mæðilega og segir síðan: «Varst það þú, frenjan þín! sem rakst fjölina í síðuna á mèr, Sigga? gaztu ekki látið vera að vekja mig, tæfan þín!»

«þú lèzt ekki eins og maður,» sagði griðkonan, «það hafði enginn frið fyrir þèr í baðstofunni og því vakti eg þig.»

«Og það er verst, að eg hefi haldið fyrir þèr vöku, kindin þín!»

«Eg sagði henni að vekja þig,» mælti Sigurður, «því eg heyrði að það sókti að þèr, þig hefir dreymt eitthvað illa, þuríður gamla?»

«það er lítið að marka hvað mig dreymir, en haldið hefði eg það, að þetta yrði fyrir einhverju,» tautaði kerlíng í hálfum hljóðum, en bóndi nennti ekki að hlusta á hvað hún sagði, kastaði í skyndi kveðju á heimilisfólkið og fór ofan, og er hann kemur á hlaðið, stendur þorsteinn þar ferðbúinn með broddstaf í hendi. Bóndi tekur og staf sinn, gengur síðan að húsfreyju og kveður hana, og segir húsfreyja áður þau skildu: «þess ætla eg að biðja þig, Sigurður minn! að fara ekki út í slæmt og ekki seint af stað í kveld; vertu heldur kyr á Stað, en að fara undir nóttina á hálsinn; veðrið núna er gott, en hann getur spillzt áður en kveld er komið; þú veizt, að mèr er ekki rótt þegar þú ert í burtu, og lofaðu mèr því, að leggja ekki út í neina tvísýnu; þorsteinn minn! mundu eptir að eggja ekki manninn minn út í slæmt útlit, það þarf ekki að eggja hann, hann er nógu framhaldssamur samt.»

«Vertu óhrædd um það, Þórdís mín,» sagði Sigurður, «við skulum ekki fara út í neina ófæru, og vertu nú blessuð!»

«Já vertu viss um það, Þórdís mín», sagði Þorsteinn, «vertu sæl, eg ætla að biðja þig, eins og vant er, að líta eptir henni Sigrúnu litlu, hún á engan að, skinnið, þegar mín missir við, nema guð og þig.»

Eptir það hèldu þeir fèlagar af stað. Húsfreyja stóð á hlaðinu og horfði eptir þeim, þar til þeir hurfu fyrir túnið; lengra varð ei sèð; gekk hún þá inn. Skammt fyrir ofan túnið liggur háls nokkur, sem kallaður er Hlíðarháls; yfir háls þenna liggur leiðin að Stað; hálsinn er allbrattur á þá hliðina, sem veit að Hlíð, og að því skapi hár, og þókti það vel gjört að gánga í einum spretti hvíldarlaust neðan af jafnslèttu og upp á hálsbrún; var það mál manna, að þann leik lèki ekki aðrir en lèttustu göngumenn. Sigurður var talinn með hinum færustu mönnum; á ýngri árum hafði hann opt gjört það, að gánga neðan frá Hlíð og upp á hálsinn hvíldarlaust, og bera fjögra eða sex fjórðúnga þýngd á bakinu, en eptir það hann fór að eldast og lýjast, lèk hann það ekki, ef hann bar nokkuð, en gengi hann laus, breytti hann ekki venju sinni um það, að taka ekki hvíld fyr en hann kom á brún. Þorsteinn var þrekminni

til göngu, en þókti þó óvirða að hvíla sig fyr en bóndi, og drógst hann heldur aptur úr, þegar á að gizka þriðjúngur brekkunnar var eptir. Framan í hálsbrúninni stóð varða, sem kölluð er Dagmála-varða, af því að á henni eru dagmál frá bænum í Hlíð; þar settist Sigurður niður og beið þorsteins, og kom hann skjótt og settist niður hjá Sigurði. þá var dagur um allt lopt. þorsteinn situr um hríð, styður hönd undir kinn og lítur yfir bæinn og túnið í Hlíð og segir: «sárt þókti mèr nú, Sigurður minn, að skilja við litla skinnið mitt sofandi í rúminu.» þá þagnar hann um hríð og tekur síðan aptur til máls: «ef eg hefi einhvern tíma unnið hjá þèr handarvik með trú og dygð, Sigurður minn, þá vona eg þú látir hana Sigrúnu litlu heldur njóta þess, þegar eg er dauður.»

«það væri ekki meira en skylt,» sagði Sigurður, «en því talar þú um það, fremur nú en endrarnær?»

«Af því,» segir þorsteinn, «að eg veit að eg á nú ekki lángt eptir ólifað, og taktu eptir því, að það er satt sem eg segi, Sigurður minn»; og um leið sèr Sigurður að nokkur tár hrjóta af augum þorsteins, en hann sprettur upp skjótlega, og heldur áfram sem leiðir liggja yfir hálsinn og var heldur hljóður, og segir ekki af ferðum þeirra Sigurðar fyr en þeir koma að Stað; var það í það mund, sem tíðamenn

voru þar komnir að kirkju. Var nú gengið í kirkju og hlýddu þeir Sigurður messunni. Að liðinni embættisgjörð gekk Sigurður að hitta prest og töluðu þeir um mál sín; er þess ei getið, hvað þeir hjöluðu; lèt prestur síðan bera fyrir þá Sigurð mat og annan beina; en ekki þáði þorsteinn þar annað, en eitt eða tvö staup af brennivíni. En er Sigurður bóndi hafði matazt og lokið erindum sínum, vildi hann þegar snúa heimleiðis. Prestur bað hann vera þar um nóttina, sagði sem var, að dagur væri skammur, og nú þegar komið að kveldi; en Sigurður kvaðst það víst ekki vilja, væri og veður gott og stjörnubjart að kveldinu. Varð það þá svo, að þeir fèlagar sneru heimleiðis, og var þorsteinn hinn glaðasti, og svo þeir báðir; halda þeir nú skemmstu leið frá Stað, og stefna svo sem leið liggur fram hjá Túngu, og svo á mýrarnar millum Holts og Túngu. þar voru á mýrunum afætur margar og lækir, og ísinn víða ótraustur. Báðir voru þeir Sigurður og þorsteinn vel skóaðir, og í skinnsokkum upp að knè; bað þá Sigurður þorstein fara þar varlega og reyna jafnan fyrir sèr, «því hèr er,» segir hann «viðsjált, ef ógætilega er farið, og þekki eg það síðan eg var í Holti, að hèr eru sumstaðar djúpir skurðir og vatn í, sem ekki leggur frameptir öllum vetri nema í mestu aftökum; og í

þeirri svipan komu þeir að læk nokkrum. Lækurinn var að sjá lagður og nokkurt snjóföl á ofan. Sigurður gengur á lækinn, og reynir fyrir sèr með stafnum, og finnur hann að þar er traust sem hann gekk. þorstein bar nokkru neðar að, reynir hann og fyrir sèr ísinn, en er hann er kominn út á miðjan lækinn, verður hann þess var, að ísinn er þar ekki svo traustur sem skyldi, og vill nú snúa aptur og þángað að sem Sigurður fer; en í sama vetfángi brestur ísinn undir fótum honum, og fellur hann í lækinn. Lækurinn var bólginn upp og vatnsmegn í, nær þorsteinn ekki niðri og sökkur hann upp undir hendur, en fær gripið annari hendinni í skörina, og kemst svo með illan leik að landi; lætur hann nú síga úr fötum sínum um stund, og fæst ekki um svaðilfarirnar, heldur síðan áfram leið sína. Sigurður telur það óráð, að þeir haldi lengra áfram en til næsta bæjar, er svo illa hafi til tekizt að þorsteinn hafi orðið votur. Ekki vildi þorsteinn það heyra, kvað sig ekki mundu saka, því veður væri frostbægt, væri hann og slíku vosi vanur, enda mundu þeir geta gengið sèr til hita; skipta þeir fèlagar um þetta nokkrum orðum og leizt sinn veg hvorum, en þó verður það, að þorsteinn hlýtur að ráða, og halda þeir nú áleiðis og stefna upp að hálsinum og gagnvart bænum

á Seli — það er efsti bær undir hálsinum Staðar megin; er þá farið að rökkva, en veðrið tekur heldur að dimma og verða ískyggilegra, og jafnframt tekur að smádrífa; var þó enn vel vegljóst, því bjart var í lopti og stjörnuljós. þeir fèlagar halda nú þannig upp hálsinn, svo þeir eru komnir á að gizka upp í hann miðjan þá dagsett var orðið. Hálsinum er svo varið, að á þá hliðina, er veit að Stað, er hann jafnt atlíðandi, með smá-brekkum og dældum, en uppi er hann stuttur og slèttur, en snarbrattur ofan þeim megin sem snýr að bænum í Hlíð, og allur skemmri á þann veginn. Skammt fyrir ofan þá brúnina, er veit að Seli, er holt eitt mikið, sem kallað er þrívörðuholt; það skilur Sels land frá Hlíðar landi. þar segja menn hálsinn hálfnaðan bæja á milli, og þykir þá jafnskemmra þaðan að Hlíð en að Seli. þessir tveir bæir áttu að halda uppi vegabótum á hálsinum, er hann liggur í landareign beggja landeigenda, en með því bóndinn á Seli var ekki mikill lögskilamaður, voru allar vörður niðurfallnar þeim megin á hálsinum, og ekki eptir nema brot ein, er þegar fóru í kaf í fyrstu snjóum, og þar að auki var vörðubrotunum, sem enn sáust, svo óhaganlega fyrirkomið, að þau voru fremur til að villa ferðamenn en til að færa þá á rètta leið. Frá þrívörðum og allt

ofan að Hlíð var hálsinn svo ágætlega varðaður, að vart mundi koma svo svört hríð að menn gæti ekki haft nægan leiðarvísi til mannabygða; vörðurnar voru bæði stórar, og svo þèttar, að vel mátti sjá frá einni til annarar, hversu dimmt sem var. þeir Sigurður voru nú á að geta komnir miðja vega upp undir hálsbrúnina, þá er dagur þraut, og í þessum svifum skelldi á allt í einu þreifandi moldviðri, fylgði því bæði geysi frost og svo mikil fannfergja, að fádæmum þókti sæta. þeir fèlagar voru staddir á einu litlu holti, er hríðinni laust á; verður Sigurður nú fyrri til máls, og segir við þorstein: «Nú eru tveir kostir fyrir hendi, og er þó hvorugur góður: sá annar, að við höldum áfram upp brekkurnar á meðan við megum, og freistum svo, hvort við náum ekki þrívörðum; veit eg það, að verði okkur þess auðið, verður hann vart svo dimmur að við villumst úr því þángað er komið, og værum við þar nú, mundi eg með herrans hjálp halda áfram, en óvíst er að við náum þeim, er við eigum að sækja á brekkuna, en höfum veðrið í fángið; hinn annar er sá, að við snúum nú þegar aptur og reynum til að komast heim að Seli, og til þess vil eg ráða; eigum við þá bæði að halda undan brekkunni og veðrinu, og fer þá varla svo hrapalega, að við rekum okkur ekki einhverstaðar

þar á túngarðinn eða fjárhúsin, eða hvað segir þú hèr til þorsteinn minn! sýnist þèr það ekki tiltækilegast úr því sem gjöra er?»

«þú skalt ráða, Sigurður minn!» sagði þorsteinn, «en þó sýnist mèr ekki með öllu örvænt um að við náum þrívörðum; við erum ennþá á rèttri leið, og ef við setjum vel á okkur veðurstöðuna, þá trúi eg því vart, að við getum ekki komizt uppá hana Illubrekku, og þá verður hann varla svo svartur, að ekki rofi upp í klettinn; þaðan veiztu að ekki verður villzt á þrívörðu-holtið; en ef við finnum ekki klettinn, er okkur ætíð hægt að snúa aptur þegar við viljum, enda er það ekki trúlegt að hann dimmi úr því sem nú er.»

«þú skalt ráða,» sagði Sigurður, «en þó grunar mig, að nú tökum við það ráð, sem miður gegnir; en til hverrar sögu verður nokkuð að bera; hefi eg og aldrei látið eggja mig lengi til framhalds, og áfram þá í drottins nafni.»

Að svo mæltu snýr Sigurður aptur gegn veðrinu og þreytir á brekkuna. Gengur svo um hríð, að þeir fèlagar halda upp hálsinn og hafa veðrið á móti sèr, sjá þeir nú nær því ekkert frá sèr. Sigurður var maður hraustur og þrautgóður og þreytir sterklega gegn veðrinu. það fundu þeir brátt, að frostið harðnaði eptir því sem á leið. Föt þorsteins voru öll gegnvot

og frusu þegar, varð honum því erfiðara en Sigurði um gönguna, en vildi þó fyrir hvern mun eigi láta á sèr finna, að hann gæti ekki fylgt honum. Þannig gengu þeir fèlagar um hríð, og er þeir höfðu farið um stund, urðu þeir varir við forbrekki mikið, og kenndu að það var Illabrekka, höfðu þeir mikið erfiði áður þeir kæmist upp á hana; nema þeir þá staðar, og skygnast eptir, hvort ekki grilli í klett þann er Þorsteinn hafði um getið, og þeir vissu að standa átti framan í efstu hálsbrúninni; en svo var hríðin þá dimm, að ekki rofaði fyrir honum; tekur þá Sigurður aptur til orða, og segir: «Svo er nú komið Þorsteinn fèlagi! sem mig grunaði, að ekki mundi för okkar greiðari þó við híngað kæmum; höfum við nú haft erfiði mikið að komast híngað og sjáum þó ekki klettinn, eða treystir þú þèr til að hitta hèðan á Þrívörður?»

«Enga færu sè eg nú til þess,» sagði Þorsteinn, «að halda lengra áleiðis og tak nú það ráð fyrir okkur, er þèr þykir sæmilegast, og er þó líkast að til eins dragi um vort ráð.»

«Betra er seint en aldrei, en betra var að og hefði ráðið fyrri» sagði Sigurður, «en þó tjáir nú ekki að æðrast, eða hvort ert þú nú að þrotum kominn fèlagi?»

Þorsteinn sagði, að svo væri að vísu ekki,

en þó tæki sèr heldur að kólna fætur, því vart gæti hann með vissu sagt, hvort hann fyndi til þeirra eður ei.»

þeir snúa nú við og leita eptir hvort þeir geti rakið brautina ofan hálsinn, sem þeir höfðu upp farið, en svo var fannmegnið þá mikið, að þegar hafði fokið í hana og sást hvergi fyrir henni. Leitast Sigurður nú við að átta sig, og taka stefnu ofan hálsinn, en svo var harðviðrið þá mikið, að þeir höfðu fullt í fángi að stjórna sèr undan veðrinu, að þá hrekti ekki af þeirri stefnu, er þeir höfðu tekið; tekur Þorsteinn nú að dasast og getur hann ekki lengur fylgt Sigurði, og verður hann að hafa alla váreygð við, að hann missi ekki sjónar á honum; sèr Sigurður þá ekki annað sýnna fyrir, en að hann leiði hann, og við þetta komast þeir ofan hálsinn á jafnslèttu, að því þeir halda, og ráða það af því, að ífram var fyrir fæti, en svo var hríðin enn svört, að ekkert vita þeir hvar þeir eru. þannig fara þeir um hríð, gjörist þorsteinn þá svo máttvana, að Sigurður verður að standa við nær því í öðru hvorju spori, og lofa honum að setja sig niður. Loks koma þeir á holt eitt lítið, og vill þorsteinn þar láta fyrir berast, enda er hann þá svo dasaður að hann má ekki gánga, og stendur Sigurður þar um hríð yfir honum, skygnist hann

þá um út í dimmuna, og er hann hefir um stund svipazt um, virðist honum sem við og við mói fyrir hæð nokkurri ekki lángt frá þeim, og gjörir hann sèr í hugarlund, að þetta muni vera húsaþyrpíng nokkur, eða bær. Nú þótt hann væri þegar orðinn mjög svo þreyttur, og kalinn á úlfliðum og í andliti, tekur hann það ráð, að hann gengur að þorsteini þar sem hann liggur á fönninni og vegur hann upp á herðar sèr, og heldur þángað sem hann sá móa fyrir húsinu. þorsteinn var maður stór vexti og líkama-þúngur, og veitir Sigurði allörðugt að bera hann; en er Sigurður kemur þángað, sem hann þóktist hafa sèð bæinn, sèr hann, að ekki var sem honum hafði sýnzt, var þar holt eitt og stór steinn á, sem í kafaldinu álengdar leit út sem hús. Sigurður leggur þorstein þá niður í skjólið undir steininum, og verður hann þess þá vís, að þorsteinn er svo máttdreginn, að fyrir engan mun mátti hann gánga, og varla upprèttur standa; sá þá Sigurður eigi annað fyrir, en að hann mundi þá og þegar andast, og naumast gat hann talað svo skýrt, að Sigurður mætti skilja hann. Verður þá Sigurði það til orða, að hann segir:

«Hèr munum við nú verða að hafa næturgistíng, þó hún sè ekki góð, því hvorki sè eg nú nokkurt færi á að við komumst lengra, enda

veit eg nú ekki í hverja átt er að leita mannabygða, þó svo væri að við gætum lengra komizt, og er það líklegt að til eins dragi fyrir okkur báðum».

«Svo mun það að vísu,» sagði þorsteinn, og reis um leið upp að steininum, «að hèr mun minni æfi lokið, og kom mèr það ekki óvart, hefir svo verið um flesta mína frændur, að þeir hafa hlotið skjótan og skyndilegan dauðdaga; afi minn hrapaði úr Drángeyjarbjargi, faðir minn varð úti á Holtavörðuheiði, og bræður mínir tveir drukknuðu undir Jökli; hefi eg nú lifað hið fegursta æfi minnar, verður ei feigum forðað eða ófeigum í hel komið, og af því að eg hygg að þínir dagar, Sigurður minn, sè ei allir, þá skalt þú, vinur, láta mig verða hèr eptir og freista hvort þú getur ekki komizt til mannabygða, en ef þèr verður lengra lífs auðið, þá er það tvennt er eg vil biðja þig um, það fyrst, er eg áður hefi á minnzt, að þú látir ei Sigrúnu litlu dóttur mína fara á flækíng, en sú er önnur bónin, ef bein mín finnast og þeim verður auðið að hljóta leg að kirkju, að þau verði jörðuð út undan miðjum suðurvegg kirkjunnar á Stað — þar liggur móðir Sigrúnar; hèr munum við þá skilja, og haf þökk, vinur! fyrir samveru okkar og . . .»

Meira gat Sigurður ei heyrt, því þorsteinn

hnè máttlaus upp að steininum, þó sá Sigurður að enn var lífsmark nokkuð með honum, en í þessum svip sèr hann, að nokkuð grisjar í kafaldið, svo hann sèr góðan kipp frá sèr, og í sama bili bregður fyrir ljósi og sýndist honum ekki lángt til að sjá; hann verður harðla glaður við, því nú þykist hann mega ráða, að þá sè þeir ekki lángt frá einhverjum bæ, því ekki gæti ljós þetta komið annarstaðar frá en úr einhverjum glugga; hann starir á ljósið um hríð, og er að hugsa um, að hann skuli vandlega setja á sig hverja stefnu hann skuli taka til að gánga á ljósið, en í því lýstur hríðinni aptur á, að því sem Sigurði virðist, ennþá svartari en nokkurn tíma áður, og í sama vetfángi er ljósið horfið. Sigurður stóð nokkra hríð og starði út í dimmuna, en það var til einskis; gekk hann þá nokkra stund aptur og fram hjá steininum, en aldrei gat hann komið auga á ljósið aptur. Harkan og veðurhæðin var þá svo grimm, að ekki gat hann haldið á sèr hita, og tók hann nú bæði að kala á höndum og fótum; honum dettur þá í hug, að hann hafði heyrt, að margir hefði bjargað lífi sínu með því að grafa sig í fönn; verður honum litið á dæld nokkra hjá holtinu, nokkra faðma frá steininum; í dæld þessa hafði dregið skafl, og var hún þegar hálf-full af fönn; tekur hann nú það ráð, að hann gengur þángað

sem þorsteinn liggur undir steininum, var hann þá mállaus og allur sem staur, þó hugði Sigurður hann enn með lífi, er hann ennþá hafði roða í kinnum og klakinn þiðnaði frá vitum hans; hann vegur nú þorstein uppá handleggina og ber hann ofan í dældina og leggur hann þar á skaflinn, en síðan tekur hann að róta upp skaflinum með höndum og fótum, og býr til gröf ofaní fönnina, svo stóra, er honum virtist næg fyrir tvo; skaflinn var mjúkur og nýskefldur, og tókst honum því greiðt að grafa hann; þó varð hann að hafa sig allan við, að gröfin ekki fylltist jafnóðum aptur, svo var fannfergjan og moldin þá áköf, og er hann hafði gjört gröfina á að gizka hálfrar annarar álnar djúpa, tekur hann þorstein aptur og ber hann í gröfina, síðan tekur hann staf þorsteins og rekur hann niður í fönnina hjá gröfinni upp að miðju, og loks gengur hann sjálfur í gröfina og leggst niður hjá þorsteini og bíður þess að skefli yfir þá, og leið ekki á löngu áður gryfjan var skafin full, og þykkur skafl lagður yfir höfuð þeirra. Af hitanum, sem lagði af þeim þorsteini, þiðnaði fönnin í kríngum þá, en veðrið þjappaði og barði fönnina svo fast að ofan, að skaflinn hèlzt uppi og myndaðist eins og hús í kríngum þá. það fann Sigurður, að ekki skorti þar í skaflinum nægan hita, en brátt varð hann þess var, að

eptir því sem skaflinn að ofan þykknaði og þèttist, eptir því mínkaði andrúmið, og að hann fyrir þá sök mundi ekki þar lengi lífi halda; hann hafði tekið með sèr staf sinn, hann var bæði lángur og gildur, og dettur honum það í hug, að hann rekur annan enda stafsins upp í gegnum skaflinn, þar til að hann finnur að hann nær uppúr að utanverðu, og býr þannig til glugga eða holu, og streymir þar inn nýtt lopt. Sigurður vill nú forvitnast um, hvort þorsteinn muni enn með nokkru lífi og þreifar um fætur hans og hendur; finnur hann þá, að fötin utan um hann eru svo freðin að hann var eins og klakastokkur. Hann grúfir ofanað andliti þorsteins og vill vita, hvort hann heyri hann nokkuð anda, og getur ekki fundið neinn andardrátt; hyggur hann því þorstein dauðan vera munu. Nú þótt þar væri dauflegt í gröfinni, ásetur Sigurður sèr að vaka um nóttina, og bíða svo þess að dagaði, og vita þá, hvort hríðinni lètti ekki, og freista ef hann mætti komast til einhverra bæja. Eptir því sem honum fannst, gizkaði hann á, að skammt mundi til miðnætur þegar hann gekk í skaflinn, mundu því fáar stundir til dags. Líður nú nokkur tími, að Sigurður situr og vakir, en er farið er að líða á nóttina, tekur Sigurð að sigra svo mikill svefn, að honum þykir sem hann fyrir engan mun geti vakað,

rís hann þá upp og rær ákaflega, en hversu mikinn andvara sem hann bar sig að hafa á sèr, seig þó við og við að honum svefnmók nokkuð, en svo óvært, að stundum vissi hann ekki gjörla, hvort hann hafði sofið eða vakað. Inn um gat það, er hann gjörði með stafnum, lagði ofaní gjótuna dálitla glætu, svo að hann gat að eins gryllt í kríngum sig, virðist honum þá eitt sinn svo sem þorsteinn liggi ekki kyr, færist hann í hraukana og sezt upp til hálfs, snýr andlitinu nábleiku að Sigurði, og þóktist Sigurður sjá að hann hvessti augun á hann og kvað:

«Mangi veit
vetvang þann
þar sem lífi lýkur;
förum, förum,
finnumst hvítir
bústað alvalds í».

Vísu þessa kvað þorsteinn með lágri og dimmri röddu, en hallaðist síðan útaf aptur. Sigurði þókti ekki aldæla, er hann sèr þorstein rísa upp, því hann hugði hann nú með öllu örendan, og svo hefir Sigurður frá sagt, að á meðan þorsteinn kvað vísuna, hafi sigið að sèr svo mikið ómegin, að hann mátti ekki hreifa legg eða lið, en er þorsteinn var aptur lagztur, leið ómeginið af honum; ráðgast hann þá um við sjálfan

sig, hvort hann skyldi ekki freista þess að komast úr skaflinum, því ekki þókti honum gott þar að vera, en er hann vill upp standa, finnur hann, að fætur hans voru svo aflvana, að hann mátti fyrir engan mun brott komast; verður hann nú að láta þar fyrir berast sem hann er niður kominn. Líður svo fram nóttin og segir ekki fleira af Sigurði að sinni.

---

# ÞRIÐI KAPÍTULI.

---

Svo, þegar dagur úr dökkvanum rís,
dauð er hún fundin á kolbláum ís;
snjóhvíta fannblæju lagði yfir lík
líknandi vetur — en miskunarrík
sól móti sveininum lítur.

*J. H.*

Þenna hinn sama sunnudag, sem þeir Sigurður fóru til kirkjunnar, bar fátt til tíðinda heima að Hlíð. Þar var að venju lesinn húslestur, og að því loknu gekk smali að gæta fjár, en aðrir sinntu heimilis-önnum, sem venja er til; húsfreyja tók sèr bók til skemtunar, og grið-

konur fóru sitt að gjöra hver, annaðhvort að sauma eða lesa, nema eldakona, hún tók að elda miðdagsmatinn; leið svo fram til rökkurs, gekk þá húsfreyja fram og fór að skamta. Þuríður gamla sat uppi í rúmi sínu um þveran gafl, og raulaði eitthvað fyrir munni sèr, sem enginn heyrði hvað var. Það var auðsèð á henni, að hún var í það skipti í mjög þúngu skapi; lèt hún brúnir síga og var heldur ófrýn undir augu að sjá. Enginn maður í baðstofunni yrti á hana, hafði húsfreyja skipað þeim griðkonum að eyða ekki mörgum orðum við hana, er misjafnt lægi á henni; að þessu skipti varð því enginn fyrir reiði Þuríðar, nema kisa. Þar var á bænum læða ein, gulbröndótt. Þegar hinn betri flöturinn var uppi á Þuríði gömlu, lá kisa opt í rúmi hennar og bældi sig við fætur hennar og malaði; strauk hún hana þá alla, frá trýni og lengst aptur á stýri, og talaði við hana sem maður við mann; aptur þegar miður lá á henni, hrakti hún kisu og hrjáði, og barði hana ofan úr rúminu, svo að kisa átti þá hvergi friðland annarstaðar en lengst fram á palli. Nú þótt að Branda væri allra katta vitrust um margt, var þó ekki jafnan að hún af hugviti sínu gæti sèð, í hverju skapi Þuríður kerlíng var í hvert skipti, og svo var að þessu sinni; hún hafði verið einhverstaðar fram á lopti, og ætlar

nú að venju að hvíla sig nokkra stund í rúmi þuríðar, og labbar hægt og stillt að rúminu, leggur framlappirnar upp á stokkinn og ætlar að lypta sèr upp. En er þuríður gamla sèr tilræði kisu, grípur hún þegar annari hendinni ofan í hnakkadrambið á henni og fleygir henni öfugri fram á pallinn. Kisa var, ef til vill, ekki öllu skapbetri en kerlíng; hún stendur skjótlega upp aptur, hvessir fyrst augun á þuríði gömlu og dínglar rófunni af mikilli reiði, og í því tekur hún undir sig stökk eigi alllítið og hendir sig upp í rúm til kerlíngar og neglir klónum svo fast sem hún getur ofan í brekanið, eins og hún búist við að þuríður gamla muni ekki láta svo búið standa. Gáta Bröndu var heldur ekki röng; því jafnskjótt og þuríður gamla sèr, að kisa er komin aptur, fyllist hún bræði mikilli og segir: «á, ertu komin aptur, vargurinn þinn?» — og leggur um leið báðar krumlurnar ofan í hrygginn á kisu, og þrífur hana í háfa lopt og sendir hana með miklu afli lengst fram á pall, og segir: «þó eg sè orðin gömul og farin, þá get eg samt ráðið niðurlögum þínum; gæti eg eins ráðið við hyskið hèrna, þá skyldi það finna til handanna á mèr.» Kisa rèði ekki í þriðja sinn til uppgöngu á Orminn lánga í rúm þuríðar; mun hún þegar hafa sèð, að kerlíng var ekki í þetta skipti góð viðureignar, og labbaði

nú að öðru rúmi og bældi sig þar. Um þetta leyti var húsfreyja farin að skamta, og bar ein af griðkonum askana jafnóðum frá henni og setti upp á pallskörina. Ekki hægðist þuríði gömlu við það fyrir brjósti, og þá er hún sèr fyrsta askinn koma, tekur hún í hálfum hljóðum að tala við sjálfa sig; var það helzta umræðuefnið, að ekki mundi askur hennar koma fyrstur, slíku mætti hún venjast, að hún væri minnst metin, hún mætti muna fífil sinn fegri, að henni hefði ekki verið skamtað síðastri af fólkinu. Nú voru allir askarnir inn bornir smátt og smátt, og á meðan lèt þuríður dæluna gánga. Síðast kom askur kerlíngar, en sú, sem askana bar, rètti hann upp á skörina og kallar um leið til þuríðar og segir:

«þarna er askurinn þinn, þuríður gamla!»

«Geturðu ekki skeint honum lengra en á skörina, skitan þín!» sagði kerlíng, «heldur þú mèr sè lèttari fóturinn en þèr, tryppan þín, til að sækja hann.»

Vinnukonan lèt sem hún heyrði ekki hvað þuríður sagði, og fór þegjandi ofan aptur, en kerlíng bröltir þá fram úr bóli sínu og staulast fram að pallskörinni og tekur askinn og sezt síðan aptur í hnipur í rúmi sínu, tekur úr litlum stokk, er stóð á bitanum fyrir ofan hana, hrútshyrníng og

sjálfskeiðíng, lýkur síðan upp askinum og skygnist í hann og segir:

«Hèr er þá sumsè kjötsúpu-gutlið gamla, þunnt er þetta, drottinn minn! þá held eg kjötið sè burðugt, ója, einn horaður hryggjarliður og ekki ljós tægja á! þetta er þá allur skamturinn sumsè! ekki sýnist mèr betur — það er rèttast eg gefi því það aptur, hver veit nema hún Sigga hafi krækt úr askinum, hún er vís til þess, eg trúi því varla, að húsmóðirin hafi ekki gefið mèr nema eina bita-tætluna, — eg skal ekki snerta á honum, það skal sýna sig.»

Í þessari svipan kom Þórdís húsfreyja innar og bar í hendinni köku og dálitlar smjöröskjur, gengur síðan til Þuríðar og segir:

«Ertu búin að borða úr askinum þínum, hróið mitt?»

«Ónei, hann stendur þarna með því sem í honum var,» segir kerlíng.

«Eg held þèr hafi, sem von var, þókt lítið koma til miðdagsmatarins í dag, það skamtaðist illa hjá mèr, og varst þú svo útundan, en taktu við, eg gjörði kökubleðilinn þann arna handa þèr til að bæta það upp, borðaðu hann, Þuríður mín, meðan hann er volgur, eg kom með hann rètt af glóðinni.»

Þegar Þuríður kerlíng sá kökuna og smjörið, tók hún heldur að hýrna í bragði, breiddi út

báðar hendur og tók við og fór þegar að maula kökuna; húsfreyja settist á kistil fyrir framan rúm þuríðar og tók að tala við hana:

«Hvernig líður þèr, þuríður mín, ertu nokkuð skárri í öxlinni en í gær?»

«Og heldur hef eg þolað ögn við í dag, en aldrei skilur hún við mig, heimakonu fjandinn, algjörlega, fyr en hún gjörir útaf við mig, nú er hún hlaupin ofan í mjöðm, og síðan í gær er kominn þarna — finndu, þórdís mín! — stóreflis hnútur, hann er stærri en nokkurt barnshöfuð, — æ! — æ! — fallega læturðu núna. það mundi einhver, sem er hraustari en eg, kveinka sèr eins mikið og eg gjöri, og verst ólmast hún í skrokknum á mèr undan hverju illviðri, mig skyldi ekki furða þó hann gjörði eitthvert skaðræðis áhlaupið bráðum.»

«Hefir þig nokkuð dreymt fyrir því? eða hvað var þig að dreyma í morgun, eg heyrði það hefði sókt að þèr?»

«Eg segi fáum frá hvað mig dreymir, kelli mín, það tekur enginn mark á hvað mig dreymir nema eg sjálf, það kemur samt stundum fram seinna, og ekki kemur mèr ætíð allt óvart, þórdís mín.»

«Hvað var þá sem þig dreymdi?»

«Og það segi eg ekki, eg get ekki sagt frá því, en svo mikið er víst, að hèr kòm ein-

hver slæðíngur upp á loptið í nótt; taktu nú eptir, annaðhvort er einhver skammlífur hèrna á heimilinu, ellegar þess er ekki lángt að bíða, að hann gjöri eitthvað manndrápsveður, það slæðist margt óhreint undan slæmu veðri, þórdís mín!»

«það er nú ekki ólíklegt,» sagði þórdís, «að hann breyti sèr bráðum, þar svo lengi hefir gott gengið, en það vildi eg, það segi eg satt, að hann gjörði ekki neitt áhlaupið þángað til maðurinn minn er kominn heim; eg veit ekki hvernig á því stendur, opt hefir hann farið út af heimilinu og það lengri ferðir en þessa, en aldrei man eg að neitt hafi lagzt eins þúnglega í mig eins og þessi kirkjuferð; vegurinn er þó ekki lángur, en mèr stendur alltaf beigur af hálsinum hèrna síðan um árið, að hann Sveinn heitinn varð úti á honum.»

«Já,» sagði þuríður, «hann var sá nítjándi sem varð úti á honum; það er ekki lángur fjallvegur hann Hlíðarháls, en hann hefir þó sèð fyrir mörgum; síðan eg man fyrst til, hafa fjórir farizt á honum, og hann Sveinn sá fimti; fyrst fórust þeir Túngu-bræður þar, Jón og Bjarni, báðir efnilegustu menn, annar var 18 vetra, en hann Bjarni var jafngamall mèr — eg var þá á tvítugasta árinu og nokkrum vikum ýngri en hann, því hann var fæddur á þorranum en eg

kom til á Einmánuði sama árið; þeir fóru seint á stað og ætluðu hèr yfir í dal, en þegar þeir komu upp á hálsinn skelldi á þá austnorðan byl, svo að þeir viltust, en hèldu sèr ofmikið vestur á og hröpuðu ofan í gljúfrin á Illagilinu, og þar fundust þeir fáum dögum síðar. — Nokkrum árum seinna, um það leyti sem eg fór frá foreldrunum mínum sælu, þar að Holti, varð úti maður eða mannræfill á honum, sem Einar hèt, það var hálf-umrenníngur, menn hèldu hann hefði króknað úr kulda; það var skafrenníngur og harka um daginn, en ekki ofankafald, eg man það eins og það hefði verið í gær, en þetta var línu-maður, og sama daginn fór maður neðan úr sókn um hálsinn, Jón nokkur, sem lengi var á Hamri, Íngjaldsson, og fann hann dauðan undir einu vörðu-broti, en sagði ekki til hans; það fennti yfir hann og fannst ekki fyr en seint um vorið, eptir að alla snjóa var leyst upp, og var þá allur skaddaður og vargbitinn, en þekktist af stórum koparhnapp, sem var á nærbuxnastrengnum hans.»

«Því sagði ekki mannfýlan til hans?»

«Hann nennti sumsè ekki að gjöra sèr þann krók, að gánga heim að einhverjum næsta bænum undir hálsinum; þetta var líka aumíngi sem í hlut átti og gilti einu hvernig fór um hann; og það var sagt hann hefði látið sèr um

munn fara, þegar menn álösuðu honum fyrir að hann hefði ei sagt til mannsins, að «hann skemmdist ekki til vorsins í fönninni»; en guð borgar fyrir hrafninn, kelli mín, það fór svo fyrir honum Jóni sjálfum, að það hefir ekki enn leyst upp af honum; varst þú ekki komin híngað í sveitina, þórdís mín, þegar hann hvarf?»

«Jón Íngjaldsson, nei, en mig rámar í, að eg heyrði eitthvað talað um það, að hann hefði horfið skyndilega — hvernig bar það til? — eg hefi ekki heyrt greinilega sagt frá því.»

«Og eg man það glöggt alltsaman, eins og eptir því, að þú gafst mèr kökuna áðan og eg er hèrna á rúminu, kelli mín! eg átti heima á næsta bæ við hann; það var um haustið, hálfum mánuði eptir göngur, fimm heldur en sex árum eptir það að hann Einar heitinn stautari varð úti; hann ætlaði inn yfir háls híngað að Hamri, að sækja tvo sauði; hann átti þá þar, þeir höfðu gengið með fènu um sumarið; hann fór um kvöldið frá Leiti undir rökkur, í góðu veðri, það var þíða og allt marauðt; já, tarna man eg, því þá var eg komin að Leiti; við sáum til hans upp undir hálsinn, en niðamyrkur var um nóttina; daginn eptir var bezta veður, þó kom hann ekki, eins og hann hafði gjört ráð fyrir; síðan var hans leitað og sent að Hamri að spyrja um hann, hann hafði þá aldrei þar

komið; þeir leituðu eptir honum í þrjá daga tuttugu manns, alstaðar þar sem nokkrum manni kom í hug en fundu hann ekki; en hatturinn hans og annar vetlíngurinn fannst undir sama vörðubrotinu sem hann Einar stautari króknaði undir.»

«það var undarlegt.»

«Já það þókti mörgum kynlegt, kelli mín, og engin vegsummerki sáust þar, en tveir blóðdropar sáust þar á einni hellu.»

«Var þá getið til að hann hefði verið drepinn?»

«Nei, enginn gat þess til, að nokkur lifandi maður hefði grandað honum, en á þá leið dreymdi hana móður hans hann, sem að það mundi ekki þurfa að leita að honum.»

«það er margt undarlegt sem við ber, eg hefi líka heyrt annan viðburð svipaðan þessu — en guð hjálpi mèr, því syrtir svona allt í einu á gluggann; Sigga mín, hlauptu ofan og gættu að veðrinu og kveiktu um leið.»

Sigríður fór fram og kom von bráðar innar aptur með ljós í hendi.

«Komstu út?» sagði þórdís.

«Ójá, hann er allur orðinn kafþykkur allt í kríng og farinn að drífa.»

það var auðsèð, að húsfreyju brá við þessar fregnir, en fèkkst þó ekki um; gengur hún þá inn

i svefnherbergi þeirra hjóna og sezt þar, en varla hafði hún setið þar svo sem svaraði drykklángri stundu, áður en öll baðstofan í einu vetfángi fór að hristast og skjálfa, svo að hrikti í hverju trè. Um þetta leyti kemur vinnumaður og smali í baðstofu, og voru þeir allir fannbarðir frá hvirfli til ilja. Vinnumaðurinn hèt Hrólfur, og í því hann skýtur höfðinu upp um loptsgatið kallar hann: «stúlkur, ljái þið mèr sóp að ná af mèr mesta klakanum, sèr er hvað bölvað áhlaupið!»

«Hann mun ekki vera fallegur úti núna,» sagði húsfreyja.

«Nei,» sagði vinnumaður og hristi höfuðið, «hann er ekki frýnilegur, þórdís mín! eg hefi varla komið út í verra veður í þessi tíu ár, sem eg hefi verið hèr, og það svo hastarlega, hann skelldi moldinni á næstum því allt í einu; við vorum að enda við að láta inn, og á meðan eg var að láta aptur húsið, var hann kominn á með bylinn, og það er ekki frost, eg veit ekki hvað það er, það er bölvaður bruna-nístíngur, en ekki frost, því meðan eg skauzt úr húsinu heim að bænum, frusu fötin svona á mèr, og eptir því er fannfergjan.»

«Er ratljóst?»

«Biddu fyrir þèr, blessuð, mèr vildi það til, að eg þekki hverja þúfuna hèrna í túninu,

annars hefði eg ekki komizt til bæjarins, og er það ekki lángt.»

«Hvað segirðu þá um hann Sigurð minn? er nokkur von til þess, að þeir komist lifandi af hálsinum, ef þeir hafa lagt á hann?»

«Ekki fyrir mínum sjónum; það er ekki spaug að vera uppi á fjalli í þessu veðri, vondur er hann hèr, en þó er grimdin og veðurhæðin tvöfalt meiri á fjallinu; en þeir eru kunnugir, það er satt, og húsbóndinn þekkir hvern steininn á hálsinum — en þó þeir hafi farið frá Stað, þá hafa þeir aldrei verið komnir svo lángt.»

«Eg hugga mig nú við það, að þeir hafi aldrei farið af stað þaðan, því eg beiddi hann fyrir það, að fara ekki seint á fjallið; en það verður að taka því sem að höndum ber,» sagði húsfreyja.

Við þetta hættu þau talinu. Ekki var mikil skemtan á ferðum þar í Hlíð um kvöldið, og kom það einkum af því, að menn sáu, að húsmóðirin var heldur ókát og áhyggjumikil; leið svo fram kvöldið og til þess menn voru vanir að gánga til svefns. Húsfreyja háttaði síðast allra. Ekki varð henni svefnsamt þá nótt, og leið svo fram eptir allri nótt að hún gat ekki fest neinn svefn, og bar fleira en eitt til þess: það fyrst, að stormurinn og ofviðrið hristu svo alla baðstofuna, að hún nötraði eins og hrísla,

það annað, að hvernig sem hún reyndi til að sporna á móti því, var henni aptur og aptur að fljúga í hug frásagnir þær, sem þuríður gamla hafði sagt henni um kvöldið, og spádómur kerlíngar um, að einhver þar á bænum mundi vera skammlífur. Hyggur hún nú, að ekkí muni renna dúr á auga sitt þá nótt, en ætlar þó að liggja svona vakandi í rúminu þar til dagaði; en er á að gizka fjórðúngur lifði nætur, fellur hún allt í einu í fastan svefn, og dreymir hana þá, að henni þótti maður koma á gluggann yfir rúminu sem hún svaf í og guða, og þóktist hún glöggt kenna af málrómnum, að það var þorsteinn, og kvað vísu, og við það hrökk hún upp, og hefir hún svo frá sagt, að henni heyrðist, í því hún vaknaði, sem einhver renndi sèr ofan baðstofuhliðina, og hefði það verið því líkast sem blaut húð væri dregin ofan eptir þekjunni; hún mundi vísuna, sem kveðin var fyrir henni, og þókti henni sem hún heyrði eiminn af síðustu hendíngunni í því hún vaknaði. Vísan er svona:

Sat eg forðum foldu á
í flokki svanna prúðum;
nú er eg dapr og dauður nár,
dauft er í Heljar búðum.

Ekki vissi húsfreyja hvað lengi það hafði verið, sem hún svaf, en þau áhrif hafði draumur

þessi haft á hana, að hana fýsti eigi að leggja sig aptur til svefns. Á lítilli hillu fyrir ofan rúm þórdísar var dálítill stokkur með eldfærum, tundri, tinnu og eldstáli, fálmar hún nú til þeirra, og freistar ef hún mætti kveikja ljós, tekst henni það greiðlega, en síðan klæðist hún og hyggur skammt muni þess að bíða að dagur renni; lætur hún nú biðleika við, þar til birta tók á gluggann, þá gengur hún út og er nú hríðinni nokkuð tekið að slota, rofaði til í hálopti, en skafmold á láglendi og með fjöllum, en ekki ofankafald; virðist henni svo, að ef veðrið ekki versni aptur úr því sem þá var, muni fært bæja á milli fyrir velklædda og röskva karlmenn; gengur hún nú til og vekur Hrólf vinnumann og biður hann klæðast sem skjótast, «og vil eg», segir hún, «senda þig að Hamri, og berðu þóri kveðju mína, og segðu honum, að eg biði hann að koma híngað með þèr, og ætli eg að biðja hann að fara fyrir mig bæjarleið, ef fært er bygða á milli, þegar fullbjart er orðið af degi. Hrólfur klæddist snarlega. Frá Hlíð og að Hamri var örskammt og ekki lengra en stuttur stekkjarvegur. Segir nú ekki af því, fyr en Hrólfur kemur aptur, og er þá þórir bóndi í för með honum; þá var enn ekki orðið fullbjart; fagnar húsfreyja honum vel.

«Svo er mál með vexti, þórir minn!» segir hún, «að Sigurður bóndi minn og þorsteinn fóru í gær til kirkju að Stað, og er mèr grunur á að þeir í gærkvöldi hafi lagt á hálsinn áður en hríðinni skelldi á, þekki eg þá svo að kappi og áframhaldi, að þeir munu varla hafa náttað sig fyrir handan, einkum þareð hríðinni laust svo seint á. þú veizt, hver fádæmi hafa gengið á í nótt, og segir mèr svo hugur um, að eitthvað muni tálma för þeirra, er þeir eru ekki hèr komnir. Nú hefi eg enga ró nema þeirra sè leitað, og með því eg veit að þú, þórir minn, ert bæði ötull og greindur maður, og hefir híngað til reynzt mèr og manninum mínum vel, þá sendi eg eptir þèr til þess að fara fyrir mig, ef þèr sýnist ekki ófært.»

«Eg sè ekki betur, þórdís mín, en að hann sè slarkandi eins og stendur, hann lítur líka heldur út til að fara dagbatnandi.»

«Ja,» sagði Hrólfur, «hann er slarkandi bæja á milli, en ekki er hann almennilega fær á fjallið.»

«Og ekki er hann það verri á hálsinum, Hrólfur minn, hann er þar nokkuð frostharðari og veðurhærri, en undir eins og kemur ofaní hana Illubrekku, þá á hann að vera allur hægri, ef hann er við þessa áttina.»

«Hvað sem um það er, þá álít eg hann

lítt færan; það er vissasta markið, þegar ekki gryllir í Lágafell, þá er hann ógóður á hálsinum,» sagði Hrólfur, og latti heldur fararinnar.

«Ekki hefir mèr reynzt það neitt víst mark, og hefi eg verið hèr í dalnum síðan eg var á tólfta árinu, og hitt veit eg, að þegar ekki byrgir Skarðið, þá er hann fullfær, en það gjörir hann ekki núna. Eg segi fyrir mig, þórdís mín, eg vil reyna það fyrir yður að fara, því eg get getið því nærri að yður sè ekki rótt þegar eins stendur á, en hvern ætli þèr að láta fara með mèr, því betra er að það sè tveir.»

«Eg hef nú ekki öðrum á að skipa en honum Hrólfi þarna, en eg heyri honum er ekki um að fara.»

«Og ekki er eg að telja það úr», sagði Hrólfur dræmt, «en mèr sýnist þetta, að það hefði mátt fresta því þángað til á morgun, og hefðu þeir þá ekki komið í dag, að fara þá tímanlega í fyrra málið, það er líklegt hann verði þá skárri.»

«Annaðhvort farðu umtölulaust, eða sittu heima,» sagði þórdís, og hvesti röddina, og var auðsèð að henni þókti miður, «en treystir þú þèr ekki útí það sem hann þórir álítur að vera fært, þá er ekki annað en eg biði hana Sigríði hèrna að fara, hún getur búið sig í karlmanns-

föt, og þá ætla eg að það muni teygjast úr henni á við suma sem eru í brókum.»

»Nú þykir mèr», sagði Þórir og hló við, «húsmóðirin heldur sauma að spjörunum okkar, Hrólfur minn, farðu nú og búðu þig, karl minn góður, og láttu hana ekki heyra þessi ummæli optar.»

Hrólfur gekk þá í brott, þó hálf-ólundarlegur, en fór að búa sig til farar, og er því var lokið, matast þeir af skyndíngu og kvöddu húsfreyju og hèldu af stað. Veðrið fór dagbatnandi eptir því sem á morguninn leið og varð allgott. Þeir hèldu sem leið liggur yfir hálsinn; ekki sáu þeir neina braut, eða merki þess, að þar hefði verið nýfarið, enda var snjór yfir öllu. Þeir komu að Seli og fundu menn að máli; ekki höfðu þeir Sigurður þar komið, en þar var þeim sagt, að sèzt hefði til tveggja manna kvöldið fyrir, skömmu áður en hríðina gjörði, og haldið upp að hálsinum. Þeir Þórir fara frá Seli, og ætla að Stað, en um leið koma við í Holti; sá bær stendur á flatlendi og mýrarflákar allt um kríng, með smáholtum uppúr híngað og þángað; nú var því nær jafnslètta ein yfir allt, og yddi að eins sumstaðar ofaná hæstu holtin. En er þeir fèlagar áttu allskamt að túninu í Holti, verður Þóri litið á holt eitt, kippkorn frá þeim, og sèr hann þar eitthvað standa upp í

loptið í utanverðu holtinu, því líkast sem stöng, er menn stundum reisa upp við brunnvakir eða vatnsból. Hann staldrar lítið eitt við og segir við Hrólf:

«Hvað er það sem stendur þarna upp, utan til á holtinu, þarna sem eg bendi á?»

«Það er einhver stöng sýnist mèr,» sagði Hrólfur, «þeir í Holti hafa þar líklegast vök til að brynna hestunum.»

«Þarna, nei það getur naumast verið, það er rètt utan í holtinu, við skulum gánga þángað og sjá hvað það er.»

Þeir gjöra nú svo, og er þeir koma á holtið sjá þeir, að þetta er göngustafur, er stendur næstum upp að miðju niðri í fönninni. Þórir gengur að stafnum, og kippir honum upp, lítur síðan á hólkinn og húninn og segir:

«Svo virðist mèr, sem einhver þau tíðindi hafi hèr að borið, er margur mundi óska að ekki hefði orðið; þetta er göngustafurinn hans Þorsteins, eg seldi honum hann í haust og mun hann vart hafa lifandi skilið hann við sig, og segir mèr svo hugur um, að hans sè ekki lángt hèðan að leita, en hvað er þarna á baka til við þig, þar er annar stafurinn og er næstum sokkinn í fönnina.»

«Þetta er stafurinn húsbóndans,» sagði Hrólfur, «hann þekki eg, eikarstafur með stórum

hún á og látúnshólk fyrir neðan. Guð hjálpi mèr, hèr hafa þeir orðið úti.»

«Mèr virðist, að hèr sè ekki um mikið vafamál að gjöra, hèr má leita þeirra undir skaflinum, hvort sem þeir hafa heldur grafið sig sjálfir eða þeir hafa orðið hèr til og fennt. það er ekki úr mörgu að ráða, farðu sem fljótast heim að Holti og heilsaðu ekkjunni frá mèr, og segðu að eg biði hana undir eins að senda híngað alla þá karlmenn sem til eru á bænum með rekur og tvö breköu, á meðan mun eg bíða þín hèr, og flýttu þèr nú!»

Hrólfur átti skammt heim að Holti, hann finnur þar húsráðanda, og segir henni orð þóris; bregzt hún vel við og lætur tvo verkamenn sína fara með honum, og finna þeir brátt þóri; hefir hann á meðan rótað til nokkru af fönninni, en finnur ekki þá Sigurð. Eptir fyrirsögn þóris taka þeir nú að grafa skaflinn, þar sem stafirnir höfðu staðið, og er þeir hafa grafið á að geta meðalmanni í bríngu, finna þeir lík þeirra Sigurðar og þorsteins, voru þau bæði köld og stirðnuð, og eru þau borin heim að Holti. Húsfreyja, er þar bjó, var kona vitur og vel að sèr, og læknir góður. Hún vissi það, að hjá mönnum, sem drukna eða verða úti, leynist opt líf furðu lengi, þó ekki finnist með þeim lífs mark, og væri þess mörg dæmi, að þeir hafi orðið

lífgaðir, ef hæfileg aðferð er við höfð. Húsfreyja lætur taka bæði líkin, og flytja í útihús eitt, og fletta þau klæðum, en svo voru föt öll freðin, að skera varð hverja spjör utan af þeim. Síðan lætur hún færa þar inn nýjan snjó og leggja líkin nakin þar í, síðan voru fengnir til tveir menn að sitja yfir. Á öðru dægri taka menn eptir, að nokkur ylur tekur að færast í líkama Sigurðar, er hann þá tekinn úr snjódýngjunni og lagður í beztu sæng, og dúðaður voðum og verður hann á þenna hátt lífgaður, en lá þó lengi þar í Holti í sárum, því hann var mjög kalinn á höndum og fótum. En af Þorsteini er það að segja, að hann varð ekki lífgaður, og var hann nokkrum dögum síðar jarðaður að Stað, og lèt Þórdís húsfreyja gjöra útför hans virðulega.

---

# FJÓRÐI KAPÍTULI.

---

Móðir og faðir
mjúk og ástríkur
yfirgáfu þig
á æsku skeiði,
en guð þín geymdi
og gæðafjöld
lán og lífsfögnuð
ljúflega veitti.

*J. H.*

Eins og nærri má geta var lengi dauft í Hlíð eptir þenna atburð. Þorsteinn hafði verið maður

vinsæll, og varð hann harmdauði öllum á heimilinu og víðar, er menn höfðu nokkur kynni af honum. Þó fór hèr eins og vant er, að blóðnæturnar eru hverjum bráðastar. Veturinn leið fram og vorið nálgaðist, og smátt og smátt fóru menn aptur að taka kæti sína. Sigurður bóndi var gróinn sára sinna, og varð svo að kalla alheill; raunar hafði hann orðið að láta taka af sèr eina tána á vinstra fætinnm, og þvínær misti hann hið hægra eyrað, en slíkt er varla í frásögur færandi; missir táarinnar var honum ekki til neinnar fyrirstöðu, að hann gæti eigi gengið eins óhaltur eptir sem áður; ekki verður það varið, að eyramissirinn var honum til nokkurra lýta, og gárúngarnir þar í sveitinni, er sjaldan fara að lögum, eða gjöra greinarmun á því, hvort eitthvað er einum ósjálfráðt eða ekki, gáfu honum kenníngarnafn eptir biskupssveini þeim, sem Pètur sveiflaði forðum að sverðinu, og kölluðu hann Malkus, en það var hvorttveggja, að þeir gengu sjaldan svo í berhögg við hann, að þeir hreyfði slíku hrópi uppí opið geðið á honum, og á hinn bóginn var hann ekki maður spèhræddur. Sigrún litla, dóttir Þorsteins heitins, hafði verið mjög elsk að föður sínum og mátti varla stundu lengur af honum sjá. Fyrsta daginn eptir andlát Þorsteins var Sigrún þráspurul um, hvar babbi hennar væri, en af því

menn hèldu að hún mundi verða óhuggandi, ef henni væri sagt satt frá um afdrif hans, tóku menn það ráð að skrökva því að henni, að hann hefði farið ferð suður á land, en að hans væri brátt von aptur. þetta ráð dugði um stund, en fljótt sáu menn að það nægði ekki til lángframa. Sigrún var svo skynug, þó að hún væri enn barn að aldri, að hún varð ei til lengdar dregin á tálar með þeirri skreytni; kom þeim hjónunum því saman um, að segja henni hið sanna um þetta efni; hún var búin að fá það vit, að hún vissi vel að gjöra greinarmun lífs og dauða, varð hún af þessum fregnum mjög harmbitin og grèt hástöfum; en bráð er barnslund, og svo fór um Sigrúnu litlu, hún grèt sárt en gladdist skjótt og gleymdi bráðum föðurmissinum; harmur hennar var af ást og söknuði, en ekki af eigingirni, því hún vissi ekki hverjar afleiðíngar hann hafði fyrir hana, og að hún var munaðarlaus, er hún misti föður síns við.

þegar hèr er komið sögunni, var það eitt skipti seint á útmánuðunum, sama veturinn sem þorsteinn varð úti, að þau hjónin í Hlíð sátu tvö ein inni í húsi sínu á baðstofulopti. Húsið stóð opið, en engir menn voru í baðstofunni, nema þuríður gamla kúrði þar í hinum enda baðstofunnar í rúmi sínu. Sigurður bóndi lá uppi í rúmi sínu upp við herðadýnu, og lagði olbog-

ann á rúmbríkina, og studdi hendi undir kinn og las í sögubók, er hann fletti við og við, eptir því sem hann las áfram, með þeirri hendinni sem laus var. Húsfreyja sat á kistli, sem var á milli rúmsins og borðs þess, er var fyrir gaflinum í húsinu; hún óf í spjöldum, og hafði tekið skóinn af hægra fætinum og brugðið þar uppá slöngunni og lagt hann á annan minni kistil, er stóð fyrir framan hana, hún hèlt slöngunni með annari hendinni og hafði fíngur í skili, en sneri spjöldunum og gaf í með hinni og þagði, en af áhyggju-svip þeim, sem á henni var, mátti sjá, að hún var eitthvað annað að hugsa en um spjaldvefnaðinn einúngis. Þannig sat hún um hríð og óf, en loks lagði hún slönguna frá sèr, styður hendi undir kinn, yrðir síðan á Sigurð bónda sinn og segir:

«Ekki vil eg nú, Sigurður minn, hindra þig í að lesa þèr til skemtunar, en þó lángaði mig til að tala um nokkuð við þig, fyrst hèr er fátt um; eg hefi þessa dagana verið að hugsa um það, en það hefir híngað til ekki orðið neitt úr því.»

«Hvað er það, Þórdís mín?» sagði Sigurður, og lèt bókina síga ofan í rúmið og færði sig betur upp á koddann.

«Eg ætlaði að spyrja þig að, hvað þú

hugsaðir fyrir henni Sigrúnu litlu framvegis? verður hún hjá okkur?»

«Eg hefi ekki hugsað annað, en hún yrði að vera hèr þetta árið sem kemur, það er hvort sem er orðið of seint að koma henni fyrir í ár, þó einhver kynni að vilja taka hana í dvöl.»

«Helldurðu þá að nokkur muni taka hana í dvöl eins og hún er? — hún er þó ekki fullra níu áranna enn.»

«Nei, mèr datt það nú heldur ekki í hug, þórdís mín, í vor, eins og eg sagði, en hitt vorið verður hún tíu ára og þá gæti það vel verið að einhver, sem þarf að halda á léttastúlku, eða til að sitja hjá kindum að sumrinu, vildi dvelja fyrir henni, því hún er orðin skollans geðuglega ötul, greyið.»

«Og það er hún eptir aldri, skinnið; hefirðu augastað á nokkrum þesshàttar samastað fyrir hana?»

«Ekki hefi eg nú það að sönnu, sem stendur, þó þækti mèr ekki ólíklegt að hann Jón á Leiti tæki hana; hún er orðin hölt og biluð kerlíngin hans, og dregur eptir sèr lærið og kemst ekki út og inn um bæinn; eg held henni væri ekki vanþörf á að hafa einhvern únglíng að snúast í kríngum sig.»

«Þú ætlar þá að koma henni þar fyrir?»

«Það veit eg þó ekki,» sagði Sigurður dræmt.

«Það er sjálfsagt,» sagði húsfreyja, «að föðurleysíngjar og munaðarlausir verða að taka allt með þökkum, sem á þá er lagt, en ekki held eg nú að þeir, sem eiga sèr einhverja betri úrkosti, mundu keppast eptir slíkum vistum, að þeim Leitis-hjónum ólöstuðum, og satt er það, hart hefir hún átt hjá okkur, greyið, en þó held eg henni, ef til vill, mundi bregða við, garminum, að fara í ekki betri samastað en þar er sagður; en ef eg segði eins og mèr býr í skapi, sýndist mèr rèttast að við hrektum hana ekki frá okkur á meðan hún ekki getur unnið ofan af fyrir sèr sjálf. Hún er efnileg eptir aldri, barnið, en eigi hún nú að komast á flækíng og fara í misjafna samastaði, þá held eg verði líkt um hana og suma aðra munaðarleysíngjana, sem missa foreldra sína á únga aldri, og komast á hrakníng mann frá manni, enginn leggur rækt við þá, þeir verða afstyrmi til líkams og sálar alla sína æfi.»

«Þetta er nú sannleiki sem þú segir, en eg hugsaði, Þórdís mín, að þèr þækti nógu margt hjá okkur samt, við höfum hennar ekki þörf; öðru máli var að gegna meðan hann Þorsteinn heitinn lifði, þá varð hún að vera hèr, því þó það væri þúngt að halda hann með ómaga, þá

vissirðu það, að eg vildi vinna það til, heldur en missa hann frá okkur, því ekki var að tala um verkin hans og trúmennskuna — og mesti þrifnaðarmaður á heimili, og aldrei óvinnandi, — annars hefði eg ekki haldið hann með ómaga í sjö ár; eða voru það ekki átta ár, sem hann var hjá okkur?»

«Jú, hún var þriggja vetra hún Sigrún litla, eða á þriðja ári, þegar hann fór til okkar, og nú er hún þetta á það tíunda síðan með slættinum í sumar eð var; en þar sem þú talar um trúmennskuna hans þorsteins heitins, þá verður aldrei ofsögum af henni sagt, hann reyndist okkur stakur dygðamaður, og við sýnum það þá í verkinu hvað okkur hefir fundizt til handarvikanna hans, ef við rekum hana Sigrúnu litlu frá okkur undir eins og öndin er skroppin úr honum og hann getur ekki lengur slitið sèr út hjá okkur; enda held eg að margur muni segja, að þèr sè mislagðar hendur, þar sem þú leysir hvern vinnustrákinn sem hjá okkur er nokkur ár úr garði með stórgjöfum, en látir þèr farast svo lítilmannlega í þessu.»

«það er nú meira þèr að kenna að sá vani er kominn á», sagði Sigurður; en húsfreyja lèt dæluna gánga og segir:

«það munu og nokkrir mæla, að hún Sigrún litla eigi uppá okkur föðurmissirinn, er svo illa

tiltókst að hann dó í ferð með þèr, og víst er um það, að þó að eg fái það aldrei guði fullþakkað, að hann gaf mèr þig aptur heilan á hófi, þá tekur mig samt sárt um dauða þorsteins, því það hefir aldrei fyr viljað svo hraparlega til í okkar búskap, að maður hafi dáið eins voveiflega frá okkur, og mèr er svo varið, að mèr finnst það heldur hvöt fyrir okkur, að hlynna einhverju góðu að henni Sigrúnu litlu, svo minnisstæðt er mèr það, að guð leiddi þig aptur úr háskanum.»

Um leið og þórdís sagði þetta, brá hún svuntuhorninu um augu sèr og þagnaði; bóndi sá, að henni vöknaði um augu og segir þá blíðlega:

«þú veizt það, þórdís mín, að eg er ekki vanur að taka fram fyrir hendurnar á þèr, í því sem þú vilt gjöra; mèr er ekkert móti skapi að við dveljum framvegis fyrir henni, krakkaskinninu; eg segi þá hreppstjóranum frá því, að hann megi ekki gjöra mèr sveitarútsvar fyrst um sinn; það getur ekki heitið meðgjöf þó eg hafi útsvarið mitt, svo sem í því skyni, að eg skýt skjóli yfir hana, þángað til hún er fær um að gánga í vist.»

«Æ gjörðu það fyrir mig, heillin mín!» sagði húsfreyja, og brýndi raustina, «að láta mig ekki heyra þenna ósóma; mèr er svo varið, að

annaðhvort gjöri eg hlutinn eða gjöri hann ekki; ætlir þú að fara að taka með henni af hreppnum, eða eigi hún að vera hèr í sveitarskyni, þá skal hún ekki vera hèr eina viku lengur en til krossmessu.»

«Hvernig ætlast þú til að hún sè hjá okkur?»

«það skal eg segja þèr; eg ætlast til að við tökum hana að okkur og breytum eins við hana og við ættum hana, og hrekjum hana ekki frá okkur á meðan hún vill vera; hún hefir verið elsk að mèr síðan hún var svo lítill ángi, og eg veit ekki heldur hvort eg ætti svo hægt með að slíta hana frá mèr; þú manst, að þú hafðir gaman af henni líka, þegar hún var lítil; hún var ætíð svo flýruleg við þig og kallaði þig mömmubabba inn.»

«Jæja, já hún var ætíð skýr og skrýtin, fiðrildið að tarna,» sagði Sigurður og brosti við; jæja, það er þá rèttast að við hrekjum hana ekki frá okkur; manstu þegar við lokuðum hana niður í kistlinum hjá kettlíngnum, ha! ha! — hún var undir eins svo skynug og skýr, greyið.»

«Hún er það enn, mesta skýrleiks telpa og þar að auki þæg og góðlynd, eg trúi ekki öðru, en að það mætti koma henni til manns, og eins er hún lagleg til handanna, og er þó mesta mínkun að því, hvað litla rækt eg hefi

lagt við að kenna henni nokkuð, en eg skal heita því, að hafa meiri alúð á því; og þó við þyrftum að koma henni einhverstaðar fyrir um tíma, þá er guði svo fyrir þakkandi að við höfum efni á því, enda höfum við ekki fyrir mörgum að hyggja eða fyrir marga saman að draga, fyrst guði mínum góðum þóknaðist að taka þá til sín, sem menn eru vanir að vilja helzt unna þess litla sem maður á.»

Við þessi seinustu orð þagnaði þórdís um stund, og gat engu orði upp komið fyrir kjökri; bóndi hennar varð þess var og sagði, um leið og hann strauk hendinni um kinn hennar:

«Við skulum ekki minnast á það, gæzkan mín! við fáum að sjá þá aptur í eilífðinni.»

«Verði hans vili,» sagði þórdís, nokkuð málhressari og strauk tárin úr augunum á sèr, «og fyrst hann blessaður fóstrar þá og annast, svo að þeir ekki þurfa með þessara veraldarmuna, hvað er þá í rauninni rèttara, en að verja því litla sem við eigum fyrir þá, sem hann hefir fengið okkur til fósturs, og það eru munaðarlausir, er engan eiga að; eða hvað ætli við mundum gjöra betra við þessar reitur, en að gefa þær eptir okkar dag einhverjum, sem okkur væri hlýlegt til og væri eptir okkar geði, eins og eg vona að hún Sigrún litla yrði?»

«Já, hefði hún verið drengur,» sagði Sig-

urður og dró heldur niðrí sèr, — «en það er ekki fyrir það» hèlt Sigurður áfram ræðunni og tók upp tóbakspontuna sína, leit upp í loptið og sló tappanum á bumbuna á pontunni, «þó það sè lítið sem við eigum, þá mun einhver verða til að þiggja það; þú veizt nú, Þórdís mín, að presturinn okkar hefir látið hann Sigurþór sinn heita í höfuðið á okkur, hann mun, ef mig grunar rètt, ætlast til þess, að við víkjum nafninu einhverju vænt' eg.»

«Og eg beiddi hann aldrei, góða mann, að láta heita í höfuðið á mèr; hvort þú hefir gjört það, veit eg ekki.»

«Nei, mèr gat aldrei dottið það í hug; hann mun hafa tekið það upp hjá sjálfum sèr, en hitt er það, að það mun þykja töluverð virðíng fyrir okkur hèrna, karl og kerlíngu, að hann, góði maður, hefir látið einka son sinn heita í höfuðið á okkur; og þeir segja það hèrna í sveitinni, að það sè ekki margir, sem hann, karlinn, hefir í sömu hávegum og mig; þeir öfundast nú sumir yfir því,» sagði Sigurður og saug mjög uppí nefið.

«Já, við þekkjum það, hèrna okkar á milli að segja, Sigurður minn, hvernig, honum er varið, karlinum, og mig furðar ekki á því, þó hann sè blíðmáll við þig, ef það býr undir að ná í þessar reitur, sem við eigum, því ef hann getur gjört sig allan að smjöri fyrir einn lítil-

fjörlegan pússunartoll, þá furðar mig ekki á því, að hann sè blíður ef til einhvers er að vinna.»

«Já, hvað sem sumir segja um hann, góða mann, þá hefi eg ekki, þórdís mín, að segja af því, að hann hafi reynt til að fá meira hjá mèr en hann hefir átt; það er satt, hann hefir tekið við því, sem eg hefi gefið honum fram yfir, en hann hefir þá ætíð sagt: ««eg á þetta ekki»» og stúngið því í vasa sinn,» sagði Sigurður, «og stundum hefir hann þá gefið okkur meira en því numdi.»

«það er satt, Sigurður minn, hann hefir stundum vikið okkur smálega, en sá vill ekki eiga fiskinn sem sèr eptir beitunni; og sè svo, að ekkert búi annað undir vinamálum hans, þá erum við meiri lánsmenn en sumir aðrir, en opt hefir mèr dottið hitt í hug, er eg hefi sèð hvað mikið far hann hefir gjört sèr um að kjassa þig, að til þess yrði refarnir að vera skornir, að hann á endanum ætlaði sèr að verða skaðlaus; eða hefir hann aldrei látið þig ráða í, að hann eða hans yrðu njótandi að því sem við eigum?»

«Nei,» sagði Sigurður bóndi, «hann hefir ekki, það eg man, nunnað að því einu orði, en hitt hefir hann stundum sagt við mig, að hann vissi ekki til hvers við værum að búa, barnlaus og ómagalaus, það væri rèttast fyrir okkur að

fara til sín í húsmennsku, og hafa svosem eina kú í heyjum og nokkrar kindur, og á þann hátt gætum við átt eins náðugt og við vildum.»

«Og rètt segir hann, guðsmaðurinn! en það er ekki víst honum verði kápan úr því klæðinu,» sagði Þórdís, — «en sleppum nú þessu, og svo að eg víki nú málinu aptur að því, sem við vorum að tala um áðan, þá skilst mèr að við sèum ásátt um það, að hrekja ekki hana Sigrúnu litlu frá okkur á meðan hún vill hýrast hjá okkur.»

«Og ekki mun það verða okkur að sundurþykkju, að þú fáir ekki að ráða svo litlu, Þórdís mín, sem að gefa einum únglíng að eta — og ekki skal eg amast við henni, hróinu.»

Í þessu bili heyrðu þau hjónin, að komið var upp á loptið, og þá lètu þau talið falla, en sá, sem upp kom, gengur inn í húsið til þeirra, og var það Sigrún, hún gengur þar að sem Þórdís sat og segir við hana:

«Fóstra mín» — svo var hún vön að kalla hana — «hún Sigga beiddi mig að sækja til þín búrlykilinn, hún er búin að taka ofan pottinn, hún ætlar að setja hann yfir í búrið.»

Þórdís þreifaði í vasa sinn og tók þar lykilinn, og fær Sigrúnu, og segir um leið:

«Hèrna, en komdu inn aptur, eg ætla að tala við þig.»

Sigrún fór, en þórdís lítur á eptir henni og segir:

«Óvart kemur mèr það, ef ekki liggur fyrir þessari telpu einhver hamíngja, sem okkur er hulin; ekki þykist eg hafa sèð telpu lánlegri á svipinn, en hana, ef nokkuð er að fara eptir því; en nú er bezt að við spyrjum hana, hvort hún vill vera hjá okkur, því vili hún fara frá okkur, krakkinn, og heldur hún muni eiga skárra annarstaðar, þá held eg ekki í hana.»

«Hún ber nú víst ekki mikið skynbragð á það,» sagði bóndi.

«það er jafngott að vita, hvað hún segir.»

það stóðst á, að þórdís hafði sagt þetta, og að Sigrún kom aptur, og var þá rjóð út undir eyru; var það annaðhvort af því, að hún hafði flýtt sèr svo mikið, eður þó heldur af því hún gjörði sèr í hugarlund, að fóstra hennar ætlaði að ávíta hana fyrir eitthvað, sem henni kynni að hafa orðið á. Hún gekk þegjandi innar eptir loptinu og nam staðar við hlið fóstru sinnar, horfði í gaupnir sèr, og stóð þar eins og lamb til slátrunar leidt. þórdís leit til hennar nokkuð þurlega, en tekur síðan til orða:

«Sigrún litla,» sagði húsfreyja, «þú hefir nú verið hjá okkur hjónunum síðan þú varst á þriðja árinu; þú hefir híngaðtil verið hèr í skjóli hans föður þíns heitins, en nú er hann dáinn,

eins og þú veizt, og okkur hjónunum er ekki skylt að hafa þig lengur; þú átt, það eg veit til, engan að, sem getur tekið þig, og þá liggur ekki annað fyrir þèr en að fara á sveitina, eða fara til einhvers, sem vill taka þig í dvöl; viltu í vor fara til hans Jóns á Leiti, þú þekkir hann?» — Í þessu leit hún hálfglottandi framan í Sigurð.

«Ætlar þú að láta mig fara til hans, fóstra mín?» sagði Sigrún, og beygði niður höfuðið.

«Eg læt þig þángað ekki, en þú ert nú munaðarlaus, og það getur verið, að hann vili taka þig til að snúast í kríngum kerlínguna sína, eg held hún yrði þá góð, tötrið?»

Sigrún litla hèlt, að þetta mundi vera alvara, að hún ætti að fara frá Hlíð, og fór nú að daprast yfir henni, en tárin tóku að hrynja ofan eptir kinnunum á henni; hún vildi ekki svara já til þess, sem hún var að spurð, en þorði ekki að neita, og sagði því, svo lágt að varla heyrðist, snöktandi:

«Eg veit það ekki.»

«Heldurðu þú getir ekki smátt og smátt vanið þig við, þó lítið verði stundum í askinum þínum?»

Sigrún svaraði engu, og leit þá Þórdís framan í hana og sá að hún var öll grátin og gat ekki komið upp orði fyrir ekka; þykist hún þá

hafa gjört heldur mikið að verkum, og segir nú, blíðari í rómi:

«Okkar hjónanna þarftu ekki að sakna, og það getur þú verið óhrædd um, að ekki slær Ingibjörg þig, eins og eg hefi gjört.»

Sigrún svaraði engu, en grúfði sig með andlitið að handleggnum á fóstru sinni, og lagði hægri hendina klappandi á herðarnar á henni.

«En ef þú ættir kost á,» sagði þórdís, «vildir þú heldur hýrast hèrna hjá okkur hjónunum og þola ljúft og leiðt með okkur? — en þæg yrðirðu að vera.»

Sigrún svaraði kjökrandi: «já, fóstra mín!» og klappaði fóstru sinni aptur á herðarnar; en þórdís hèlt ræðunni áfram:

«Við ætlum þá ekki, skinnið mitt, að hrekja þig frá okkur fyrst um sinn, en þèr mun fara eins og öðrum, þegar þú eldist og þarft okkar ekki lengur með, að þú munt vilja komast frá okkur.»

«Ónei, fóstra mín góð, eg vil aldrei fara frá ykkur,» sagði Sigrún, og tók báðum höndum um hálsinn á henni og kysti hana.

«Vertu ekki að vola lengur, garmur minn, þetta var ekki alvara,» sagði þórdís, «maðurinn minn vill ekki hrekja þig hèðan, meðan við

getum gefið þèr eitthvað að borða, kystu hann fyrir það.»

Sigrún gjörði eins og henni var sagt.

«Svona, láttu mig ekki sjá að þú sèrt að gráta lengur, þetta var allt gaman; helldurðu, skinnið mitt, að við viljum missa þig, sem ert svo falleg stúlka; — en fyrst eg hefi nú grætt þig, Rúna litla, þá held eg verði nú að gleðja þig dálítið aptur. þarna, ljúktu upp kistunni minni» — hún rèttir að henni lykilinn, en tekur sig aptur — «nei, það er bezt eg gjöri það sjálf,» gengur síðan að kistu, sem-þar var í loptinu og lýkur henni upp, og tekur þar síðan upp dálítinn skorinn kistil og leitar um hríð fyrir sèr; loks tekur hún samanvafið brèf eitt, þar var í margskonar kvennsilfur; þar voru meðal annars sex ermahnappar, allra mesta gersemi, þeir voru settir gamaldags víravirki, loga-gylltir, og hnappur með þremur laufum.

«Eigðu nú þetta, Rúna mín, eg verð að víkja þèr einhverju um leið og eg ræð þig heima; eg skal geyma þá fyrir þig, þegar þú ert nú búin að skoða þá eins og þèr líkar,» sagði þórdís, um leið og hún rètti þá að henni.

Sigrún kysti fóstru sína fyrir gjöfina og fór nú skjótt að glaðna yfir henni aptur; leið ekki á löngu áður öll tár voru horfin úr augum

hennar og andlit hennar svo hýrt sem glaðasti vordagur. — Hún var nú lángan tíma að skoða hnappana og hampa þeim, og varð hún að sýna þá hverjum manni, sem var á bænum, og gat ekki slitið þá frá sèr fyr en komið var undir rökkur; fèkk hún þá fóstru sinni þá aptur og bað hana varðveita. Fleira gjörðist ekki til tíðinda þann dag, og endaði hann þannig með gleði og kæti fyrir Sigrúnu litlu.

---

# FIMTI KAPÍTULI.

Gaman, gaman, gleðjumst nú!
gott er að koma á prófasts bú.
*J. H.*

Þegar menn lesa sögur, er það gömul og góð venja, að lesarinn staldri ögn við, þegar kapítulaskipti verða, og áður en hann leggur út í hinn næsta kapítula, ljúki af hinum bráðustu nauðsynjum sínum, til að mynda: að hósta, ræskja sig, taka í nefið; en heyrendur orðsins tala þá á meðan um efni sögunnar og sögumennina, lofa hreysti þeirra og afreksverk, og gizka á hvað fyrir þeim muni liggja það eptir er æfinnar. Eg efast ekki um, lesari góður! að

þú hafir haft þessa reglu, og staldrað dálítið við, þegar kapítulaskiptin urðu síðast; en eg vildi óska, að viðstaðan hefði að þessu sinni orðið í lengra lagi, svo að þú gætir betur ímyndað þèr hvað lángt er frá því, að þú skildir við sögumennina í seinasta kapítulanum hèr að framan, þángað til þú hittir þá aptur í þessum kapítula. það eru sumsè liðin sjö ár síðan, og þú verður að meðtaka það með trúnni sem sannleika. Á þessum sjö árum gjörðust í heiminum stór tíðindi, en vèr skeytum ekki öðru en því, sem kemur við söguna, og getum að eins þeirra atburða, sem snerta þá menn, sem hún er af gjör.

það er þá fyrst að segja, að á þessu tímabili varð prófasta skipti þar í sýslu, kusu þá nokkrir prestar sèra Sigvalda Árnason á Stað; var hann nærri orðinn prófastur og þjónaði því embætti svo sem settur þrjá mánuði, tvær vikur og tvo daga, en svo atvikaðist samt, að ekki öðlaðist hann þá tign; látum vèr oss litlu varða hverjar orsakir til voru, enda höfum vèr fáar sögur um embættisstörf sèra Sigvalda eður hluttekníng hans í alþýðlegum málum, því ekki er hans getið í Eptirmælum átjándu aldar eða Árbókum Espólíns, eða kirkjusögum þeirra Finns eða Pèturs; nema það sè sá hinn sami sem nefndur er prestur til Holts; en það getur varla verið, því eptir þeim annál, sem vèr höfum fyrir

oss, var sèra Sigvaldi Árnason á Stað aldrei prestur að Holti, og það verðum vèr að hafa fyrir satt, þar til vèr sjáum glögglega grein fyrir, að hann hafi nokkurn tíma annarstaðar verið.

Að Hlíð urðu á þessum árum þau umskipti, að Sigurður bóndi hafði tekið að velli gömlu baðstofuna, og reist hana af nýju, og má það óhætt telja einhver hin mestu tíðindi, sem orðið geta á bóndabæ; að öðru leyti stóðu þar allir steinar í stèttum og allt fór þar fram á venjulegan hátt. — En þótt að þetta hvorttveggja, sem vèr nú höfum talið, sè harðla merkilegt, höfum vèr samt mestar frèttir að segja af Sigrúnu þorsteinsdóttur. Hún hafði á þessum sjö árum tekið svo miklum og margbreyttum umskiptum og framförum, að lesarinn getur varla þekkt hana aptur. Þar sem vèr hættum að segja frá henni í seinasta kapítula, var hún munaðarlaus tíu vetra gamall únglíngur, en nú er hún orðin gjafvaxta og göfug heimasæta. Að vexti var hún orðin svo þroskuð sem meðalstúlkur, þær er náð hafa tvítugs aldri. Hún var í hærra lagi meðal-kvennmaður, rèttvaxin og herðabreið, miðmjó og brjóstamikil, útlimagrönn og fótsmá, handstutt, en höndin fremur holdug, svo að þegar hún rètti hendina, mynduðust smábollar fyrir hnúunum, fíngurnir voru stuttir og þó jafnt framdregnir, og svo hvítir

sem nýfallinn snjór, neglurnar litlar og gagnsæjar. Sigrún var fríð kona yfirlitum og nokkuð toginleit, hver hluti andlitsins var fagur; ennið miðlúngi hátt, nefið rètt eins og það hefði verið höggið í marmara í Aþenuborg, löngu fyrir Krists burð, af myndasmiðum; munnurinn smár og varirnar fram standandi; tennurnar jafnar og hvítar, lágar og breiðar; hakan lítil og hvít, með ofurlitlu skarði í. Augu hafði hún svartblá og heldur í stærra lagi. Yfirliturinn var hraustlegur og skiptist fagurlega. En þó að sèrhvað í andliti Sigrúnar væri mjög svo fagurlega myndað, mundi enginn hafa orðlagt fríðleik hennar, ef það hefði ekki aukið á fegurð hennar, hversu allt í andlitinu samsvaraði hvað öðru, og svo vöxtur og hár, og hvað svipurinn var hýrlegur, viðfeldinn, fjörugur og blíður; það var og eitt, sem mest prýðir hvern kvennmann, að hún hafði svo mikið hár, að það tók ofan fyrir knè er hún stóð upprètt, og vel gat hún flèttað það og brugðið flèttunum um mitti sèr svo að saman næði, en þá var eigi sá siður að fjötra fagra lokka, heldur láta þá leika sèr lausa. Eins og Sigrún hafði tekið framförum að vexti og vænleik, eins hafði henni fleygt fram í allri kunnáttu og kvennlegum íþróttum. Frá því, að þau hjónin í Hlíð urðu ásátt um að taka Sigrúnu að sèr, hafði Þórdís

lagt alla stund á að manna hana, kenndi hún henni sauma og matreiðslu, sem tíðkast á bóndabæjum, og með því að Sigrún var bæði góðum gáfum gædd, og á hinn bóginn hlýðin og ráðþæg við fóstru sína, kom svo, að hún fèkk þær framfarir í þessu, að hún þókti um flest jafnoki heldri bænda-dætra, eður meira. En eptir því sem þórdís sá, hversu vel henni heppnaðist að menta Sigrúnu, eptir því lagði hún meiri alúð við að frama hana í öllu, og festi jafnframt svo mikla ást á henni, að hún gat varla af henni sèð stundu lengur; lèt hún hana nú jafnan vera sèr við hönd, en hlífði henni við öllum stritverkum, nema þegar eitthvað þurfti fljótlega til að taka, en hèlt hana jafnan sæmilega í klæðum, enda var Sigrúnu eins varið og flestum úngum stúlkum, þeim er hafa fengið þá hugmynd kvenna, að þær muni ekki vera í tölu hinna ófríðustu, að hún hafði gaman af að snotra klæði sín og láta þau fara laglega, sèrílagi á mannfundum; var hún þá jafnan á íslenzkum búnaði vönduðum, sem fóstra hennar hafði gefið henni. Hvern dag var hún svo búin, að hún var í vaðmálspilsi bláu, skósíðu, klæðisupphlut dökkum með silfurmylnum á, reimuðum saman að framanverðu; þar utan yfir var hún í prjónapeisu blárri, nærfeldri, og var að framan krækt með krókapörum, en þó voru nokkur, er

hún sjaldan krækti, það voru þrjú efstu pörin, annaðhvort af því hún þoldi ekki að þrengja svo að sèr, eða hitt, að henni þókti ekkert að, þó brjóstin tæki sig sem bezt út að unnt var; hún hafði dökkbláa húfu á höfði með svörtum silkiskúf, sem jafnan fèll ofan með hægri vánga hennar og nam við öxlina. Hárið lèt hún optast leika laust niður um herðarnar, en stundum brá hún á það lykkju upp undir húfuna að aptanverðu, og fèll þá tvöföld lykkjan ofan um herðarnar. Það var tvennt, sem Þórdísi húsfreyju þókti vanta á mentun og kunnáttu Sigrúnar fóstru sinnar, svo að hún væri eins vel að sèr í öllu því, sem þá var tíðkanlegt að kenna úngum stúlkum, þeim er kallaðar voru góðir kostir; það var eitt, að hún kunni ekki pellsaum og blómstursaum og útsaum, og hitt annað, að hún kunni ekki að draga til stafs; þetta treysti Þórdís sèr ekki til að kenna henni til fullnustu, og með því engir bæir voru þeir þar í grennd, er svo stæði á, að þessar listir yrði numdar þar, nema á prestsetrinu Stað, tóku þau hjón það ráð, að koma henni þángað um tíma til prestkonu, er var annáluð fyrir hannyrðir og bókmentir, og þareð allgóð vinátta var með því Hlíðarfólki og prestkonu, var máli þessu vel tekið, og skyldi Sigrún fara að staðnum um aðventuleytið og vera þar fram á vorið, eða svo lengi sem þurfa

þækti; var hún flutt þángað á ákveðnum tíma og var þegar sett við sauma.

En nú verðum vèr að geta þeirra manna, sem þá voru á staðnum, og lýsa þeim fyrir lesendunum; vonum vèr þá að þeir þekkist betur af sögunni. Fyrst skal frægan telja, og það er prestur, hann hèt sèra Sigvaldi Árnason, eins og áður er greint. Sèra Sigvaldi hafði lært í Hólaskóla og var útskrifaður þaðan árið 17...; sama ár var hann vígður, gjörðist hann fyrst aðstoðarprestur hjá föður sínum og hèlt því embætti þar til faðir hans andaðist árið 17 . .; var honum þá veitt brauðið að Stað, og gengu um það ymsar sögur, með hverjum atburðum það hafði orðið. Aldrei þókti sèra Sigvaldi neinn afburða kennimaður, enda sögðu kunnugir hann fremur æfa sig í að lesa ræður, með hvaða hönd sem þær væri ritaðar, en í því, að semja þær sjálfur; að öðru leyti var hann allárvakur í prestsembættinu, og húsvitjaði næstum hvert ár; en sá var munur hans og annara presta um þær mundir, að hann lèt aldrei neinn mann skjótast undan fræðalestri fyrir brennivínspela, því slíkar syndir verða ekki afþvegnar, sagði hann, nema með þriggja pela flösku eða heilu ríkisorti að minnsta kosti. Sigvaldi prestur var maður vel auðugur af jörðum og lausafè, og öllu sem til bús heyrir, nema bókum; af þeim var hann ekki ríkari en millum

húsgángs og bjargálna. Hann átti nauðsynlegustu húslestrabækur og Biblíu og Nýjatestament, en fræðibækurnar voru ekki til í hans eigu aðrar en gamall Núkleus, skrifaður Dónat og fáeinar æfagamlar skólaskruddur, eða rèttara sagt miðstykkið úr þeim, því á flestar vantaði bæði tálknin og sporðinn. Nú þótt að sèra Sigvaldi hvorki væri neitt afbragð í stólnum eður stundaði mjög bókmentir, luku samt allir upp sama munni um hann, að ekki þyrfti að frýja manninum vits, og þá er hann átti í skiptum við aðra menn, vannst honum optast á við þá, er áttu fleiri bækur en hann, einkum ef um fè eða jörð var að deila. Hann var maður blíðmáll, og kallaði jafnan þá, er hann átti í tali við, «vin» sinn, en ef það var kona, sagði hann jafnan «ljúfa». Sigvaldi prestur var maður lágur vexti og þrekvaxinn. Á ýngri árum hafði hann verið ljós á háralit og rauður á kampa. Nú var hann orðinn sköllóttur næsta, en kamparnir stóðu eptir og þó harðla gráir fyrir hærum. Hann var grannleitur og fölleitur, varaþunnur og nefbjúgur, og um flest heldur óálitlegur, nema til augnanna, þau voru dökkblá og all-snarleg og hefðu átt betur við að sitja í einhverju öðru höfði, hefði ekki nokkurskonar lymsku svipur skinið út úr þeim. Kona Sigvalda prests hèt Steinunn; hún var nær því fimmtíu ára gömul;

það var góð kona og hæglát og vel að sèr um flest. Hún hafði á ýngri árum verið fríð sýnum. Hálfbróður átti hún, þann er þórarinn hèt, og var þeirra svo mikill aldursmunur, að hann var að eins tuttugu og tveggja ára. þórarinn hafði alizt upp hjá mági sínum sèra Sigvalda, tók hann við arfi hans, og lèt setja þórarinn til menta í Hólaskóla; dvaldi hann þar fimm vetur og var nú útskrifaður; fór hann þá heim til mágs síns og var með honum þenna vetur, og var það almæli, að sèra Sigvaldi mundi taka hann fyrir aðstoðarprest þá er hann hefði aldur til fengið. þórarinn var fríður maður sýnum, hár maður vexti og þrekinn að því skapi, rèttleitur og breiðleitur, svartur á hár og dökkbrýnn, munnfríður og nokkuð nefstór og þó rèttnefjaður, hann var fagureygur, rjóður í kinnum og að öllu hinn mannvænlegasti. þórarinn var maður einarðlegur, þó fálátur nokkuð og seintekinn þeim er honum voru ókunnugir, en ræðinn og alúðlegur við alla þá, er tóku að kynnast honum. Hann var glaðvær og smáskemtinn, en þó fáskiptinn á heimili; þókti hann jafnan koma fram til góðs, ef hann hlutaðist til um nokkuð. — þar á staðnum var stúlka ein, sem Guðrún hèt og var bróðurdóttir prests, hafði faðir hennar verið lögrèttumaður, en að móðurinni var hún ættuð úr Hrútafirði.

Guðrún var uppfóstruð á Staðarbakka, hjá presti þeim er þar var, en er hann deyði var hún nær tvítugu; fór hún þá vistferlum til sèra Sigvalda og tók hann um leið við fjárforráðum hennar, því hún átti eignir nokkrar þar nyrðra, og var hún síðan á staðnum, og með því kona sèra Sigvalda var farin að eldast, og hafði aldrei verið mikið löguð fyrir búskap, gjörðist Guðrún ráðskona þar á staðnum og þókti jafnan ötul og rösk, og fyrir þá orsök var hún í miklum dáleiknm hjá sèra Sigvalda, er hann var búsýslumaður mikill. Guðrún hafði á ýngri árum verið talin með fríðari konum, og þó að hún væri nú komin yfir þrítugt, og farin að fella fegursta æskubrumið, varð þó ekki annað sagt, en að hún ennþá væri fulleiguleg kona, nema hvað vöxtinn snerti, hann var fremur óliðlegur, er hún var öll jafndigur og nokkuð luraleg á velli; hún var fótstór og óliðleg til handanna og hendurnar jafnan rauðar og sem bólgnar væri. Kenníngarnöfn átti Guðrún sèr, og var hún ýmist kölluð Staða-Gunna eða Presta-Gunna, og var það dregið af því, að hún hafði jafnan verið á stöðum og hjá prestum.

Eptir að vèr nú stuttlega höfum getið hinna helztu manna, sem voru á prestsetrinu, þykjumst vèr ekki geta leiðt hjá oss að drepa nokkuð á húsaskipun á staðnum, því það er stundum eins

nauðsynlegt fyrir lesanda að þekkja vel afstöðu og leg þeirra staða, þar sem sagan gjörist, eins og að þekkja sögumennina sjálfa. Staðurinn var allvel húsaður, eptir því sem þá var tíðt á landi hèr. Húsin voru að sönnu flestöll orðin nokkuð forn, og sèra Sigvaldi hafði látið reisa þau á fyrstu prestskapar-árum sínum, en öll voru þau þó vel stæðileg, því þau höfðu verið gjör af góðum efnum, enda var það þá tíðska, að reisa hús sterk og rambygð og meira löguð til hlýinda en til fegurðar einnar, sem nú á tímum er tíðara. Bæjardyrnar sneru gegn hásuðri, og höfðu menn það fyrir víst dagsmark, að þegar sólargeislann lagði inn um dyrnar og inn á mölunarkvörn, þá er stóð hægra megin inn frá dyrum, að þá væri rètt hádegi. Fyrir bæjardyrum var standþil sterklegt, og í bæjarhurðinni stór koparhríngur, sem tekið var í þegar loka skyldi eða upp ljúka; þvers fyrir ofan hurðina að utanverðu var felld dyrafjöl, stóð þar á skorið með rómverskum tölustöfum ártalið, nær bærinn hafði verið reistur síðast. Uppá bæjarburstinni stóð stöng, á að gizka álnar há, á henni var veðurviti, það var spjald lítið, er snerist um járnmöndul, sem var efst upp úr stönginni; spjaldið var gagnskorið og innaní nafn prests skammstafað. Spjaldið snerist eptir vindi og tísti hátt í þegar hvast var, og sögðu gárúngar

«að fè væri jafnan fóstra líkt, því spjaldið hefði sama tónunarlag sem prestur», og drógu það af því, að sèra Sigvaldi var veikraddaður. Bæjaranddyrið var hèrumbil 5 álna lángt frá útidyrum, frá því gengu dyr til beggja handa: voru aðrar að stofu; hún var í þremur stafgólfum. Á þeirri hlið stofunnar, sem sneri út að hlaðinu og til suðuráttar, voru tveir glergluggar, og þar undir stóð stórt borð og sinn stóll hvorum megin, með leðursetum. Bakhluti stólanna var mjög hár, og mundi hafa tekið hverjum meðalmanni í hnakkagróf, er hann sat; fyrir gaflinum í stofunni var skápur stór opinn, í hann var raðað ýmislegum borðbúnaði úr tini og leiri. Að norðanverðu í stofunni hèngu tvö myndaspjöld, og fyrir miðjum vegg sama megin stóð dragkista ein mikil úr eik, og tók nær því upp undir loptið; fyrir framan dragkistuna stóð stór fatakista, og fremst í horninu var skápur læstur. Hinum megin úr anddyrinu var inngángur til skálahúss; það var og í þremur stafgólfum; það var og þiljað, en ekkert fjalagólf í, og á þeirri hliðinni, sem vissi út að hlaði, voru nokkrir kringlóttir skjágluggar. Í skálahúsinu sváfu vinnumenn prests, og var rúmum þeirra skipað þar með báðum hliðum. Inn frá anddyrinu, og beina stefnu úr bæjardyrum, lágu göngin, og var skammt að gánga þar til að komu sínar

dyr á hvorja hönd, gengu aðrar að búri en aðrar að eldhúsi, er þar voru hvort á móti öðru. Hèrumbil fjórar álnir fyrir innan þessar dyr þrutu göngin. Baðstofan var stórt hús, portbyggð og allsnotur. Á gólfinu var vefstaður gagnvart baðstofudyrum, og í öðrum enda baðstofu, til hinnar vinstri handar, var gestaherbergi, og í tvær hvílur; en í hinum endanum var herbergi í tveimur stafgólfum, vel þiljað. Það hafði verið ætlað fyrir svefnherbergi fyrir gesti, þá er þóktu í heldri manna röð, og voru þar tvö rúm, en þá hafði Þórarinn, mágur sèra Sigvalda, þar aðsetur sitt, og svaf þar um nætur. Austurendi baðstofuloptsins var ætlaður fyrir vinnufólk, og sat það þar á kvöldum við vinnu, en griðkonur sváfu þar einar á nóttum, en vinnumenn í skála. Í hinum enda baðstofunnar var fyrst hús dálítið í einu stafgólfi, og voru í því tvö rúm, sitt hvorum megin; í öðru svaf Guðrún ráðskona, en í hinu sváfu sjaldan nokkrir, nema við og við aðkomukonur; í því var Sigrún látin sofa meðan hún var á staðnum. Innar af þessu húsi var annað herbergi, það var á að gizka hálfu stærra en hið fyrra; það var herbergi þeirra hjóna, í því voru tvö rúm, sitt við hvora hlið og ekki allskammt á milli, því annað stóð sem fremst verða mátti, sunnan til í loptinu, en höfðalagið

á hinu náði út að stafnglugga þeim, sem á var baðstofunni. Fyrir framan höfðalagið á þessu rúmi, og rètt undir glugganum, stóð dálítið borð, örskammt frá rúminu. Þegar sèra Sigvaldi var að skrifa, sat hann á stól hinum megin borðsins; en optast, er hann var í baðstofu, var hann vanur að sitja á rúmi sínu og halla sèr stundum upp að höfðalaginu og reykja af tóbakspípu, en fyrir framan hann á borðið var sett glóðarker, og kveikti hann þar við í pípu sinni er hann þurfti, og til þess að prestur því betur gæti talað við komumenn eður aðra, sem hann vildi ræða við, var við fótabrík rúmsins settur stóll, og þar á ofan lögð flos-sessa, er gestir skyldu sitja á. Engin hurð var fyrir dyrum þeim, sem voru á millum herbergjanna. Í fyrstu hafði þó verið þar hurð á járnum, en einhverntíma bar svo við, að skráin geggjaðist og lykillinn týndist, og fórst það jafnan fyrir að við það væri gjört; var hurðin síðan svona skráarlaus um hríð, en loks lèt prestur með öllu taka hana í burt og bar það fyrir, að kötturinn hlypi opt um nætur milli herbergjanna og skelldi þá hurðinni svo hart, er hann træðist út eða inn um dyrnar, að hann gjörði þeim, sem svæfi þar í herbergjunum, hið mesta ónæði.

Það var venja þar á staðnum á vetrum, að jafnan var sofið í rökkrum nokkra stund, fram yfir dag-

setur eða lengur og lá þá hver í sínu rúmi. Prestkona var svefnstygg mjög, og var hún því vön að leggja sig útaf niðri í húsi bróður síns, þókti henni trúrra um, að hún heyrði þar ekki neinn hávaða á meðan hún væri að festa svefninn, heldur en ef hún svæfi uppá loptinu. Sigrún var og vön rökkursvefni, og lagðist hún jafnan í rökkrinu sem aðrir í rúm sitt í fremra loptherberginu. Það var eitt kvöld, fám dögum eptir að hún var komin að staðnum, að hún hafði lagt sig þar útaf. Allir fram í baðstofunni voru fast sofnaðir og hrutu. Sigrún grúfði sig niður í rúmið, og hafði breitt brekánið ofan á sig og snerist til veggjar og reyndi til að sofna. Guðrún sat enn inni í húsi þeirra hjóna, en prestur gekk þar um gólf og reykti, en húsfreyja var gengin að venju að sofa niðri í húsi og var þá vel hálfrokkið. Sigrún getur nú fyrst um sinn ekki fest svefn, og líður svo nokkur stund, að hún liggur vakandi; tekur hún þá eptir því, að prestur gengur fram í húsdyrnar og stendur þar við um stund, og þykir henni því líkast sem hann hlusti eptir nokkru, en síðan gengur hann innar í húsið og sezt á rúm sitt, en Guðrún ráðskona situr þar á stól fyrir framan rúmið; heyrir Sigrún þá, að þau prestur og Guðrún taka tal saman, og þó lágt. Sigrúnu var eins varið og mörgum öðrum, að hún hafði nokkurn

snefil af forvitni og fýsir hana að heyra, hvað umræðu efnið muni vera. Henni dettur það þá í hug, að hún hafði tekið eptir því, að úr þilinu við höfðalag hennar var fallin dálítil fjöl, og stóð rifan eptir opin, hún ýtir sèr nú hægt og hægt að rifunni og leggur eyrað við hana, en þó ekki væri talað hærra en í hálfum hljóðum, heyrir hún samt öll orðaskil og sambengi þess sem talað er, og var það upphaf ræðunnar, að prestur segir við Guðrúnu:

«Sofa allir hèrna fram á loptinu systir?»

«Það heyrist mèr, bróðir minn góður,» sagði ráðskona.

«Hum, hum», sagði prestur, og eins hún þarna Hlíðarpíkan fram í húsinu?»

«Og það held eg, ekki heyrist mèr betur,» svaraði ráðskona.

«Eg verð þá, Guðrún systir, að segja þèr frèttir af því, sem eg einhvern tíma hefi minnzt á við þig; við Þórarinn minn áttum nú í fyrsta skipti tal saman í gær um hitt.»

«Já, já, og hvað sagði hann,» sagði ráðskona nokkuð þurleg.»

«Við sátum lengi tveir einir fram í stofu og töluðum fyrst svona á víð og dreif, — hum, hum, er glóðarkerið hèrna? — og seinast hnè ræðan að því, sem eg opt hefi ætlað mèr að tala um við hann; eg lèt hann ráða í hvers

hann kynni að mega vænta, e[illegible]ínu rúmi[illegible]fara að mínum ráðum; sumsè að eg mundi ekki vera ófús á, að taka mèr hann fyrir kapilán og fá honum helmíng hèrna af staðnum til ábúðar; allt að þriðjúngi af öllum föstum tekjum, og fyrir extraverk eptir samkomulagi, þó með því skilyrði, að hann reyndist mèr sem hlýðinn og auðsveipur sonur, — hum, hum! — og ætti þá stúlku sem mèr væri ekki á móti skapi, efnagóða, honum að öllu samboðna, ráðsetta og reynda — hum, hum, taktu eptir! — utan húss og innan, í hverju sem er; eg þarf ekki að segja þèr við hverja eg átti; það hefir lengi verið hugur minn að koma því svo í kríng, að þú fengir viðunanlega giptíngu, þegar þú fer úr mínum húsum.»

Guðrún saug uppí nefið og mælti: «já, þèr hafið nú lofað mèr því fyrri, og hvernig tók hann undir? — fálega.»

«Þetta kom, eins og þá getur nærri, flatt uppá hann — hum, hum! — hann tók þó af engu og játaði heldur ekki neinu, en engin eik fellur við fyrsta högg; eg bauð honum að láta þetta vera svona fyrst um sinn, hann skyldi hugsa sig um, en þó yrði allt að vera skellt og fellt fyrir fardaga í vor, sökum jarðarinnar, ef hann hugsaði uppá búskap í ár; eg er farinn að letjast að þjóna þessu örðuga, vesæla og mè

ı [illegible] forvitr .hallkvæma brauði — hum, hum! — og því sagði eg honum, að eg hefði ásett mèr að fresta því ekki lengur, að taka einhvern geðfeldan mann mèr til aðstoðar; sjálfsagt lèti eg hann njóta þess fremur en aðra vandalausa, ef hann vildi fylgja mínum ráðum, en hann yrði að segja annaðhvort af eða á í seinasta lagi fyrir Messur, — hum, hum! —»

«Nú, eg kalla hann eigi þá að fá nægan umhugsunartímann, fyrst þetta á að bíða fram á miðt sumar,» sagði Guðrún, og þó nokkuð þurlega, «mèr hefði sýnzt, að hann gæti bráðum sagt annaðhvort, og þèr jafnvel, bróðir minn! skipað honum það.»

«Vertu þolinmóð, systir góð! flas er ekki til fagnaðar; eg hefi skoðað þetta allt vel — hum, hum! — eg þekki Þórarinn mág, og hvernig hann er skapi farinn, það tjáir ekki að beita hörku við hann, hann er þrár, þybbinn ef geyst er farið að honum; hann lætur opt til leiðast með góðu; hann vill athuga sjálfur hvað hann gjörir, áður en hann framkvæmir; en ef mig grunar rètt, þá mun sú raunin á verða, að hann á endanum gengur ljúft að öllu; hann mun sjá hvers hann fer á mis, ef hann hafnar því, sem hann á kost á, og hvað er í aðra hönd ef hann vill fylgja mínum ráðum, tekur hèr við og á þig; en skoða þú nú til, systir, viljugan

er hvern bezt að kaupa, við vinnum þetta með laginu — hum, hum! — þinu er beitt, ef á þarf að halda, hum, hum!»

«Þèr sögðuð það líka um árið, vili menn! þegar það kom til orða um okkur Jón, en hvernig fór, það drógst og drógst og beið og beið, og þèr ætluðuð að vinna hann með laginu, og seinast varð ekki neitt úr neinu, einsog ekki var heldur við að búast, þegar aðrir fengu tíma til að komast í brauðið.»

«Annað mál var það,» sagði prestur, «hann átti aldrei að vera annað en varaskeifa, og hverjum var það að kenna að það drógst í sundur? þú varst aldrei áfram um það að eiga hann, með fleiri ógreindum orsökum — hum, hum!»

«Eg hefði þó átt hann á endanum held eg, og hvernig fer nú, ef Þórarinn þakkar yður fyrir góð boð?»

«Hum, hum, hvar er glóðarkerið? — vertu óhrædd systir, þetta fer öðruvísi en þú heldur; eg tók Þórarinn minn þegar hann var á tíunda árinu; eg hefi kennt honum að hlýða, og það er ekki ofsögum sagt þó eg segi: það sem hann er, á hann mèr að þakka.»

«Og það held eg sè óhætt að segja, nokkru hafið þèr upp á hann kostað, ætli það sè ekki svo?»

«Ójú, það væri samtals nokkrir skildíngar, hum, hum! — ef eg reiknaði það; eg hefi það einhverstaðar hjá mèr ógleymt; fyrst uppeldið, þar næst meðgjöf með honum í heimaskóla í tvo vetur, 10 krónur hvort ár og 10 fjórðúngar smjörs.»

«Og hvað var hann lengi í skóla?»

«Það voru fjórir vetur, þar gaf eg með honum árlega 6 sauði gamla og tíu fjórðúngana, *item* talsvert til bóka, hestafóður, föt og sèrhvað, að ótöldu ymsu smálegu, allvæn reiðtýgi, *item* smásendíngar og lítilræði í hans skyni til húsfrúarinnar með meiru — hum, hum! Fyrir reglu sakir hefi eg það allt uppskrifað vona eg, en ekki af því að eg ætli að láta hann borga mèr það aptur, sem eg hefi til hans kostað, ef hann hallar sèr hèr að og á þig, að öðrum kosti skal hann verða að borga mèr hvern peníng, en hvar á hann að taka það, hróið, bláfátækur maður, eða sýnist þèr það ósanngjarnt?»

«Nei, það held eg engum geti sýnzt.»

«Sèr þú þá ekki, systir, að honum er nauðugur einn kostur að gánga að því sem eg býð — en hver er þarna að rumska fyrir framan? — mèr heyrist einhver vera vakandi.»

«Ónei, það er Hlíðarstelpan, hún lætur svona í svefninum; verður hún hèr lengi?»

«Fram yfir sumarmálin held eg, konan mín hefir tekið hana; þau Hlíðarhjónin hafa beðið að lofa henni að vera hèr um tíma, hvernig fellur þèr hún í geð!»

«Eg skipti mèr ekki af henni, eg sè hún situr þarna hjá húsmóðurinni eins og uppstrokinn köttur og tekur ekki hendi sinni til neins, nema að fitla eitthvað við sauma, það er nú lag á því!»

«Hún fór híngað til þess að komast eitthvað niður í þessháttar, mèr var samt, satt að segja, ekkert um hèrveru hennar, þó það yrði svo að vera, fyrst þau mæltust till þess; því er svo varið, að eg má ekki afsegja þeim Hlíðarhjónum um það, sem þau mælast til.»

«Eg hefi sèð það fyrri, að þèr viljið ekki gjöra þeim mikið til miska.»

«Ójá, það hefir verið fremur hlýlegt milli mín og Hlíðarfólksins,» sagði prestur, og lèt eins og hann vildi eyða þessari umræðu, «sèrílagi hans Sigurðar míns og mín. Monsèr Sigurður er ætíð dáindis karl, hann geldur ætíð reiðilega tíundir og ljóstollinn, í ull og tólg, eða öðrum góðum aurum; *item* offur í góðu lagi, — hum, hum!»

«Það eru nú fleiri, sem standa í skilum við yður, og hafið þèr þá samt ekki í öðrum eins hávegum og dekri og það Hlíðarfólk; eg hefi

aldrei getað skilið í þeirri vináttu!» sagði Guðrún.

«Sèrhvað á sína orsök, það getur verið mèr hafi einhverntíma dottið fleira en eitt í hug, systir; það stenður svo á því, eg verð að viðra þau upp, hver veit nema eg eða mínir einhverntíma kynni að geta haft einhvern hag af því, þegar fram líða stundir.

«Hvernig þá? hvað eigið þèr við?»

«Eg segi þèr ekki frá því núna — rèttu mèr glóðarkerið, systir! svona, það er lifandi; — þau eru vel efnuð, *item* er mèr grunur á, að Monsèr Sigurður minn lumi á nokkrum skildíngum, og svo eiga þau þenna jarðarpart.»

«Já, þetta veit eg nú,» sagði Guðrún.

«Og barnlaus, ljúfa, eiga enga erfíngja nema bláfátæka útarfa, sem lítið hafa að gjöra með penínga eða jarðir; mèr hefir dottið í hug, að það gæti lánast að þau arfleiddi drenginn hann Sigga minn, og því heitir hann í höfuðið á þeim Sigurði og þórdísi, eins og þú veizt, systir.»

«Heitir hann ekki raunar eptir Sigurði sæla afa okkar, og þóru ömmu okkar?»

«það getur verið að svo hafi í fyrstu verið tilætlað, en ekki vita þau hjónin í Hlíð annað, en hann heiti í höfuðið á þeim. Nú hefi eg sagt þèr hvernig í öllu liggur; það er þetta tvennt, sem eg ætla að koma í kríng áður en

eg skil hèr við: að hann Sigþór minn gæti orðið aðnjótandi reitanna þeirra þar í Hlíð, því þá hefir hann heldur eitthvað að að hverfa með þessu litla sem hèr er til, og að sjá þèr borgið, að þú fengir viðunanlega giptíng — hum, hum! sem eg álít vera, ef þórarinn mágur minn á þig. það getur orðið vænn og duglegur maður úr honum, og eg ann þèr þess vel fyrir lánga og holla þjónustu — hum, hum! — og frændskap, en nú látum við þetta vera svona að sinni, en það þykist eg vita að þú reynir til svona heldur að hæna hann að þèr — hum, hum! — og þarf þèr ekki ráð að kenna, kvennþjóð; eða hvernig er hann í viðmóti við þig? — ljáðu mèr glóðarkerið.»

«Hèrna! — hann er þur, skelfilega þur.»

«þú verður að viðra þig upp við hann, *item*, það er sömuleiðis, komdu þèr við hann þórarinn mág minn, hann er eins og aðrir, glaðvær í rökkrunum; — en nú held eg sè bezt þú farir að kveikja, eg heyri þær eru vaknaðar stúlkurnar fram á loptinu.»

Við þetta lètu þau talið niður falla; Guðrún ráðskona gekk fram á lopt og tók að kveikja, og bar síðan ljós inn í herbergi þeirra hjóna. Sigrún hafði ekki sofnað í þessu rökkri, en er Guðrún gekk um húsið lèt hún sem svefnlegast, og grunaði Guðrúnu ekki, að hún hafði heyrt

viðtal þeirra prests, enda gat Sigrún þess ekki við nokkurn, hvers hún hafði orðið áskynja.

---

## SJÖTTI KAPÍTULI.

---

Fyrst er sjón og svo er tal,
svo kemur hýrlegt auga;
þarnæst ástar fagurt fal
Freyju hefst við bauga.
*S. P.*

Það bar til einn morgun, skömmu eptir viðtal þeirra prests og Guðrúnar, að prestur rís snemma úr rekkju og lætur söðla hest sinn, og ríður að bæ einum þar í sóknum að þjónusta gamalmenni nokkurt. Guðrún ráðskona var enn niðri við búverk, en húsfreyja var sezt við sauma á rúmi sínu og var enginn þar í húsinu nema hún og Sigrún. Sigrún var nýlega komin á fætur. Henni voru ekki ætluð nein ullarverk eða innanbæjarstörf, og var hún því ekki vön að rísa fyr úr rekkju en undir það að saumabjart fór að verða. Hún sat á stól við höfðalag á rúmi húsfreyju, nálægt glugga þeim er þar var á baðstofuhliðinni og lèt húsfreyja hana sitja þar,

fyrir þá sök, að hún vildi hafa hana sem næst sèr, svo að hún við og við gæti litið eptir því, hvernig henni færist úr hendi það sem hún var að láta hana sauma, og sagt henni til þess er henni þurfa þókti. Þær prestkonan og Sigrún voru allkátar, og ræddust við um hitt og þetta og bar margt á góma. Þess er getið hèr að framan, að Sigrún var hverri konu fríðari og vænni að vexti og yfirlitum. En þó að hún jafnan væri fríð, leit hún nú samt að þessu sinni svo út, sem hún væri lángtum fegri og gjörfuglegri en hversdagslega. Í drápu þeirri, er hinn blindi bragsmiður Hómer hefir ort um Ódysseif konúng borgabrjót, segir svo frá, að jafnan er Ódysseifur konúngur kom á mannamót nokkur, eður þar sem fyrir voru gjafvaxta meyjar eða heldri manna konur, steypti gyðjan Aþena yfir hann mikilli fegurð, og gjörði hann jafnan stærri og mannborlegri en hann átti að sèr, svo að menn fengi þokka á honum, greiddi erindi hans og gjörði farir hans góðar. Ekki er ólíklegt að svo hafi verið, að Sigrún hafi átt að eitthvert verndargoð, er á líkan hátt og Aþena hafi aukið fegurð hennar ef á lá; þó höfum vèr þess ekki sannar sögur, og sýnist oss því rèttara að telja þær orsakir, er vèr hyggjum að verið hafi til þess, að hún að þessu sinni virtist að vera fegri og fríðari en hún var

vön′ að vera. Það er þá fyrst að telja að Sigrún var nýrisin úr rekkju eptir hægan og sætan svefn, og því var hún, eins og allar rósir, fegurst að morgni dags. Það teljum vèr þá, að hún hafði baðað hendur og andlit í köldu vatni en vatnið styrkir, lífgar og endurfæðir, og þó sólin sè ætíð fögur, sýnist mönnum hún samt aldrei skína jafnskær eins og þá hún er nýstigin úr Ránarlaug. Hið þriðja, sem studdi að því, að gjöra Sigrúnu sem fegursta í þetta skipti, var það, að hún lèt hárið falla laust, sem því var lagið, ofan um herðar og axlir, og ekkert prýðir fagra konu meira en fagurt hár, því það er eins og blómið á rósakollunum, eða laufið á eikinni, sem breiðist út og blaktir í sunnanvindinum. Húsfreyja tók eptir því, að Sigrún var venju fremur glæsileg ásýndum, og gat ekki gjört að sèr að stara á hana um stund, en segir síðan brosandi:

«Þú ert einhver blómarós í dag, Sigrún litla; hefði eg verið úng og átt unnusta að fagna, þá hefði eg viljað líta svona út eins og þú núna.»

En rètt í því að prestkona sleppti síðasta orðinu gekk maður inn í húsið, það var Þórarinn stúdent, hann ávarpar þegar systur sína blíðlega og segir:

«Heil og sæl systir góð! hvernig sæki eg að þèr?«

«Velkominn, bróðir sæll!» sagði prestkona, «þú ert sjaldsèður gestur um þessar mundir, þú situr lon og don við lesturinn og sèr mig ekki, systurmyndina þína, nema höppum og glöppum, nú skaltu gjöra svo vel, karl minn góður, og setja þig niður, þú skalt ekki komast undan því í dag, að standa við hèrna; settu þig niður hjá mèr, sætið er til reiðu, hvort sem þú vilt til hægri handar eða vinstri, eða á milli okkar Sigrúnar og nú er ekki í kot vísað, og það viltu, ef eg get rètt til, helzt, já þar skaltu sitja, eg skal láta hèrna kodda fyrir þig að sitja á.»

«Nei, nei, systir! hafðu ekkert fyrir því, eg sezt þar sem eg kem fyrst að, skoðaðu, hèrna fer ágætlega um mig» sagði Þórarinn og settist á kistil við fótalag systur sinnar.

«Þú kannt ekki góð ráð að þýðast, þetta gjörði eg nú fyrir þig, að bjóða þèr að setjast hèrna, eg vildi þú hefðir eitthvað að una þèr við.»

«Og það var, systir góð?»

«Eg á við morgungeislana, eru þeir ekki nógu fallegt leikfáng fyrir þig,» sagði prestkona.

«Eg skil þig nú ekki, systir! eg sè hèr enga sólargeisla.»

«Á,» sagði prestkona, «og lypti um leið með lófanum undir hárið á Sigrúnu, sem fèll ofan um herðar henni og sat á höfðalagi rúmsins, «hvað er þá þetta? Eru þær svona hárprúðar á Hólum?»

Þórarinn leit á og roðnaði við, og varð honum það ósjálfrátt, en lèt þó sem honum brygði ei við og sagði blátt áfram:

«Hárfagrar eru þær Hólameyjar sumar, ekki er það að efa.»

Prestkona leit framan í Þórarinn og sá að hann hafði tekið litaskiptum, hún kínkaði þá kollinum framan í hann og sagði:

«Nú, ekki ætlaði eg — en eg fyrirbýð þèr að líta framan í hana.»

Sigrún sat svo á kistlinum, að hún sneri andlitinu í við meira að glugganum heldur en að húsfreyju, og laut ofan í saumana og varð ekki sèð nema utan á hægra vángann, þaðan frá sem Þórarinn var seztur á rúmið, bæði af því að hún laut og sat nokkuð skakkt við; en í því að húsfreyja sagði þetta, bar svo við, að Sigrún leit upp og um leið sneri höfðinu þángað sem Þórarinn var og litu þau nú hvort framan í annað. Ekki var tillit þetta lángt, en svo var það lagað, að vel mættum vèr trúa því, að þeir sem vitað hefði hvað í því lá, gæti betur

ímyndað sèr það en fært það í letur. Sigrún grúfði sig undir eins aptur niður að saumunum, en prestkona hafði einlægt augun á þórarni bróður sínum og varð vör við, að hann leit við Sigrúnu. Hana rámaði naumast í hvað honum flaug í hug; en af því vel lá á henni, hèlt hún áfram í grandleysi og gamni því sem hún var byrjuð á, og segir:

«Sjaldan vinnst vel varaður glæpur, ert þú búinn að sjá hana Sigrúnu mína? — eg bannaði þèr það þó, er hún samt ekki lagleg? þyki þèr ekki stúlkan hafa tekið stakkaskiptum síðan þú sást hana síðast, áður en þú fórst í skólann?»

«Eg man ekki hvort eg hefi sèð hana fyrri, en þegar hún kom híngað núna um daginn,» sagði þórarinn, mikið ólíkindalætislega, «jú, það vænti eg hafi sèð hana einhverntíma.»

«Og eg held það, altènd þegar þá reiddir hana í fángi þèr.»

«Hvenær var það, heillin góð?» sagði Sigrún og leit upp aptur frá saumunum.

það skal eg segja þèr, það var þegar þú varst svo lítil, góða mín! það var þegar hann faðir þinn heitinn fór þar að Hlíð, þá flutti hann þig með sèr. Hann hafði með sèr tvo klyfjahesta, og þú varst bundin þar ofanámilli á öðrum, en þú varst óvær aumínginn, sem

von var, að ríða svona, og varst öðru hverju að skæla, og kendi eg í brjósti um þig, og bað bónda minn að lofa honum þórarni að fara með honum föður þínum fram eptir og reiða þig, það er ekki von að þú munir eptir því, þú getur ekki hafa verið eldri en á þriðja eða fjórða árinu.»

«Nú, mig minnir», sagði Sigrún og var blóðrjóð í framan, «að hún fóstra mín hafi sagt mèr að hún hafi reiðt mig þegar eg var flutt þar að Hlíð.»

«Og sussu! hana misminnir það; þú mátt trúa því sem eg segi, það var enginn annar en hann þórarinn bróðir minn, sem reiddi þig þángað, eg veit þú verður að muna eptir því þórarinn, þú varst orðinn 11 eða 12 ára gamall.»

«Og ekki man eg neitt eptir því,» sagði þórarinn hálfbrosandi.

«Manstu þú ekki eptir því, að hann þorsteinn heitinn gaf þèr silfurbúna svipu?» sagði prestkona.

«Jú, það man eg, að hann gaf mèr einhverntíma svipu, eg á hana enn, en hvenær það var sem hann gaf mèr hana, það man eg ekki.»

«það var þegar þú fylgdir honum og reiddir hana Sigrúnu litlu fram að Hlíð, svona er það,» sagði prestkona og sneri málinu til Sigrúnar, «ekki hèlt eg það þá, að það ætti að

liggja fyrir okkur, Sigrún litla, að vera saman, samt leizt mèr undir eins vel á þig, eg man að hann faðir þinn tók þig af baki á meðan hann stóð hèr við, og þá var þèr lofað inn á lopt; hún móðir mín heitin lifði þá, og man eg það eg sagði við hana, að þetta væri laglegt stúlkubarn, og þó leiztu ekki út til að verða svo afbragðs falleg eins og þú ert, og enn síður gat mèr dottið í hug, að þú yrðir slík hannyrða-Steinka sem þú ert orðin, góða mín, en lofaðu mèr nú samt að sjá hjá þèr.»

«Æ, verið þèr ekki að spauga mig, heillin góð! það er ekki gustuk» sagði Sigrún.

«Öllu gamni fylgir nokkur alvara, það er ekki svo mikið háð þó eg segi það; það má kalla þú sèrt orðin prýðilega að þèr, þó að einhverja megi finna sem kann fleiri sauma; þórarinn bróðir! ert þú ekki nokkuð kvennskur?»

«það er skrýtin spurníng, systir!» sagði þórarinn og brosir við, «jú eg held eg sè það, eg hefi einu sinni út úr kvennmannsleysi fest á mig einn axlabandahnapp, og það er víst, að enginn hnappur hefir loðað betur á mèr en sá.»

«Segðu ekki lengur, þú kannt þá að sauma, og þá hefir þú vit á að sjá hvort vel er saumað eða ekki; skoðaðu! eg ætla að bera undir þig, mèr þykir gaman að þeir dæmi sem hafa betur vit á en eg; hvor af þessum borðum þykir þèr

vera betur baldýraður? það hefir sín tilhaldsstúlkan gjört hvorn, en önnur er nú samt viðvaníngur.».

«Um leið og prestkonan sagði þetta, rètti hún að þórarni tvo borða baldýraða, en þegar Sigrún sèr það, ætlar hún að grípa borðana þegar þórarinn tekur við þeim, og segir: «verið þèr ekki að sýna þessa ómynd!» hún nær í borðana, en verður heldur sein, því að þórarinn hefir þá fengið handfesti á þeim og toguðust þau um hríð um þá, en bæði var það að þórarinn hafði alla yfirburðina, enda sleppti Sigrún fljótt og segir hálfömurleg:

«Æ, þèr áttuð ekki að vera að fá honum hann.»

þórarinn leit á báða borðana og segir: «þú ætlar, systir mín, að gjöra gys að saumavitinu mínu, en ekki er það svo að skilja að eg sjái ekki hvor þeirra er betur gjörður.»

«Vertu þá svo hreinskilinn að segja það, þó hún Sigrún sè við.»

«það er auðsèð,» sagði þórarinn og leit til Sigrúnar, af því hann hèlt að hún hefði saumað þann sem honum þókti lakari, að þessi er viðvaníngslegri.»

þèr þykir þá hinn fallegri, er ekki svo?»

«Jú,» sagði þórarinn og leit aptur framan í Sigrúnu, eins og honum þækti fyrir að verða að

styggja hana, því hann hèlt að hún ætti ljótari borðann, «já, eg verð að dæma það, og það er ef til vill engin undur, þú hefir máske baldýrað þennan sjálf systir!»

«Nei, eg sagði þèr það,» sagði prestkona, «að tvær júngfrúrnar hèrna nærindis hefði baldýrað sinn hvor; þú ert ekki svo fráleitur bróðir! þú sèr það sem allir sjá; hún Sigrún mín hefir nú samt saumað þenna, sem þú segir sè skárri, og eg trúi það sè í fyrsta sinni sem hún hefir reynt til að baldýra, eða er ekki svo?»

«Svo má það heita», sagði Sigrún, «fáið þèr mèr hann aptur, verið þèr ekki að sýna hann, það er ómynd.»

«Og ekki er það; en þú veizt ekki bróðir, hver hefir hannyrðað hinn,» sagði húsfreyja og leit kýmilega framan í Þórarinn.

«Það er held eg engin afbragðs hannyrðarófa,» sagði Þórarinn, «laufin eru öll ramsköKk.»

«Og það held eg hún kunni nokkurnveginn fyrir sèr til handanna, stúlkan sú, þú lastaðir hana ekki ef þú vissir hver það væri.»

«Hver hefir þá búið hann til?»

«Nú, það segi eg þèr ekki nema í eyra, komdu hèrna með vángann eg skal hvísla því að þèr» — um leið og hún sagði þetta hallaði hún sèr að hliðinni á bróður sínum og hvíslar

að honum svo lágt að Sigrún heyrði ekki: «konuefnið þitt, karl minn sæll!»

«Ha!» sagði þórarinn og kafroðnaði í framan, eins og hann hefði ekki heyrt hvað hún sagði.

«þú læst þá ekki heyra það, eg skal hvísla því aptur, komdu!»

«Þess gjörist ekki þörf, eg heyrði hvað þú sagðir systir! en eg er litlu nær fyrir það.»

«Æ gjörðu það fyrir mig, þórarinn bróðir! vertu ekki að þessum ólíkindalátum, það er verst þú þekkir hana ekki!»

«Nei, hvernig á' eg að þekkja hana?»

«þá skal eg segja þèr það,» þekkirðu ekki hana Staða-Gunnu?»

«Og skrattinn fjærri mèr,» sagði þórarinn.

«Talaðu ekki yfir þig, bróðir! þú veizt að það er betra að eta yfir sig; þú segir annað að ári um þetta leyti, og ef til vill fyrri, þegar þessar litlu hendur koma svona utan á vángann á þèr, bróðir minn!» sagði prestkona og strauk um leið um kinnina á Þórarni.

«Æ, láttu ekki svona,» sagði Þórarinn, önugur í svari.

«þá skal eg færa þèr heim sanninn síðar; það er sjaldan sem eg gjöri að gamni mínu, en fyrst þú vilt að við sleppum þessu tali, þá skulum við ekki tala meira um það að sinni.»

það lízt mèr systir!» sagði þórarinn, «það er fremur þarfleysa þetta hjal.»

«Jæja bróðir! eg skal ekki stínga á kaununum, en meðal annara orða, við Sigrún mín höfum verið að ráðgjöra að biðja þig bónar, en eg býst við að hún geti ekki haft uppburði á að nefna það við þig,» sagði prestkona og leit um leið til Sigrúnar, «því ætla eg að bera það upp; settu þig, karl minn, snöggvast að borðinu og skrifaðu fyrir okkur fallegt stafrof með snarhandarletri, við erum hèrna, við Sigrún mín, við og við að bera okkur að draga til stafs, en eigum enga forskriptina.»

þórarinn tók þessu máli vel; stóð hann nú upp og gengur að borðinu, tekur þar penna og pappír og sezt niður og tekur að rita forskriptina, voru það bæði óbreyttir og breyttir snarhandarstafir, og þar neðan undir var skrifuð vísa, sem almennt er að setja á forskriptir:

Skrifaðu bæði skýrt og rètt
svo skötnum þyki á snilli;
orðin standa eiga þètt,
en þó bil á milli.

þegar þórarinn hafði skrifað forskriptina, gekk hann til systur sinnar og fær henni hana, og lítur hún á og lofar mjög, rèttir hana síðan að Sigrúnu og segir um leið, að þórarinn væri

þess verður að hann væri kystur fyrir. Sigrún neitaði því ekki og játaði heldur ekki, og ekki vitum vèr með vissu frá að segja, hvað hún hugsaði um það mál; hún roðnaði út undir eyru, en þar eptir verður ekkert með vissu sagt hvort henni var nær skapi, en það veit trúa mín að ekki fèkk Þórarinn kossinn í það skipti, og var það bæði, að hann gekk ekki ríkt eptir, enda er óvíst hvað hann hefði afráðið, þó hann hefði átt þess kost. — En nú bar annað til tíðinda, svo þau systkin urðu að hætta öllum gamanræðum, því rètt í þessu var húsinu hrundið upp mjög hvatskeytlega, kemur þar inn kvennmaður og fer allgeyst — er það Guðrún ráðskona; hafði hún hlaupið svo hart upp loptstigann að því nær var lokað fyrir allt andrúm, stóð hún öll á blístri og gat í fyrstu ekki komið upp nokkru orði, en er hún náði að mæla, segir hún:

Þórarinn, prest — presturinn gjörir yður orð að senda sèr handbókina sína!

Þórarni varð nokkuð bilt við og segir: «Handbókina?»

«Já víst, handbókina, hann hafði gleymt að taka hana með sèr í morgun og vissi ekki af því fyr en hann ætlaði að fara að þjónusta kerlínguna, það er kominn piltur frá Hálsi, sem á að sækja hana, hann segir presturinn hafi sagt,

hún mundi annaðhvort vera í bókahillunni fram í stofunni, eður í kjólvasanum hans, en í vasanum er hún ekki, þar er ekkert nema klúturinn hans og tvær tóbaks tuggur, þèr verðið að fara fram, góður! og vita hvort hún er þar, því ekki þekki eg hana.»

Þessi atburður gjörði enda á samræðu þeirra systkina, og varð nú Þórarinn að fara í hanbókarleitina með ráðskonu. Kvaddi hann systur sína og Sígrúnu og gekk þegar fram, og er þess ekki við getið að hann kæmi að máli við systur sína aptur þann dag.

---

## SJÖUNDI KAPÍTULI.

---

Engi er svo ónýtur, at einugi dugi.

*Málsh.*

Ekki var samdráttur þeirra Þórarins og Sigrúnar búinn að standa lengi áður en menn þar á heimilinu fóru að hafa það í flimtíngum sín á milli, að meiri kunnugleikar mundu vera með þeim en svo, að ekkert byggi undir. Að sönnu höfðu þau alla þá varúð, er þeim virtist nægja til að firrast orð og eptirtekt manna í því efni, en í einu atriði eiga þjófarnir og þeir, sem unnast á

laun, sammerkt, og það er, að hvorutveggju þurfa á sömu list hvað mest að halda, og hvorutveggju flaska optast á henni, ef til lengda lætur, en sú list er að kunna kænlega að fela. Þórarinn og Sigrún voru viðvaníngar í þessari list, og því var það, að menn þóktust verða margs þess vísir, sem þeim þókti ekki grunlaust; nokkrir þóktust sjá, að þau Þórarinn litu hvort til annars hýrlegar en karlmaður og kvennmaður sem ekki hafa þel saman. Sumum þókti það bregða nokkuð kátlega við, að Þórarinn, optar nú en áður, vandi komur sínar upp á loptið til systur sinnar og sat þar stundum saman, og einkum sætti því lagi, þá er prestur var ekki við. Þá voru nokkrir, sem sögðust geta svarið það, að þeir hefðu sèð Sigrúnu optar en einu sinni í rökkrinu koma fram úr húsi Þórarins, er fáir höfðu umgöngur um nema hann og systir hans. Þessar og þvílíkar sögur gengu mann frá manni þar á bænum, og þó fór flimt þetta ekki hátt, enda höfðu menn getgátur einar og líkur, en enga vissu við að styðjast; þó var þar á staðnum piltur einn, er vissi nokkuð gjör um þetta efni en aðrir menn. ᵖiltur þessi hèt Finnur, og var Bjarnason, hann r alinn upp þar á Stað. Nú var hann orðinn ..lfvaxinn og kominn á átjánda ár. Finnur essi var miðlúngs vel þokkaður af heimilisfólki,

þókti hann heldur ófyrirleitinn og óvæginn í orðum, og smábrögðóttur. Vel var hann viti borinn og laglegur að smokka sèr úr vandamálum, er fyrir hann komu og sem stundum voru ærið mörg. En með því nálega hver maður átti sökótt við hann, þóktist hann ekki einhlítur úr að ráða vandræðunum, leitaði hann þá opt trausts hjá þórarni og skauzt undir skjaldarrönd hans; skarst þórarinn þá jafnan í og miðlaði málum og hèlt uppi sektum og fèbótum, enda var Finnur ekki jafntrúr eða fylgisamur nokkrum manni þar á bæ sem þórarni. það hafði eitt sinn borið við sem optar, að Finnur þurfti fljótlega að ráða úr vandamáli nokkru, og vildi nú leita ásjár hjá þórarni vini sínum og hljóp inn í hús til hans; dyrunum var læst og lykill í að utan, rykti hann í skyndi upp hurðinni og flanaði inn, en þá hittist svo á að Sigrún sat í kjöltu þórarins og hafði lagt handlegginn um háls honum. Nú var þá ekkert undanfæri, og sá þórarinn að ekki var annað úr að ráða en að biðja Finn að þegja; hann lofaði því, og hèlt hann vel heit sín, því aldrei lèt hann á sèr heyra við nokkurn mann, að hann þæktist verða þess vís, að þau þórarinn og Sigrún hefðu nokkurn kunníngskap saman. Guðrún ráðskona var meðal hinna fyrstu, sem þóktist sjá samdrátt þeirra þórarins og Sigrúnar, enda fór það að öllum líkindum,

að hún öðrum fremur tæki eptir háttum þeirra. Leið nú ekki á löngu, áður hún bar mál það upp fyrir séra Sigvalda og krafðist þess, að Sigrún væri þegar flutt aptur til Hlíðar. Prestur varð í fyrstu afarreiður, en stillti sig þó vel, og bað Guðrúnu láta fátt yfir: «og vil eg», segir hann, «gjör vita hvað í efni er um þetta mál, uggir mig að þau muni ekki lengi fá dulizt, ef svo er sem þú hermir, en þess tel eg alla von, að Þórarinn mágur muni segja þetta álygar einar, nema eg megi nokkur gildari rök til færa, en síðan mun eg taka þau ráð er vænst þykja og skal þá Sigrún heim fara». Að svo búnu fella þau talið og líkaði Guðrúnu þó hvergi vel, að Sigrún var ekki þegar brott rekin. Hugsar prestur nú, hvernig hann megi bezt fá fulla vitneskju um, hvort nokkur tilhæfa sè í því, er menn voru farnir að flimta um þau Þórarinn og Sigrúnu.

Þar á staðnum var maður nokkur, ef mann skyldi kalla, hann hèt Hjálmar og var kallaður tuddi; hann var niðursetníngur, og svo hafði hann verit alla æfi eptir það foreldra hans misti við, og var hann þá hálffertugur að aldri. Hann var ybbinn í skapi og hverjum manni hvumleiður. Það var hvorttveggja, að Tuddi kunni lítt til verka, enda var hann svo kargur og illur viðureignar, að nálega fèkkst ekkert af

honum til starfa; vildi hann heldur þola högg og barsmíð, en að vinna annað en það, sem honum líkaði sjálfum, og svo var hann vandfýsinn og heimtufrekur um flest, að varla mátti gjöra honum nokkuð til hæfis. Ekki þókti smábændum dælt að hafa Tudda í vist og var hann því jafnan ætlaður presti til framfærslu, eða öðrum þeim hreppsmönnum, er voru í heldri bænda röð; fór hann millum þeirra, og var sitt árið hjá hverjum, enda vildi hann ekki annarstaðar vera en á stórbýlum, því þar þókti honum betra til fánga en á kotbæ. Ekki var æði og látbragð Tudda svo sem þeirra manna, sem eru með fullu viti, eða siðlátir heita, og að öllum háttum og látæði líktist hann meira fífli og fordæðu en mennskum manni, fyrir því var það almæli, að hann væri umskiptíngur. Foreldrar hans höfðu búið þar á einum bæ í sveitinni og áttu son einn barna; hann var vatni ausinn og nefndur Hjálmar eptir föður-föður sínum. Sveinninn óx og dafnaði vel og rann upp sem fífill í túni og var bæði fríður sýnum og skýr vel, hèldu allir að hann mundi verða laukur ættar sinnar þá er hann þroskaðist; en er hann var þriggja vetra, bar svo við eitt skipti seint á engjaslætti um sumarið, að enginn maður var við bæinn, nema sveinninn og móðir hans; var hún að búverkum inni í bæ, en skildi sveininn

eptir úti á hól einum þar í túninu, sem kallaður er Álfhóll, lèk hann sèr þar að öðum og gimburskeljum. Skömmu síðar vitjaði húsfreyja sveinsins, var glókollur sonur hennar þá horfinn af hólnum, en þar kominn aptur piltur svartur á háralit og skeggjaður á höku; hann var líkur á stærð því sem sonur hennar hafði verið, en allur var hann ófrýnni og ylgjulegri. Var Hjálmars glókolls leitað lengi, en hann fannst aldrei. Þeim hjónum þókti súrt í broti um sonar hvarfið og vissu, að sonur þeirra hefði heillaður verið, en ólu þó upp svein þenna og nefndu hann Hjálmar eptir hinum, var hann snemma stirður og óþjálgur og varð ekki að manni. Þetta var hinn sami, sem vèr höfum frá sagt, að kallaður var Hjálmar tuddi. Ekki hafði Hjálmar annríki mikið á staðnum, þó var honum ætlaður sá starfi, að bera út ösku og sækja vatn ef stór nauðsyn bar að hendi, og vann hann það allajafna með nuddi og af nauðúng. Korn skyldi hann mala hvern dag úr skál nokkurri, er tók sex merkur, en ógjarna entist honum þó dagur til að afkasta þessu ætlunarverki sínu, og kvartaði hann sífelt um annríki og áníðslu, ef hann var kvaddur til nokkurs handarviks, enda varð honum ærið frátafasamt möluninni, er hann hafði að mörgu að hyggja: fyrst og fremst að gæta þess, að enginn

annar en hann yrði aðnjótandi skófnapottsins í hvert skipti sem eldað var; þessu næst varð hann að vera allstaðar þar sem nokkurs fengjar var að von, bæði í búri og eldhúsi. Nú þótt að Tuddi hvorki væri mikil bæjarprýði, eður störf hans væri til mikillar stoðar fyrir bú sèra Sigvalda, hafði þó prestur meiri not af honum en margan mundi gruna. Tuddi var allstaðar nærri, snagaði niðrí hverri kyrnu, sem til var á heimilinu og nálega ávalt aptan við vinnufólkið; en af því flestir töldu hann hálffábjána, vöruðust menn hann ekki, og varð hann á þann hátt margs þess vís og margs þess áheyrandi, sem fara átti dult. En Tuddi var ekki svo heimskur, að hann gæti eigi tekið eptir því, sem honum leizt, og með því hann hafði komizt á snoðir um, að presti geðjaðist allvel að því, að honum væri sagt frá hinu og þessu, sem við bar á heimilinu og leynt átti að fara, var hann í nokkurskonar kærleikum hjá sèra Sigvalda, og þó heimuglega, því hann gat opt vonum framar greinilega skýrt presti frá ymsu, er hann hafði sèð og heyrt, og þáði jafnan nokkur laun fyrir, en til þess voru allir refarnir skornir fyrir Tudda. Þenna sama dag, sem prestur og Guðrún áttu tal saman og vèr fyrir skömmu höfum frá sagt, komu gestir nokkrir að Stað og er þess ekki getið hverir

það voru; þeir dvöldu þar til þess fram um kveikíngu, en fóru síðan, var prestur enn fram í stofu og stóð ljós á borði. Tudda hafði þann dag ekki tekizt sem greiðast mölunin, sat hann allan daginn á palli og gambraði við griðkonur, en er tók að líða fram á vökuna, rak ráðskona hann ofan og bað hann nú draga af sèr slensíuna og mala úr skálinni, ella mundi hann ekki mat hafa það kvöld. Ekki fór Hjálmar orðalaust til mölunarinnar, en þó varð svo að vera sem ráðskona vildi; drattaði hann nú fram göngin og er hann kemur gagnvart stofudyrum, sèr hann að stofan er í hálfa gátt og leggur birtuna fram í bæjardyrnar, en um leið og hann kemur gagnvart stofu dyrunum verður honum litið inn í stofuna, og sèr hann að þar stendur matardiskur einn á borðinu með nokkrum kjötleifum. Enginn karlmaður lítur nokkurntíma hýrari augum á konur, en Hjálmar leit til matar; getur hann nú ekki stillt sig um að staldra ögn við fyrir framan dyrnar, og renna augum til disksins; stendur hann þar um hríð þegjandi og stígur fram á fótinn, en er hann verður þess vís að prestur verður ekki var við komu hans, tekur hann það ráð að hann hóstar. Prestur sat við borðið í stofunni og var að lesa brèf, hann lítur upp, er hann heyrir hóstann og kallar fram og segir:

«Er þarna nokkur?»

«Ójá, það er kvikindi; eg sá blessað ljósið.»

«Nú það ert þú, Hjálmar minn», sagði prestur.

«Ójá, það er greyið hann Tuddi; má eg setja lappar-skarnið hèrna inn?«

«Ójá, Hjálmar minn, en hvað er þèr á höndum núna?»

«Það er nú margt, sem eg þarf að tala um við yður, blessaður húsbóndi minn, mèr þykir ekki allt réttilega við mig breytt af sumum, eg segi það eins og það er.»

«Hvað er það, Hjálmar minn?»

«það er nú fyrst um skófnapottinn, eg man ekki betur en þèr segðuð og hafið sagt, að enginn ætti að hafa hann nema eg, þegar grautur er gjörður, og því þykist eg eiga hann með öllum rètti, og verð að lýsa þá þjófa að honum, sem ræna mig pottinum; eg skil ekki það sè rèttvísi, að það megi ekki standa sem þèr hafið talað.

«það getur verið,» sagði prestur hálfhlægjandi, «að eg hafi sagt einhverntíma, að mèr þækti sanngjarnt að þú fengir hann, eða færðu hann ekki, Hjálmar minn?»

«Misbrestur ætla eg verði á því, — má eg setja lappar-skarnið inn fyrir þrepskjöldinn? — Já, eg vildi mælast til þess, að þèr hlutuðust

til að eg mætti halda skófnapottinum refja og afdráttarlaust; en það er ekki til neins þó eg nuddi og suði um það, mèr er ekki gegnt; eg hefi nú í dagstæða tvo sólarhrínga ekki sèð svo mikið sem naglsrótarstærð af skóf; í fyrra kvöld var bèuð trippan hún Sigga búin að krafsa alla skófina úr honum, svo ekki var eptir nema baugarnir utan með, og í gær voru hundavarg-arnir búnir með alla lífs-tilveru úr honum, og var það af því eg gat ekki undir eins viðsnúizt að taka hann, þegar búið var að skamta, en bágt er manni að vera allstaðar í sömu andránni, og ekki mátti það hyskið gjöra svo mikið að láta mig vita af, svo eg gæti tekið hann, það varast það eins og glóandi eld, að gjöra manni nokkuð til greiðviknis, hyskið hèrna.»

«Þú verður að eiga það við ráðskonuna, Hjálmar minn, að þú fáir skófnapottinn reglu-lega,» sagði prestur.

«Já, já, það er nú gott, prestur minn góður, að eiga við hana, ráðskonuna hèrna, eg ætla það fari eins og um skálina. Það var nú ann-að, sem eg ætlaði að tala um, og þèr megið ekki leiða hjá yður; mèr finnst það eigi að fara að herða á mèr með mölunarverkið, hún er nú sumsè farin að taka uppá því, blessuð ráðskonan yðar, að láta skálina vera kúfaða, eg veit ekki hvaða lög eru til þess, að hún sè

kúfuð; mèr sýnist það vera fullnóg, þó það sè ekki hrúgað í hana, svo að strýtan standi upp í loptið eins og tindur á fjalli, eða fjallsgnípa; eg vil fá að heyra það af yðar eigin munni, hvað mikið á að vera í henni gípu, þegar mèr er fengin hún, og hvort það á að sálga mèr gjörsamlega, eins og það ætlar sèr.»

Á meðan Tuddi lèt þessa dælu ganga, var hann smátt og smátt að mjaka sèr innar eptir stofugólfinu, og um leið að skotra augunum að leifa-diski þeim, er þar stóð; prestur sá gjörla, hvar Hjálmar tíðast hafði augun, en lèt samt sem hann sæi það ekki; en eptir því sem Hjálmar færðist nær, eptir því tók honum að verða starsýnna á diskinn, og loks getur hann ekki stillt sig lengur, og segir:

«Á, já já, eitthvað sýnist mèr blessaður húsbóndinn eiga fallegt fyrir framan sig núna!»

«Hvað er það, Hjálmar minn?»

«Á, já já, blessaður presturinn sèr þá ekki það sem eg sè,» sagði Hjálmar og stè fram á fótinn og nèri saman höndunum.

«Nei, Hjálmar minn,» sagði sèra Sigvaldi og brosti.

«Blessað kindarbrjóst.»

«Nú skil eg; þig mun gilda einu þó þú fengir dálítinn bita?» Að svo mæltu tekur prestur þar af diskinum kjötflykki eitt og rèttir

að Tudda, en hann tekur við báðum höndum og segir:

«Látið þèr í lúku-greyin! nú er að vita hvort lúku-skörnin taka ekki við því, sem að er rètt, en allt er ónýtt nema blessaður húsbóndinn gjöri góðverkið líka.»

«Það skil eg ekki,» sagði prestur.

«Eitthvað mun nú blessaðan húsbóndann ráma í góðverkið; nú hefir enginn gjört góðverkið síðan blessað lambið hann Þórarinn yðar gjörði það seinast.»

«Hvað áttu við, Hjálmar minn?»

«Að blessaður húsbóndinn gjöri ögn við sálar-skarnið, vökvi ögn sálar-greyið, og helli dropa á silfrið.» Um leið og Hjálmar segir þetta, lítur hann til þrífætts silfurstaups, er stóð þar á borðinu; prestur sèr það, og veit nú hvað Hjálmar á við; hann tekur þá flösku er þar var og skenkir á silfurstaupið og rèttir að Hjálmari og segir:

«Þetta mun vera góðverkið, sem þú átt við».

«Ójá, blessaður húsbóndi minn,» sagði Hjálmar og setti á munn sèr og rètti aptur að presti, «Guð launi yður, nú hýrnaði brjóstið, ójá! — já, nú kom velgja fyrir brjóstið, það var líka hærra í góðverkinu en um daginn, þegar hann Þórarinn minn lèt í það, þá var það ekki nema hálft, en nú var það fullt eða nærri fullt.»

«þèr er víst vel til hans Þórarins fyrir það, Hjálmar minn,» sagði prestur.

«Mèr er heldur hlýlegt við hann, hann er nú sá eini hèrna á bænum, fyrir utan yður, sem ekki leggur illt til mín; en það getur nú ekki, bannað hyskið hèrna, látið hann vera í friði, held eg.»

«Já, já?»

«Nú, eg held þèr vitið það, blessaður húsbóndi minn! hèrna um hann og dúfuna hèrna, nýkomnu dúfuna með gullhárið og konubrjóstin.»

«Nú, nú, ekki hef eg heyrt það.»

«Já, eg heyri það er að stínga saman nefjunum um það hèrna, að honum þyki vænt um dúfuna og blessuð brjóstin á dúfunni, he, he.»

«Hvað er þessi dúfa, Hjálmar minn?»

«Æ, eg kalla hana svo dúfuna frá Hlíð,» sagði Tuddi.

«Nú, nú, þá skil eg,» sagði prestur, «heldurðu það sè þá satt, Hjálmar minn?»

«Nú, ekki veit eg það; — já, nú er ekki neitt í silfrinu,» sagði Hjálmar lágt og leit í staupið, «eg heyri það segir það, hyskið.»

«þig lángar þá í meira Hjálmar minn, eg held eg verði að gefa þèr hálft staup í þetta sinn, taktu við; hefurðu nokkurntíma sèð dúfuna hjá honum?»

«Já, lofið þèr mèr nú, blessaður prestur

minn, að súpa úr silfrinu — já, eg sè að dúfan kemur stundum á daginn, undir rökkrið, fram í bæjardyrnar, og svo kemur einhver, ójá, ó nefndur á eptir, he, he.»

«Og hvað gjöra þau þar?»

«Æ ekki veit eg það, eg held dúfurnar stíngi svona saman nefjunum og kvaki þar saman.»

«Hvað tala þau þá, Hjálmar minn?»

«það heyri eg ekki fyrir nuddinu í meinvættinu.»

«Hvaða meinvætti?»

«Meinvættinu henni kvarnarkind, sem er búin að drepa mig, og svo fara dúfurnar út.»

«Og hvert heldurðu þá, að þau fari?»

«það gæti eg ekki vitað, nema að eg færi þá í humáttina á eptir.»

«það ættirðu að gjöra, Hjálmar minn,» sagði prestur í hálfum hljóðum, «svo þú vissir hvert þau færi, og segja mèr svo frá því,» og þá hnippaði prestur í hann, «og mundu mig um það; þú þarft ekki annað en hósta þrisvar fyrir framan húsdyrnar; en nú held eg þèr sè bezt að fara að mala, svo þú getir orðið búinn í kvöld með ætlunarverkið.»

«Já, en hvað verður þá úttalað um skófnapottinn, eg vil ekki eiga í þessu lengur, því annaðhvort á eg hann með rèttu eða ekki, og

þá getur það regerað og rassakastast með hann, eins og það vill; en eg vildi mælast til að þèr skærist í, að það yrði betri regla á þessu hèr eptir.»

«Jæja, það verður talað um það við ráðskonuna, Hjálmar minn, en farðu nú að mala og mundu eptir því sem eg sagði þèr.»

Við þessi orð gekk prestur út, en Hjálmar labbaði að kvörninni og sezt niður við hana og segir við sjálfan sig:

«Já, nú kemur til hún strýta.»

Um það mund sem þeir Hjálmar og prestur áttu talið í stofunni, kemur Finnur Bjarnason fram, verður honum litið inn í stofuna um leið og hann gengur fyrir, og sèr að Hjálmar stendur þar tvístígandi fyrir framan borðið; hann lángar til að forvitnast um hvað þeir tali, læðist að dyrunum, og leynist við krók einn baka til við hurðina og hlerar eptir viðræðu þeirra; heyrir hann þá hvað umræðu efnið er, og það með, að prestur vill veiða eitthvað upp úr Hjálmari um þau Þórarinn og Sigrúnu. Dettur honum það þá í hug, að gaman mundi það vera ef hann gæti leikið á prest, og hugsar nú um það á allar lundir hvernig hann megi því fram koma; og er hann sèr að prestur og Hjálmar ætla að gánga úr stofunni, víkur hann sèr fram í anddyrið og urðu þeir ekki varir við hann, en dimmt var.

Svo var varið vinfengi þeirra Hjálmars og Finns, að jafnan valt á ymsu. Stundum voru þeir svo miklir mátar, sem þeir hefðu gengið undir jarðarmen og blandað blóði saman; en aptur þess í milli börðust þeir og bitust sem graðhestar. En er Tuddi var seztur að kvörninni og bjó sig sem bezt til mölunarinnar, rennir Finnur sèr fram úr skotinu, og þar að sem Hjálmar situr, verður hann ekki fyr var við, en gripið er með báðum höndum ofan í höfuð honum og það heldur óþyrmilega. Tuddi hafði á höfði sauðsvarta kollhúfu, en undir húfunni var ekki allt sem hreinast; hafði hann þar meiri óværu en á þyrfti að auka, og verður hann nú ákaflega reiður og stökkur upp hart og títt og segir:

«Það vildi eg fjandinn sjálfur í neðsta horngrýti klypi þig og kreisti með glóandi járntöngum fyrir bölvaða hrekkina.»

«Fallega syngur í tálknunum á þèr núna, Tuddi,» sagði Finnur.

«Já það vildi eg, að eg gæti formælt þèr svo, að þú ættir ekki neinstaðar vært, hvorki á himni nè jörðu, nè undir jörðu, og hvergi nema hjá gamla karlinum, fyrst þú lætur mig ekki í friði».

Láttu ekki svona, Tudda-tetur; eg var að líta eptir því að húfu-pottlokið festist ekki niðri í skalla-skömminni á þèr.»

þú þarft ekki að gæta að því, hún er ekki svo föst við hann eins og skammirnar við þig. Þú gengur eins og logi yfir akur, landeyðan þín, og hefir ekkert að gjöra annað en áreita þá, sem eru eitthvað að basla og sveitast blóðinu, eins og eg.»

«Heyrið á endemið, þykist þú sveitast blóðinu?»

«Já, verð eg ekki að gánga fram af mèr dauðum við óvættið allan daginn; en hvað gjörir þú?»

«Og garmskinnið! þú átt þá eptir að mala úr skálinni, vænti eg,» sagði Finnur.

«Láttu sem þèr komi það ekki við, eða varstu beðinn að spyrja að því?» — mælti Tuddi.

«Nei, eg ætlaði að bjóða þèr að snúa sundur tvær eða þrjár kvarnir.»

«Já, eg held þú gjörir slag í því.»

«Svei mèr ef eg skal ekki gjöra það, ef þú lætur eins og maður.»

«Það er þá ekki víst hvort eg vil þiggja það af þèr — en þá læt eg líka svo mikið sem kemst í augað á meinvættinu.»

«Það mátt þú,» sagði Finnur og settist á meis einn, er stóð þar hjá kvörninni og tók að mala, en Hjálmar situr þar hjá honum, og tekur úr barmi sèr kjötstykki það, sem prestur hafði

gefið honum; rennur honum nú brátt reiðin og á litilli stundu eru þeir Finnur orðnir sáttir og sammála, og tala í mesta bróðerni hvor við annan um hitt og þetta. Loks snýr Finnur ræðunni í þá átt, að hann spyr hvar Tuddi hafi fengið kjötstykkið hið mikla, og hvað það hafi verið, sem prestur hafi verið að tala við hann þar í stofunni, er Hjálmar var þar hjá honum. Tuddi er mjög dulur á því, og lætur sem umtals efnið hafi ekki verið að miklu marki. Tekur Finnur til þess ráðs, sem hann vissi að mundi verða drjúgast og segir:

«Nú mala eg ekki ögn meira fyrir þig; eg er búinn með fjórar kvarnir, þú getur malað það sem eptir er.»

«Já, þú lætur þig ekki muna um það sem eptir er í skálinni.»

«Nei, fari eg þá og veri,» sagði Finnur, «ef eg mala meira; lítill vegur hefði verið til þess ef þú hefðir viljað segja mèr hvað presturinn var að tala við þig.»

«Jæja, þá verður þú að sópa kvörnina og láta í skálina.»

Finnur segir svo skuli vera.

«Og lofa mèr því uppá þína æru og trú, að segja ekki frá því, — hann var að spyrja mig að, hvort eg hefði ekki sèð hann Þórarinn hèrna

kjánka neitt við dúfuna, og hvort þau gengi, þegar þau fara út fyrir rökkrið á daginn.»

«Þetta var þá allt leyndarmálið,» sagði Finnur.

«Já, en þú mátt nú ekki svíkja mig um það, sem þú lofaðir mèr, að mala úr skálinni og sópa.»

Finnur lèt sem hann hefði ekki unnið svo mikið til, ef hann hefði vitað hve ómerkilegt mál þetta var; en aptur þókti Hjálmari sem töluð orð yrðu ei aptur tekin; kýttu þeir nokkuð um þetta, en svo fór, að Finnur malaði úr skálinni; sagði hann þá Hjálmari frá í trúnaði, að hann væri búinn að komast eptir háttalagi þeirra Þórarins og Sigrúnar; væri þau vön á hverju kvöldi að fara út í fjárhús eitt, sem var þar á túninu skammt frá bænum, og dvelja þar um stund. Skildu þeir nú talið að svo búnu, að hvor hèt öðrum að láta ekki bera á viðtali þeirra. Tuddi vissi nú, at efndir ymsra loforða eru, eins og flest annað, komið undir atvikum, og er hann skoðaði huga sinn um þetta mál, fannst honum helzt á það lítandi, hvort Finni gæti orðið það að nokkru meini, þó fleiri vissi af; þetta gat hann ekki sèð. Aptur gat honum vel skilizt að það mætti verða sèr til hagnaðar, ef hann segði presti frá, hvers hann væri orðinn vísari um hagi Þórarins.

---

# ÁTTUNDI KAPÍTULI.

Ei er forvitnin öllum hent,
einatt hún skaðar drótt.
Jón Þorláksson.

Nú líður hinn næsti dagur eptir viðtal þeirra Finns og Hjálmars, og kemur annar dagur þar eptir; veður var þá hreint og kalt. Nú bar ekki til tíðinda, þar til líður að úthalli og situr prestur að venju í loptherbergi sínu, en Sigrún gengur ofan, og skömmu á eptir heyrir prestur að hóstað er þrisvar sinnum á baðstofu lopti ekki alllágt, kennir prestur, að það er Hjálmar sem hóstar, og skilur hann hvar þá muni vera komið málunum og gengur fram. Tuddi stendur þá tvístígandi hjá stofudyrum og bendir presti, að hann vili tala við hann. Er nú skjótt yfir sögu að fara, að Tuddi segir presti hvers hann sè vís orðinn um hagi þeirra Þórarins og Sigrúnar, og að þau sè vön að hittast í sauðahúsinu; segir hann og, að nú sè dúfan farin út og muni þess skammt að bíða, að Þórarinn komi á eptir, ef hann hafi ekki farið meðan Tuddi gekk upp á loptið að hósta. Presti virðist saga Tudda allkynleg; gjörir samt

för hans sæmilega og tekur síðan hatt sinn og vetlínga og gengur út; þókti honum engu í spillt, þótt hann prófi, hvort nokkuð sè tilhæft, en vill fyrir hvern mun vita gjör um þetta efni. Enginn maður varð var við ferð prests, nema Finnur Bjarnason, hann hafði verið á hnotskóg og fór í humáttina á eptir presti; hann sèr, að prestur gengur til sauðahúss og fer þar inn, og lætur hurðina falla að staf á eptir sèr. Finnur læðist nú að húsdyrunum og sèr inn um rifu eina, sem var á hurðinni, að sèra Sigvaldi gengur í garðanum fram með jötunni, þángað sem mætist geilin og jatan og sezt þar niður. Dyraumbúníngurinn fyrir sauðahúsinu var þannig, að dyratrè stórt lá á kömpum, í það voru greyptir tveir sterklegir dyrastafir og að neðan felldir í aurslá. Hurðin var traust og á nýjum járnum, og í henni járnhespa mikil, er smeygt var upp á keng, sem var í öðrum dyrastafnum; úr hurðinni hèkk snæri og loka stór úr hvalbeini og var henni stúngið í kenginn fyrir framan hespuna. Finni kemur það nú í hug, að hann tekur hespuna og læðir henni hægt og hægt uppá kenginn, og rekur síðan lokuna fyrir framan, gengur síðan til bæjar og lætur sem ekkert hafi í orðið; líður svo fram til rökkurs og gætir þess enginn hvar prestur er. Líður enn rökkrið, og eru ljós kveikt, tekur nú hús-

freyju að þykja kátlega við bregða um burtuveru bónda síns, og fer að skyggnast eptir, hvar hann muni vera; finnst hann nú ekki og þykist enginn til vita hvert hann sè farinn. Hún leitar nú með ljósi um allan bæinn, og finnur ekki að heldur; getur hún þess nú til, að hann mundi hafa gengið sèr til skemtunar til næsta bæjar, þótt hann ekki væri vanur því, er hattur var brott tekinn, og lætur hún nú um sinn frestað leitinni. En það er nú að segja af sèra Sigvalda, þar sem hann situr í geilinni, að hann hyggur fyrst gott til, að á þenna hátt muni hann geta satt forvitni sína um háttalag þeirra Þórarins og Sigrúnar, og bíður hann nú um stund, í þeirri von að þau þá og þá muni koma þar í húsið. Loks kom þó svo, að honum virðist tvísýni á, hvort sú muni raun á verða, að hann verði nokkru að vísari í það skipti; tekur nú mikið að rökkva. Hann bíður enn um hríð, og til þeirrar tíðar sem hann átti von á að smalamaður mundi koma og láta inn sauði; vill hann nú fyrir hvern mun vera kominn úr húsinu áður smalamaður kæmi. Honum datt það þá í hug, að þar hann á annað borð hefði komið inn í húsið, skyldi hann hafa þau not af ferðinni, að skoða um leið til heyja. Heyið við húsið var all-lángt og breitt, en sigið mjög og flatt, er borið hafði verið á það grjót mikið

að utan. Ekki var búið að gefa heyið mjög, því vetur var góður og stóð stabbi mikill í miðri tóptinni og sín geil hvorum megin, náðu þær allt fram með veggjunum inn að gafli. Prestur gengur nú fyrst í hina syðri geilina, og virðist honum þar all-lítið gefið, og snýr nú til hinnar nyrðri geilarinnar. Þessi geil var dimm mjög og enginn gluggi á; hún var sýnu breiðari en hin syðri, og svo há að hann mátti gánga þar því nær upprèttur. Sauðamaður hafði gefið allt upp að torfi, og með því hann uggði, að torfið mundi ekki geta haldizt uppi og falla niður í geilina ef frostið hlypi úr, hafði hann lagt flata spítu undir torfið, sem var yfir geilinni og rekið þar undir stoð eina. Prestur fór inn eptir geilinni og fylgði heykleggjanum; en er hann kom innar í geilina, verður hann var við heyhrúgu nokkra og leggst á hnè hjá henni og skoðar, og finnur að það er moðbýngur, reiðist hann sauðamanni, er hann hafði skipað honum að bera moðið til hesta, en láta það ekki safnast fyrir í tóptunum; en í þessum svifunum verður honum það, að hann spyrnir óvart fætinum aptur fyrir sig og lendir það í stoðinni, svo hart, að hún skreppur undan þekjunni og fylgir þar með öll torfspildan, er yfir var geilinni framanverðri og ofan á prest, svo honum lá við bana; verður klerkur þar sem mús undir fjalaketti, og getur

lengi ekki hrært sig; loks tekst honum þó við illan leik að skríða undan torfinu og innar í geilina, var þar fyrir autt rúm nokkuð, þar sem þekjan ekki að öllu fèll að heyinu; þó var rúm þetta ekki til hlítar fyrir líkama hans, því ekki mátti hann þar upprèttur standa og engu bolmagni gat hann þar við komið eða þokað torfinu frá. Ekki þóktist sèra Sigvaldi annað skipti í krappara komizt hafa, og varð honum það nú fyrir, að hann ýmist bað fyrir sèr eða blótaði torfinu, og ekki jók það heldur lítið á hugraunir hans, að hann heyrði að sauðamaður kom í húsið og byrgði sauðina. Sèra Sigvaldi kallar nú svo hátt sem hann mátti, en bæði var það, að honum lá ekki hátt rómur, og þó hitt heldur, að svo hátt lèt í sauðunum er þeir ruddust á jötuna, að sauðamaður gat ekki greint, hvað það var er hann heyrði inni í tóptinni; virtist honum það líkara ámátlegu ýlfri en manns raust, enda átti hann þar ekki manna von; hugsar hann því helzt að þar væri fjandi eða forynja nokkur í tóptinni, verður hann fullur felmturs og flýtir sèr sem mest hann má að komast út; hann keyrir aptur húsið, og hleypur síðan sem fætur toga til bæjar, hefir hann það í dylgjum um kvöldið, að eigi muni smábörnum hent að vera í sauðahúsi þá nótt; en í annan stað er það að segja af sèra Sigvalda, að honum þykir sitt ráð

taka að horfa óvænlega, er hann verður þess vís; að sauðamaður er farinn aptur úr húsinu; hyggst hann nú enn að gjöra þess nokkra raun, hvort hann megi ekki losast úr kvalastað þeim, er hann var í kominn; brýzt hann nú um sem hann má í geilinni, en allt fór að einu; sèr hann þá ekki annað sýnna, en að hann muni þar lífið láta um nóttina fyrir kulda sakir og þreytu og þykir honum sá dauði illur. Dettur honum þá í hug, að hann hafi lesið það í fornum bókum, að sumir menn, er staddir voru í háska, hafi heitið á helga menn sèr til athvarfs og árnaðar, eður gjört áheit að gefa nokkuð til kirkna eða klaustra, og hafi það jafnan komið að góðu haldi; virðist honum eigi ólíklegt, að svo megi enn vera, og gjörir hann nú það heit, að hann skuli gefa kirkjunni á Stað nýja altarisbrún, ef hann komist með lífi úr tóptinni. Nú líður enn stund svo, að ekki liðkast um hag prests.

Þar víkur aptur sögunni að, sem Finnur hefir lokað fjárhúsinu, þá gengur hann til bæjar og fæst ei um og situr á palli, kemur nú sauðamaður, en prest vantar. Það þóktist Finnur skilja, að nokkuð hefði tálmað fyrir presti þar til sauðamaður lèt inn sauðina, en hitt þykir honum kátlega viðhorfa, er klerkur kemur ekki með sauðamanni; vill nú forvitnast um, hverju

þetta gegni; gengur hann þá út og til sauðahúss og lýkur upp, eru þá sauðir lagztir og jórtra með kyrð og spekt. Hann smokkar sèr þá inn á milli þeirra og fer inn eptir garðanum, heyrir hann þá stunur miklar í tóptinni. Finnur stígur upp í jötuna og vill innar eptir geilinni þángað sem hann heyrir stunurnar, en rekur sig brátt á torfdýngjuna sem fallin var niður í geilina, þótt ekki vissi hann með hverjum atburðum það hefði orðið; grunar hann nú sem var, að prestur muni vera fastur þar í geilinni. Kallar hann nú inn í geilina og segir:

«Er það maður eða fjandi sem er í geilinni, eða hvað?»

«það er maður,» svaraði sá sem var í geilinni allmæðilega.

«því læturðu svona, eða ertu fastur þarna, ha?» sagði Finnur.

«Já, eg er nærri dauður hèrna undir bölvuðu torfinu; berðu þig að hjálpa mèr til að rífa það frá að framanverðu,» var svarað í geilinni.

«Ha, hvað segirðu?»

«Eg segi: rífðu frá torfið, ef þú getur,» sagði prestur.

«það get eg ekki,» sagði Finnur, og fór að vita hvort hann gæti þokað nokkru til, en fann að hann gat ekki bifað neinu, því öll spildan lá samföst og gaddfreðin niðri í geilinni. — «því

verður ekki bifað, en eg skal fara og kalla á piltana að hjálpa mèr.»

«Nei, það banna eg þèr,» ansaði prestur í geilinni.

«Þú getur þá setið þar svo lengi sem þèr líkar,» sagði Finnur.

«Farðu heldur út og upp á tóptina að utanverðu, hèrna er dálítil smuga sem eg sè út um, berðu þig að rífa þar til svo eg komist út.»

Finnur hleypur nú út og upp á tóptina og heyrir hann þá til mannsins og leitar eptir gatinu og finnur það. Gat þetta var ekki stærra en svo, að sèra Sigvaldi gat stúngið út um það bláneflnu, og sèr til fróunar við og við sèð rönd af túnglinu sem óð í skýjum. Af hitanum, sem hafði lagt upp af manninum, hafði torfið ögn þiðnað, svo að hann gat með nöglunum búið sèr til þessa smugu, til að horfa út um. Nefið á sèra Sigvalda var einkennilegt mjög, og auðþekkt, og þó holan væri ekki stór, gat þó Finnur glöggt sèð, að það var nef húsbónda hans er lèk þar við holuna. «þar á eg úlfs von, sem eg eyrun sè», hugsaði Finnur, og dettur honum nú ekki framar í hug að efast um, að það sè húsbóndi hans, er þar var svo nauðuglega staddur, lætur hann samt sem sèr komi það mjög á óvart og segir:

«Nú — það eruð þá þèr, húsbóndi minn góður! mèr þykir verst eg held eg hafi þúað yður

áðan, mèr datt það ekki í hug nè hjarta, að það værið þèr; hvernig gat bölvuð geilin farið að detta svona ofaná blessaðan prestinn.»

«Skiptu þèr ekki af því, Finnur, reyndu heldur til að rífa hèrna til torfið, svo eg komist út úr geilarskömminni.»

«það er allt svo gaddað og freðið, prestur minn, eg get það ekki, nema eg sæki stóra járnkarlinn og pjakki það.» Finnur hleypur nú af stað, og kemur á vörmu spori aptur með járnkarlinn. «Húsbóndi minn,» segir hann, «hvar á eg nú að höggva gatið? hèrna sem eg sè á nefið á yður, húsbóndi góður; eg er svo hrædd-ur um, að eg skaði yður í andlitið; eg held það væri betra að þèr leggist niður í geilina á meðan.»

Sèra Sigvalda þókti þetta þjóðráð; tekur nú Finnur að höggva torfið og tekst honum það heldur seint, en þó kemur svo um síðir, að hann hefir búið til hæfilega rauf; biður hann nú prest upp að standa og gjörir hann það, og skýtur nú höfði og herðum upp í gegnum gatið allt ofan til axla, og vill freista að vega sig með handafli upp úr geilinni, en með því maðurinn var gamall og stirður, og hitt annað, að hátt var til veggjar í tóptinni, verður það ógreiðt; biður hann þá Finn þrífa í herðar sèr og toga að ofan, «en eg mun,» segir hann, «lypta mèr upp að neðan.»

Finnur gjörir sem fyrir hann er lagt, og þrífur báðum höndum í axlir prests; en jafnan, er prestur er kominn á hálfa leið, tók svo að frýja skutnum skriðar, að hann sígur jafnharðan niður aptur í tóptina, og gengur svo þrisvar eða fjórum sinnum; tekur séra Sigvaldi mjög að dasast, og segir Finnur að nú sè tveir kostir fyrir höndum, sá er einn, að sækja menn til að bjarga honum úr tóptinni, en sá er annar, að hlaupa eptir reipum og bregða undir prest, og reyna svo að draga hann úr tóptinni sem grip úr dýi. Ekki vill sèra Sigvaldi þessi ráð hafa, og vill hann freista enn einusinni; stökkur hann nú upp svo hátt sem hann má, en Finnur þrífur til herðanna og togar af öllu afli, brestur þá þekjan, sú sem eptir var uppi, í sundur og ofaní geilina, og við það kemst prestur upp, en er þá heldur óásjálegur; tekur hann að rètta hatt sinn úr brenglum, en Finnur að dusta moldina af fötum hans, gánga þeir síðan til bæjar og leggur prestur ríkt á við Finn, að hann segi ekki frá hvar hann hafi verið, heitir hann honum vináttu sinni ef hann þegi, en ella muni hann sæta afarkostum. Finnur heitir því. Og er þeir koma í bæjardyr, er húsfreyja þar fyrir og ráðskona með ljós, og eru í óða önnum að búa út tvo karlmenn til að leita dauðaleit að presti. Þar verður nú mikill fagnaðarfundur, og segja þær

honum frá, hversu hræddar þær hafi verið orðnar um hann, og spyrja hann, hvar hann hafi verið; prestur lætur fátt yfir, en segir þó, að í rökkrinu hafi hann gengið sèr til skemtunar, en með því veðrið hafi verið svo fagurt og bjart, hafi sèr dottið í hug að gánga fram um Hlíð og gæta þar til haga. Hjálmar tuddi sat þar í dyrunum við kvörnina, er prestur kom, og er prestur tekur að segja frá ferðum sínum, stendur Tuddi upp og tvístígur í kríngum hann, sèr hann þá að moldarblettur nokkur er á kyrtilskautum prests, hleypur hann þá til og vill dusta af moldina, og segir: «má eg ekki dusta moldarskarnið af dínglandanum?» Prestur lítur heldur reiðuglega til hans, en yrðir þó ekki á hann; gengur síðan til baðstofu, kastar von bráðar klæðum og gengur til hvílu, og kvartar um að nokkrum kuldahrolli slæi að sèr eptir hitann og gönguna; lætur húsfreyja flóa nýmjólk handa honum, til að taka úr honum skjálftann. Ekki höfum vèr neinar sannar fregnir um það, hvernig farið hafi um áheit það, er sèra Sigvaldi gjörði kirkjunni á Stað, ef hann kæmist lifandi úr tóptinni, þó getum vèr ekki borið á móti því, að oss virðist það ei alllítið vafamál, hvað orðið hafi um efníngu þess heits, en sèð höfum vèr Vísitatiu herra . . . biskups, og í henni er svo að orði komizt um kirkjuna á Stað: « . . .

*item* á kirkjan tvær söngkápur, tvo sloppa og eina brún óbrúkanlega, hvar fyrir pastor loci vildi hið allra-bráðasta tilleggja kirkjunni eina nýja og sæmilega brún í stað hinnar fornu, sem nú ei lengur má anstendug heita, og því ekki kirkjunni framar beþèna kann . . «Nú er Vísitatia þessi gjör 17 . ., eða ekki fullum 10 árum síðar en sèra Sigvaldi sleppti staðnum að Stað, og þareð kirkjan þá átti enga viðunandi brún, lítur að vísu svo út, sem sèra Sigvalda hafi annaðhvort gleymzt að efna heit sitt, eða honum hafi ekki endzt aldur til að koma því fram, því ekki getum vèr skilið í því, hefði hann gefið kirkjunni nýja altaris brún, að hún hefði verið orðin svo útslitin á ekki lengri tíma.

---

# NÍUNDI KAPÍTULI.

«Margur er kviks voðinn.»
*Málsh.*

Vèr höfum í næsta kapítula hèr fyrir framan sagt frá svaðilförum Sigvalda klerks, er hann fór njósnarförina til sauðahússins. Hann hafði haft þar í tóptinni vos mikið, en orðið að engu

vísari um það, er hann vildi vita. Slíkt vos getur fyrir gamlan mann opt dregið illan dilk á eptir sèr. Veður hafði verið kalt um kvöldið og varð prestur innkulsa, er hann lá svo lengi undir freðnu torfi í tóptinni. Innkulsi fylgja opt illir förunautar, sem er hósti, höfuðverkur og beinverkir, köldusláttur og margir aðrir ótætis kvillar, er opt og tíðum snúast í skaðvæna sjúkdóma og leiða margan til bana. Eptir sauðahússförina hafði sèra Sigvaldi ekki alllitla aðkenníngu af sumum af þessum leiðinda-kvillum í nokkra daga, en þó varð honum ekki þýngra af, sem betur fór, því hefði hann fengið banamein sitt þar í tóptinni, mundum vèr hafa orðið að slá botninn í söguna, og þeir sem þá hefðu viljað auka safn til sögu Íslands með æfiágripi um presta hèr á landi, mundu þá ekki hafa getað sagt mikið annað um prest þenna en það, sem segir í stökunni um Teit heitinn, og einnig verður sagt um marga embættismenn, og innifalið er í þessum fáu og kjarngóðu orðum skáldsins:

«hann át og s...., sem eg og þú,
ekki veit eg meira.»

En þetta fór ekki svo; sèra Sigvalda varð lengra lífs auðið, og er því af honum gjör meiri saga en af Teiti. Sèra Sigvaldi hresstist bráðlega, en

daufur var hann og fátalaður nokkra daga eptir tóptarförina. Mörg eru manna mein og ekki þarf ætíð mikið til að gjöra mann óglaðari en hann á að sèr. Þess er fyrir skömmu getið, að sèra Sigvaldi var óhraustur nokkra daga eptir vosið í tóptinni, og verið gat að þetta hafi valdið ógleði hans, en þó var annað meira tilefni, og einkum það, að honum hafði svo hraparlega brugðizt von sú, er hann hafði um að fá vissu sína um samdrátt þeirra Þórarins og Sigrúnar. Sumum kann að virðast, sem slíkt væri ekki mikið ógleðiefni, en ekki getur oss svo virzt, því vèr vitum þess mörg dæmi, að mönnum fellur opt þúngt, ef þeim bregzt eitthvað, er þeir hafa sterklega vonað eptir, þó lítið sè í varið; og til þess að sanna sögu vora, viljum vèr geta eins manns, er vèr höfum þekkt, þó lángt sè síðan; það var bóndi nokkur og bjargálnamaður. Hann átti sauð einn mókollóttan og hafði bóndi mestu mætur á honum. Eittsinn kom Mókollur af fjalli og var þá þrèvetur. Hann var fèlegur og bragðlegur að sjá og fönguglegur á velli. Bónda leizt nú ofur vel á Koll, er hann kom af fjalli, og jafnan er fèð var rekið heim um haustið, skoðaði hann sauðinn í krók og kríng; þreifaði á brínguuni á honum og tók hann upp í fángi sèr, og fannst honum þá ávallt að aptari hluti sauðarins væri sýnu þýngri en

hinn fremri. «Skaði er að skera hann svona fallegan» sagði bóndi við sjálfan sig, «en á eg að trúa því að það verði ekki í honum góðir tveir fjórðúngarnir af mör, ef eg sker hann.» «Hann gjörir í blóðið sitt sá mókollótti, viss hálfur þriði í honum, ef ekki þrír fjórðúngar, Jón minn», sögðu allir sem þreifuðu á sauðnum og tóku hann upp. Þá skar bóndi sauðinn. Nýrmör og garnmör og netjan var látið saman og hverri ljósri ögn var haldið til mörsins, en þegar allt var vegið, vantaði rèttar 20 merkur uppá tvo fjórðúnga. Það var um Mikjalsmessu leytið sem Mókollur var skorinn; en frá því og þángað til sunnudaginn fyrstan í aðventu heyrði enginn maður bónda tala eitt orð, hvorki við konuna eða nokkurn annan mann. En þenna sama sunnudag heyrðu menn hann tala fyrsta orðið, þá reis hann upp í rekkjunni, blès mæðilega og mælti: «æ því lèt eg fjandann koma mèr til að skera þann mókollótta!» Af þessu getum vèr vel skilið í því, þó prestur væri um nokkurn tíma hljóður og fátalaður við menn, er honum eins og bónda hafði brugðizt von sín. Enginn vissi þar á staðnum, hvað olli fáleikum prests, nema ef Finn litla hefir rámað eitthvað í það, og sízt skildi Hjálmar tuddi, hver umskipti orðin voru á hylli sinni hjá presti. Þegar prestur var fram í stofu, slæddist hann að venju

frá kvörninni og tvístèg fyrir framan stofudyrnar, hóstaði og hóstaði til þrautar, svo að prestur skyldi vita af sèr, en prestur var aldrei viðlátinn að sinna honum, eins og Hjálmar væntist eptir, og væri stofan opin eða í hálfa gátt, hallaði prestur henni þegjandi aptur, án þess að láta sem hann sæi Hjálmar. Kynlega þókti Tudda þessu við bregða, og batnaði ekki við það skapferli hans. Líða nú fram nokkrir dagar, en einn morgun var það, að Tuddi er rekinn úr baðstofu og fram til kvarnar og skal hann sópa hana, því kvöldið áður hafði hann orðið seint fyrir að ljúka af ætlunarverki sínu, og er því loks var lokið, þóktist hann hafa haft ærið mikið erfiði um daginn og rèði það þá af, að láta sópínguna bíða næsta morguns, en nú var Tudda nauðugur einn kostur, því ráðskona hafði sagt honum, að hann mundi ekki mat fá fyr en hann hefði sópað kvörnina og fært henni mjölið skilvíslega. Tuddi kjagaði því fram til kvarnar með stóra mjölskál í hendi og býst til að sópa kvörnina. Hann var aldrei vanur að gánga svo að nokkru verki, að hann eigi áður athugaði allt vandlega og byggi sig sem bezt undir, eða hrapaði svo að nokkru, að hann hefði ekki hentisemi sína og hægindi, og svo var enn. Setur hann nú fyrst mjölskálina á kvörnina og leggur í hana sporð þann, sem hann var vanur að hafa

til að sópa með kvarnarstokkinn. Eptir það sezt hann í sæti sitt hjá kvörninni og snýtir sèr vandlega og seilist til tóbaksíiáts síns. Það var hrútskyllir einn, mikill og vel eltur. Hjálmar var vanur að troða kyllinum fram á handlegg sèr, millum skyrtunnar og peisunnar, og bera hann þar. Hann seilist nú til kyllisins og leysir frá honum, var bundið fyrir hann með snærisþætti, og næsta vel um búið, og ekki færri en fimm eða sex rembihnútar. «Nú, hèr er þá orðið lítið um suma hluti» sagði Tuddi við sjálfan sig og hvolfdi um leið því sem var í púngnum ofaná vinstra handarbakið, «og þá verður að leita prestsins eptir gömlum vanda,» en síðan lagði hann nefið ofan að hendinni og svo þètt að vinstri nösin nam við handarbakið, og sogaði að sèr með miklu kvasi og hvalablæstri, og svo miklu afli, að allt tóbakið þyrlaðist saman og hvarf allt í einu í nasaholuna; lítur Tuddi á handarbakið og sèr, að þar er ekki korn eptir, starir hann nú um stund á hendina og segir: «á, já, já, þetta var þá ekki nema í hana Mjónu, það var vinstri nösin, já ekki má eg vera svo lengi, að hafa ekkert í henni Alvíð, eg er frádæmdur að geta sópað kvörnina fyr en eg hefi fengið eitthvað í hana; eg verð að reyna til að finna prestinn, þó hann sè nú ekki tagltækur.» Þegar Tuddi hafði tautað við sjálfan sig, stendur

hann upp og gengur að stofu dyrum, sèr hann að lykill stendur í skránni og veit þá að prestur muni þar inni; ekki ber Tuddi að dyrum, en tekur að rjála við lykilinn sem hann vili upp lúka; prestur heyrir eitthvert hríngl við dyrnar og lýkur þegar upp. Tuddi bíður þess ekki að honum sè inn boðið, og áður prestur geti sagt nokkurt orð, tekur Tuddi svo til máls: «já, nú held eg komi til yðar kasta, prestur góður! eptir gömlum vanda, hún er nú tóm hún litla okkar hèrna, hún tóbakshít, eg verð að biðja yður, húsbóndi minn, eptir gömlum vanda, að greiða svoleganа lítið fyrir greyinu,» sagði Tuddi og otaði um leið tóbakskyllinum að presti.

«Ertu orðinn tóbakslaus núna?» sagði prestur nokkuð þurlega.

«Já, vita bláberlega tóbakslaus, það er áreiðanlegur sannleiki; eg varð að hlaupa frá kvörninni ósópaðri til að finna yður uppá það, því eg gat ekki verið svona, að hafa ekkert að láta í hana Alvíð, því þegar hún er tóm þá er eg dauður.»

«það er ekki svo lángt síðan eg fèkk þèr tóbak, og þú átt að hafa það til vikunnar, sem eg skamta þèr,» sagði prestur og byrsti sig.

«Já, eg veit það, en það er líka meira en vika síðan; það var á fimtudag sem þèr gáfuð mèr í púnginn, og nú er föstudagsmorgun.»

«þú verður að bíða þángað til á morgun, eg held það sè ekkert til skorið hjá kerlíngunni,» sagði prestur.

«Nú, eg lèti mèr þá lynda,» sagði Hjálmar og stèg fram á fótinn, «þángað til hún er búin að nugga eitthvað í sundur, ef eg gæti fengið eitthvað óskorið laufblað á meðan.»

«Tekurðu uppí þig líka?» sagði prestur.

«Ónei, en eg stýng því þá heldur svona óskornu uppí slóna á mèr, því þá hefi eg heldur einhvern mannlegan frið.»

Nú þótt ekki lægi sem allra glaðast á presti, gat hann samt ekki gjört að sèr að brosa að Hjálmari. Hann gekk þá að skáp þeim, sem þar var í stofunni og lýkur honum upp, tekur þar út rullu-stykki og leysir utan af því brèfið og myndar sig til að rekja ofan af því enda handa Hjálmari. Tuddi verður þess brátt var, að nokkuð glaðnar yfir presti; tvístígur hann nú þar á gólfinu, meðan prestur leysir utan af tóbaksbitanum. En af því annaðhvort, að Tuddi átti örðugt með að þegja lengi í einu, eða þá af hinu, að hann hugsaði að tóbaksendi sá, sem sèra Sigvaldi ætlaði að gefa honum, mundi heldur verða lengri en skemmri, ef sèr tækist að minnast á eitthvað, er hann hèlt að prest mundi fýsa að heyra, þá tekur hann svo til máls:

«Já, eins er það og fyrri, prestur góður, um dúfuna.»

«Hvað þá»? sagði prestur þurlega.

«Á, já, dúfan flýgur út á kveldin fyrir rökkrið og fuglinn á eptir, ájá!» segir Tuddi, og skríkir og hlær um leið mjög ámátlega.

«Nú veit eg við hvað þú átt,» sagði prestur, «en þú ert svo mikill bjáni Hjálmar, að þèr er ekki trúandi til neins.»

«Já, það verður nú hver að vera eins og hann er skapaður, held eg», sagði Hjálmar, og ránghvolfdi í sèr augunum og nuggaði saman lófunum, og var auðsèð á manninum, að honum geðjaðist ekki allskostar að því, sem prestur sagði, þó hann yrði að láta svo búið standa, «en ekki er eg svo heimskur, að eg þekki ekki dúfuna.»

«Það var þó ekki satt, sem þú sagðir mèr um daginn, að þau færi á daginn út í fjárhús,» sagði prestur og rètti um leið að Hjálmari enda af tóbaki, «það verður að duga þèr þángað til kerlíngin er búin að skera.» Auðsèð var á augnatilliti Hjálmars, að hann hefði einu gilt þó nokkuð ríflegar hefði verið til tekið, og segir nokkuð hærra en í hálfum hljóðum:

«Já, það verður að gjöra það, þakka yður fyrir — en það held eg hafi þó verið satt sem eg sagði yður.» Nú brýndi Hjálmar allt í einu

raustina, og segir: «ef einhver hefir sagt yður annað um það, prestur minn, þá er það ósannindi; en eg sè það» — við þessi orð varð Hjálmari litið á tóbaksendann sem hann hèlt á — «að það leitast við hèrna hyskið að rægja mig við yður; það vill allt ofan af mèr skóinn á allar lundir, eg veit það, því þykir eg vera í vegi fyrir sèr, og það heldur eg komi upp um það klækjunum; það væri fýsilegt að vita, hver hefir sagt yður að eg hafi logið að yður.»

«Það hefir enginn sagt mèr það, en eg hefi rekið mig á það, að þú sagðir mèr ekki satt, eða hefirðu sèð það sjálfur?» sagði sèra Sigvaldi og leit um leið nokkuð alvarlega framaní Hjálmar. Hjálmar svaraði dræmt, og sagði:

«Raunar sá eg það ekki sjálfur, en því hefir þá verið logið að mèr, og maður verður lygari ef maður hefir nokkuð eptir því hèrna; eg skal hugsa eptir honum í annað sinn.»

«Hverjum þá?» sagði prestur byrstur, «hver sagði þèr það?»

«Já, það má eg ekki segja,» sagði Tuddi.

»Þá skalt þú segja mèr það,» sagði prestur reiðuglega og greip annari hendinni í öxl Tudda. Tuddi ránghvolfdi augunum að presti og sagði:

«Æ, æ, eg skal segja það, hann Finnur sagði mèr það.» .

«Hann Finnur?» sagði prestur dræmt, «já

segðu mèr það sem þú sèr sjálfur, en ekki það sem aðrir segja þèr, karl minn, og þá erum við góðir vinir og þá trúi eg þèr,» sagði sèra Sigvaldi og gekk um leið fram að stofu dyrunum og lèt Hjálmar sjá að hann ætlaði út.

«Eg verð að biðja yður, prestur góður, að staldra við dálítið, á meðan eg tala við yður nokkuð, sem mèr ríður á, og það er um meinvættið hèrna; eg verð nú að afsegja að mala lengur í henni, ef ekki er gjört við hana; hún ætlar nú að rífa og slíta mig kvikan í sundur lið fyrir lið og tægju fyrir tægju. Eg verð að mælast til, að þèr skipið honum Jóni að gjöra við hana. Það verður hana alla gjörsamlega að forbetra og rampónera, hún er öll af göflunum gengin, eg vil ekki að hún inporti mèr það, að hún drepi mig. Eg hefi nuddað, nöldrað og jamlað um það óaflátanlega og eilíflega í allan vetur, en hann er ekki farinn til þess enn samt, og gjörir það ekki fyr en þèr skipið honum það; en ekki verður malað á meðan á því stendur, að verið er að gjöra við hana.»

«Eg skal láta hann gæta að því,» sagði prestur og gekk fram úr stofunni, en Tuddi staulaðist á undan honum og að kvörninni, og tekur nú að sópa hana, og er því var lokið, gengur hann til baðstofu og slórir þar að venju fram eptir deginum, er hann þá fremur styggur

í skapi og lætur sína óþægðina skella á hverjum, sem á hann yrðir. Líður nú fram að miðdegi, og þarf Tuddi ofan og slamrar fram göngin, og er hann er kominn gagnvart búrdyrum, heyrir hann að einhver kemur ofan loptsstigann; hann lítur þá aptur og sèr að það er kvennmaður og gætir hún hans ekki, en gengur að húsdyrum þórarins og slær með fíngrunum tvö högg lítil á hurðina og snýr svo fram til baðstofu dyra. Tudda grunar að þetta muni vera Sigrún, þó hann sæi ekki hver hún var, og að höggin muni vera eitthvert merki, vill hann nú ekki verða á vegi fyrir Sigrúnu, og þó að Tuddi venjulega væri ekki kvikur á fæti, stökkur hann nú, svo fljótt sem kólfi væri skotið, inn í skugg-ann hjá búrdyrunum, og lætur Sigrúnu gánga fram hjá sèr og verður hún ekki vör við Tudda. Hún gengur fram í dyrnar og nemur þar staðar við bæjarstafinn og lítur inn eptir göngunum, eins og hún vænti einhvers. Tuddi finnur, að búrdyrnar voru ólokaðar og fellur hurðin ólæst að stafnum. Hann tekur nú það ráð að hann smeygir sèr inn á milli hurðarinnar og stafsins. þar stóð baka til við hurðina kassi einn, og var rept fjölum yfir. Tuddi stígur uppá kassann og lætur hurðina falla að dyrustafnum, og leggur andlitið við rifuna, er varð á millum hurðarinnar og dyratrèsins að ofanverðu; má hann þaðan sjá

eptir endilöngum göngunum og svo fram um anddyrið. En þá er Tuddi hefir þannig um búizt, sèr hann, að þórarinn kemur úr baðstofu og gengur fram göngin. Sigrún sneri baki inn í bæjar anddyrið og litast um út á hlaðið, og heyrir hún ekki er þórarinn kemur fram dyrnar, en er þórarinn kemur gagnvart kvörninni, læðist hann og grípur allt í einu báðum höndum undir hendur Sigrúnu, svo hún hrökkur skyndilega við og verður þá fángið að þórarni, og sá Tuddi það, að þórarinn sleppti ekki tökunum á Sigrúnu þá er hún hrökk við, en kippir henni nær sèr og kyssir hana; en það sá Hjálmar ekki glöggt, af því svo lángt var til að sjá, hvort kossarnir voru fleiri en einn. Spýtur þær, er rept var yfir kassann er Tuddi stóð á, voru þunnar og þoldu ekki mikið hnjask, og heyrir Hjálmar að tekur að brikta í þeim, ætlar hann því að stökkva ofanaf kassanum áður en þær brotni. Maðurinn var ekki fimur eða liðugur í snúníngum, missir hann jafnvægið og fellur öfugur aptur á bak. Ætlar hann þá að grípa annari hendinni í hurðina og taka af sèr fallið, en af því að hurðin var ólæst, lætur hún undan og verður honum enginn stuðníngur í henni. Fyrir innan kassann og baka til við Tudda stóð sýruker eitt mikið og grafið í jörð upp að miðju. Kerið mundi hafa verið á að gizka tveggja tunnu ílát, og var hlemmur yfir.

Tuddi fellur öfugur á kerið, og lendir á miðjum hlemmnum og svo hart, að furðu mátti gegna. Hlemmurinn var feyskinn, maðurinn þúngur, en fallið mikið, og hrökkur hann þegar í sundur hlemmurinn, en Tuddi fellur tvöfaldur ofaní kerið og allt til botns, svo að vatnaði sýrunni yfir bol og herðar, en hendur og fætur sátu við barma. Tuddi rak upp óp mikið, og það mundi hverjum öðrum hafa orðið fyrir, er svo hættlega hefði verið staddur. Sigrún og þórarinn heyrðu hljóðið fram í dyrnar, en vissu ekki hvað um var að vera, urðu þau mjög felmtruð og hlupu sitt í hverja sundrúngina, þórarinn út á hlað en Sigrún inn í baðstofu, og sögðu þau síðar svo frá, að óp það, er þau heyrðu, hafi verið líkast því, er menn segja frá öskri í nauthveli, eða ef menn orga sem mest verður niðri í tómri tunnu eða öðru íláti. Nú er að segja frá Tudda, þar sem hann liggur í kerinu, að hann brýzt um allt það er hann má, og vill fyrir hvern mun upp komast, en þess var engi kostur. Kerið var ákaflega djúpt, en mjög þröngt, og lá Tuddi þar svo svínbeygður, að engu bolmagni varð við komið. Og þá er hann á marga vegu hafði freistað að komast brott úr kerinu, sèr hann, að eigi má hann svo búið láta standa; tekur hann þá það ráð, er honum þókti líkast til nokkurra bjarga, að hann grenjar sem hann mest

má, og svo hátt að vel mundi hafa heyrzt rastarlángt eður lengra, í logni og vindstillu; enda mundi það og hafa dugað, ef forlögin hefðu ekki ætlað honum meiri mæðu. Þó að hljóðið væri mikið, heyrðist það ekki til baðstofu og báru margar greinir til þess; það fyrst, að gluggi sá, er var á búrinu, stóð opinn og leitaði hljóðið meira þar að, sem opið var fyrir; það annað, að búrhurðin var aptur, en baðstofu dyrum hafði Sigrún skellt á eptir sèr, er hún hljóp inn. Þó mundi þetta eigi hafa verið því til fyrirstöðu, að hljóð Tudda heyrðist til baðstofu, ef ógæfa hans hefði ekki verið svo rík, að rètt um sama leyti, sem hann fèll í kerið, hóf einn af vinnumönnum að kveða rímur á baðstofulopti, og kvað hátt og snjallt, en vinnukonur kváðu undir og varð af glaumur mikill. Eru honum nú þessar bjargir bannaðar, enda sækir hann nú svo mikill kuldi, að vart má hann við þola, því að sýran var illköld mjög; tekur hann nú að skjálfa og nötrar í honum hver tönn, og svo tekur af honum að draga, að hann fyrir engan mun má hreifa sig eður hljóði upp koma. «Ekki verður feigum forðað, eða ófeigum í hel komið» segir málsháttur forn, og svo var enn. Svo leit út, sem Tuddi mundi hafa látizt þar í kerinu við lítinn orðstír, ef honum hefði ekki snarlega komið einhver óvænt bjargvættur. En með því honum

var ætlað lengra líf, þá ber svo við, að prest sækir mikill þorsti, og fer Guðrún ráðskona fram í búr að sækja honum mjólk að drekka. Ekki var nema einn gluggi á búrinu, og þó hádagur væri, var þar aldrei vel bjart, en nú var farið að halla degi og skuggsýnt, svo aðeins mátti greina hvern hlut frá öðrum, en ekki sjá neitt grant þar sem skugga bar á. Ráðskona gekk innar eptir búrinu og að hillu einni, er var um þveran gafl, og gætir hvorki til hægri nè vinstri. Á hillunni stóð stór skál með mjólk, gekk Guðrún þar að og tók að hella á könnu þá, er hún hèlt á; heyrir hún þá blástur mikinn og más fram í búrinu og því líkast sem væri í ketti. Þar var á bænum högni einn svartur, afarstór, það var allgóður músaköttur. Þegar músagángur var mikill á staðnum, var Kolur hvervetna boðinn og velkominn, en þess á millum var ráðskonu ekki um veru hans í búri, því Kolur hafði þá venju, að gjöra sig þar heimakominn, og þókti honum sèr heimilt að hafa það af mat er honum líkaði, var þá rjómatrogum ráðskonunnar jafnan ófriður búinn. Ráðskona hyggst nú að taka kisu og láta hana út; setur hún könnuna á búrhilluna, og tekur að svipast eptir Kol fram í búrinu, þar sem hún heyrði blásturinn og kallar á «kis, kis; «verður henni þá litið til kersins þar sem Tuddi lá, og sèr þar nokkur

vegsummerki á orðin; glórir þá í glyrnur tvær við annan sábarminn, en hinum megin rísa upp býfur tvær, og eigi litlar. Það vildi til, að Guðrún ráðskona var engin heimótt eða veimiltýta, ella mundi hún þegar hafa liðið útaf í öngvit þar á gólfinu. Guðrún æpir upp yfir sig og hleypur með ysi og ósköpum til baðstofu, fer þá sú fregn eins og eldur í sinu um allan bæinn, að Hjálmar tuddi sè fundinn drukknaður og dauður í búrinu, þýtur hver sem komast má, og er allt í uppnámi, þyrpast menn nú að kerinu, og skygnast eptir, hvort Tuddi sè þar lífs eða liðinn, og sáu menn fljótt að Hjálmar var enn ekki örendur, er hann lygndi augunum uppá fólkið og blès ákaflega, en talaði ekki, annaðhvort af því, að hann var orðinn svo dasaður að hann mátti ekki mæla, eður hins vegar, að hann hefir hugsað að fæst orð hefði minnsta ábyrgð. Ráðskona skipaði nú að draga Hjálmar úr kerinu, og varð það með þeim hætti, að tveir vinnumenn gengu til, tók annar fætur Hjálmars, en annar gekk að höfðinu, greip utanum eyrun og hófu hann svo upp á milli sín og fram á gólf. Reyndist það þá, að Hjálmar var hvorki svo máttfarinn, að hann mætti ekki upprèttur standa, eða hann að öllu hefði mist málið. Þegar Hjálmar kom úr kerinu var hann heldur ófrýnn; þó gat engum komið til hugar að hlægja að

honum, þar sem hann stóð á gólfinu nábleikur í framan með úthverf augun og nötraði í honum hver tönn. Ekki gátu griðkonur staðizt að sjá slíka sjón og hlupu þær í ofboði til baðstofu, en lètu karlmennina stumra yfir Hjálmari. Varð þeim það fyrst fyrir, að þeir færðu hann úr utanhafnar-fötunum og sóktu síðan brekán og báru hann í uppá lopt og lögðu hann í ból sitt. Sagði þá einhver vinnumannannna, að ekki mundi Hjálmar lifna við, nema tekið væri það ráð er haft var við Gizur jarl, er hann gekk úr sýrukerinu forðum eptir Flugumýrarbrennu; en með því engin af griðkonum var þess fús, að taka að sèr starfa Hallfríðar Garðafylju, var það af ráðið að heita ofaní hann mjólk og búa um hann sem bezt. Næsta dag eptir var Tuddi orðinn vel málhress og gat vel matazt, en ekki vildi hann upp standa þann dag og ekki hinn næsta þar á eptir; en á fjórða degi reis Tuddi á fætur, og sögðu þeir, sem lögðu flest út á verra veg fyrir Hjálmari, að ekki hefði mátt fyrir sjá, hversu lengi hann hefði legið, hefði ekki svo við borið, að hinn sama dag er hann reis úr rekkjunni, bar upp á þriðjudag og sprengikvöld að aptni, en öskudagur að morgni, en um þær mundir vonir góðra fengja, svo að betra væri að vera á faralds fæti en að halda kyrru fyrir, því sveltur sitjandi kráka en fljúg-

andi fær. En sjaldan er ein bára stök. Undir eins og menn sáu, að Hjálmar tók að hressast, fóru menn betur að íhuga atburði þá, er orðið höfðu um slysfarir Tudda; þókti mönnum það ekki grunlaust, að Hjálmar hefði verið staddur í búrinu, þá er hann fèkk áfallið, og kom þá upp sá pati þar á staðnum, að Hjálmar mundi hafa farið í búrið í þeim vændum, að krækja þar í eitthvað matarkyns; en jafnan er hann var frèttur um það, í hverjum erindagjörðum hann hefði verið, er hann fèll í sáinn, svaraði hann ekki öðru en skætíngi einum, og kvaðst ætla að það varðaði litlu, enda væri hann sjálfráður ferða sinna. Kom svo, að ráðskona tók að rannsaka málið, en Hjálmar veitti jafnan hin sömu svör og fór undan í flæmíngi. Ekki vildi ráðskona láta svo búið standa, og bar hún sökina fyrir prest, kvað sèr ekki grunlaust um, að Hjálmar gengi í búrið og stæli þar slátri og öðru, er hann hafa vildi, og sagði það til jarteikna, að hann hefði verið staðinn í kerinu, og beiddi prest að láta líta eptir lásum en gefa Hjálmari nokkra ráðníngu. Prestur lèt sèr í fyrstu fátt um finnast, en svo kom loksins, að hann þóktist ekki mega sitja afskiptalaus af þessu máli. Stefnir hann nú Hjálmari eitt sinn fram í stofu, og segir prestur hverjar sakargiptir ráðskona bar á hendur honum. Eigi vissu menn hvað

þeir töluðu, en það höfum vèr þó fyrir satt, að Tuddi hafi sagt presti af hið sannasta, hverir atburðir urðu til þess, að hann fèll í sáinn, svo og frá því, hvað hann hafði sèð þeim Þórarni og Sigrúnu fara á milli áður en honum hlekktist á. Brá svo við eptir viðræður þeirra Tudda og prests, að búrstuldar-málinu var eyðt, og er Hjálmar kom aptur úr stofunni frá presti, sáu menn að hann var hinn kátasti og lèk á als oddi.

---

## TÍUNDI KAPÍTULI.

---

Ráðagjörð Sigvalda prests.

Sigvaldi prestur tók nú ógleði mikla og áhyggjur stórar; vakti hann löngum um nætur í hvílu sinni, og varð ekki svefns auðið þá er aðrir menn sváfu. Ekki vissu menn gjörla hverju það sætti, hugðu sumir að hann hefði tekið kránkleika nokkurn, en enginn þorði eptir að inna. Gekk svo fram um hríð, að prestur var fámáll og áhyggjufullur. En er fram liðu stundir, fór prestur smásaman að hressast; skipti þá mjög í tvö horn um lundarfar hans, að nú gjörðist hann hinn glaðasti og lèk við hvern

sinn fíngur. En jafnan síðan þeir Hjálmar áttust við, gætti hann svo til, að ekki gafst þeim Þórarni og Sigrúnu færi á að finnast, eða talast við, annað en það, sem hver mátti heyra.

Það var eitt skipti, nokkru eptir það að prestur hafði tekið aptur gleði sína, að hann var staddur í stofu; sat hann þar við borðið og las brèf nokkurt; ekki voru fleiri þar í stofunni, nema Guðrún ráðskona, og fægði tindiska. En er prestur hafði lesið brèfið, brýtur hann það saman, tekur síðan Guðrúnu tali: «og nú vil eg,» segir hann, «að þú lítir eptir nærfötum og klæðum Þórarins mágs míns, og hafir þau hrein og á reiðum höndum, hvenær sem til þarf að taka.» Guðrún svarar að svo skuli vera: «en hverju sætir það,» segir hún, «að þèr innið til um slíkt; þèr eruð ekki vanur, bróðir minn, að hlutast til um þesskonar, eða spyrja um þjónustubrögð karlmanna.» Prestur sannar það satt vera, «en því að eins hlutast eg nú til um þetta mál,» segir hann, «að mèr þykir miklu varða, að allt verði greiðlegt um afgreiðslu á fötum Þórarins, því nú er það skjótast af að segja, að ekki mun vera hans hèðan af verða hèr til lángframa um stund, og er burtför hans ráðin eptir fáa daga, eða mun ekki sá beztur að hann leiti hèðan um hríð?»

Guðrún roðnaði við og segir: «svo er nú

komið, að eg mun láta mig litlu varða, hvert á land hann fer, það er nú komið í það horf, en það held eg, að hèr sè einhverir á bænum, sem þurfa að halda eins mikið á tröfunum, að strjúka á sèr augun, og gilti einu þó hann væri hèrna fyrst til sumarmálanna, eða hefir Hlíðar-heimasætan verið spurð til ráða um þessa fyrirætlan? — hvernig ætli henni geðist að þessu? En sè það satt, þá er mèr forvitni á að vita hvert hann fer.»

«Hann fer suður til Borgarfjarðar,» segir prestur, «og er það af mínum toga spunnið; hann skal ekki ílengjast hèr í hèraði um hríð. Eg er búinn að komast að hinu sanna, systir, og tek nú til þess, sem eg hafði fyrir löngu hugsað, ef svo færi, sem eg hèlt ekki yrði, að hugur Þórarins hneigðist í aðra átt en eg hafði ætlað, hum, hum, hum! — Eg þarf ekki að tala ljósara, því víst skilur þú við hvað eg á. — En með því fyrirætlan mín um hagi Þórarins hefir frá öndverðu verið öll önnur, en að hann ætti þessa Hlíðar-júngfrú, þá hefi eg hugsað þetta mál vandlega, og gildir mig einu þó hann færi hèðan úr sveit um hríð; en sè svo, að nokkuð meira búi undir þessu flángsi þirra Þórarins og Sigrúnar, þá mun hèr um ra sem mælt er, að «svo fyrnast ástir sem ndir,» ef þau eru ekki saman; enda mun eg

búa svo um hnútana, að annaðhvort skal Sigrún ekki verða hèr í sveit að lángdvölum, eða þó hitt heldur, að hún þurfi að giptast, og skal eg þá styrkja hana til þess. Hèr er í sveitinni góð völ á vinnumönnum, og kotkörlunum, sem eru við hennar hæfi.»

Þá gat Guðrún ekki að sèr gjört, að skjóta orði inn í ræðuna og segir: «og það held eg, bróðir minn, þèr segið satt, því ekki er nú slektið göfugra en svo.» — En prestur hèlt áfram, og segir:

»Og því verður annað tveggja, að Þórarinn kemur hèr aldrei, eða hitt, að hann hlýðir mínum ráðum og boðum sæmilegum, tekur hèr við staðnum af mèr, og verður aðstoðarprestur minn og á þig; eru þetta allt mín ráð, og ritaði eg því til fornkunníngja mínum og gömlum skólabróður. Hann er sýslumaður í Borgarfirði og heitir G . . ., vissa eg að hann er nú sem stendur þènaralaus, og bað eg hann að taka Þórarinn, og er nú hèr komið brèf frá honum; tekur sýslumaður því máli vel, og segist hafa góða afspurn af Þórarni, skuli hann hafa kaup gott og vera haldinn sæmilega að klæðum og fæði, en áskilur, að hann komi nú þegar, og biður mig að bregða skjótt við, og fá honum hesta c mann til fylgdar, svo að hann verði komi

þángað suður fyrir sumarmál; eða hvernig lízt þèr á þessa ráðagjörð?»

Guðrún verður nokkuð svo sein til svara, en segir þó eptir litla þögn:

«Fyrst þèr spyrið mig, bróðir minn, hvernig mèr lítist á þessa ráðagjörð, skal eg segja eins og mèr býr í brjósti, og sýnist mèr hún allgóð; því þó mèr segi svo hugur um, að það eigi ekki fyrir mèr að liggja, að verða þórarins aðnjótandi, þá er mèr samt svo varið, að eg hefi ekki skaplyndi til að horfa lengur á það, að Hlíðar-trippan trani sèr framan í hann; og þèr skuluð vita, að sumir hafa ekki ætíð verið með hýrri há, eða heilir innanrifja, síðan hún var tekin híngað í vetur, sem aldrei skyldi verið hafa, og sèð, hvaða dálæti sumir hafa haft á henni, þó sumir kannist ekki við það, en ekki veit eg hvar sumir geta litið á hana, til þess að sjá á henni fegurðina og kostina, sem ekki á að vera á sumum; — en það er þá ekki þar fyrir, sumir geta þá þókzt ofgóðir fyrir suma, og ekki ætla eg mèr að gánga með grasið í skónum eptir neinum, sem þykist ofgóður fyrir mig.»

«Tíminn og lagið vinnur það, en þolinmæðina verður að hafa.»

«Já, þèr sögðuð svo um árið, þèr munið að þèr lofuðuð mèr, þegar eg fór til yðar,

en hvernig fór það, og var þó lengra komið,» sagði Guðrún, «og ætli það fari ekki líkt enn? — en hvað um það er, eg vil allt til vinna, að horfa ekki uppá það lengur; — en eruð þèr nú viss um, að þórarinn vili fara þángað suður, og hvað lengi á þessi drós að sitja hèr?»

»Hún verður hèr til krossmessunnar,» segir prestur, «eins og lofað var; eg verð að eiga vingott við þau Hlíðar-hjón að svo stöddu; maður verður að hafa fleira en eitt járnið í eldinum; — en eg tala nú ekki meira um það að þessu sinni, það kemur fram síðar, ef eg lifi; — en svo eg svari hinu, sem þú spurðir um, þá er eg viss um, að þórarni mínum mun þykja þetta ráð fýsilegt, sem honum er boðið; eg hefi jafnan heyrt það á honum, að hann mundi taka þann kost, ef honum stæði til boða, að gánga í þjónustu göfugra manna, þar til hann hefir aldur til að taka prestvígslu, enda kemur honum það ekki á óvart, þó hann hèðan fari, því svo höfum við áður um talað, að hann skyldi vera sèr úti um samastað og atvinnu að sumrinu, en hverfa híngað á vetrum ef hann ætti ekki annars úrkosta; en þó að hann fari nú hèðan nokkru fyr en ætlað var, þá verður svo að vera. og vil eg að það verði brátt, og því kvaddi e þig til þess að sjá um að allt, sem til ferð arinnar þarf, sè til, þegar til þarf að taka.»

Guðrún sagði, að ekki skyldi standa á því, sem hún ætti fram að leggja, sagði sem var, að föt þórarins væri í góðum þrifum og öll til reiðu; að sönnu væri nokkur nærföt í þvotti, en ekki mundi á löngu líða áður þau yrði þur; tvennir nýir sokkar, er honum væri ætlaðir, væri enn óþæfðir, en einhver vinnumanna skyldi þegar næsta kvöld þæfa þá; þessu næst sagði prestur, hvernig hann ætlaði að haga ferðinni og hvað hann vildi til hennar leggja: sagði hann, að maður skyldi fara með þórarni, svo skyldi og sjóða ein sauðarskammrif og nokkra magála, láta saltað smjör í dall og baka kökur, og láta það allt ráðvíslega í malsekk einn; skyldi þetta vera nesti þeirra kompána. Ráðskona kvaðst mundu sjá fyrir því eptir fyrirskipun prests, og þar með skildu þau talið; sást það á, að Guðrúnu líkaði þessi tilhögun allvel.

Næsta dag eptir kom prestur að máli við þórarinn, og sagði honum fyrirætlun þessa; tjáir hann honum frá brèfi sýslumanns og segir honum hverju honum er heitið; sátu þeir lengi dags tveir á tali í stofu, en ekki segir af því, hvað þeir ræddust við um þetta mál, en hvort er þeir töluðu það lengur eða skemur, þá lauk o, að brottför þórarins var ráðin.

# ELLEFTI KAPÍTULI.

*Brottför þórarins og suðurferð.*

Ekki vitum vèr gjörla hvað prestur ræddi við þórarinn um brottför hans, en á þriðja degi eptir að þau prestur og Guðrún töluðust við, var hver hönd á lopti á Stað, ys og þys, hlaup og köll um allan bæinn; sitt iðjaði hver, og allir unnu nokkuð að brottbúníngi þórarins; ein griðkona drap smjöri í dall, önnur steikti kökur, þriðja verpti skó handa Finni Bjarnasyni; húsfreyja saumaði stafl í skyrtur bróður síns. Sigrún sat í húsi hjá húsfreyju og þvengjaði skó þórarins, og skóf þvengina vandlega og smábleytti þá aptur með tárum sínum, er við og við hrundu ofan af kinnum hennar á þvengina og skóna, en enginn sá það, því enginn var í húsinu nema húsfreyja, er annaðhvort var svo önnum kafin við verk sitt, að hún gætti þess ekki, eða hitt, að hún lèt sem hún sæi það ekki, þó hún hefði eitthvert veður af. þórarinn var í herbergi sínu, og stóðu þar á gólfi koffort tvö, ekki alllítil, er ætluð voru til ferðarinnar; raðaði þórarinn niður í þau bókum sínum og klæðum, en Guðrún ráðskona b jafnóðum fötin til hans, samanbrotna sokk keflaðar skyrtur, bleikt og strokið hálslín; l

hún sem sèr væri annast um, að allt væri sem þrifalegast af hendi leyst, sem þórarinn átti að hafa, og fèkkst mikið um; ekki gaf þórarinn því mikinn gaum, og var hann venju fremur svipdaufur og fámálugur. Á hlaði voru húskarlar prests í mestu óða önn að járna hesta og söðla þá, en prestur sat í stofu og ritaði lánga rollu til sýslumanns G . . . — þegar þórarinn, eptir áskorun prests, hafði afráðið að taka þjónustu hjá sýslumanni G . . ., tjáði hann undir eins Sigrúnu frá fyrirætlun sinni, sagði og það með, að ekki vildi hann vera lengur þar á Stað á móti vilja mágs síns og í óþakklæti, en jafnframt tjáði hann henni, að það stæði við sama, er þau hefði talað sín á milli, þó hann fjarlægðist, og mundi hann ekki slíta tryggð sína við hana og ekki bindast einkamálum við nokkra aðra stúlku, meðan hann vissi hana á lífi og ógefna. Sigrúnu hryggði mjög brottför þórarins, þó hún sæi að svo yrði að vera, og var hún jafnan sorgbitin þá er leið að því, að þórarinn skyldi fara. En þá er hèr var komið sögunni og að því kom, að þórarinn bjóst til brottfarar, var hún mjög döpur, en bar sig þó, svo mikið sem hún mátti, að láta ekki aðra enn sjá það er henni í brjósti bjó; það var g eitt, er hún kveið mest fyrir, en það var, ð þórarinn kveddi hana svo að nokkur væri

nærstaddur, þóktist hún sjá það fyrir, að hún mundi ekki geta stillt sig um að gráta, og mundi það þá ekki geta dulizt þeim, er við væri staddir, að hún hefði þórarinn kærari en augljóst var; og er hún hugsaði um þetta allt, táraðist hún ofan yfir skóna þórarins. þó rèðist betur úr þessu en á horfðist í fyrstu. þegar Sigrún hafði þvengjað skóna og snotrað þá sem henni líkaði, gengur hún til prestkonu og fær henni þá, þakkar húsfreyja henni fyrir, og segir henni að færa þórarni þá; verður henni þá um leið litið framan í Sigrúnu, og sèr, að hún er dapureygð mjög, og með því hún vissi nokkuð til um samdrátt þeirra þórarins, skilur hún brátt hver orsök muni til vera, strýkur hún þá hendinni um kinn Sigrúnar og segir, að það muni eitthvað ama að henni, og sè ekki ólíklegt að hið sama hryggi þær báðar: «og það skaltu vita, að ekki eru þetta mín ráð, Sigrún mín, en huggaðu þig við það, að drottins vili mun koma fram.» Sigrún þagði og grèt, kysti húsfreyju og gengur, sem henni var boðið, til þórarins, og fær honum skóna; hittist þá svo á, að enginn maður var þar hjá þórarni; ætlar Sigrún þegar að snúa aptur úr herberginu, er hún hefir lokið erindi síuu, en er hún er komin gagnvart dy um, snýr þórarinn eptir henni og tekur í hör henni og segir: »lofaðu mèr að kveðja þig hé

Sigrún mín góð!» grípur hann hana þá og faðmar hana að sèr, og kyssir hana og biður hana muna sig, en brèf skuli hún fá frá sèr jafnskjótt sem hann geti því við komið. Að því búnu skreppur Sigrún út, og hleypur þegar úr bæ og upp á tún og gengur þar inn í hesthús eitt, er þar stóð á túninu, og felur sig þar, þar til Þórarinn er á brott riðinn, og grætur lengi fögrum tárum brottför Þórarins, en svo var mikill ys og þys á bænum að búa Þórarinn af stað, að enginn saknaði Sigrúnar úr bænum. Eptir að þau Sigrún höfðu kvaðzt, býst Þórarinn mjög af skyndíngu, og líður ekki á löngu áður hann er búinn að stíga á hest, og þyrpist nú hvert mannsbarn, er var á staðnum, út á hlað til að kveðja hann; gengur hann fyrir hvern mann og kveður allt fólkið með kossi; biðja hann allir heilan fara og glaðan aptur koma, því Þórarinn var svo vel þokkaður, að nálega unnu honum allir hugástum; Guðrún ráðskona var og á hlaði og lítur hún nú yfir heimilisfólkið, er allt stóð í röð á bæjarstèttinni, og saknar hún brátt Sigrúnar, að hún er þar ekki hjá öðru bæjarfólki. Tekur þá Guðrún svo til orða ; allkýmilega, svo Þórarinn mátti vel heyra mál ınnar, er hann stóð allnærri:

«Er júngfrú Sigrún hèr ekki? — líklegast l þó Þórarinn kveðja hana, eins og aðra.»

þórarinn hváði við, sem hann hefði ekki heyrt hvað Guðrún mælti; tekur hún þá aptur til orða:

«Eg var að tala um, að þèr munduð vilja kveðja hana júngfrú Sigrúnu, á ekki einhver að kalla á hana?» — sagði Guðrún, og leit framan í þórarinn, líklega í því skyni, að vita hvernig honum brygði, en þórarinn sá þegar hvað Guðrúnu var innanbrjósts, og lætur sem sèr verði ekki bilt við, en svarar undir eins og glottir við:

«Og ekki gjörist þess nú þörf, það er nóg að þèr berið henni kveðju mína, og munið þèr þá eptir að segja, að eg biði ástsamlega að heilsa henni.»

þegar þórarinn hafði þetta sagt, kveður hann Guðrúnu og minnist við systur sína og mág sinn, og skiljast þau öll með hinni mestu blíðu; stígur þórarinn á hest sinn, og er þá Finnur Bjarnason, fylgdarmaður hans, farinn skammt út í túntraðirnar. Í því þórarinn keyrir hest sinn úr hlaði, tekur hann ofan, svo sem til þess síðast að kasta kveðju á fólkið alltsaman; raðar fólkið sèr þá í þyrpíngu á stèttinni, er það vissi áður, eptir undirlagi prests, hvað fram skyldi fara. Tekur prestur ofan skotthú sína, er hann var vanur að hafa heima, ι syngur þórarinn úr garði, var það alltítt, þá ε einhver flutti sig búferlum og mikið skyldi vi

hafa, og var þá til þess valið annaðhvort eitthvert sálmvers, er vel þókti við eiga, eða eitthvað, sem ort var í þann svipinn og ætlað var til þess að hafa við slík tækifæri. Söng nú fólkið, það sem á stèttinni stóð, undir með presti, en hann hafði forsönginn; hafði hann sjálfur ort brottfarar-stefið, og var það þannig:

Fylgi þèr, mágur, farsæld nú,
fagnaðar kjörin hljóttu,
þess óskum vèr af ást og trú,
allt eins um dag sem nóttu;
gæfan þig jafnan geymi frá
glötunar skerja boða,
og villu voða,
ört til sanns þar til augun fá
þig aptur dýrðlegan skoða.

þegar brottfarar versið var súngið og þórarinn riðinn út fyrir tún, sneri prestur og heimilisfólkið til baðstofu; um sama leyti gægðist Sigrún út úr hesthúsinu, og sèr hún þá hvar hyllir undir þá Finn á melunum suður frá túninu, starir hún lengi eptir þeim, en síðan tekur hún að þurka tárin úr augum sèr, er lengi höfðu flot-
ð viðstöðulaust, og tekst henni það um síðir
ð hyggja svo af harmi sínum, að gráturinn
ætti og tárin stöðvuðust; gengur hún bráðum
il bæjar og upp á lopt, og settist þar á rúm

sitt, bar ekki á öðru, en að hún væri allkát, nema venju þókti bregða hversu rauðeygð hún var og föl að yfirlitum. Guðrún ráðskona var hin glaðasta, ekki bar hún Sigrúnu kveðju þórarins, en það var eins og hún hefði einhvern grun á því, að ekki lægi sem bezt á Sigrúnu, og að tilefnið mundi vera það, að henni þækti brottför þórarins ekki allskostar góð, enda notaði Guðrún sèr það þann dag allan; henni var uppsigað að tala um þórarinn, og hafa hann jafnan á vörunum, og rakti hún allan forlagaferil hans á Suðurlandi: þar mundi hann, sagði hún, komast í mikinn veg og gengi, og mundi það vart liggja fyrir honum að koma þar á slóðir aptur, eða í Staðarhrepp; það væri sýnt, að hann mundi staðnæmast þar syðra; fyrst mundi hann verða skrifari nokkur ár hjá sýslumanni G . . . ., og komast í kærleika við hann; þá kvaðst hún hafa sannspurt, að sýslumaður ætti sèr, eins og segir í þulunni: «tvær dætur og tvær hvalsmjörstunnur,» eða með öðrum orðum: tvær gjafvaxta dætur og auð mikinn, til að gjöra þær vel úr garði; væri ekkert líkara, en þórarinn bæri sig að krækja í aðra hvorja þeirra dætranna, enda væri það líklegt, að sýslumaður vild unna honum þess kvonfángs, er maðurinn væ álitlegur og vel að sèr í mörgu. það má get nærri, að slíkar ræður geðjuðust ekki Sigrún

allskostar, og jók það áhyggjur hennar og harma; og þó hún á annan bóginn gæti ekki trúað því um Þórarinn, að hann mundi bregða heit sín við hana, þókti henni þó á hinn bóginn ekki ólíklegt, að þar að mundi draga, að svo færi sem Guðrún gat til, að Þórarni bækti fýsilegra að staðnæmast þar syðra, en hverfa aptur til átthaga sinna, mundi það og að sönnu verða, að mikið reyndi á tryggð hans, þar sem líkindi væri til að honum biðist góð kvonföng og álitlegar og auðugar stúlkur, en hún fátæk og lítilsháttar. Allar þessar hugsanir vöktu fyrir henni, og gjörðu hana harmþrúngna og hugsjúka nótt og dag.

Af ferðum þeirra Þórarins og Finns segir ekki annað, en að þeir fá færð góða og veður hin beztu; tekst þeim svo greiðlega, að þeir koma á fimmta degi eptir til sýslumanns G...; er þeim þar vel fagnað; var Finnur þar um kyrt í tvo daga og hvílir hesta sína. Á meðan ritar Þórarinn mági sínum og systur, og segir þeim frá suðurferð sinni, og svo hvernig sèr hafi verið fagnað, er hann þar kom; og lætur vel yfir, að hann muni brátt una þar vel hag ínum. Þá skrifaði hann og Sigrúnu til, og selur rèfið í hendur Finni vini sínum, og biður hann æta þess vandlega, og segir honum að láta að ekki fara fleiri manna á milli en hans og

Sigrúnar; heitir Finnur honum því, en Þórarinn heitir vináttu sinni á móti. Síðan snýr Finnur aptur heimleiðis, og kemur hann að Stað og skilar þar brèfum þeim, er hann átti að flytja til prests og húsfreyju. Sigrúnu fèkk hann brèf Þórarins svo, að enginn maður annar varð þess vís. Tekur Guðrún eptir því, að henni virðist yfirbragð Sigrúnar öllu hýrlegra en áður, eptir að Finnur kom að sunnan, og dregur hún þar af líkur til, að svo gæti verið, að hún hefði fengið brèf frá Þórarni, og vill fyrir hvern mun komast eptir, hvort nokkuð væri til í því. Einn morgun gjörir hún sig mjög vinalega við Finn Bjarnason og dregur hann með sèr inn í búr, læsir síðan búrinu og setur þar fyrir hann súrsaða lundabagga og hrútskjamma mikinn, og annan fagnað, og biður hann að fá sèr þar bita, sezt síðan á dall einn þar í búrinu og tekur að spyrja Finn ýmsra tíðinda af Suðurlandi, og þar kemur loks, að hún frèttir hann að, hvort Þórarinn hafi sent Sigrúnu nokkurt brèf, og neitar Finnur því; þá spyr hún hann, hvort hann hafi ekki átt að skila kveðju til hennar, og segir Finnur nei við því, hann hafi engum beðið að heilsa sèrílagi nema þeim hjónum og svo Guðrúnu verður Guðrún harðla glöð við það, og inni hann optlega eptir, hvort hann segi það nú satt og kemur svo, að Finnur skammar sig, sv(

og sárt við leggur, að svo sè sem hann segi; slíta þau svo talinu, að Guðrún trúir því, en Finnur þykist vel hafa veiðt, og óskar með sjálfum sèr, að hann kæmi á hverjum degi af Suðurlandi. Sigrún las brèf sitt og varð því forkunnar fegin, sagði Þórarinn henni þar frá suðurferð sinni, en einkum því, hversu mikið hann saknaði hennar og hversu heitt hann elskaði hana, og að hann hugsaði opt um hana og dreymdi hana á hverri nóttu, hversu ófarsæll og ógæfusamur hann mundi verða, ef hann fengi ekki hennar að njóta, og allt annað, sem unnustar eru vanir að rita unnustum sínum; brèfinu fylgdu og vísur nokkrar, er Þórarinn hafði kveðið til Sigrúnar á suðurferðinni; lærði Sigrún þær skjótt, og hafði þær upp fyrir munni sèr kvöld og morgun, sem Faðir-vor, og opt þess á milli; vísur þessar voru þannig:

Sè jeg í fjarska fjöllin blá,
er fyrrum glaður sat eg hjá,
þar sem fasta tók eg trygð
linda við og sælu bygð.

Sè jeg í fjarska fjöllin blá,
þau firrast mig, og vilja' ei sjá
sveininn þann, er enn þeim ann
öllu af hjarta bezt sem kann.

þau hylja mína Hlíðar rós,
milt hugumblíða augna-ljós;
hrímdögg víst sú vökvuð er,
vinur hennar burt þá fer.

Veit eg að þið trygða tröll,
hin traustu og gömlu Íslands fjöll,
hlýið minni Hlíðar-rós,
hún er minnar æfi ljós.

---

# TÓLFTI KAPÍTULI.

---

Í tali daglegu temdu þèr list þá
(því lævís henni hann Lucifer kom á)
sem greiðast biblíugreinum sletta.
*S. P.*

»Annar sunnudagur eptir páska, Markús í 17. — æ, hvað er eg að þvaðra? — Jóhannes í 10. — sá góði hirðirinn; enginn kemur nú til kirkju í dag, það er eg viss um,» — sagði sèra Sigvaldi og gekk um gólf í stofu sinni, klæddur í kjól og með hvítan kraga um háls-
, — -samt mun betra til vonar og vara að
il, til að fara með í stólinn, e

rækallinn rekur það á mig.» — þegar sèra Sigvaldi hafði sagt þetta við sjálfan sig, gengur hann að skáp einum, er stóð þar í stofunni. Skápurinn var litaður dökkgrænn, með rauðum listum og læst hurð fyrir, en á hurðinni framanverðri stóðu tvær línur af höfðaletri: «þenna skáp á Árni Einarsson með rèttu,» og árstalið, nær hann hafði verið smíðaður. Bæði bókstafirnir og tölustafirnir voru rauðir, og var auðráðið af nafninu, að þessi skápur væri erfðafè Sigvalda prests, því sèra Sigvaldi var Árnason. Prestur tekur upp úr vasa sínum lyklakerfi, og var þar á einn lykill er gekk að skápnum. Innan í skápnum voru sex rennihvolf, dregur prestur eitt af þeim út og gengur með það að stofuborði og setur það þar, sezt síðan niður við borðið. Í rennihvolfinu var á að geta 10 eða 11 baggar eða bindini af skrifuðum kverum, og um sèrhvern bagga var hnýtt annaðhvort hvítum eltiskinns-þvengjum eður svörtum reimarlýgli. Í bögglum þessum var sálarforði sóknarbarna Sigvalda prests, er hann var vanur að útbýta þeim á hverjum löghelgum degi, ef óveður eður önnur lögmæt forföll bönnuðu ekki. Ýmislega voru bindini þessi löguð að amlegum skapnaði, voru sum í áttablaða-'oti, sum voru áþekkust almanökum; þá voru m löng og mjó, og ekki ósvipuð markatöflum,

eða hústöflunni gömlu, sem prentuð var á Hól-
um. Þá er prestur var seztur við stofuborðið, tekur hann að blaða í ræðuböggluni sínum; leysir bandið utanaf hverjum fyrir sig og leitar í sèrhverjum, bindur utanum þá aptur og leggur síðan hvern sem búinn var hjá sèr á borðið og raulaði eitthvert erindi fyrir munni sèr, eins og menn eru vanir að gjöra er þeir dunda við eitthvert verk, er ekki þarf mikillar umhugsunar; en eptir því sem honum sóktist verkið og fækka tóku bögglarnir, þeir sem óskaddaðir voru, mátti sjá það á svip prests og öllum látum, að líkt fór fyrir honum og manninum forðum, þá er konúngur veitti honum leyfi til að kjósa trèð, er hann skyldi hánga á, að hann fann það ekki svo bráðlega. Eru nú að eins eptir tveir bögglar óskoðaðir. Lítur prestur þá ofan í rennihvolfið og segir: «Hèr er þá ekki um auðugan garð að gresja, og ekki annað eptir en skræðurnar, sem eg fèkk hjá honum sèra Sveini heitnum, tröll hafi nú tóbakið, hum, hum! — Á eg engar skræður, sem þèna þessu guðspjalli? — það verður þó að vera eitthvað hèr, það átti að vera heill árgángur, eg gaf honum þrjú hundruð af þorskhöfðum, því hafa þeir gárúngarnir, — það heyrir enginn til, — haft það nafn á þeim, að kalla þær þorskhöfða prèdikanir.» Í þessu tekur prestu

annan baggann, sem eptir var í hvolfinu, leysir utanaf honum og fer að leita, og er hann hefir um stund blaðað í bögglinum lítur hann á eitt heptið og segir: «það lá að, hèr kemur hún — ræða á annan sunnudag eptir páska — óþarfa lángt exordium — látum oss sjá, hvað leggjum við útaf?» sagði prestur og rendi augunum yfir fremstu blaðsíðurnar af ræðunni og les síðan í hálfum hljóðum: ««Vèr viljum því, kærir bræður, á þessu litla stundarkorni í kortleika og eptir vorum brostfeldugu efnum, yfirvega útaf þessa dags evangelio: primo eða í fyrsta máta, að vèr allir sèum vánkaðir,»» — «rètt er það» sagði prestur: ««og secundo eða fyrir það annað,»» — «já þar hefi eg nú ítem, ««að vèr—»» «rètt er það, etc. hum, hum — en hèr er galli á gjöf Njarðar, vantar sumsè tvö eða þrjú blöð aptanaf ræðunni, og svo mun eg hafa fengið hana — skaði er hvernig allt fúnaði og skemmdist hjá honum sauðnum, hum, hum, — og bænina, hum, hum, en úr því er nú betra að ráða — en hitt var verra — en látum samt sjá, hèr getur verið amen eptir efninu, hum, hum». Í þessum svifum var stofunni lokið upp og kom Guðrún ráðskona inn, fer þá prestur að hraða sèr að láta aptur niður í hvolfið bindinin, en stíngur ræðunni í vasa sinn og varpar um leið orðum á Guðrúnu og segir:

«Sèst til nokkurs kirkjufólks, júngfrú Guðrún?»

«Einhverjar tvær karlmannsbræður eru að koma hèrna neðan túnið; mèr sýndist annar þeirra líkur meðhjálparanum.»

«Já hann er alltènd að þessu rölti karlhólkurinn,» sagði prestur, «þó enginn komi; og ekki nema einn með honum?»

«Nei, ekki sýndist mèr það vera; það kemur varla margt í þessari færð, og nýafstaðnir páskarnir.»

«Það hefir nú fengið nokkuð af messum held eg, og seinast á sunnudaginn að var. — Þú vísar honum híngað inn, meðhjálparanum,» sagði prestur og stakk rennihvolfinu inn í skápinn og læsti.

«Hann mun rata vænti eg sjálfur, vanur er hann því,» sagði Guðrún ráðskona og gekk aptur út; en að lítilli stundu liðinni er stofunni lokið aptur upp, og kemur inn maður nokkur. Það var meðhjálparinn. Hann var meðalmaður á hæð, þèttvaxinn og þreklegur, rjóðleitur í andliti, kríngluleitur og þó mikilleitur nokkuð, og svo til svipsins, sem hann hefði sjálfur fulla vissu um, að hann væri spekíngur að viti; hann hafði hár mikið og greitt aptur beggj megin við eyrun og sást ennið allt og var það ekki alllítið. Hann var svo klæddur, að hann

var í blárri peisu, silfurhnepptri, bol tvíhnepptum og svörtum stuttbuxum, var klauf á neðan og þar í þrír knappar; á ljósbláum lángsokkum, brugðnum, og mosaböndum. Hann bar hátt höfuðið og velti vöngum, gekk djarfamannlega og var ljóst á öllu látbragði hans, að maðurinn þóktist eiga nokkuð undir sèr. En er hann kom á mitt stofugólfið, kveður hann prest og segir:

«Heilir ávallt prestur góður! eg á að minnast þess, að konan mín óskar yður góðs.»

«Sælir og blessaðir, Grímur minn,» sagði prestur, «sjaldan látið þèr standa á yður.»

«Mèr ber, prestur góður, að minnast orða postulans: hver embætti hefir, hann gæti þess; það væri ekki alllítil mínkun, ef stæði á meðhjálpara myndinni,» sagði Grímur og velti vöngum.

«Komuð þèr einsamall, monsèr Grímur?»

«Nei, nei, prestur góður, eg lèt einn af drengjunum mínum gánga með mèr,» sagði meðhjálpari.

«Vilið þèr ekki setja yður niður, meðhjálpari minn!» sagði prestur.

«Þökk er mèr á því, en með leyfi yðar, prestur góður, ætla eg að bregða mèr fyrst út kirkjuna og líta eptir altarispípunum, ef messað ynni að verða, og þeirra orsaka vegna verð g að biðja um lykilinn.»

«Hann er að venju, Grímur minn, í glugganum,» sagði prestur.

Grímur meðhjálpari gekk að glugganum og tók þar lykilinn, spennti hann báðum höndum og vagaði fram gólfið, og hèlt honum svo á brjóstinu, og var auðsèð, að honum þókti ekki vegur sinn minka, er hann hafði í höndum skýrar jarteiknir embættis síns og ágætis. Líður nú lítil stund, og kemur Grímur aptur; veltir hann enn vöngum og segir:

«Nú vona eg að allt sè tilbúið í kirkjunni, ef á þarf að halda, prestur góður; en eg held, prestur minn, að þèr í dag megið segja um okkur sóknarbörnin yðar eins og spámaðurinn Jeremías til hinnar harðsnúnu kynslóðar Ísraelslýðs: «húsið Ísrael skeytir mèr ekki, líka svo sem sú kvinna, sem ekki sætir sínum unnusta lengur,» sagði Grímur og velti vöngum, «hèr mun verða fátt um heyrendur orðsins í dag.»

«Já, eg vænti það verði fátt um kirkjufólk í dag,» sagði prestur, «eg hafði þó búizt við, að það hefði orðið messað — gjörið þèr svo vel, meðhjálpari minn, að setja yður niður og fá yður dálítið tár í staupinu.» Um leið tók prestur silfurstaup er stóð í glugganum, og flösku, o~ hellti á staupið, tekur það og setur á munn sèr og drekkur það ofan til hálfs, skenkir síðan á það aptur fullt og býður Grími; gengur han'

að borðinu, hneigir sig, veltir vöngum, setur á munn sèr og drekkur þó ei nema rúman þriðjúng; prestur sèr, að hann hefir drukkið lítið af og segir:

»þèr gjörið þessu harðla lítinn kostnað, meðhjálpari minn!»

»Og er það þó eigi af því, prestur minn, að eg fyrirlíti gáfur drottins, eður álíti það vanvirðu vín að smakka, því Salomon segir: »»hóflega drukkið vín gleður mannsins hjarta;»» »en hitt er það, prestur góður, eg lèt konuna mína skenkja mèr vænt staup, áður en eg fór að heiman; — en fyrst þèr af örlæti yðar vilið svo vel gjöra, þá er mèr þökk á að eg mætti kalla á drenginn minn, til að fá svo sem hálft staup.»

»Já, sjálfsagt,« sagði prestur, »það er ekki orða vert. Hver er sá sem með yður er?»

»það er sonur minn, Egill, hann er kominn aptur til mín fyrir fám dögum; en eins og yður er kunnugt, hefir hann nokkur ár verið hjá móðurfrænda sínum, Árna mínum á Völlum,» sagði Grímur.

»Og er hann kominn með yður? — mèr þykir vænt um að sjá hann, — eg hefi heyrt þess getið, að hann væri kominn heim til yðar aptur. þèr áttuð, Grímur minn, að láta hann undeins koma inn með yður; þèr vitið það, meðhjálpari minn, að þèr og allir yðar eru vel-

komnir í mínum húsum,» sagði prestur. Grímur gekk fram eptir stofugólfinu; en er hann var kominn hèrumbil fram á mitt gólfið, segir prestur í hálfum hljóðum, en þó svo hátt, að vel mundi Grímur hafa mátt heyra: «sómafólk allt það fólk.» Grímur sneri sèr við að presti og sagði: «hvað þóknast yður, prestur minn!»

«Og það var ekkert» sagði prestur dræmt, «látið þèr piltinn yðar koma inn.»

Grímur lauk upp stofunni og stóð á þröskuldi, situr Egill þar í anddyrinu og talaði við einhvern af vinnumönnum. Egill var maður um tvítugsaldur, hár vexti og mundi skorta alllítið á þrjár álnir, hábeinn og herðalítill, toginleitur og grannleitur, ljóshærður og fèll hárið ofan um hálsinn og þverstýft að neðan; að framanverðu hèkk það ofan á mitt ennið og var þar einna þykkvast. Hann var að öllu eins klæddur og faðir hans, nema það eina, að vesti hans og hálsklútur var ljósleitara. Grímur stóð í stofudyrum, eins og áður er sagt, kallar hann á Egil og segir:

«Egill litli, komdu! prestinum þóknast að sjá þig; — heilsaðu prestinum, drengur minn!»

Egill gekk innar stofugólfið og þar að sem sèra Sigvaldi sat, tók í hönd honum, kysti ha[n] og hneigði sig. Prestur bað hann taka sæti þ[ar] við borðið hjá föður sínum, og skenkti honu[m]

á staup; tók Egill það og saup í stað upp, tók í hönd presti og hneigði sig, á þann hátt, sem kvennmenn hneigja sig nú á dögum, og settist síðan niður aptur; tók þá prestur til orða, og snýr málinu til Gríms og segir:

«Mèr sýnist, meðhjálpari minn, að pilturinn sè farinn nokkuð að togna, þèr verðið að fara að hætta að kalla hann lítinn.»

«Og ekki er hann stór, drengurinn,» sagði meðhjálpari og velti vöngum, «en hann er enginn apturkreistíngur, heldur svona við sig á sínum aldri; hversu gamall ertu, sonur?»

«Eg, faðir minn? — eg var nítján vetra um jólin í vetur,» sagði Egill.

«Svo mun það vera, hann er frumburður sinnar móður,» sagði meðhjálpari.

«Allt mannvænt fólk sem að honum stendur,» sagði prestur, «fáir munu hèr um sveitir vera efnilegri á hans aldri, held eg.»

«þetta er rengla ennþá, prestur minn, og óharðnað, sem von er til,» sagði Grímur, «það er heldur ekki allt komið undir styrkleikanum, því vizkan er betri en styrkleikinn, og einn vitur sonur gleður sinn föður, en fávís sonur er móður sinnar hrygð, segir Salomon; en svo Guði fyrir að þakka, að þau eru ekki heimsk akkarnir mínir.»

«þau eiga heldur ekki neina heimskíngja í

ætt sinni,» sagði prestur, «allt skýrleiksfólk, hum, hum.»

«Ekki sæmir mèr að miklast af vitinu,» sagði Grímur, og velti drjúgum vöngum, «því hvað er það maður, sem þú hefir ekki þegið; en það litla sem hann kann, drengurinn, til munnsins, þá er það honum Árna mínum á Völlum að þakka, og það veit eg, að hún móðir hans vill, að hann stæði ekki á baki annara í þesskonar. Meðal annara orða prestur minn, eg ætla að minnast á það meðan eg man: má eg láta drenginn sitja hjá mèr í kórnum, mèr þykir það svo sem sè svona hýrara, þar eg á að heita meðhjálpara-mynd. Þá gæti hann sèð á Gradúalið hjá mèr, hann hefir að minni hyggju ekki ólagleg hljóð drengurinn, og ef hann vanaði söng, gæti hann einhverntíma tekið undir vers.»

«Það er sjálfsagt, Grímur minn, að þèr látið hann sitja hjá yður,» sagði prestur, «ekki er of mikið um söngmennina í kórnum.»

«Það var gáta mín,» sagði Grímur, «en má eg ennfremur leyfa mèr að spyrja yður: mundi yður mislíka, þó eg við og við lèti hann taka í klukkustrenginn fyrir mig á helgum, en á stórhátíðum öllum hríngi eg sjálfur?»

«Þèr gjörið sem yður þóknast með þ[illegible] meðhjálpari minn,» sagði prestur.

Í þetta mund kom einhver í stofu og sa[illegible]

að nú sæist til allmargs kirkjufólks; varð presti nokkuð bilt við þá fregn, en Grímur stóð upp, velti vöngum og sagði:

«Látum oss þá gánga í kirkju og breiða á altarið, og komdu með Egill litli, það er jafngott þó þú lítir eptir hvernig eg fer að breiða á altarið; hvar lèt eg kirkjulykilinn?»

«Hann er hèrna, faðir minn,» segir Egill, «á eg ekki að halda á honum út.»

«Hann ber eg sjálfur, drengur minn, þú ert of úngur og óráðinn að fara með þann hlut,» sagði Grímur og tók um leið lykilinn, spennti hann greipum, hneigði sig fyrir presti og gengur til kirkju. Ekki kom margt kirkjufólk þann dag, en þó taldist svo til að messufært varð Tíðagjörðin fór að venju reglulega fram. Prestur var ekki eins lángorður, eins og hann var vanur, og sögðu sumir á eptir, að ræðan hefði orðið nokkuð snubbótt í endanum, og bænagjörð prests styttri en venja var til, en þó allhjartnæm. Önnur tíðindi höfðu menn ekki frá kirkjunni að segja, nema það, að nýr maður hefði verið settur í kórinn þann dag, og það væri sonur meðhjálpara, hann hefði allra fallegustu dillandi hljóð og hefði súngið svo hátt, að það ...fði verið allt eins og aðrir hefðu þagað í ...irkjunni. Hann mundi með tímanum eiga að ...rða meðhjálpari eptir föður sinn, því með-

hjálparinn hefði látið hann klykkja út í fyrsta sinni; en svo hafði illa til tekizt, að klukkustrengurinn hafði hrokkið sundur, svo að hætta varð að hríngja í miðju kafli. Eptir messuna tók kirkjufólk smámsaman að fara heim, en sumt staldraði við, þar til búið var að gjöra því nokkurn greiða. Meðal annara, sem komið höfðu til kirkju, var Sigurður bóndi frá Hlíð; hafði hann ekki komið fyr, en farið var að byrja stólsvers. Eptir messu gekk hann til stofu og kvaddi prest, og tók prestur kveðju hans blíðlega; ber Sigurður síðan upp erindi sín, að hann ætli að biðja þar næturgistíngar, tekur prestur því líklega, og biður Sigurð að gjöra sig þar heimakominn; er prestur hinn kátasti. Eptir þetta gengur prestur til baðstofu og hittir prestkonu og Sigrúnu. Um þetta leyti höfðu þeir feðgar, Grímur og Egill, ærið að starfa: slökkva ljósin í kirkjunni, koma fyrir skrúða og láta hvern hlut á rèttan stað. En er því var lokið, gengur Grímur til stofu og lætur Egil koma með sèr; tekur Grímur í hönd presti, hneigir sig og segir:

«Guðsást fyrir kenníngunа, prestur góður!»

«Haldi þèr til góða, meðhjálpari minn,» segir prestur, «og setið þèr yður niður, Grímur minn, item þèr, úngi maður, Egill minn tyllið þèr yður niður, eg held kvennfólkið kom hèr með volgan sopa fyrir okkur, hum, hum,›

sagði prestur, og varla var hann búinn að sleppa orðinu og þeir feðgar niður seztir, fyr en stofunni er lokið upp, og tveir kvennmenn koma inn; sú sem á undan gekk var húsfreyja og bar kaffibolla í hægri hendi, en sú sem síðar gekk var Sigrún frá Hlíð, og hèlt hún á sínum bolla í hvorri hendi. Sigrún nemur staðar rètt fyrir innan dyrnar og stendur þar með bollana, en húsfreyja gengur innar og setur þann bollann, er hún heldur á, fyrir prest; presti verður ekki litið á Sigrúnu, þar sem hún stóð, og segir í hálfum hljóðum:

«Kemur ekkert fyrir meðhjálparann?».

«Jú, hèrna er sopi fyrir þá feðgana,» sagði prestkona og sneri sèr við, og tekur við bollunum af Sigrúnu og setur þá fyrir þá feðga, gengur út og segir við Sigrúnu um leið: «bíddu hèrna og komdu með bollana, þegar þeir eru búnir að drekka.» Sigrún varð því eptir, og stóð í stofuhorninu, en prestur og meðhjálpari taka tal saman, og hnígur viðtal þeirra helzt að veðráttu og hvernig vora mundi. Egill lagði ekki til þeirra mála, en það sèr prestur, að honum verður tíðara litið fram í stofuhornið en áður, og grunar prest, þó hann gamall sè, hvert tilefni þess var. Drekka þeir nú kaffið, og sèr Sigrún það, og gengur að borðinu og heimtir saman bollana; fer enn svo, að Agli verður nokkuð star-

sýnt á hana. Egill var maður úngur og óráðinn, og lítt kunnugur því siðalögmáli, sem sumir kunna vel að halda. Hið fyrsta og æðsta boðorð í lögmáli þessu er þannig: «þú skalt ekki einblína fyrir augum allra á stúlku þá, sem þèr lízt vel á og þú vilt ástir af fá, það er óráðlegt og henni óþægilegt, sættu heldur ráðvíslega lagi; lát sem þú takir ekki eptir henni meðan menn hafa augun á ykkur báðum, en skotra augum til hennar þegar engan varir, vertu aptur fljótur að koma andliti þínu í sömu fellíngar og stellíngar, og snar og sniðugur að snúa augunum í aðra átt, áður þeir líta við.»

þessa íþrótt kunni Egill ekki, því hann var sannkallað «barn í lögum.» Hann starði svo lengi og stöðugt á Sigrúnu, eins og hann ætlaði að krækja hana að sèr með augunum, og var hverjum heilskygnum hægt að sjá og vita hvað hann hugsaði, það er í fám orðum: «á þessa stúlku lízt mèr vel, eg vildi eg ætti hana.» Sigrúnu gat ekki dulizt hvað Agli var innanbrjósts; hún roðnaði útundir eyru, flýtti sèr að taka saman bollana á borðinu og skauzt út í skyndíngu. Prestur leit eptir henni, gekk um gólf þegjandi um hríð og hummaði, eins og hann væri eitthvað að hugsa, en segir síðan:

«þekkið þèr, Grímur minn, þessa stúlku, sem inn kom?«

«Eg er nú, prestur minn, farinn að gefa þeim minni gaum úngu meyjunum, en þegar eg var í broddi lífsins,» sagði Grímur, velti vöngum og brosti í kamp, «var það ekki fósturdóttir hjónanna í Hlíð, ekki man eg hvað hún heitir?»

«Sigrún,» svaraði prestur, «ein fríðleiksstúlkan, hum, hum.»

«Ekki er á það að líta, fríð er kvennsniptin, hún er eins og Salomon að orði kemst: ««blóm í Saron og rós í dalnum.»»

Slíkt er nú úngra manna,» sagði prestur og hálfbrosti og leit til Egils, «að sjá hvað þeim líður þessum úngu og upprennandi konuefnum, — eg verð eitthvað að gjöra mèr til gamans við hann Egil minn,» sagði prestur og kínkaði kolli framaní hann, »hver veit nema hann sè nú farinn að líta í kríngum sig einhverstaðar; þetta veit enginn, fyr en það kemur upp úr kafinu allt í einu fyrir þessum úngu og efnilegu mönnum, hum, hum.»

«Og ekki held eg það,» sagði meðhjálpari og velti vöngum, «eg býzt við það sè eins fyrir honum drengnum enn þá og þar stendur: ««sjá eg leitaði um nóttina í sæng minni eptir henni, er sál mín elskar, og eg leitaði og fann ekki,»» þó getur hann betur sagt frá þessu sjálfur.»

eg ráði yður nokkuð Lokaráð, — og svo eg ekki orðlengi þetta mál fremur, þá hafa þau Hlíðarhjón mælzt til þess, að eg útvegaði þeim vinnumann í vor; þau hafa fáa verkamenn, en kvikfènað mikinn. Sigurður minn er farinn að lýjast, hann vantar einkum verkstjóra, er hans missir við, því hann er ekki farinn að geta fylgt fólki sínu í misjöfnu veðri. Hvað segir þú, Egill minn, ætla að þú mundir vilja fara þángað eitt ár, ef faðir þinn vildi sleppa þèr? hum, hum.»

Egill verður ekki seinn til svara og mælti: «Fyrir mitt leyti held eg það gæti lagazt, það kemur samt mest undir því hvað faðir minn vill.»

Það var auðsèð á Grími, að honum þókti Egill svara þessu máli helzt til bráðlega; Grímur stóð þar á gólfinu skammt frá Agli, veltir vöngum, strýkur saman höndum og mælir mjög áminnilega:

«Þann skortir vit sem strax lofar, segir Salomon, fyrir því son minn, vilir þú mína ræðu meðtaka og mínum boðorðum hjá þèr halda, þá áttir þú að heyra orð föður þíns, áður en þú svaraðir nokkru hèr um — þèr fyrirgefið prestur minn, þó eg siðsæmi son minn — en það er ekki fyrir það: sæmilegan stað álít eg það vera fyrir son minn, að fara að Hlíð, þar er sæmdar kona, en konunnar vísdómur reisir hús-

ið, segir Salomon; en heyra vil eg fyrst, hve sæmileg boð Sigurður bóndi gjörir syni mínum, áður en eg heiti nokkru hèr um, eða sleppi honum úr mínum kofum, þó lakir sè.»

Prestur sagði þá, sem var, að þar sem hann hefði vakið máls á þessu efni og væri þess fýsandi, væri sèr skylt að sjá svo fyrir, að Agli væri boðnir þeir kostir, er þeim feðgum báðum þækti sæmilegir og vel mættu þeir við una; væri það ekki opt, sem hann hefði hlutazt til um vistarráð manna, en þá sjaldan hann hefði það gjört, hefði það jafnan vel tekizt, mundi svo enn fara, enda segði sèr svo hugur um, að Egill mundi þar af heill hljóta; kynni hann og ekki mann á velli að sjá, ef Egill yrði ekki gæfumaður mikill, og mundi þetta upphaf hamíngju hans; talaði prestur hèr um mörgum fögrum orðum; fannst það brátt á Agli, að honum þókti þetta fýsilegt; Grímur lèt sèr í fyrstu fátt um finnast, en þó kom svo, að Sigurður í Hlíð skyldi koma til viðtals við þá feðga og gekk prestur til baðstofu til fundar við hann, en á meðan töluðust þeir feðgar, Grímur og Egill, við í stofu, og tók Grímur þá svo til orða:

«Eg þykist nú hafa orðið þess áskynja, sonur sæll, að þèr sýnist það allfýsilegt að ráðast til Hlíðar, og má svo vera, að það verði þèr að gæfu, eins og prestur getur á, því spá

er spaks geta, en það grunar mig nú, þó eg sè gamall og glapsýnn orðinn, að hèr búi nokkuð meira undir af þinni hálfu, sonur sæll, en þú enn hefir mèr sagt; datt mèr áðan, er Sigrún Þorsteinsdóttir kom hèr í stofuna, í hug orð hins vísa Sýraks, er þannig hljóða: hafðu enga umgengni við söngkonuna, að þú verðir ekki fángaður af hennar brögðum, og skoðaðu ekki meyjuna, svo þú verðir ekki lokkaður af hennar yndisleik. Nú vil eg, sonur sæll, að þú segir mèr hvort svo er sem mig uggir, að þèr lítist vel á mey þessa, og ef svo er, mun eg það ekki lasta, því svo getur hèr verið sem Salomon segir: ««þú rænir mig mínu hjarta, mín systir, með einu tilliti þíns auga,»» og ekki vil eg fyrirmuna þèr þann ráðahag, því mèr sýnist meyjan efnileg vera, og er ekki ólíklegt að þau Hlíðarhjón gjöri hana vel úr garði, þar sem hún er fósturdóttir þeirra.»

«Ója, faðir minn,» sagði Egill, mikið skrækhljóðaður, mèr lízt dável á hana, og ætli henni lítist ekki líka á mig, ha?»

«Það er mèr ókunnugt, en gjör þú, drengur minn, sem þitt hjarta lystir, en þó skal það vera í skilmálum milli okkar Sigurðar,» sagði Grímur, «að hann gipti þèr meyjuna, ef það er hennar fús vili og þèr snýst ekki hugur er þið kynnist betur.»

Egill þakkaði föður sínum fyrir tillögur hans, og kvað sèr þetta vel líka. Um sama mund kom prestur aptur í stofuna, og var Sigurður í för með honum, býður hann Sigurði þar til sætis; taka þeir nú allir tal, og ræða fyrst á víð og dreif um veðráttu og fjárhöld, en síðan víkur prestur talinu aptur að því, sem þeir Grímur höfðu haft að umtalsefni.

«Hèr er nú,» segir hann, «kominn Sigurður minn í Hlíð, og hefi eg sagt honum frá umræðu þeirri, er við höfðum hèr fyrir skömmu, meðhjálpari minn! — sagði eg honum, að þèr mundduð ef til vill gjöra það fyrir mín orð og milligöngu, að ljá honum son yðar, Egil, fyrir vinnumann eitt ár eða lengur, eptir því sem lagast og mönnum um semur; hèr eru nú allir, sem hlut eiga að máli, viðstaddir, og er þá bezt að hver segi sinn góðan og vel beþenktan vilja.»

«Mèr er stærsta þökk á,» sagði Sigurður, «vili þèr Grímur minn ljá mèr son yðar eitt ár, eg veit það mun vera efnilegur maður og vinnumann vantar mig, en hverir eru skilmálar, sem þèr setið upp fyrir hans hönd?»

«Já, eg ætla að gjöra það Sigurður sæll, fyrst presturinn minn hefir heldur talað að því, því svo segir postulinn: ««hlýðið yðar kennifeðrum og látið að orðum þeirra,»» en ekki verður það skilmálalaust, því annt er mèr um drenginn;

hver sæmdaboð býður þú, Sigurður minn?» sagði meðhjálpari og velti vöngum að venju.

«Hvað sýnist yður, prestur minn,» sagði Sigurður, «eg stíng uppá fimm vætta kaupi fyrst.»

«Það gjöri eg mig ánægðan með, þó það sè ekki mesta kaup, sem orðið getur, en meira lít eg á hitt, að hann hafi atlæti gott, því eg met það mikils, af því mèr finnst það sannast optast, sem prèdikarinn segir: ««betri er einn hnefi með ró, en báðar hendur fullar með sorg og armæðu,»» og það veit eg, að illa mundi hann kunna við það, drengurinn, ef hann væri settur undir tortuna á hinum vinnumönnunum, því svo þekki eg hann, að hann sver sig í þá ættina; og loksins áskil eg það, að fari svo, að sonur minn girnist á ærlegan hátt fósturdóttur þína Sigurður minn, hana Sigrúnu, þá skalt þú, Sigurður sæll, gipta honum hana.»

Sigurður þagði fyrst, en sagði síðan eptir litla þögn:

«Eg á nú lítið með hana, en ekki skal eg vera meinsmaður þess, ef hún vill það sjálf.»

«Seinlega þykir mèr þú, Sigurður sæll, taka því máli, eða veizt þú eigi hvað Sýrak. þar um segir: ««hafir þú dætur, svo gæt þú að þeirra líkama, og ven þær engum óvanda,»» og enn fremur: ««gipt þína dóttur, svo hefir þú gjört

mikið verk, og gipt hana skynsömum manni,»» eður hyggur þú hana vangefna syni mínum?»

Sigurður kvaðst að vísu hyggja, að það væri gott ráð, en hún mundi þó vilja mestu sjálf um ráða, enda væri hún nú hèr og væri bezt að bera það mál undir hana. Átti þá prestur hlut að máli, kvað hann það mundi þykja nokkuð brátt að undið, að bera það mál þegar fyrir hana, væri og sumar konur svo dular í fyrstu um vilja sinn, að þær lètust ekki vilja allbrátt játa því, sem í skyndíngu væri borið fram, og væri hitt ráðlegra, að Egill rèðist til Hlíðar og kynntust þau þar, mundi það þá brátt verða, ef Agli geðjaðist að Sigrúnu, að saman mundi draga með þeim, og gæti ekki hjá því farið, að Sigrún sæi sóma sinn, slíkur maður sem Egill var, mundi þá ekki þurfa það mál lengur að túlka, skyldi Sigurður aðeins heita því, að eiga góðan hlut að þeim málum, og að svo miklu leyti hann gæti stuðla til, að þau ráð tækist; þókti öllum prestur hafa vel mælt, og verður það, að þeir binda þetta allt fastmælum eins og prestur hafði ráð til lagt; hummaði þá prestur lengi, gekk um gólf, brosti í kamp og var hinn glaðasti.

---

# ÞRETTÁNDI KAPÍTULI.

Skarphèðinn og postulinn Páll,
það eru mínir menn.
*Máltak Ísleifs Einarssonar.*

Á meðan prestur og Grímur áttu þessa ræðu í stofunni, var kirkjufólkið smátt og smátt að tínast af stað, og urðu nú engir eptir, nema þeir, sem ætluðu að vera þar um nóttina. Einn af þeim var maður nokkur, er Bjarni hèt, og var Ásgrímsson, hann bjó á þeim bæ, sem Hjalli heitir, það var yzti bær í sókninni. Bjarni þessi var ekkjumaður og átti börn nokkur, voru þau öll komin í vistir annarstaðar; Finnur Bjarnason á Stað var einn sona hans. Hann var að efnum talinn með hinum betri bændum þar í hrepp; átti hann jörð þá, er hann bjó á, og allmikið gángandi fè. Kona Bjarna var dáin fyrir fjórum árum, og bjó hann síðan með systur sinni, er Þórunn hèt. Hann var búhöldur í betra lagi, og með því hann var ómagalaus maður, en hafði fjölskyldu litla, var það almanna rómur, að heimilis-ástæður hans væri svo góðar, að vel mætti honum græðast fè, eða að minnsta kosti svo mikið, sem svaraði því, er hann þurfti meiri mat en aðrir menn; en því tóku menn svo til orða, að menn vissu að honum nægði

ekki minni matur, en tveimur eða þremur körlum, þeim er röskir voru, og hvar sem hann kom, og menn þekktu hann, var aldrei settur fyrir hann minni matur en vant er að bera fyrir tvo eða þrjá; en eptir því, sem hann var matmaður, eptir því var hann mikilvirkur til allra starfa. Hann var hár maður vexti, og að því skapi þreklegur; allra manna var hann hraustastur; var það almæli, að aldrei hefði honum orðið aflafátt. Bjarni var ekki fríður maður yfirlitum, en þó ekki ókarlmannlegur, stórskorinn í andliti og brúnamikill, breiðleitur og nefstór. Hann var gæfur hversdagslega og óáleitinn, en reiddist illa ef hann skipti skapi. Bjarni var fremur vel greindur í andlegum efnum, og ymsu, er fyrir kemur í daglegu lífi, og bjó hann mest að því, er hann hafði numið í æsku; hann var og mjög fastheldinn við það, og ekki þókti honum varið í aðrar bækur eða fræði en þá, sem tíðkuð hafði verið þegar hann ólst upp; hafði hann því mestu andstygð á öllum nýjum ritum og kallaði það hègiljur einar og trúarvillur, en þó var hann allra manna trúgjarnastur á allt það, er öðrum mönnum þókti ótrúlegast, og mestum sætti fádæmum og hindurvitnum, einkum um aflraunir fornmanna; hafði hann jafnan yndi af því, að heyra allt þessháttar og segja frá því aptur, og stóðst ekki reiðari,

en ef einhver dró efa á frásagnir hans. Fyrir þessu þókti hann nokkuð kátlegur, og var ekki trútt um, að hinir ýngri menn henti gaman að auðtryggni hans. Bjarni var daglega svo klæddur, að hann var í gráum stuttbrókum og hvítum sokkum með rósabönd, á síðum bol bláum tvíhnepptum, með renndum beintölum; jafnan hafði hann riðtrefil um hálsinn og yzt fata bar hann kufl gráan, er náði liðlega ofan fyrir mittið. Á helgidögum og mannfundum var hann svo klæddur, að hann var í blárri mussu silfurhnepptri, röndóttum bol síðum og bláum prjónabuxum með klauf og þremur flötum silfurhnöppum í; sokkarnir voru ljósbláir, brugðnir. En hvort er hann var heima eða á mannfundum, hafði hann jafnan á höfði röndótta húfu, og þar yfir steypti hann stundum hatti miklum og barðastórum. Í þetta skipti ætlaði Bjarni að fara frá kirkjunni á Stað í erindagjörðir nokkrar, á bæ, er var þar í sókninni ekki allskammt frá Stað, en með því nokkuð var farið að líða á dag, þegar messugjörð var úti, rèði hann það af, að biðja sèr næturgistíngar; var honum vísað til sætis í húsi þeirra hjónanna, og sat hann á rúmi húsfreyju og krosslagði fæturna fram á loptið, tók ofan hattinn og setti á rúmið hjá sèr, en sat með húfuna á höfðinu, því hana tók hann sjaldan ofan nema í kirkjunni. Ekki var þar annað

manna í húsinu, en hann og vinnumaður, er þorsteinn hèt, og svo einn aðkomumaður og ein griðkona, ræddu þeir við hann, og var þorsteinn þó meira fyrir svörum; var þetta eitt af ræðunni, að Bjarni tekur svo til máls:

«Meðal annara orða, þorsteinn góður, hvað sagði þessi lángferðamaður í frèttum, eða hvaðan kom hann?»

«Vestan af Vestfjörðum.»

»Af Vestfjörðum, aldrei hefi eg á Vestfjörðu komið, en það hefi eg sannfrètt, að þar eru ákaflega miklir galdramenn, og sèrlega máttugir; þar var Latínu-Bjarni eða Bjarni Djöflabani, þormóður í Gvöndareyjum, er bylinn gjörði að honum Oddi lögmanni; þar voru Baulhúsabræður, Hallur á Horni og fleiri, og þaðan var hún komin skrattinn hún Hvítárvallaskotta. Er nokkuð að frètta þaðan?»

«Ekki nema að þar kvað hafa verið í vetur þau hörku grimdar aftök, sem enginn man dæmi til annars eins, því þegar hann fór að vestan, var gengið af Horni lángt fyrir framan alla fjörðu og beint á Látrabjarg, og þaðan var farið með lest undir Snæfellsjökul; þá var lagt allt sem augað eygði, út á haf, og tveir menn gjörðu það að gamni sínu, að gánga fram á skörina, og þeir sáu Grænland og sögðu, að ekki hefði

verið nema ein lítil vök eptir órennd, sem þeir komust ei yfir.»

«Já, geysi mikil frost hafa komið þar í vetur, og það vissi eg aldrei dæmi til þvílíkra frosta, en hitt vissi eg, því sannorður maður hefir sagt mèr það, að árið 1694 eða 5 var svo mikill fannkomu vetur í Norðurlandi, að það voru átján tröppur ofanað bustinni á dómkirkjunni á Hólum, skaflinn, og þá var herra Steinn þar biskup, heldur en Björn heitinn.»

«Þó eru það meiri frèttir um hvalinn, sem þeir fengu þar vestra í haust eð var.»

«Já, hvað er um þann hval?» sagði Bjarni.

«Hann kvað hafa verið svo stór, að menn þykjast aldrei hafa sèð annan eins fisk.»

«Hvað er til merkis um það?»

«Þeir fundu niðrí þessum hval annan hval heilan og óskertan, og sá hvalur var mældur, og var áttatíu faðmar á milli skurða.»

«Voru það ekki álnir»?

«Nei, faðmar er mèr fortalið.»

Já, ákaflega stór hefir sú skepna verið, sem gat gleypt svo stóra skepnu í heilu líki, og aldrei hefi eg heyrt getið um svo stóran hval, og satt er það, feykilegum vexti geta sumar skepnur í sjónum tekið; en það vissi eg, að á Suðurnesjum veiddist einu sinni, nokkrum árum áður en eg fór að róa í Grindavík, svo stór

þorskur, að hann var hertur gildustu baggar uppá hest, en höfuðið var látið ofan á milli, og þá sligaðist hesturinn, og var þó mesti úlfaldagripur, tveggja grjóna-tunnu hestur; en hvað ætli mennirnir hafi getað gjört við allan þenna hval, því furðu mikið spik hefir orðið af þvílíkum fiski, þeim hefir orðið helmíngurinn af honum ónýtur»?

«Nei, þeim vildi það til, að þar kom um sama leyti einn Karkari, sem keypti að þeim allt spikið, en rengið hirtu þeir mestallt sjálfir, og sá Karkari var á svo stóru skipi, að þegar hann var búinn að taka við öllu spikinu, sást lítill eða enginn hleðslumunur á því.«

«Ojá, stórt hefir það verið nokkuð, en þó hefir það ekki verið svo geysilega stórt, eins og sum skip kvað vera í útlöndum; það kalla eg stórt skip, sem eg hefi heyrt getið um, það voru á því átján þúsund, átta hundruð, áttatíu og átta menn.»

«Það hafa sjálfsagt verið átján hundruð menn, því svo stór skip eru til,» sagði vinnumaður.

«Og lángt frá barn, lángt frá! það kalla þeir kænur, sem 1800 eru á, það voru 18888; það voru þetta tvær og tvær fjölskyldur í hverju einasta hjóli í reiðanum og áttu þar heimili; en í körfunni var staður með, og tvær annexiur með tilheyrandi kirkjusóknum, og fjögur hundruð áttu

heima við stýrið; eg hefi talað við mann, sem þekkti einn, sem hafði verið á þessu skipi, það var Indíafar og átti að sækja náttúrusteina til Kappadosiu.«

»Náttúrusteina? já,» sagði vinnumaður.

«Já, það eru margskonar steinar til í náttúrunni barn, einkum í Blálandi, Serklandi og Grikklandi; það er til að mynda: lausnarsteinninn, hulinhjálmssteinninn og óskasteinninn; lausnarsteinarnir, þeir eru svartir, það á að leggja þá undir túnguræturnar á konum og þá geta þær fæðt; eg hefi sèð þessháttar stein þegar eg var úngur, þeir eru í rauninni ekki steinar, en það eru augnasteinar úr villimönnunum á Blálandi; þeir kristnu slátra þessu svarta fólki eins og fè, til þess að ná úr þeim augnasteinunum, hroðalega er nú að farið, he, he; síðan eru þeir þurkaðir lengi og hertir og eru seldir dýrum dómum; hulinhjálmssteininn hefi eg aldrei sèð, hann kvað vera líkastur fèkvörn, ekki heldur óskasteininn, en þann stein vildi eg þó eiga helzt af öllum steinum, því mikil er náttúra þess steins, og ekki þekki eg neinn, sem þann stein á, hèr nálægt.»

«Á, þekki þèr engan?»

«Nei, ekki með vissu,» sagði Bjarni, e rètt í því hann sagði þetta, kom Sigrún þar in í húsið og bar í hendinni fisk einn mikinn o

sex kökur og smjörkúpu allgjörfilega, og víkur sèr að Bjarna og segir:

«Húsmóðirin bað mig, Bjarni minn, að bjóða þèr dálítið að borða; á ekki að setja það á borðið fyrir þig, eða viltu taka við því hèrna, þar sem þú ert?»

«Og láttu það koma hèrna, stúlku kind, eg get látið kúpuholuna vera hèrna á milli fóta minna, á meðan eg gjöri mèr gott af því. Það var dásamlega gjört af húsmóðurinni, að gefa mèr að borða núna, því nú finn eg að eg hefi nokkurnveginn matarlyst, því ekki hefi eg smakkað mat síðan snemma í morgun, og af því eg fór fyr á fætur, en eg er vanur, gat eg ekki borðað eins og eg á að mèr, eg greip tvo hryggjarliði og bríngu af lambketlíng, og hvaða matur er það allan daginn?» — Eptir það tekur hann við kúpunni og setur hana í knè sèr, og leggur síðan fiskinn og kökurnar ofan í hana, tekur síðan ofan húfuna og signir sig og segir síðan:

«Eg verð að hafa borðsálminn í styttra lagi í þetta sinn, og gefið þèr mèr í guðsfriði!» — Eptir það tók hann til matar og var auðsèð, að maðurinn var bæði fimur og fljótleikinn að því verki, tók hann fyrst kökurnar og lagði hverja tvöfalda saman og stýfði svo, og voru þær allar sex systur horfnar á svipstundu. Þarnæst lagði hann að fiskinum, var það og ljóst, að hann var

slíkum piltum vanur, enda leið ekki á löngu áður hann hafði gjört honum lögskil, var þá og feitmetinu lokið; litlu áður kom Sigrún með leirskál, fulla af súru skyri, hnausþykku, og mjólk útá, urðu menn þess varir, að Bjarni leit allhýru auga til skálarinnar og hraðaði sèr að setja frá sèr kúpuna. Skálin var átta marka ílát, og tók hann við henni tveim höndum og knèsetti; varð þeirra aðgángur bæði harður og lángur, en svo lauk, að hann hafði ágætan sigur, og til merkis um það þurkaði Bjarni hana innan með sleikifíngri sínum, tók síðan roðin af fiskinum, sneri þau vandlega saman og stakk þeim ofan í smjörkúpuna, lèt hana síðan ofan í skálina, og setti svo skálina á kistil við rúmið og segir við Sigrúnu, er staðið hafði þar í húsinu hjá þeim þorsteini, meðan Bjarni var að mjaða ofan í sig skyrinu úr skálinni:

«Hèrna stúlka góð, færðu húsmóðurinni það, og skilaðu þakklæti og segðu, að eg hafi fengið sæmilega nóg.»

Sigrún tók skálina, og fór Bjarni þá að lesa borðsálminn og var nú sýnu lengur með þenna en hinn fyrri; signir sig síðan og setur upp húfuna og segir við vinnumann:

«Já, eg inni til þess aptur, sem við vorum að tala um þorsteinn góður, um náttúrusteinana; enginn af þessum náttúrusteinum er ein

þarflegur eins og óskasteinninn; þarna fær maður allt, sem maður óskar sèr, ef maður hefir hann; lángi mann til að mynda í kjöt, þá kemur kjöt, eða ef menn hefðu lyst á huppi eða bríngukolli, — og ekkert er eins ljúffengt af skepnunni, eins og bríngukollurinn — nú, þá þarf maður ekki annað, en að óska sèr hans, og þarna er hann undireins kominn; — jú, ef eg ætti þann stein, þá held eg maður óskaði sèr margs, og eg er raunar sæmilega saddur núna, en þó held eg mèr yrði fyrst fyrir að óska mèr einhvers ljúffengs bita, að mýkja kverkarnar svona eptir á, til að mynda síðubita af holdgóðum fimm vetra gömlum dilksauð; en hèr sèst nú aldrei sauður, sem ætur biti er á, þetta eru allt rytjur, því hvaða fita er það á fjögra og fimm vetra gömlum sauðum hèrna, þó þeir skerist með tveimur fjórðúngum bezt, og þetta tveggja og hæst þriggja fíngra þykk himnan utan á rifbeinunum; en ættu menn sauði, sem hafa gengið í Ódáðahrauni, — það eru molar, sem uppalast þar! — þar eru sauðirnir, eins og tveggja vetra, stærri en stærstu vetrúngskálfar á haustnóttum í bygðinni; — hann sagði mèr það hann maður, þórólfur hèt hann, eg þekkti hann suður í Grindavík, hann hafði verið í Ódáðahrauni þrjú ár, þrjá mánuði, þrjár vikur og þrjá daga: það þykir afstyrmis arlaki tvævetur, og varla gjöra

í blóðið, skili hann ekki hálfvættinni á tvo mörvana, en síðurnar af þeim eru gildasta þverhönd og þar yfir í sárið, soðnar, hángnar og beinharðar ofan úr eldhúsi, og svo bráðfeitar, að það matast af þeim hnífurinn köldum, eins og af góðúm hálfkæstum bakhákalli — já, ekki má eg hugsa til hákallsins! — það er einhver hinn ágætasti, gómsætasti, ljúffengasti og kjarnbezti átmatur, vel orðinn og nógu gamall.»

Nú gaf Bjarni nokkra málhvíld; þá segir vinnumaður:

«Þú getur þá, Bjarni minn, sagt okkur eitthvað frá Ódáðahrauni, fyrst þú talaðir við mann, sem hafði verið þar meira en þrjú ár.»

«Hann var þar þrjú ár, þrjá mánuði, þrjár vikur og þrjá daga; þú átt að taka rètt eptir! — já, margt hefi eg heyrt um Ódáðahraun, þar eru átta stórar sveitir, og æði rubbúngar sem þar búa, láta þeir ekki allt fyrir brjósti brenna, enda eru það piltar, sem hafa eitthvað í köglum, sem ekki er að furða, að lifa á jafn-kjarngóðri fæðu; en ekki hefi eg tíma til að segja frá öllu, sem eg hefi heyrt þaðan, og engan veit eg fleiri sögur þaðan kunna, en mig og Þuríði gömlu, sem nú er niðurseta í Hlíð. — Eg skal einhverntíma láta hana segja mèr seinna söguna, sem hún sagði mèr einusinni úr Ódáðahrauni; — en nú fer eg snemma á sta'

á morgun, og því ætla eg, með leyfi þeirra sem með eiga, að snara mèr hèr útaf, þángað til farið er að skamta í kveld, og talaðu nú ekki meira við mig, drengur!»

Að því búnu lagði Bjarni sig endilángan aptur á bak í rúmið, en með því maðurinn var ákaflega lángur, svo að óvíst var hvort hann hefði getað legið allur í rúminu án þess að svínbeygjast, og það annað, að hann nennti ekki að leysa skó sína, þá lèt hann fæturna liggja fram á loptið. Sofnaði hann skjótt og hraut ákaflega. Svaf Bjarni svo, þar til komið var að háttatíma, var hann þá vakinn og vísað til gestaherbergis þess, er var undir baðstofulopti, og ætlað var fyrir hina óæðri gesti. Í herberginu voru tvö rúm, sitt fyrir hvorri hlið, en fyrir gafli stóð borð eitt allmikið og neglt niður í gólfið og sín kista hvorum megin við það, til að sitja á. Var svo ætlazt til, að gestir þeir allir, er þá voru komnir að Stað, og vèr höfum áður um getið, skyldu taka kvöldverð í herbergi þessu og sofa þar um nóttina, og áttu sínir tveir að vera í hvorri hvílu. Þeir feðgar Grímur og Egill og Sigurður voru fyrir þar í herberginu þegar Bjarni kom, og höfðu þeir tekið sèr sæti á kistunum, en Bjarni settist á kistil, sem stóð hjá öðrum rúmgafli, og tóku þeir allir að ræða um ýmislegt, sem þá þókti mestum

tíðindum sæta þar í hèraðinu. Leið nú ekki á löngu, áður matur var á borð borinn. Það var saltkjötssúpa, og voru borin föt tvö allmikil. Annað fatið var trèfat, afarstórt og sýnu meira en hitt, er var af tini. Setti griðkona sitt fatið hvorum megin á borðið og lagði nautshyrnínga tvo hjá hvoru fatinu. Spænirnir voru afarmiklir og allvel gjörðir, og höfðaletur skorið á sköptin. Síðan bar griðkona fram leirskál eina mikla og setti á mitt borðið, átti sá matur, er þar var í, að vera til vara, ef þrot bæri að höndum í annari hvorri skálinni. Var svo til ætlazt, að hvorir tveir af gestunum skyldu vera um hvort fatið. En þegar framreiðslunni var lokið, vísaði griðkona gestum til sætis, og áttu þeir Bjarni og Grímur að borða úr trèfatinu, en Egill og Sigurður úr hinu; spurði griðkona þá fèlaga, hvort þeir ekki hefðu á sèr hnífa, því ekki voru borðfæri önnur fram lögð en spænirnir, og játtu þeir því allir. Síðan settust þeir til borðs eptir því sem þeim var til vísað. Gjörðist fátt til tíðinda hjá þeim Sigurði og Agli; en með þeim Grími og Bjarna varð það títt, að þegar þeir eru niður seztir þrífur Bjarni nautshyrníng einn annari hendi, krossar sig í skyndíngu, og myndar sig þegar til að hafa ár á borði. Grímur lagði hendurnar í kross á brjóstið og bjóst ti að lesa borðsálminn, en er hann lítur tilræ

Bjarna, getur hann ekki gjört að sèr að varpa orðum á hann, veltir nú vöngum og segir:

«Ertu ekki vanur, Bjarni sæll, að meðtaka fæðu þína með þakkargjörð?»

»Ekki er eg vanur,» sagði Bjarni, «að lesa borðsálm þó eg lepi súpusopa, en signa mig er eg vanur, það er fljótgjört, en bæn þú þig Grímur minn, bíða skal eg á meðan, svo að við göngum jafnsnemma að verkinu.»

Grímur lèt sèr það að góðri kenníngu verða, leggur aptur hendurnar í kross og les eitthvað í hljóði, og er því var lokið, krossar hann sig á brjóstið og tekur síðan hornspóninn, þann er þar lá hjá honum, í hönd sèr og segir um leið:

«Svo far þú og et þitt brauð með gleði og drekk þitt vín með góðu geði, segir prèdikarinn.»

«Hvað varst þú að tala um prèdikunina í dag, Grímur bóndi?» segir Bjarni, «hún var allgóð fyrir þá, sem hefðu getað munað hana.»

«Eg var ekki að tala um ræðuna í dag,» sagði Grímur og velti vöngum og brosti í kamp, «heldur um prèdikara Salomonis.»

«Já, já, þú varst að minnast á Salomon, já það var maður á sinni tíð, og geysilegur fjörmaður hefir það verið, því það hefi eg sannfrètt, að hann átti 900 konur og þrjú þúsund frillur; en maðurinn hefir átt sèrlega gott, og var heldur ekki blásnauður, og þó þókti honum gam-

an að drottníngunni frá Arabíu, þegar hún heimsókti hann; með henni átti hann tvo tvíbura, mestu þrekmenni, og af öðrum þeirra var Úlfar sterki kominn.»

Á meðan Bjarni lèt þessa dælu gánga, var hann ekki iðjulaus; ruddist hann fast um í skálinni með hornspæni sínum, og veiddi upp hvern bitann eptir annan og hurfu þeir á svipstundu, en ekki sinnti Bjarni súpunni. Tóku brátt að þynnast fylkíngar kjötbitanna í fatinu, því svo drengilega framgöngu veitti hann, að ekki mátti við standa. Grímur hafði fyrst lagt að súpunni, og fór að öllu stillilega og ekki óðslega, en er hann sèr, að slíkt aðgjörðaleysi mundi ekki hlíta, rèðist hann að einum kjötbita, og var það hnúta mikil og torsókt, varð honum ekki greiðt að sigrast á henni, svo á meðan hafði Bjarni sèð ráð fyrir 3 eða 4 rifjabitum, og talaði þó jafnframt, og snýr hann nú allt í einu ræðunni frá Salomon kóngi til Gríms meðhjálpara og segir: «en Grímur sæll, þú verður að sjá svo fyrir, að þú hafir þinn skerf af matnum, því nú bíð eg ekki, eg er fljótur að taka fæðuna á meðan hún er til, en súpuna er eg vanur að sötra á eptir.»

Grími hafði ekki þókt aðfarir Bjarna með öllu góðar, þó hann í fyrstu lèti kyrt um, en þ er Bjarni hófst máls, virtist honum að han

yrði að svara; sleppir hann um stund hnútunni frá munni sèr og segir síðan:

«Eg fer að öllu sem hægast, Bjarni sæll, eg hefi jafnan haft fyrir augum það sem hinn vísi Sýrak segir:» ««vertu ekki óseðjanlegur af ljúfmeti, og ráðstu ekki gírugur til fæðunnar.»»

«það hefir verið seinlætismaður þessi Sýrak, sem þú segir frá, því það hefi eg staðreynt, að þeir, sem eru æði lengi að eta, eru þúngir og daufir og slinnalegir, þegar þeir eiga að vinna, og svo hugsa eg þessi Sýrak hafi verið, sem þú talar um, hvaða mannskepna var það?»

«Talaðu virðulega um drottins útvalda, Bjarni góður,» sagði Grímur.

«Eg tala virðulega um manninn fyrir það, þó eg kalli hann skepnu, því allir menn eru skepnur, og þó eg haldi hann hafi verið seinlátur; en varla mun hann hafa verið meiri vitmaður en Grettir heitinn Ásmundsson, og vildi hann hafa mat sinn á Reykhólum en engar refjar, sem von var, því maðurinn var ákaflega stór og eptir því hraustur, eins og sèst af Grettistökunum á Miðfjarðarhálsi, og víðar; ætli Sýrak hefði getað sett þá pilta á hlóðir í fángi sínu, sem þar standa? — það var mikið hvað sá maður orkaði, enda hefir sannfróður maður og sannorður sagt mèr, að Grettir hafi verið

þrjár álnir danskar og þrjú kvartil um herðarnar.»

«Sá einfaldi trúir öllu, en hygginn maður athugar sinn gáng,» segir Salomon; «hver hefir sagt þèr það, Bjarni sæll, að Grettir hafi verið þrjár álnir danskar um herðarnar og þrjú kvartil; eg held það hafi einhver sagt þèr það, sem hefir gaman af því að glettast við þig og gabba, og skrökva að þèr, af því þú ert sagður nokkuð trúgjarn, sonur sæll,» sagði Grímur og velti vöngum.

«Hugsar þú, Grímur góður, að telja mèr trú um, að það sè lygi sem sannorðir menn hafa sagt mèr um Gretti Ásmundsson, að hann væri 3 álnir og 3 kvartil um herðarnar, og betur trúi eg því en þínum orðum; þú hefir aldrei maður verið, og getur ekki ímyndað þèr að til hafi verið meiri maður en þú.»

Það var nú ekki að furða, þó Grími þækti þessi orð heldur óviðfeldin; hann leggur spóninn frá sèr á borðið og segir: «hvar fyrir upphefur sig sú en arma jörð og aska?»

Í þessum svifum grípur Bjarni tveim höndum fatið hið mikla, og setur barminn á munn sèr og svolgrar í tveimur teigum það sem eptir var í því af súpu, kastar því síðan frá sèr á borðið, stendur upp og er þá allreiður, en Grímur er þá kominn fram á gólf og segir:

«Rèttvís maður etur svo hann seðst, en kviður óguðhræddra hefir aldrei nægju.»

Bjarni er þá og kominn fram á gólfið, og er þá við sjálft búið að hann muni gánga að Grími, en í því bili hleypur Sigurður og Egill milli þeirra, svo þeir ná ekki saman; hafði þá og hávaði nokkur heyrzt upp á lopt, og kom prestur að vörmu spori ofan og vill vita hvað í hafi skorizt, en er þeir sjá prest, sefast þeir nokkuð, en ekki skorti þó heitíngar og frýjunaryrði af beggja hálfu; svo lýkur, að þeir sefast og setur hann grið milli þeirra, meðan þeir eru þar á staðnum. Guðrún ráðskona var þá komin í herbergi og ræðir um, að mál sè til hvílu að gánga, segir hún það með, að svo hafi verið til ætlazt, að þeir Bjarni og Grímur skyldu vera hvílunautar, en Egill og Sigurður lægi saman í hinu rúminu; en Grímur aftekur það með öllu, að þeir Bjarni sofi saman, og kveðst heldur þegar á brott fara, vildi hann ekkert samneyti hafa við Filisteann; varð svo að lyktum, að þeir feðgar Egill og Grímur sváfu saman, en Bjarni og Sigurður lágu í öðru rúminu. Voru þeir Bjarni og Grímur sáttir að kalla, en þó skorti ekki heitíngar, ef þeir fyndist í góðu tómi; gjörði Grímur helzt ráð fyrir að kalla eld af himni, og steypa honum yfir Bjarna; en Bjarna þókti ráðlegast að fá öxina Grimmugýgi og kljúfa

Grím í herðar niður. Sváfu þeir nú allir af um nóttina, en um morguninn snemma fór Bjarni af stað, sem hann hafði ætlað, og var lengi kalt með þeim Grími og Bjarna eptir þetta, sem síðar mun sagt verða.

---

# FJÓRTÁNDI KAPÍTULI.

*Sigrún fer heim að Hlíð.*
*Kvonbæna umleitan Egils.*

Mánudaginn þriðja í sumri kom Sigrún aptur heim að Hlíð, og var henni þar allvel fagnað. Þórdís húsfreyja var hin kátasta um daginn, og lèk á als oddi; hún kysti fóstru sína, klappaði henni allri utan, og skoðaði hana í krók og í kríng eins og hún hefði ekki sèð hana í mörg ár. Það sem eptir var dagsins og svo hinn næsta dag hafði húsfreyja nóg að gjöra, að spyrja Sigrúnu frètta og segja henni aptur þau tíðindi, er gjörzt höfðu þar á heimilinu síðan hún fór. Branda hafði borið rètt fyrir páskana og komizt í 18 merkur; hún hafði átt kvígukálf ofur fèlegan, svarthúfóttan, öldúngis eins á litinn og hún Gullbrá heitin amma hennar. Þór-

dís hafði ekki tímt að skera hann, af því hann var af því kyni, og ætlaði að ánafna Sigrúnu kvíguna, og vita hvað hún yrði farsæl. Skjalda var orðin nærri því þur, en Ljómalind hreytti enn að vonum. Lítið sagði þórdís hefði orðið úr innivinnunni eptir að Sigrún fór; það hefði orðið æði skarð fyrir skildi, þegar hennar hefði mist við frá spunanum. Vel hafði rakizt hnyklakippan, sem Sigrún spann vikuna áður en hún fór, og betur en þær höfðu gizkað á. Úr ljósbláu bandviðunum, sem hún hafði átt, hafði hún og Sigríður prjónað nærpeisu fyrir Sigurð, þó hafði það ekki enzt að fullu, og sagðist hún því hafa orðið að prjóna gráu framan við ermarnar. Sigrún hafði og ærið margt að segja fóstru sinni frá af högum sínum, á meðan hún hafði dvalið á prestssetrinu; sýndi hún henni eitt og annað, er hún hafði hannyrðað þar, og lèt húsfreyja vel yfir, og þókti henni Sigrún framaför þángað farið hafa. En þótt margt bæri á góma millum þeirra fóstra, gat þó ekki Sigrún neitt um samdrátt þann eða kunníngskap, sem verið hafði á millum þeirra þórarins og hennar, enda var sá orðrómur, sem lagzt hafði á þar á staðnum um það efni, ekki kominn svo lángt, að húsfreyja hefði heyrt nokkuð hop á því.

Laugardaginn næsta eptir að Sigrún var

aptur heim komin að Hlíð, var skildagi Egils Grímssonar. Lèt faðir hans Grímur ferja hann þángað og fylgði honum sjálfur í vistina, og var þar um nóttina, en daginn eptir bjóst hann til heimferðar; hafði hann áður falið þeim Hlíðarhjónum hann á hendur með mörgum fögrum orðum. Skildust þeir feðgar með miklum kærleikum fyrir utan tún, þar lagði Grímur hendur yfir son sinn og blessaði hann, og bað, að fyrirætlun hans hefði gæfusamlegan framgáng og farsællega endalykt, »og ætla eg,» segir hann, »sonur góður, að skilnaði að kveðja þig með þessum orðum Salomonis: »»son minn, hlýð þú aga föður þíns, og yfirgef ekki boðorð þinnar móður.»» Eptir það skildu þeir feðgar. Egill var einn vinnumanna heima í Hlíð um vorið. Aðrir húskarlar Sigurðar voru við sjóróðra; starfaði Egill með bónda að húsagjörðum og vallarvinnu og öðrum heimilisönnum, og var hann bónda allfylgisamur. En ekki hafði hann verið lengi í Hlíð, áður húsfreyja og griðkonur þóktust taka eptir því, að Agli þókti kærast jafnan að vera þar sem Sigrún var, og í kríngum hana. Ávallt er Sigrún fór til útivinnu á túni, vildi hann ekki vera annarstaðar að verkinu en sem næst henni, og ef færi gafst á gætti hann svo til, að þau sem optast yrðu tvö saman útaf fyrir sig; beiddi Sigrún hann að

víkja hendi eða fæti fyrir sig til einhvers, var hann jafnan eins og á hjólum, en stígramur og sporlatur þókti hann hinum öðrum vinnukonum. Þegar hann hafði lítið að starfa og var heima við bæinn, mátti svo að orði kveða, að hann nálega elti Sigrúnu út og inn. Væri Sigrún inni við, sat hún jafnan inni í húsi hjá fóstru sinni á rúmi sínu og saumaði eða spann, var fleiri mönnum ekki ætlað þar sæti um daga, en þeim hjónum og henni. Egill átti rúm fram á baðstofulopti, en stæði svo á, að hann hefði ekki útivinnu, sat hann sjaldan í sæti sínu, tók hann þá uppá því í fyrstu, að hann gjörði sèr upp ýms erindi til þeirra hjóna inn í húsið, og sat þar á meðan hann lauk erindi sínu, og smátt og smátt tók hann að venja þángað komur sínar, þó ekki hefði hann erindi á reiðum höndum, og varð þetta bráðum að vana, að hverja stund, sem hann ekki þurfti að sinna útiverkum, tróð hann sèr inn í herbergi þeirra hjóna og sat þar löngum, valdi hann sèr þá jafnan sæti á pallkistli einum, er stóð við rúmstokk Sigrúnar, og krosslagði fæturna fram á loptið. Á hverjum sunnudagsmorgni, er hann var kominn á fætur, flýtti hann sèr jafnan að kemba sèr, þvo sèr og ræsta sig allan frá hvirfli til ilja; skrýddist hann þá bezta spariskrúða sínum, það var mussa silfurhneppt, sortulituð, og fèllu barmarnir mjög

út á báða vegu, en vasar á hvorutveggju hlið; framan á ermunum voru uppslög dökkblá; mussan náði vel ofan fyrir mjaðmir og stigli á báðum megin; standkragi var á mussunni Egils, og var hann eins litur og uppslögin. Þá voru svartar stuttbuxur og sokkar svartir og rósabönd um í hnèsbótum. Þá er Egill hafði skoðað sig vandlega og svo um búizt sem honum líkaði, var hann vanur að gánga til herbergis þeirra hjóna, bauð þeim góðan dag, og settist síðan niður hjá rúmi Sigrúnar, og sat þar og masaði eitt og annað á meðan Sigrún var uppi, horfði á hana meðan hún greiddi hár sitt og tók eptir öllu sem vendilegast. Allhvumleiðar þóktu Sigrúnu komur Egils þángað og setur hans, en þorði þó ekki um að ræða; var það og hvorttveggja, að henni þókti maðurinn hvorki fagur álitum nè heldur viðræður hans skemtilegar. Fór svo fram um hríð, að Egill hèlt fram uppteknum hætti um komur sínar, og líkaði Sigrúnu því miður sem lengur var, svaraði honum þó jafnan hógværlega, er hann ræddi við hana. Ekki líkaði Þórdísi heldur vel háttalag Egils, þókti henni Egill helzt til framur, en fann þó ekki að um sinn, og ekki hafði hún neinn grun um, hvað undir bjó af hans hálfu; gat hún þess helzt, að þar sem Egill var þar nýkominn og lítt kunnugur, mundi hann enn ekki samþýðast heim-

ilisfólki, og hefði því helzt afþreyíng og yndi af því, að aðhyllast húsbændur sína og Sigrúnu, enda hefði hann þar til verið í foreldra húsum. Sigrún sá betur, hvar fiskur lá undir steini, og vildi hún fyrir hvern mun venja Egil af komum sínum þar í húsið og þaulsetum; hugsar hún nú upp það ráð, að jafnan, er hún var komin á fætur hvern morgun, tekur hún kistil þann, er Egill var vanur að sitja á, og setur hann upp í rúmið til fóta; eru Agli nú þau sund lokuð, að sitja á kistlinum; sèr hann þá að eitthvað verður til bragðs að taka og sezt hann nú jafnan á rúmbríkina hjá Sigrúnu; þykir henni nú sýnu ver en áður, og færir nú aptur kistilinn í sama stað næsta morgun, enda sezt Egill þar. Þegar Egill hafði verið nær því fjórar vikur í Hlíð, hittast þeir feðgar Grímur og Egill eitthvert skipti; spyr Grímur Egil, hvernig hann uni hag sínum þar í Hlíð. Egill segir sem var, að hann er þar allvel haldinn, og að þau hjón sè vel til hans. Þessu næst innir Grímur eptir um kvonbænirnar, og hvort honum sè jafnt hugleikið sem áður um ráðahaginn, og segir Egill, að honum er það nú öllu hugfastara en áður, og 'ítist sèr því betur á Sigrúnu, sem hann kynnist henni betur.

«Hefirðu þá, sonur, borið það mál upp fyrir neyjunni?» segir Grímur.

«Ekki enn nú,» segir Egill, «er það bæði, að eg hefi sjaldan fengið færi á að mæla við hana í einrúmi, en þó ber hitt heldur til, að í hvert skipti, er við höfum verið tvö saman og eg hefi ætlað að ráðast í að nefna það við hana, hvort hún vildi eiga mig, þá hefir mèr aldrei dottið í hug, hvað eg ætti að segja, eða hvernig eg skyldi hefja máls á því, og því meira sem eg hefi hèr um hugsað, því meira vefst það fyrir mèr, hvernig eg skal til haga um bónorðið, því það bögglast fyrir mèr, babbi, á hverju eg á að byrja,» sagði Egill.

«Það sannast á þèr, drengur minn,» sagði Grimur og velti vöngum, «sem Sýrak segir:» ««fávíss manns hjarta er líka sem einn pottur, sá eð lekur, og kann engum lærdómi að halda;»» «svo hèlt eg, sonur sæll, þig uppfræddan vera í garði föður þíns, að þú þyrftir eigi að vera í vandræðum með að haga svo túngu þinni, að það gæti þèr til auðnu orðið; en svo gjörast nú þeir hinir úngu menn, yður þykir allt fært, en kunnið þó ekki ráð til neins ef á herðir.»

«Þèr hafið nú aldrei sagt mèr, faðir minn,» svaraði Egill, «hvernig eg, ha? ætti að að fara, ef eg beiddi mèr stúlku, eða hvað, ha? — en hverni fórst þú fyrst að faðir minn, þegar þú beiddi hennar móður minnar, ha?»

»Það man eg ekki drengur minn, það a

vikaðist öðruvísi, að eg færði móður þína í hús föður míns,» mælti Grímur og velti vöngum.

«Viltu ekki segja mèr, faðir minn, hvernig eg á að byrja, eða vilt þú ekki nefna það fyrir mig við hana?» segir Egill.

«Ekki mun eg það gjöra,» sagði Grímur, «að fara á fund Sigrúnar, en túlka skal eg mál þitt við fóstru hennar, þórdísi, þegar þú hefir komizt eptir vilja Sigrúnar sjálfrar; en nú, fyrst þú hefir mig þar til kvaddan, að segja þèr hvernig þú skalt bera fram mál þitt við meyjuna, þá mun eg þèr það að vísu segja: still þú þá svo til, að þið sèuð tvö saman; gakk þú svona eins og eg gjöri.» — Grímur spenti greipum saman á brjóstinu og velti vöngum, — «gakktu stillilega og alvarlega framan að meyjunni, tak þú hönd hennar og mæl þú síðan með alvörugefni: þú hefir fángað mitt hjarta, mín systir, með þínu auga» (Lofkvæði Salomons 3: kapítula, sagði Grímur lágt), halla þèr síðan að meyjunni, sem þú vildir kyssa hana, og seg: hunángsseimur drýpur af þínum vörum, mín systir, hunáng og mjólk er undir þinni túngu, og ilmur þinna klæða er Líbanons ilmur; — munt þú þá fljótt verða þess áskynja, hvort hugur meyjarinnar hneigist til þín eður ekki. Hugfest þú þessi orð, sonur minn, og lát mig síðan

vita hverju fram fer, mun eg og brátt koma að Hlíð og fullgjöra þetta mál við þau hjón.»

Egill þakkaði föður sínum tillögur sínar góðar, og er Grímur hefir nokkrum sinnum haft fyrir syni sínum þenna formála og Egill hyggur sig fullnuma orðinn, snýr hann aptur heim til Hlíðar og hyggur nú gott til síns máls. Leið nú svo enn nokkra hríð, að ekki ræðst Egill til að flytja bónorðið; bar tvennt til þess, það fyrst, að sjaldan bar svo undir að hann fengi færi á að hitta Sigrúnu eina, því þó Egill hèldi venju sinni um það, að snaga inn í svefnherbergi þeirra hjóna, og sitja þar, þegar hann ekki sætti utanbæjar-störfum, þá voru jafnan fleiri menn viðstaddir; og það annað, að honum þókti miklu varða, að hann gæti flutt erindi sitt með svo mikilli stilli, kunnáttu og kurteisi, er svo mikilvægu máli sómdi; var hann helzt áhyggjufullur um það, að sèr mundi í nokkru skjátlast að bera fram þau ummæli, sem faðir hans hafði fyrir hann lagt og boðið honum við að hafa, þá er hann í fyrsta skipti birti Sigrúnu vilja sinn. Það var einn dag um þessar mundir, að Egill átti að starfa nokkuð að moldarverkum, það var að hlaða fjárhúsvegg einn, er riflnn hafði verið um vorið; var hann þegar b-inn að leggja undirstöður og hlaða eitt eða t hnausalög á ofan; lá verkefni það, er hafa þur

til vegggjörðarinnar, þar hjá vegghliðinni utanverðri, var það bæði rof og kvíahnaus nýstúnginn og garðtorf gamalt, er hann hafði til að binda vegginn með; þar stóð og moldarhrúga allmikil, og bar Egill þaðan moldina í trogi, jafnóðum og hann hlóð og moldaði vegginn. Egill gekk fast að verkinu á milli, og nær því hamaðist, en er hann hafði gjört skorpu harða, hvíldist hann aptur lánga hríð, settist á vegginn, brýndi ljá sinn, sat og hugsaði og var þá alláhyggjufullur. Þenna dag varð húsfreyju gengið til fjárhúsa, ætlaði hún að líta þar eptir sauðataðshlöðum nokkrum, er nýlega voru saman bornir af túni, og gæta að, hvort griðkonur hefðu þrifalega við skilizt. Fjárhúsin stóðu þrjú saman, og hvert við hliðina á öðru, var Egill að verki við það húsið, sem fjærst var bænum, en taðhlaðarnir stóðu undir hlið þess hússins, er að bænum vissi, og mátti ekki sjá þaðan þángað sem Egill var, þó gengið væri frá bæ til húsanna, því fjárhúsin, þau sem uppi voru, báru af. Þórdís húsfreyja gekk til taðhraukanna og svipaðist þar um, en þá heyrir hún mannamál fyrir utan húsin, þar sem Egill var, hugsar hún, að einhver utanbæjar maður sè kominn, því ekki vissi hún von neinna annara manna hjá Agli, og vill hún skygnast eptir hver það sè; gengur hún út með húsgöflunum; en er hún kemur að því veggjar-

horni, sem næst var því enu rifna húsinu, sèr hún að Egill er þar einn manna, þykir henni atferli hans nokkuð kynlegt. Egill sneri baki að henni og verður ekki var við hana, nemur hún nú staðar við húshornið og forvitnast um hvað Egill hafist að. Sèr hún þá, að Egill stendur þar hjá moldarhrúgunni; hefir hann tekið reku eina mikla, er þar var hjá honum, og sett hana níður í moldarbínginn, á þann hátt, að tindinum var stúngið ofan í moldina, en skákarnar vissu upp. Egill stóð berhöfðaður fyrir framan rekuna og mælti síðan fyrir munni sèr:

«Nú ímynda eg mèr að þetta sè hún, og að við sèum tvö ein, hvað gjöri eg þá, ha? — Eg geng öldúngis óhræddur, eins og hann faðir minn gekk, til hennar, gríp um hendina á henni og segi: þú hefir fángað mitt hjarta, mín systir! — já, nú fipast mèr, með þínu auga, Lofkvæði Salomons 3. kapítula, svona var það; — síðan segi eg: hunángsseimur drýpur af þínum vörum, mín systir, og ilmur klæða þinna er Líbanons ilmur,» og nú myndaði Egill sig til sem hann vildi faðma meyjuna, og sló út báðum höndum utanum rekuna, sem hann ætlaði að faðma hana að sèr, en rekan stóð ekki vel föst í moldinni og hraut hún útaf við tilræðið og lenti varið frama á hökunni á Agli, svo hann greip til hökunn og bölvaði um leið. Þórdís gat þá ekki sti

sig um að hlægja ekki uppúr, en kreysti þó niður í sèr hláturinn með hósta, gekk síðan fram undan húshorninu til Egils, og lætur sem hún hafi einkis orðið áskynja og segir:

«Eg sæki þá ekki rètt vel að þèr, Egill minn, hefirðu meiðt þig?»

»Ónei, húsmóðir góð!» sagði Egill, «eg sló óvart rekutindinum framan í mig og hrufl-aði mig hèrna á hökunni, það er ekkert.»

«það fór betur,» sagði þórdís, «komdu samt heim, ætli það sè ekki betra að leggja eitthvað við það?»

«þess þarf ekki,» sagði Egill, og tók hnaus mikinn og gekk til tóptarinnar og fór að hlaða. þórdís gekk þá heim.

Ekki sagði þórdís öðrum mönnum frá, nema Sigrúnu fóstru sinni; henni sagði hún, hvers hún hefði vís orðið og svo hver ummæli Egill hafi haft, er hann stóð frammi fyrir rekunni; segir hún, að Egill þessi sè afkáralegur mjög, er hann stæði svona úti á víðavángi og talaði við sjálfan sig; höfðu þær fóstrur þetta í skympíngi sín á milli, og hentu þó mest gaman að því, sem Egill las yfir rekunni; segja þær, að Egill ætli nógu snemma að æfa sig í þeirri íþrótt, að biðja sèr stúlku, og bera það mál flysjúngslega upp; ekki lètu þær fóstrur samt neinn heyra flimtan þessa, g vildi þór-

dís fyrir hvern mun ekki, að Egill væri hafður að skopi þar á bæ, en það vissi hún mundi verða ef saga þessi kæmist á lopt.

Nú líður nokkur tími, að ekki vekur Egill til um bónorðið við Sigrúnu, en eptir því þóktist hún taka, að það var ekki einleikið, hversu fylgisamur hann var henni, hvort sem hún var úti eða inni; en ekki gat hún um það við Þórdísi fóstru sína, hverja ætlun hún hefði þar um.

Það var um vorið, að Sigurði bónda hafði lengi verið vant tveggja geldínga, er sloppið höfðu í ullu og urðu ekki rúnir; fundust þeir ekki þó þeirra væri leitað, en einu sinni sem optar hafði smali farið að leita geldínganna og fann þá í dalverpi einu litlu á Hlíðarhálsi, og hafði þeirra þó áður leitað verið um hálsinn, en jafnan gengizt yfir þá; rekur smali sauðina til Hlíðar, og lætur þá inn í kví eina þar á túninu, gengur síðan til bæjar og segir bónda frá, að geldíngarnir sè fundnir, «og er nú ráð,» segir hann, «að láta þá ekki sleppa aptur í ullinni.» Ekki voru þá aðrir menn við bæinn, en þau Egill og Sigrún, og biður hann þau að gánga til kvíar og rýja sauðina. Þau Egill fara til kvíar og rýr Sigrún sauðina, en Egill stendur í kvíardyrum og heldur í þá á meðan og stíngur höfði milli fóta sèr. Sigrún kasta ullinni upp á kvíarvegginn jafnóðum og hún rýi

Egill var hljóður á meðan á verkinu stóð; en er þau hafa rófurakað geldíngana, sleppir Egill þeim út úr kvínni, en Sigrún safnar saman ullinni, þeirri er lá á kvíarveggnum, og lætur í svuntu sína, og var henni eigi laus nema önnur höndin, er hún hèlt svuntunni með hinni. Egill gengur þá til Sigrúnar, tekur um hönd henni og segir:

«Þú hefir fángað mitt hjarta, mín systir, með þínu auga, segir —» en þá stendur nokkuð í honum.

Sigrúnu dettur þegar í hug æfintýri Egils og rekunnar, var það þá rètt komið á varir hennar að segja: «segir Egill við reku,» en hún stilti sig þó, og brosti við framan í Egil. Egill fèkk þá nýjan dug og djörfúng, og heldur áfram: «hunángsseimur drýpur af þínum vörum, og ilmur klæða þinna er Líbanons ilmur,» og í sama vetfángi ætlar Egill að leggja hendur sínar um háls Sigrúnu, en hún sá þegar tilræðið; verður henni það þá fyrir, að hún hrindir Agli frá sèr með þeirri hendinni, sem hún hafði lausa, og segir hlægjandi:

«Hvað á þetta flángs við mig, Egill, og þessi bíblíulestur, sem þú hefir,» og hljóp þegar á [illegible] heim til bæjar.

Egill herðir nú upp hugann, hvetur sporið gengur á svig við hana og segir:

«Eg hefi lengi ætlað að tala við þig Sigrún mín!»

«Já já,» sagði Sigrún.

«Lízt þèr þá ekki á mig, ha?»

«Svona hvorttveggja og bæði,» sagði Sigrún.

»Viltu þá ekki eiga mig, ha?» sagði Egill.

«Ænei, hróið mitt,» svaraði Sigrún.

«Fyrir hverju þá,» sagði Egill, og blíndi framan í Sigrúnu, eins og hann gæti með engu móti skilið í því, að svo mætti vera.

«Fyrir hverju?» át Sigrún upp eptir honum, — «fyrir hverju sem það er.»

«Hann faðir minn ætlar þó að nefna það við hana fóstru þína, og húsbóndinn hefir lofað honum því, og af því fór eg híngað.»

»það er rètt!» segir Sigrún, «nefndu það þá við þau, en hugsaðu þèr það samt aldrei, hróið mitt, að eg eigi þig.»

þegar svo lángt var komið talinu, voru þau Sigrún komin að baðstofuhorninu, og tók Sigrún þá sprett mikinn, og hljóp sem fætur toguðu inn í bæ og upp á baðstofulopt, og var þá kafrjóð í andliti. Af Agli er það að segja, að hann dundaði um stund fyrir ofan bæ, og var í fyrstu harðla óglaður og nagaði neglur; en síðan gekk hann burt og kom ekki í baðstofu fyr en um háttatíma. Morguninn ept reis hann snemma úr rekkju, og var heldur fá

látur þann dag, en þá er nokkuð frá leið tók hann aptur kæti sína. Íhugaði hann mál sitt í einrúmi, og fannst honum nú sem hann hefði lètt þúngu bjargi frá brjósti sínu, þar sem hann hafði opinberað Sigrúnu huga sinn; raunar virtist honum, sem svör Sigrúnar hefðu ekki verið sem hlýlegust, en á hinn bóginn gyllti hann það fyrir sèr, að ekki væri með þessu öll von úti, hafði hann og heyrt þess getið, að opt yrði það í kvonbænum, að stúlkur tæki hvað mest af í fyrstu, en yrði þó síðan leiðitamari, enda fèlli ekki eik við fyrsta högg, og yrðu menn að vera stöðugir í bæninni og óþreytanlegir; ásetti hann sèr því framvegis að leggja æ meira kapp á þetta mál en að undanförnu.

Þegar Sigrún kom í baðstofu eptir fundi þeirra Egils, tók Þórdís brátt eptir því, að fóstra hennar var ekki með öllu eins og hún átti að sèr, og að henni var í nokkru brugðið; innti hún þá Sigrúnu eptir, hvað til bæri. Sigrún lèt fátt yfir í fyrstu; gekk Þórdís þá fastara eptir, og kom svo, að Sigrún sagði henni alla atburði og viðræður þeirra Egils, svo og hver svör hún hefði veitt því máli; fylgdi þar með, að Sigrún kvaðst hafa ráðið það af orðum Egils, að hún hefði verið honum heitin, þegar Egill vistaðist að Hlíð. Þórdís hlýddi frásögu Sigrúnar, en er hún hætti máli sínu, tekur Þórdís svo til orða:

„Nú hefir þú gjört vel, fóstra mín, að segja mèr hið sannasta af viðræðum ykkar Egils; skil eg nú eptirá hvað undir hefir búið um það, er hann jafnan hefir vanið komur sínar híngað inn í húsið og setið hèr löngum. Svör þín, fóstra mín, þykja mèr og hæfileg verið hafa; líkar mèr það bezt, er þú hefir með öllu veitt honum afsvar. Það er í öllum viðskiptum bezt, að vera hreinn og einlægur, en einkum ríður á því í þesskonar efnum, að hafa hreinskilni, því bæði er það ábyrgðarhluti, að draga nokkurn á tálar með tvíræðum orðum, og líka getur opt svo farið fyrir þeim, sem ætlar að gabba annan, að hann grefur þá gröf, er hann sjálfur fellur í. En það er þèr skjótast af að segja um minn vilja í þessu máli, að aldrei hefði sá ráðahagur orðið mèr geðfeldur, þó þú hefðir honum unað, og mundi sá einn hlutur hafa skilið vináttu okkar. Veit eg að sönnu ekkert óráðvant eða illt til Egils þessa, en undarlega kemur mèr það, ef honum kippir ekki í kyn föðurfrænda sinna, hafa þeir allir verið menn mjúkmálir og miklir á lopti, en ymsar sögur hafa farið af því, hversu þeir hafa heilráðir og vinfastir verið. En þar sem þú kveðst hafa ráðið það á orðum Egils, að það muni hafa verið gjört að ráði millum þeirra Gríms og Sigurðar, bónda míns, að Egill skyldi þín fá, þá kemur mèr það kyn-

lega fyrir, ef bóndi minn hefir dulið mig þess, og verð eg að komast eptir því; en hefði eg vitað að svo væri, skyldi Egill aldrei hafa komið hèr til vistar að mínum vilja.» Að þessu búnu lèttu þær fóstrur talinu, og bað þórdís Sigrúnu láta sem fæsta menn vita viðtal þeirra, eða bónorðs umleitun Egils.

---

# FIMMTÁNDI KAPÍTULI.

*Fundið brèf þórarins.*

Skömmu eptir þetta var það einn dag, að Finnur frá Stað kom að Hlíð; kvaðst hann vera sendur af presti á bæ einn þar í sveitinni, en komið þar við um leið, og hefði hann skilaboð til Sigrúnar frá griðkonu einni á staðnum, og nefndi griðkonuna, gjörði hann boð fyrir Sigrúnu og bað hana út gánga. Sigrún gekk til fundar við Finn og brá hann henni á einmæli, en raunar var það erindið, að Finnur kvaðst fyrir skömmu hafa fengið brèf frá þórarni, vin sínum, og þar innan í hafi verið brèf til Sigrúnar, er þórarinn hafi beðið sig að koma til hennar. Fèkk Finnur Sigrúnu brèfið og þakkar hún honum það, en felur brèfið í barmi sínum og

biður Finn síðan inn gánga og þiggja greiða; gjörir Finnur svo, og er honum veittur beini. Sigrún hefir á orði við fóstru sína, að Sigríður þorsteinsdóttir vinnukona hafi gjört sèr boð um, að láta sig fá nokkuð af tvinna og lèrepts-renníngа, þar hún ætti peisu ótilsetta, og ekkert fóður undir ermarnar. Litlu síðar fór Finnur, en þegar Sigrún sá sèr færi, gekk hún úr baðstofu og út til fjárhúsa, og er hún hafði vandlega njósnað um, að þar var enginn maður nærstaddur, gekk hún inn í eitthvert fjárhúsið, braut upp brèfið og las. Sigrún varð harðla glöð við að sjá, að þórarinn mundi eptir henni, og svo við þær frèttir, að hann yndi vel hag sínum þar syðra og mundi koma að finna hana nær sem hann fengi færi á. Sigrún mundi hafa staðið þar í húsinu, og lesið brèfið svo opt aptur og aptur, að hún hefði verið búin að læra það orðrètt, hefði hún ekki verið hrædd um að sín yrði saknað úr bænum, ef hún væri mjög lengi burtu. Hún braut brèfið saman, stakk því í barm sinn og krækti svo peisunni vandlega að sèr og gekk heim til bæjar; laumaði hún síðan brèfinu í pallkistil sinn og vafði það áður innan í hreint lèrept; leið þó enginn sá dagur, að hún læsi eigi brèf þórarins, ef henni gafst næði til þess; sætti hún jafnan lagi, er enginn var uppi við; tók hún þá kistilinn og

setti í knè sèr á rúmi sínu, lauk honum upp og sneri honum þannig, að lokið og hjörurnar sneru fram, lèt lokið hallast að enni sèr og skyggja á meðan hún las brèfið. þetta gjörði hún til þess, að þó einhver kæmi fljótlega upp, eða inn í herbergið, skyldi það ekki sjást að hún hèldi á brèfinu, og hún gæti skellt kistlinum aptur, svo fljótt sem þurfa þækti. Einusinni sem optar var það, að Sigrún var ein í húsi, en fóstra hennar var ofan gengin til búverka eða matreiðslu. Sigrún tók þá kistil sinn að venju, og ætlar að skoða brèf þórarins. Bregður henni þá ekki alllítið í brún, er hún finnur hvergi brèfið; leitar hún nú hvervetna í kistlinum, og flettir sundur hverju knýti er í honum var. þessu næst leitar hún í rúminu og í kríngum það, en finnur ekki að heldur. þykir henni þetta kynlegt mjög, þareð hana minnti fastlega, að hún hefði síðast látið það ofan í kistilinn; tekur hún nú það ráð, að hún kveikir ljós og leitar hvervetna er henni kemur til hugar; lýsir hún um allt í húsinu, og í rúmi fóstru sinnar, og um loptið; síðan tekur hún að leita í rúmi sínu, og tekur hvert fat upp úr rúminu. Lokarspænir voru undir fötunum í rúminu, og rótar hún þeim um og gætir vandlega að öllu. Í þessu bili kemur húsfreyja inn. Sól skein í heiði og bar geisla um allt húsið; verður þór-

dísi starsýnt á fóstru sína, og þykir kynlegt atferli hennar, er hún lýsir með loganda ljósi um hábjartan dag, og hefir þegar bylt öllum sængurfötum úr rúmi sínu, virðist henni Sigrún mjög áhyggjufull um leitina; «og hefir þú glatað nokkru, Sigrún mín,» segir hún, «er þèr þykir svo mikils um vert?» — Sigrúnu verður það fyrir, að hún segir að hún hafi mist nál eina smáa, er hún hafi miklar mætur á og prestkonan á Stað hafi gefið sèr, segir slíka ekki vera til í hverju nálhúsi; «þá furðar mig ekki,» segir Þórdís, «þó þú hafir ljós í leitinni, en seint hygg eg þèr muni sækjast að kanna alla hefilspænina í rúminu eptir einni saumnál.» Sigrún kvað það satt vera og tekur aptur að koma fyrir rúmfötum sínum, var hún þá mjög sorgbitin, svo að varla mátti hún halda tárum; gengur hún nú ofan, til að slökkva ljósið og bera ofan lampann, en hitt var þó heldur, að hún vildi ekki að fóstra hennar sæi að hún tárfelldi. En er Sigrún var ofan gengin, verður Þórdísi litið til rúms fóstru sinnar; sèr hún þá, að hjá gaflbríkinni efri var rifa nokkur, og sá þar á sendibrèf eitt. Þórdís tekur brèfið og lítur utaná, sèr hún þá, að á brèfinu er kveðja, og að það er til Sigrúnar Þorsteinsdóttur í Hlíð, og var kveðjan rituð fagurlega. Þórdís lýkur brèfinu upp í skyndi, og vill gæta að, frá hverjum

það sè, lítur hún á nafnið undir brèfinu og les tvær síðustu línurnar, sèr hún að það er vísa, og er hún þannig:

«Hvað sem örlög ætla mèr,
eikin fræníngs túna,
æfi lánga ann eg þèr
yndislega Rúna!»

þórdís braut saman brèfið aptur, og stóðst það á endum, að Sigrún kom upp um loptskarirnar og þórdís brá brèfinu undir svuntu sína og læddi því ofan í pilsvasa sinn. þórdís er hin kátasta og lætur sem ekkert hafi til borið; Sigrún var þá og allglöð að sjá, en þó fann þórdís það brátt, að ekki var kæti hennar eins innileg og hún átti vanda til, og fèkkst þórdís ekki um það. Líður nú svo fram eptir deginum, og er líður undir þann tíma, að menn eru vanir að taka dagverð, gengur þórdís fram; þar var stofuhús lítið fram í bænum, var það haft fyrir presta og heldri menn, er komu að Hlíð, og var þar borð eitt ekki allmikið, og eitt rúm. þángað gengur þórdís, og lokar dyrum eptir sèr og tekur úr lykil. Tekur hún nú brèf þórarins úr vasa sínum og les, og var þetta brèfið:

»B . . . hinn 30. maí 17 . . .
Ástkæra unnusta!

Eg ætla nú hèr eptir, Sigrún mín góð, að nefna þig þessu nafni þegar eg skrifa þèr, því eg veit það fyrir víst, að megi eg ekki kalla þig svo, elskan mín, þá eignast eg aldrei neina unnustu. Að sönnu er það satt, að eg hefi ekki beðið þá, sem með eiga, um þig, og hefi því ekki rètt til opinberlega að kalla þig unnustu mína, en engu að síður ertu það samt í raun og veru, og sjálfur finn eg það því betur, sem eg er þèr fjarlægari. Síðan við skildum sakna eg þín á hverri stundu, og þrái þig eins og blindur maður birtuna, eða einhver í sjávarháska þráir ströndina og landið, þar sem hann á lífs von; og þó stendur öðruvísi á fyrir mèr en þeim, eg hefi vissuna fyrir mèr, sem mèr er fyrir öllu og ætti að vera huggun mín í útlegðinni. Eg veit að þú elskar mig eins heitt og nokkurri stúlku er unnt. Þegar við vorum saman, gafst þú mèr hönd þína og hjarta. Kossinn, sem þú kystir mig að skilnaði með tárin í augunum, vottaði það, að þú hvorki vilt nè getur tekið þá gjöf aptur. Ó! vertu blessuð fyrir hana svo lengi sem þú lifir! . . Ó, eg vildi að eg væri nú kominn til þín, svo eg gæti sagt þèr þúsundsinnum fleira en eg get skrifað, og talað við hana fóstru þína, sem er þèr svo góð og

trygg eins og hún væri móðir þín; eg skyldi þá segja henni frá, hvernig á stæði fyrir okkur, og biðja hana að leggja blessun sína yfir okkur, biðja hana að fyrirgefa okkur það, að við höfum ekki sagt henni frá því sem okkur í brjósti býr, og sannarlega iðrast eg nú þess, að eg fann hana ekki, og varð að fara bak við hana, og þess vona eg verði ekki lángt að bíða, því þèr að segja, elskan mín! hefir sýslumaðurinn, sem eg er hjá, heitið mèr því, að eg skuli fá að fara í haust að finna kunníngja mína, undir eins og hann geti mist mig; eg er að hlakka til þess, og mig er fyrir löngu farið að dreyma fyrir því á hverri nóttu, hvað yndislegt það verður að finna þig og hana systur mína, enda eru þá allir upptaldir, sem eg hlakka til að finna, nema hún fóstra þín, en eg þekki hana því miður svo lítið, og samt virði eg hana og elska í huga mínum, af því eg veit hvað hún hefir verið þèr góð og ástúðleg. Eg vona þú hafir fengið frá mèr brèfmiða með Finni, eg skammast mín fyrir hvað hann var stuttur og ónýtur. Finnur lofaði mèr að koma honum til þín svo lítið bæri á, og eg veit hann hefir reynzt mèr trúr. Af mínum högum hèr syðra er allt gott að frètta; allir eru hèr góðir og þægilegir við mig, og sýslumaðurinn þó beztur, og reyni eg til að koma mèr við hann; eg heyri suma kalla

hann harðan og stórbokkalegan, en ekki hefi eg af því að segja enn. Við erum nú nýlega komnir heim úr ferð, og svo ríðum við nú bráðum til alþíngis, verðum við þá þrír með honum og fjórði sonur hans, sem ekki hefir fyr riðið til alþíngis. Við eigum að hafa 12 eða 14 hesta, og er einum af fylgdarmönnunum ætlað að vera hestasveinn; eg á að skrifa það sem hann þarf, en hinn þriði er þjónustusveinn þeirra feðganna, og á hann vandasamasta embættið af okkur öllum; hann á að standa berhöfðaður hjá hesti sýslumanns, er hann stígur á bak, og halda í ístaðið; hann dregur af honum stígvèlin á kvöldin og strýkur þau á morgnana og brýtur fyrir hann sokkana, ber á borð fyrir hann og veitir honum alla þjónustu. Gott hygg eg til þessarar ferðar. Á alþíngi koma öll stórmenni landsins og margir uppvaxandi menn og höfðíngja-efni og skólabræður mínir, þykir mèr þar ekkert skorta til fagnaðar, nema það eitt, að ekki hefi eg von um að sjá þig þar, enda er nú mjög farinn að leggjast niður sá siður, sem alltíður var á dögum forfeðra vorra, að konur og gjafvaxta meyjar ríði til þíngs með frændum sínum og prýði svo samkvæmið. Margt skyldi eg rita þèr að gamni mínu, og segja þèr frá siðum og heimilisháttum hèr syðra, ef eg hefði tíma til, en nú verð eg að flýta mèr að enda miðann,

svo eg nái í lestamanninn, sem á að bera hann áleiðis, og verð eg því að biðja þig að fyrirgefa hvað hann er endasleppur. Eg hefi beðið Finn að taka við seðli frá þèr, elskan mín, því eg vona að þú sendir mèr einhverntíma línu; það þarf ekki að vera lángt, fáein orð frá þèr eru nóg til að hugga mig og ræta af mèr ólundina. Loksins kveð eg þig hèr með einni bögu.» . . .

Þórdís las brèf Þórarins með athygli, en síðan braut hún það saman og stakk því aptur í vasa sinn; sat hún þar nokkra hríð og íhugaði mál þetta. Brèf þetta var svo ljóst orðað, að Þórdís gekk úr öllum skugga um það, hvernig á öllu stæði, og ekki datt henni heldur annað í hug, en það sem var, um það, frá hverjum brèf þetta væri; það vissi hún og, að Sigrún hafði ekki haft kynni af öðrum manni með því nafni, en Þórarni prestsmági; hugsar hún nú helzt um það, hvern kost upp skuli taka, að leggja brèfið á sama stað og hún hafði fundið það, og láta sem hún hefði einskis áskynja orðið, bíða svo þess, að Sigrún segði henni frá um einkamál þeirra Þórarins. En er hún íhugaði það mál betur, þá virtist henni það ekki ráð, gæti þá vel svo farið, að brèfið flæktist, og kæmi í hendur fleiri manna, en það vildi hún fyrir

hvern mun ekki yrði; ræður hún það þá af, að hún kallar Sigrúnu fram í stofu, og þá er Sigrún er þar komin, læsir hún stofunni og tekur svo til máls:

«Eg held, fóstra mín, að eg hafi orðið svo heppin að finna fyrir þig lítilræðið, sem þú varst að leita að í morgun;» — síðan tekur hún brèf þórarins upp úr vasa sínum og rèttir að Sigrúnu, — «eða var þetta ekki raunar það, sem þú varst að leita að, þó þú segðir mèr nokkuð annað; en það fór þó betur, að eg varð heldur til að finna það en einhver annar.»

þórdís ætlaði að segja eitthvað meira, en fèkk ekki ráðrúm til þess, því Sigrúnu varð það fyrir, að hún hleypur um hálsinn á fóstru sinni kjökrandi: «æ fyrirgefið þèr mèr,» segir hún, «fóstra mín góð!»

«Hvað þá Sigrún mín? eg var ekki farin að ávíta þig fyrir neitt,« segir þórdís.

«Ó, eg veit það fóstra mín, að þú ert reið við mig, eg átti að segja þèr frá því, en eg kom mèr ekki að því,» sagði Sigrún grátandi og kysti fóstru sína.

»Ónei, elskan mín, eg er þèr ekkert reið fyrir það; vertu ekki að vola útaf þessu, eg vil ekki sjá það; eg get ímyndað mèr það og virt það til vorkunar fyrir þèr, þó þú færir ekki að segja mèr frá þessu meinleysi, sem komið hefir

verið millum ykkar Þórarins, á meðan þið vor- uð saman, og fyrst það var þá ekki lengra komið en svona; en það getur verið, að mèr hefði þókt það lakara, hefði eg heyrt það utan að mèr, að þú værir farin að leggja lag þitt við einhvern strákinn, sem ekkert meinti með því; en mèr þykir líklegt, og eg ætla að geta þess til, á meðan eg reyni ekki annað, að hann sè ekki af þessháttar mönnum, sem lízt vel á eina í dag og aðra á morgun, enda lítur svo út, sem hann hafi einhverja tryggð í sèr, því annars hefði hann ekki gefið um að hafa kunníng- skap við þig, eptir að hann var kominn svona lángt í burtu; þeir eru vanir, flagararnir, að sýna hverir þeir eru, þegar þeir komast frá aug- unum á þeim, sem þeir hafa glíngrað hvað mest framan í á meðan þeir voru nálægt þeim, enda mun brátt raun á verða um það, hvort nokkur æra er í honum eða ekki. En ekki lái eg þèr þó svo hafi farið, að þèr hafi orðið meinlaust við hann, því bæði er það, að maðurinn er all- ásjálegur, og svo mundi margur mæla það, að þú hlytir ekki af verri endanum um gjaforðið, ef slíkur maður ætti þig; enda mun þèr ekki betri úrkosta von, munaðarleysíngjanum, sem engan átt að; en hitt vil eg nú vita, fyrst við höfum minnzt á þetta mál, hvort Þórarinn hefir

heitið þèr eiginorði, og þar næst, hvort fleiri menn hafa orðið áskynja um samdrátt ykkar.»

Sigrún segir nú fóstru sinni af hið ljósasta um það, er þórdís spurði, segir hún svo, að þórarinn hafi beðið sig að heitast engum öðrum manni, og einnig hafi hann gjört það heit, að hann skyldi enga stúlku aðra eiga, meðan hann vissi hana á lífi og ógipta. Enginn maður segist Sigrún halda að hafi sannar sögur af viðræðum þeirra þórarins og samdrætti, en svo hafi þó þórarinn sèr frá sagt, að mágur hans, Sigvaldi prestur, mundi nokkurn grun á hafa, og þar með, að hann mundi vera þeim málum mótfallinn, og eiga í illan hlut, ef hann mætti því við koma. þá sè og einn maður þar á staðnum, er nokkra njósn muni af hafa, en það sè Finnur Bjarnason, sá er flutt hafði henni brèf þórarins, sè hann hinn mesti vinur þórarins og honum trúr í alla staði. Nú huggast Sigrún brátt, er hún heyrir hvernig fóstra hennar tekur þessu máli, tala þær fóstrur nokkra stund um mál þetta og kemur þeim allt vel ásamt; tekur Sigrún aptur við brèfi þórarins, og segir þórdís um leið brosandi: «það er nú líklegt, fóstra, að þú geymir það betur eptir en áður; að öðru leyti held eg væri bezt meðferðin á þessum ástarbrèfum að tortíma þeim, þegar búið er að lesa þau, þau geta slæðzt upp úr kistlunum,

og hitt sýnist mèr hætta, að bera þau í barminum, þar sem svo er eldfimt fyrir; því hver veit nær það kann að loga upp í þeim.» Sigrún brosti við, og skildu þær fóstrur talið að svo búnu.

---

# SEXTÁNDI KAPÍTULI.

---

*Viðræður þeirra Hlíðarhjóna.*

Þess er áður getið, hver svör Egill Grímsson fèkk, þá er hann hóf bónorðið við Sigrúnu, svo og þess, að hann um hríð tók ógleði nokkra, og var sú orsök, að honum virtist ógreiðara takast um kvonfángið, en hann hafði hugsað; en það var líkt fyrir Agli um þetta mál, sem Þór forðum, að honum óx ásmegin við þraut hverja; hugðist Egill ekki skyldu fyr skiljast við fyrirætlun sína, en úr væri allur gángur; gjörðust nú svo mikil brögð að um eltíngar Egils við Sigrúnu, að þegar tóku menn í Hlíð að gjöra orð á, að ekki væri einleikið um setur hans og stöðu í herbergi þeirra hjóna. Það var einn dag, skömmu eptir að þær fóstrur höfðu átt tal saman um brèf Þórarins, að veður

var illt, og þókti Sigurði bónda karlmönnum ekki starfandi við útivinnu, en með því, að heyannir voru í nánd, lèt Sigurður bóndi vinnumenn sína ditta að amboðum og öðrum áhöldum, þeim er til heyvinnu eru höfð; sjálfur tindaði bóndi hrífu eina og sat í svefnherbergi þeirra hjóna. Agli var ætlað það verk, að hann skyldi staga að bandreipum nokkrum og binda á hagldir; voru sum reipin vot og óþrifaleg. Egill gjörir sig nú að venju heimakominn, dregur hann alla reipadræsuna innar í hús þeirra hjóna, tekur kistil Sigrúnar og setur sig hjá rúmi hennar, tekur síðan að sauma að reipunum og gasprar jafnframt við Sigrúnu. Í þessu bili kemur húsfreyja upp, og sèr hvar Egill situr og leggur býfur á lopt fram, og eru þær ekki allhreinar, en reipa-flækjan liggur um loptið. Húsfreyja snýr þá máli til bónda síns og segir, svo hátt að allir heyrðu í húsinu:

«Hefir þú vísað Agli til sætis innar í húsinu á daginn?

«Ónei,» sagði Sigurður, nokkuð dræmt, «ekki hefi eg nú gjört það.»

«Þá hefir hann vísað sèr það sjálfur, — en það er nú þèr að segja, Egill minn, að það hefir verið siður hèr í Hlíð, að hver maður hefir átt sæti á rúmi sínu, þegar hann hefir verið í baðstofu, og er þitt rúm hèr frammi á loptinu;

en það lítur svo út, sem þú hafir ekki vitað þenna sið, en hèr eptir skaltu vita, að þar er sæti þitt, en húskytruna þá arna höfum við hjónin ætlað fyrir okkur og hana Sigrúnu litlu, og viljum við ekki aðrar setur eða verur vinnufólks í því, en sem nauðsynlegar eru og við leyfum sjálf.»

þegar húsfreyja hafði þetta mælt, tekur hún annari hendi um reipa-flækjuna og færir hana fram fyrir húsdyr. Egil setti dreyrrauðan, en þorði þó fátt um að tala, annað en það, að hann hefði ekki þekkt þessar reglur, og dragnast hann síðan út úr húsinu, en þórdís skellir húsinu í lás, svo sem til að sýna, að hún vili að þessum boðum sè hlýðt. Eptir það sezt húsfreyja á rúm sitt, en segir síðan við bónda:

«Mèr sýnist nú, að þetta hefði fremur verið þitt verk, bóndi minn,» segir hún, «en mitt, að hlutast til um annað eins á heimilinu eins og þetta, og hefði átt að vera fyrir löngu gjört; þú hefir þó sèð það, eins og eg; það er þó annaðhvort: maður er húsbóndi á heimilinu eða ekki.»

þegar Sigrún sá, að fóstra hennar var sezt á rúmið og tók að tala við Sigurð, gekk hún þegar út úr húsinu og ofan, var hún jafnan vön því, er hún hèlt að þeim hjónum mundi eitthvað á milli bera, eða þau mundu tala eitthvað,

sem þau vildu ekki að fleiri menn heyrði. Húsfreyja lèt þá ræðuna gánga:

«En hvernig á nokkur maður að halda reglu á heimili sínu, ef hann kynokar sèr við að tala um nokkuð, uppá hverri óreglunni sem hver tekur.»

«Eg hefi ekki getað verið að því,» sagði bóndi, «að vísa honum á dyr, drengtetrinu, þó hann hafi sezt stundum þarna á kistilinn hjá henni Rúnu.«

«Og því trúi eg,» sagði húsfreyja heldur stuttlega, «það er verst, að hèr eru ekki fleiri kistlar til, svo þeir gæti setið hèr allir vinnumennirnir í kríngum hana, eða þá svo sem einn eða tveir hèrna við hnèn á mèr; en það er sannast að segja um þá hina piltana, að þeir eru ekki eins framir og þessi nýkomni piltur; þarna hefir hann hlaupið óboðinn og ókallaður hèr inn og rorrað við rúmstokkinn hennar, og nærri því vafizt fyrir höndunum á henni allan daginn, þegar hann hefir ekki verið úti við; það væri öll von á, að heimilisfólkið væri farið að taka til þess, og ekki veit eg nema hann verði orðaður við hana, og er það þá gott til afspurnar; ekki þarf ætíð meira fyrir karl og konu, að koma á óorðinu, en óregluna á bæjunum.»

«Og ekki hefir mèr dottið það í hug, Þórdís mín, að nokkur mundi gjöra það.»

«Eg segi ekki heldur að nokkur gjöri það, enda mundi eg ekki fyrst verða látin heyra það, en hitt segi eg, að það væri öll von, þó það væri gjört orð á því, hvernig hann lætur við hana, og hvernig hann eltir hana; skárri er það dilkurinn!»

«það fortek eg ekki heldur,» sagði Sigurður, «að mèr hafi sýnzt að hann væri að draga sig eptir henni, en eg held við getum ekki skipt okkur af því.»

»það getur verið að þú skiptir þèr ekki af því, en eg gjöri það samt, og satt að segja líkar mèr það stórilla, ef Egill er hèr kominn í þesskháttar erindagjörðum, eða heldur þú, Sigurður bóndi minn, að eg hafi látið Sigrúnu fóstru mína dveljast híngað til í húsum okkar til þess, að hún skuli fá orð af slíkum óláns-slána, sem eg ætla Egil þenna vera, og verða honum að bráð; en þú veizt, Sigurður minn, að þegar eg tala, þá tala eg eins og mèr býr í brjósti, og þar sem við erum hèr nú tvö ein, þá ætla eg nú að spyrja þig, Sigurður bóndi minn, með hvaða skilmálum rèðir þú Egil híngað?»

«það man eg ekki svo gjörla,» sagði Sigurður, og var auðsèð á honum, að hann vildi koma sèr hjá að segja af hið sanna.

«það munt þú víst muna, eða tókstu hann

skilmálalaust? — þèr er þá ekki stór vandi á við hann, ef þú mátt sjálfur skapa kostina eptirá, eða var ekkert talað um hvaða kaupgjald hann skyldi hafa?»

«Jú, jú, víst var talað um kaupgjaldið, si svona.»

«Hvað átti það þá að vera?» frètti þórdís.

«Að honum væri goldið líkt og hinum vinnumönnunum okkar, það var talað um fimm vættir, og það setti faðir hans upp, að hann hefði hlýlegt atlæti, og — nú hikaði Sigurður sèr — si svona.»

«Er þá ekkert tilhæfi í því, sem eg hefi heyrt, að þú hafir heitið Agli því, þegar hann vistaðist híngað, að gipta honum Sigrúnu, fóstru okkar?»

«Og það er haugalygi, aldrei lofaði eg því, nei því lofaði eg ekki, nema með svo felldu móti, — nei, en ekki lofaði eg því.»

«Nema með svo felldu móti, segir þú?»

«Að — að — að,» sagði Sigurður, og stamaði, «að hún vildi það sjálf, þá skyldi eg ekki spilla því.»

«Nú, þar kom það, það er þá eins og mèr hefir verið sagt, og þetta kalla eg fullkomið loforð; það var auðvitað, þú gazt ekki heitið meiru, nema þú hefðir ætlað að þröngva henni til að eiga hann, hvort sem hún hefði viljað

eða ekki; eg held það hefði verið eins ráðlegt fyrir þig, Sigurður minn, að láta mig vita þetta áður en þú vistaðir Egil hèr, eins og þú optast hefir gjört á meðan við höfum lafað við þetta búhokur, og hefir það sjaldan farnazt ver, þó eg hafi ráðið nokkru með um það, hvaða hjú vistuð hafa verið og við höfum talað okkur saman um það, áður en það hefir verið fullgjört; en það er þèr sannast af að segja, að aldrei mundi Egill með mínum vilja hafa híngað komið, ef eg hefði vitað að þetta hefði búið undir og þeir hefði haft það í skilmálum, sem nú kemur upp úr kafinu; það hefir híngað til lagazt svo búskapur okkar, að okkur hefir ekki vantað hjú, þó við höfum ekki gripið til þeirra úrræða, að gylla fólk með loforðum, sem þó ekki koma fram þegar til kemur. Veit eg það, að sumir húsbændur hafa þann sið, að ginna til sín hjú á ymsan hátt, en það er hvorttveggja, að við höfum ekki átt dæturnar, til að laða að okkur vinnumennina með, enda held eg, að eg hefði ekki haft þær fyrir agn, þó eg hefði átt þær, því það kalla eg fremur auðvirðileg úrræði, og þó Sigrún litla sè ekki mín dóttir, þá finnst mèr einhvernveginn eins og mèr sè eins lángt til hennar, hrósins, eins og þó hún væri mèr skyldari. Það er annars ekki fyrir það, að eg viti ekki, að hún Sigrún vill ekki líta í þá áttina,

sem Egill er, og að því leyti sè eg, að þú ert í rauninni laus allra mála, en trú mèr til, Sigurður minn, það mun samt verða sagt, að þú hafir tælt Egil híngað, lofað honum að gipta honum Sigrúnu og prettazt svo um allt á eptir; — svona leggur heimurinn það út, ef eg þekki rètt.»

Á meðan Þórdís húsfreyja flutti þessa tölu, sat Sigurður bóndi og hlýddi þegjandi ræðu húsfreyju, hèlt að sèr höndum og var auðsèð á honum, að hann var slíku vanur og þorði ekki um að fást, þó húsfreyja talaði skorinort. En er húsfreyja hafði lokið máli sínu, segir bóndi með stillíngu mikilli og hógværð, eins og gott barn, sem hlýðt hefir áminníng móður sinnar, biður um fyrirgefníng og lofar bót og betrun:

«Eg sè það nú, Þórdís mín, eptir á, að þú hefir rètt að mæla, eg hefði ekki átt að vista hann híngað fyr en eg var búinn að tala við þig, eins og eg er vanur, og vita hvort þèr hefði litizt á það; en af því presturinn rèði mèr heldur til þess að taka hann, og sagði hann væri einhver hinn efnilegasti maður, rèðist eg þó í það, með því mèr lá á manninum.»

«Baðstu prestinn að útvega þèr vinnumann?» sagði húsfreyja.

«Ónei, ekki að sönnu, það var hvorttveggja og bæði; eg hafði sagt honum frá, að mig vantaði vinnumann, og þá vísaði hann mèr á þenna,

en sagði þó um leið, skepnan, að hann hefði raunar sjálfur ætlað að vista hann hjá sèr, en af því eg væri í þröng, þá vildi hann ekki vera meinsmaður minn, en sagðist vista hann undir eins, ef eg gengi frá.»

«það hefir átt að vera vináttubragð,» sagði þórdís og glotti við, «mèr þykir líklegt þú hafir þakkað prestinum fyrir.»

«Nú hann gjörði það nú vel, góði maður, að láta mèr hann eptir,» sagði Sigurður, því hann tók orð húsfreyju eins og þau voru töluð, «og meðfram, sagði hann, af því hann hèldi að Egill mundi verða góður búmaður, og mèr gæti orðið styrkur að honum, og þá sló hann því líka fram, að okkur væri rèttast að fara að gipta hana Sigrúnu, svo eg gæti farið að minka við mig búskapinn þegar við færum að lýjast, ef eg sumsè fengi haganlegan og mèr geðfeldan mann fyrir hana.«

«það sagði prestur?» — mælti húsfreyja, og tók upp úr vasa sínum silfurdósir miklar og sló á lokið: — «já, það sagði hann, góði maður? — Mikill blessaður sauður ertu, Sigurður bóndi minn! það sannast á þèr sem kveðið hefir verið:

Aðra heldur eins og sig
sá aldrei gengur vèla stig.

þú ert eins hrekklaus, eins og þú ert stór

til, það væri last að kalla þig undirhyggjumann; þú heldur, að hver sem talar fagurt við þig upp í eyrun, sè þèr eins einlægur og þú ert öðrum. Ertu það barn, að trúa því, að hann sèra Sigvaldi hefði látið þitt gagn gánga fyrir sínu, og látið þèr eptir vænan vinnumann, hefði hann viljað nýta Egil, ellegar líta við honum? — ertu þá búinn að gleyma því, hvernig hann fór með okkur, þegar hann þurfti vinnumanna við: ginnti frá okkur einhverja tvo beztu piltana okkar, sem við höfðum haldið í fjögur ár, svo við vorum í vandræðum á eptir; eða heldurðu, Sigurður minn, ef honum þækti svo mikill snúður í Agli þessum, eins og þú segir, að hann hefði þá ekki krækt í hann fyrir hana Staðar-Gunnu, sem hann hefir svo lengi haft á boðstólum og kemur aldrei út. Nei, þó eg sè ekki lángsýn, þá er eg viss um að hèr býr eitthvað undir, annað en eintóm vinátta við okkur; vanur er hann að sjá sèr slag á borði, góði maður, og þeim mun verða hollust vinátta hans, sem eitthvað hefir hjá sèr sjálfur, en lætur hann ekki hafa bæði töglin og hagldirnar.»

«Þá ber þú ekki mikið traust til hans, Þórdís mín,» sagði bóndi, «heyri eg.»

«Álíka og músin til kattarins,» sagði húsfreyja, «en það er ekki svo að skilja, að eg vili að þú eigir neitt misjafnt víð prest okkar; það

fer bezt á því, að viðskipti okkar við Staðarfólk sè hèr eptir, eins og þau hafa verið híngað til, fá og meinhæg; en ráðaneyti mitt skal sèra Sigvaldi aldrei vera, og sízt í þessu máli, sem giptíngu Sigrúnar snertir eða um hennar hagi.»

«Eg sè það er allt satt, sem þú segir kona mín,» sagði Sigurður, «en ekki vil eg styggja hann karlinn, hann er mèr þó í sumu vel, og tekur mèr altènd vel þegar eg kem þar.»

«Eg ætlast ekki til þess,» segir Þórdís, «enda má honum standa á sama líklega, hvort Agli heppnast sú fyrirætlun eða ekki, þú ert laus allra málanna eins og eg áður hefi sagt, þegar hún vill hann ekki sjálf.»

»Það sè eg nú að þú segir satt, Þórdís mín, en hann segir ef til vill, að eg hafi fremur dregizt á það við sig og Grím, að eg skyldi vera því meðmæltur, eins og eg sagði þèr áðan.»

»Ekki sagðir þú mèr það,» sagði Þórdís, «en úr því svo er komið, og þú verður hvort sem heldur er að pretta þá um það, sem þeir munu herma uppá þig, þá sè eg eitt ráð við því, sem eg vona að dugi: far þú að eins og Adam forðum, kendu konunni um, eg verð þá að reyna að sitja fyrir svörum, ef til mín kemur, þó eg haldi nú ekki verði mikið fyrir þegar meðhjálparinn kemur með Sýrak, Salomon og Lof-

kvæðið; — en nú skulum við ekki tala meira um þetta mál að sinni; og nú ætla eg að biðja þig, Sigurður minn, bónar, ætlarðu að gjöra hana?»

«Það er sjálfsagt, Þórdís mín,» sagði Sigurður, og varð glaður við, er hann sá að húsfreyja gjörðist blíðlegri í bragði, en í fyrstu hafði verið: «Það er sjálfsagt; þú ert ekki vön að biðja mig annars en þess, sem eg er vanur að gjöra fyrir þig.»

«Jæja, þakka þèr fyrir, góðurinn minn,» sagði húsfreyja og kysti á vángann á karli sínum; «eg ætla þá að biðja þig að leyfa mèr að koma henni Sigrúnu litlu fyrir í sumar, um tíma eða hvað lengur verður, ef mèr dettur það í hug, það getur verið að eg geti fengið kvennmann um sláttinn í hennar stað.»

«Sigurði bónda datt helzt í hug, að Þórdís mundi ætla ennþá að setja Sigrúnu í einhvern hannyrða-skóla, og vissi hann að ekki var til neins að letja húsfreyju þess, er hún vildi vel gjöra til Sigrúnar; endurtók hann því loforð sitt, spurði húsfreyju að, hvert hún nú ætlaði að koma Sigrúnu; Þórdís kveðst það ógjörla vita, en síðar skyldi hún segja honum frá því, kysti síðan bónda sinn af nýju, og slitu þau svo talið með sátt og samlyndi.»

---

# SEYTJÁNDI KAPÍTULI.

---

*Kirkjuferð Egils.*

Opt er það í koti karls,
sem kóngs er ekki í ranni.

það var föstudaginn í tólftu viku sumars, sem þau Hlíðarhjón áttu viðræður þær, er fyrir skömmu er um getið. Sunnudaginn næstan eptir voru menn snemma á ferli í Hlíð. Sól var nýrunnin, og var sólskinið smátt og smátt að færast um dalinn og ofan fyrir bæinn, en skuggarnir óðum að hverfa úr lautunum; döggin tindraði á hverju strái um allt túnið, sem var nær því óslegið og klæðt í fegursta sumarskraut; hlíðin fyrir ofan túnið brosti við, þegar morgunskuggann dró af henni, en sólarljómanum sló yfir brekkurnar og balana; var hún á að líta eins og fagurlega lagaður meyjarbarmur; allavega litar jurtir og blóm tindruðu þar í skini sólarinnar, eins og skínandi gimsteinar, er blika við skæru ljósi í dýrðlegum brjóstnistum ríkiskvenna. Himininn var skafheiðríkur, og veður svo kyrt, að ekki bærðist hár á höfði manns, en reykurinn af búverkavatninu í Hlíð stóð eins og stöpull upp í loptið, jafnhátt dalbrúninni. Framarlega hyllti undir fjárhóp, sem rann hægt og stygðarlaust heim fjárgöturnar, en efra og næst-

um upp undir brúninni liðu nokkrar kindur í lángri halarófu hægt og hægt eptir hlíðarbrekkunum, og í sömu átt sem fjárhópurinn. þetta var kvífèð frá Hlíð, og var auðsèð á því, að það hafði veður af smala einhverstaðar á eptir fram í dalnum, en þó ekki allnærri. Niðri á eyrunum hjá ánni voru hestarnir frá Hlíð. það voru hross mörg, og ekki færri en 10 eða 12; bitu sum þar á eyrunum, en sum lágu og flatmöguðu á móti sólinni. Öll voru hrossin sælleg og fögur álitum, en þó var þar einn hestur, sá er lángt bar af öllum hrossunum; hann var rauður að lit og var kallaður Dreyri. þann hest eignaði húsfreyja sèr og unni honum mikið, reið hún honum jafnan, er hún fór til kirkju eða í kynnisferðir, en allsjaldan riðu aðrir menn honum. Dreyri var allra hesta bezt vakur, og svo góður skeiðhestur, að fáir hestar voru þeir þar um sveitir, er færi svo fljótt á stökki sem hann fór á kostum. Hann var hlaupstyggur mjög og náðist sjaldan í haga, ef hann var ekki heptur, og var það löngum, að menn höfðu ekki af honum.

þenna sama morgun kemur húsfreyja að máli við bónda sinn, segir hún honum frá fyrirætlun þeirra fóstra, að þær ætli að ríða til kirkju að Stað; hafi hún því svo tilhagað, að búverkum og mjöltum yrði lokið í fyrra lagi,

«eða ætlar þú að ríða með okkur, bóndi minn?» segir hún; Sigurður kvaðst í þetta skipti mundi heima sitja, verða og nokkrir að gæta hús og bæjar heima,» segir hann, «en eg hygg, að þeir vinnumenn mínir muni sækja tíðir.» Lætur nú bóndi reka heim hesta marga, og er Dreyri þar með; eru hestar teknir þar á hlaði og beizlaðir, nema Dreyri, eltast menn lengi við hann og næst hann ekki að heldur, hverjar vígvèlar sem við eru hafðar; er húsfreyju þá sagt til og gengur hún út; stendur Dreyri þá þar í túninu, sem loðnast er grasið, og bítur, og eru allir frá gengnir sem verið höfðu að eltíngunni; en þá er húsfreyja er út komin, gengur hún fram í hlaðvarpann og kallar á Dreyra með nafni, lítur Dreyri þá upp og gengur til húsfreyju, klappar hún honum og klórar undir eyrum, lætur hún sækja væna klípu af smjöri í búrið og stíngur upp í hann og beizlar. Nú búast menn til kirkjuferðar, og er lagt á Dreyra fyrir húsfreyju, en Sigrún skyldi ríða hryssu grárri. Það var og allgott hross og kvennhestur hinn bezti. Fyrir utan þær fóstrur rèðust til ferðarinnar húskarlar tveir og griðkonur tvær, og svo Egill Grímsson. Þær fóstrur riðu í kvennsöðlum góðum. Söðull húsfreyju var allur lagður drifnu látúni, og voru á sveifinni myndaðar rósir, sem gengu eptir henni endilángri, sem krákustígur;

á söðulbríkinni fremri var fángamark þórdísar og ártal, nær söðullinn hafði verið smíðaður, en á aptari bríkinni var myndaður hestur með öllum kvennreiðtygjum, og stóð hesturinn bundinn við trè eitt. Söðulreiði þórdísar var einnig settur drifnum látúnsplötum, og voru þar á gjörðar ýmislegar rósir; reiðinn var svo stór, að nálega huldi alla lend hestsins. Beizli hafði húsfreyja allgott, voru taumarnir úr leðri íslenzku og stúngnir, og stór starkóngur á, þar sem þeir voru skeyttir saman; höfuðleðrið var sett koparhríngjum og þríhyrnd ennislauf framan á. Báðar höfðu þær fóstrur glitáklæði yfir söðlum, og flos-sessur miklar í. Allir riðu þeir vinnumennirnir í hnökkum íslenzkum. Og er menn voru albúnir, leiddi Sigurður húsfreyju til hests; stóð Dreyri þar undir reiðtygjunum, hríngaði makkann og japlaði mèlin og sparkaði með framfótunum, en stóð þó kyr meðan Sigurður setti konu sína í söðulinn. Sigrún bjó sig þá og til að stíga á hest, og ætlaði Egill að hlaupa til að setja hana á bak, en er Sigrún sá það, benti hún öðrum vinnumanni fóstra síns að láta sig á bak; greip hann Sigrúnu og snaraði henni í söðulinn, og varð Egill að hverfa aptur við svo búið.

Gatan lá upp frá bænum uppá hálsinn, og var þar sneiðíngur brattur, fóru þau fót fyrir

fót, allt til þess er komið var á hálsbrúnina, þá voru slèttir melar eptir hálsinum; lètu þau nú hestana taka á rás, og var Dreyri jafnan lángt á undan í hverjum spretti, og tók svo skarpt til fótanna, að hann jós möl og skarni sem moldviðri á alla þá, sem á eptir voru; þókti þeim fóstrum allmikil skemtun að reiðinni. Nú ber ekkert til tíðinda á meðan þau ríða yfir hálsinn, en er þau voru komin nær því yfir hálsinn og eru að fara ofan sneiðíngana Staðar megin, sjá þau, að þar sem hálsinn mætist við jafnslèttuna og allskammt frá götunni, er hestur á beit og dró beizlið slitið, en reiðverið var snarað út í aðra hliðina, þókti þeim það kynlegt, er ekki sást neinn maður, og hafði húsfreyja orð á að handsama hestinn, og gæta, hvort ekki væri neinn maður þar í grennd; en er þau voru allskammt frá hestinum, sjá þau, að þar rís upp maður nokkur á millum þúfna tveggja, og sjá þau hann muni ekki með öllu rètt gáður; glápir hann fyrst á kirkjufólkið allámátlega, en er hann sèr það er komið nær því gagnvart sèr, bröltir hann upp og þó nokkuð nauðulega, en síðan hleypur hann í veginn og rambar mjög, og stendur síðan við og þversperrir götuna. Maður þessi var svo á að líta, að hann var meðalmaður á hæð, á að gizka miðaldra maður; hafði hann einhverntíma ekki verið

ósnotur, en þó flysjúngslegur á yfirbragð; nú flöktu frá honum fötin á brjóstinu, en hatturinn, er hann bar á höfðinu, hèkk út í annan vángann, og var nær því bert hálft höfuðið. Fyrir neðan nefið var blóðstorka mikil, og dreyrði þó úr á stundum, og þerraði hann það við og við á ermi sinni. Egill reið fyrstur af kirkjufólkinu, og svo hver á eptir öðrum, því gatan var þröng og mátti ekki nema einn fara í senn. En er Egill kemur að þar, sem maðurinn stóð í götunni, vill hann snúa hesti sínum út úr götunni, en í því bili grípur hinn drukkni maður um taumana á hesti Egils annari hendi og segir:

»Stopp þinn keltríngur! Heilsar þú ekki skikkanlegu og ærlegu, — dönnuðu ætlaði eg að segja, en ekki ærlegu — fólki, sem er á vegi þínum lagsi? — þekkirðu mig ekki, greyið mitt? — Eg heiti þó Hallvarður Hallsson, já það er víst, já víst, þú segir mig ljúga það, þekkirðu mig ekki?

»Ekki get eg nú komið þèr fyrir mig,» sagði Egill og barði hælunum í nárana á hestinum, sem hann vildi komast burt.

»Nú, bíddu nú við, vertu ekki að berja stakkels bestíuna, þú getur þó snakkað svolítið við mig, ekki ætla eg neitt að mólinstèra þig, greyið mitt, ónei kunníngi, eg er ekki þekktur

fyrir það, að káfsast upp á neins manns júss-um» — og í þessu seilist hann með þeirri hendinni, sem hann hafði lausa, út á handlegg sèr, og dregur þar upp úr erminni áttstrenda pelaflösku, svarta. Flaskan var full af brennivíni upp til axla, tekur hann tappann úr flöskunni með tönnunum, setur á munn sèr og rèttir síðan að Agli: »þú skalt, bezti bróðir, hafa snás, já gott snás, það er úr höfuðstaðnum og ekki úr lekabyttunum þeirra; skammi það hætið það frýs, fyr en Elliðaárnar eru orðnar harð-mannheldar, greyið mitt; súptu á kunníngi!»

Egill tók við flöskunni og saup á, og rètti honum aptur.

«Er það ekki nógu gott? — það er ekki úr Hafnarfirði og frýs seint, þar kemur an uppá, kunníngi! — sex fiska brennivín eptir taxtanum, það er víst — eg er annars alþekktur, eg heiti Hallvarður; já, það heiti eg.»

«Hvar áttu heima?» sagði Egill.

«Hvar á eg heima!» sagði Hallvarður, «eg á eiginlega heima, kunníngi! þar sem eg á heima og vil eiga heima, skal eg segja oss; eg hefi optast verið á fabrikunni í Reykjavík og innrèttíngunni, sem þeir kalla það, en það prófiterar nú ekki svo mikið af sèr á sumrin, og því ætla eg mèr að púla hèr uppá kúgras

um sláttinn í sveitinni, það er víst, eins og eg gjörði í fyrra, — en hver er konan sem þarna ríður í söðlinum? — eg hefi sèð þig áður, það er víst.» Í þessu snýr hann sèr við, og rambar þar að, sem þórdís situr á hestbaki, en heldur þó allajafna í taumana á hesti Egils og togar hann með sèr út úr götunni; «sælar, kona góð! hvað heitið þèr?»

«þórdís heiti eg, og á heima í Hlíð.»

«Já, þórdís, þórdís! já, eg vissi það; já, eg hefi einhverntíma verið nótt hjá yður, þakka yður fyrir mig! — blessuð konan, eg er ekki svo vitlaus, þó eg sè ofurlítið hýr — en hvað heitir dú, Píge mín! — já, nú tala eg Dönsku,» sagði Hallvarður og benti til Sigrúnar.

Sigrún svaraði ekki brátt, verður Egill fyrri til svara og segir:

«Hún heitir Sigrún.»

«þegiðu, segi eg!» sagði Hallvarður, «láttu stúlkuna segja það sjálfa, eða er það konan þín kannske, ha?»

«Nei, ekki er hún það,» sagði Egill.

«Nú, þá þarftu eiginlega ekki að segja mèr það,» sagði Hallvarður, «eg get begripið það, að þú átt hana ekki, því ekki ertu nú fallegur, greyið mitt! og ætla eg ekki að blamera þig samt, en ekki þæktir þú pen á innrèttíngunni, held eg.»

Heldur tók að þykkna í Agli við þessar viðræður, tekur hann fast í taumana og ætlar að koma sèr burt, og segir:

«Slepptu taumunum, svo eg komist áfram! hvað á þetta? ha?»

«Ætlarðu þá ekki að bíða á meðan eg fer á bak, kunníngi! eg ætla að fylgjast með þèr.»

«Slepptu taumunum!» sagði Egill, og var sýnu reiðuglegri en fyr, og reiðir upp svipuna.

»Jæja,» sagði Hallvarður, «það skal eg gjöra, en fyrst þú vilt ekki bíða, þitt bakbesti! taktu þá eptir því, sem eg ætla að segja þèr.»

«Já, já,» sagði Egill.

«Bíddu nú við, já eg ætlaði að segja, að þú skyldir fara í bölvaða boru, greyið mitt, uppá Íslenzku, það var nú ekki annað sem eg vildi þèr; eg kem á eptir, kunníngi, það er víst — en lofaðu mèr þó að kveðja og kyssa á kjaptinn á þèr, bróðir minn góður!»

Egill vildi allt til vinna, að losast við Hallvarð; sleppir Hallvarður nú taumunum, en Egill hallar sèr ofan að honum og ætlar að kyssa hann, en Hallvarður grípur um leið til hans og ætlar að halla honum að sèr, svo hann geti sem alúðlegast og innvirðulegast kyst hann. Laust var reiðverið á hesti Egils, en efri líkami hans lángur og riðamikill, og missir hann jafnvægið, er reiðtygin snöruðust, og fellur hann

af hestinum og í fáng Hallvarði, og byltast þeir báðir til jarðar allskammt frá þar sem húsfreyja sat á Dreyra. En er Dreyri sèr ófarir þeirra fèlaga, þá verður honum svo bylt, að hann tekur undir sig stökk mikið og hendir sig fram hjá þeim kompánum þar sem þeir liggja við götuna í faðmlögum, bregður síðan á skeið, og getur húsfreyja ekki stillt hann fyr en heim kemur að Stað. En er Sigrún sèr, að fóstra hennar er riðin, keyrir hún Gránu á stað, og tóku þá hinir allir hestarnir rás á eptir Dreyra, og verða þeir þar eptir Egill og Hallvarður; en um miðjan dag kom út Sigurður bóndi í Hlíð, og sèr hann þá, að hestur Egils er þar kominn, og er nú beizlislaus, og hnakkur undir kviði; en yfirklæði, sessu og svipu tíndi kirkjufólk upp, sitt á hverjum stað á hálsinum um kvöldið, er það reið frá kirkju, og sagðist hafa grasað vel, en ekki var Egill við kirkju þann dag, og fór Grímur faðir hans á mis við aðstoð hans í það skipti, og varð sjálfur að hríngja allar hríngíngar. Ekki kom Egill heldur að Hlíð um kvöldið, og undraði menn hverju það sætti; skipaði þá Sigurður bóndi, að ekki skyldi loka bæ þá nótt, ef Egil kynni að bera að húsum.

Nú víkur aptur sögunni til þeirra fóstra, hlýddu þær tíðum að Stað, eins og ráð hafði verið fyrir gjört. Messugjörðin var snemma

úti. En þegar eptir messugjörðina kallar þórdís Sigrúnu á eintal, og segir henni fyrirætlun sína, «og mun eg nú ekki ríða beina leið heim aptur,» segir hún, «þar eg gat ekki fundið mann hèr við kirkjuna, er eg ætlaði að hitta, og mun eg láta Árna vinnumann ríða með mèr á næsta bæ, en þið önnur farið sama veginn aptur. En það er þèr af að segja, Rúna mín, um erindi mitt, að eg hefi íhugað um mál það, er við töluðum um fyrir skemmstu, veit eg það, fóstra mín! þótt þú hafir fátt um rætt, að þèr er hvumleiðt að vera á bæ saman við Egil Grímsson, og sitja svo fyrir ásókn hans og vandræðum, en nú má það á engan hátt sæma, að vísa honum burt úr vistinni, en á hinn bóginn sè eg það, að vondir menn geta því uppljóstað, sem þèr er til óvirðíngar, ef þið eruð á bæ saman; getur þá svo farið, að sá orðrómur komi til eyrna þórarni vin þínum, og mætti það vel verða, að hann þá legði nokkurn trúnað á það, þó engin væri tilhæfan; er það því ráð mitt, að við skiljum nú um stund, og má ekki í það sjá, þó mèr verði ærið sárt að sjá af þèr; en ekki get eg nú að sinni gjört að því, þó vistin verði ekki á höfðíngjagarði, en í vandaðra manna hendur vildi eg þó koma þèr og til þeirra, sem gjöra vel við þig, ef svo tækist til sem eg hefi ætlað.» — Sigrún þakkar fóstru sinni fyrir um-

hyggju hennar fyrir sèr, og kveðst hennar ráðum í þessu sem öðru fylgja vilja; tárin hrundu um kinnar henni, en ekki talaði hún neitt, og kysti fóstru sína þegjandi; en sá koss var merki æsku, einlægrar ástar og þakklætis. þórdís segir henni þá, að hún muni biðja Bjarna á Leiti að taka við henni, «hann er kunníngi minn og fornvinur.» Að því búnu skilja þær fóstrur, og sezt þórdís á Dreyra og ríður á veg til Leitis, var það tvær bæjarleiðir frá Stað. Árni vinnumaður reið með henni, eins og ráð var fyrir gjört; segir ekki af ferðum þeirra fyr en þau koma að Leiti. Ekki hafði þórdís áður komið að Leiti, og var henni ekki kunnugt þar um heimkynni. Kríngum túnið á Leiti var garður mikill og rambyggilegur, og allur gjörður af grjóti, axlarhár. Garður þessi var fornmanna verk, mátti það og sjá á honum, að þar höfðu hraustar hendur um fjallað; höfðu þar verið til færð björg svo stór, að ekki var það færi þeirra manna, er nú gjörast, að færa þau úr stað. Garðurinn hafði víða verið hruninn og brotin í hann skörð stór, þegar Bjarni kom að Leiti. Ekki var það raunar tíðska á Íslandi um 18. öld, að hlynna mjög að túngörðum eður vörzlugörðum þeim, er hinir fyrri Íslendíngar höfðu reist. Bjarni var þá á hinu lèttasta skeiði, er hann fór að búa á Leiti, hann var laginn mjög fyrir alls-

konar aflraunir, var það því öllu heldur af því hann vildi reyna afl sitt við fornmenn, að hann bætti aptur garðinn og hlóð í skörðin, en þess vegna, að hann hugleiddi hvílík nauðsyn og gagn má verða að slíkum verkum. Nú er þau Þórdís komu til Leitis, sáu þau, að maður einn mikill vexti stóð á hlaði, var það Bjarni; hann var svo klæddur, að hann var á prjónskyrtu hvítri og bol yfir, tvíhnepptum, svörtum, og renndar beintölur á; veður var heitt um daginn og var Bjarni á nærbuxum einum; þær voru prjónaðar, hvítar að lit og á framan strenghnappur einn mikill af látúni, kúpuvaxinn og svo stór, að nema mundi spesíu stærð. Sokkar Bjarna voru sauðmórauðir. Öll voru föt Bjarna nærskorin, og mótaði fyrir vöðvum á fótum og handleggjum, og voru þeir allir þreklegir og vel lagaðir á að líta. Á höfði hafði Bjarni skotthúfu röndótta, eins og hann átti vanda til. Þau Þórdís riðu með túngarði, unz þau komu að hliði einu; ekki sáu þau fleiri hlið á garðinum og hliðið ekki mikið, og ekki meira en svo, að hestur klyfjaður gat um það gengið, og lá yfir hellusteinn mikill. Árni hleypur af baki og ætlar að taka steininn úr hliðinu, sèr hann þá, að steinninn er ekki hans meðfæri, en ræðst þó til að færa hann brott, og fær hvergi bifað. Þetta sèr Bjarni, að menn eru komnir að hliðinu og fá

ekki inn komizt, gengur hann þá út þángað og að hellunni, og lyptir upp á örmum sèr og leggur á garðkampinn; fór hann að öllu sem hægast, en segir um leið við Árna:

«Gaztu ekki lagt frá þèr hellublaðkinn mannkind, meðan þú fórst inn um hliðið?«

Bjarni heilsar þórdísi, og biður hana vera þar velkomna, «þú ert sjaldsèður gestur hèr,» segir hann, «eða hvað ætlarðu nú þórdís mín?»

þórdís kvaðst mundu segja erindi sitt, «en það þykir mèr vel fara, að eg hitti þig heilan á hófi, sè eg það nú, að lengi er eptir kraptur í kögglum hjá karli, og varð þèr ekki mikið fyrir að lypta steininum úr hliðinu áðan,«

«Nú, eg væri þá dauður, þórdís mín, ef eg gæti það ekki, og kæmist ekki úr greninu, en þú skalt sjá mola, sem eg gat tekið upp þegar eg var ýngri, hann er hèrna skammt frá, eg ætla að sýna þèr hann að gamni mínu, áður en þú kemur heim.» þórdís var nú stigin úr söðlinum, og gánga þau fram með garðinum; fer Bjarni fyrir, og þar til er þórdís sèr að í garðinn er hlaðið slètt þrep eða stallur, mittishár; fyrir neðan stallinn lágu blágrýtis-steinar þrír, og voru allir miklir; var einn þeirra þó miklu mestur, og sýndist þórdísi það einskis mennsks manns færi að hefja þann stein frá jörðu; tekur þá Bjarni til orða og segir:

«Við þessa steina hafa þeir reynt sig piltarnir, og kalla þeir þenna minnsta Aumíngja, þenna sem þar er í miðið kalla þeir Miðlúng, og er það meðalmanns verk að koma honum á stall; þessi sem er frekastur heitir Fullsterkur, hafa fáir komið hèr sem hafa sett hann upp, en ekki mundi Gretti, eða fornmönnum, hafa orðið mikið fyrir því; Grettir Ásmundsson og Ormur Stórólfsson tæki hann upp í hnefa sínum. það er rètt þú reynir þig við hann Miðlúng, Árni!»

Árni taldist undan í fyrstu, en er húsfreyja eggjaði hann, rèðist Árni til, og gat hann aðeins látið renna vatn undir steininn; þá bað Bjarni hann taka Aumíngja, «og máttu ekki heita liðlækur, komir þú honum ekki á þrep,» segir Bjarni. Árna virtist sá steinn ekki afarmikill, hann var hnöttóttur og af blágrýti. Ræður Árni að þessum steini og vegur hann upp á mitti, og ætlar hann þá að snara honum upp á stallinn, en steinninn varð þýngri en hann varði, og má hann með engu móti koma honum lengra en upp að þrepbrúninni; seig hann þar niður, en Árni blès stórum.

«þú ert óharðnaður enn, drengur minn, það er auðsèð,» segir Bjarni; «það þarf, þórdís mín, að gefa honum eitthvað, sem rennur í kögglana, til þess hann geti látið hann Miðlúng upp, —

og þetta er nú tvítugur maður! -- en ekki ætla eg að reyna við hann Aumíngja, því honum hefi eg getað valdið til þessa, en nú held eg Fullsterkur sè orðinn ofurefli mitt, en einhverntíma gat eg þó komið honum hèrna á brúnina.»

Síðan þrífur Bjarni til Fullsterks og veltir honum um hríð fyrir sèr, en síðan vegur hann hann upp á knè sèr og rèttir sig svo upp með steininn og snarar honum upp á stallinn, og segir: «þarna geturðu setið til morguns,» en síðan gengur hann heim á leið. Mikið fannst þórdísi til afls Bjarna. Leiðir Bjarni þórdísi til bæjar, en Árni bindur hesta við hestastein einn mikinn, er var á hlaðinu og var járnhríngur í og steypt tini utan um kenginn. Bæjarhús á Leiti voru fá og ekki allstór, en skemma ein mikil var á hlaði gagnvart bæjardyrum, og tók hún mjög af útsýnið. Síðan fylgir Bjarni þeim í baðstofu, og voru göng löng og mjó, sem rángali. Ekki var lopt í baðstofu, og voru rúm á gólfi og sín lokhvíla í hvorum enda baðstofu, svaf Bjarni í annari en systir hans í hinni. Ekki var fjalagólf í baðstofu, en lángsetis með veggjum var slegið þiljum bak við rúmin. Allt virtist þórdísi þrifalegt umhorfs, og búshlutir sterkir og eigulegir, en síður sniðnir til fegurðar. Bjarni vísaði þórdísi til sætis á rúmi sínu, en sjálfur settist hann framan á lokhvílu sína. Ekki

sá þórdís þar fleiri menn, en þau systkin, og voru griðkonur og smali einhverstaðar úti við. Taka þau Bjarni nú tal um ymsa hluti á víð og dreif. Og er þau höfðu litla stund setið, kallar Bjarni til systur sinnar og biður hana bjóða þórdísi einhvern bita; er nú inn borið skerborð eitt mikið, það var af trè, voru þar á magálar hángnir, hángið kjöt og kökusneiðar, og voru þær á að gizka þumlúngs þykkar í sárið. þórdís mataðist þar af eins og henni sýndist; kallar þá Bjarni aptur til systur sinnar og segir: «ætlarðu ekki að gefa henni eitthvað að væta sig á, hún getur ekki notað þetta, sem ekki er von, því þetta er ekki ætt fyrir megurð, og er það þó af þriggja vetra geldíng; en ekki færðu kaffið hèrna, þórdís mín, það er ekki haft með það hèrna, þó þeir sè farnir að flytja það kompásarnir, eða hvað þeir eru kallaðir þessir dönsku kaupmenn.»

«það gildir nú líka einu,» sagði þórdís, «þú hefir þó smakkað það, Bjarni minn?«

«Já, smakkað hefi eg það einu sinni eða tvisvar, og þókti ekkert í varið, og enginn matur er í því; þetta er eitthvað mórauðt skolp, og etinn sykurmoli með; en samt kvað það vera selt dýrum dómum, segja þeir, skollinn sá arna; það kann að mega velgja sèr á því, ef manni er hrollkalt innan, en ekki er það á

við gott og sæmilega megnt hángikjötssoð; eg sýp mèr stundum góða ausu af því, og þar finn eg að er einhver kjarni í, en ekki í hinum skolunum, þetta er eins og smáar baunir; þeir hafa sagt mèr, að það sè búið svona til í útlöndum og hafa saman við það album grekum, eg kann að nefna það, — þarna, vættu þig dálítið á skyrspæni,» sagði Bjarni, í því Þórunn setti tinfat eitt í kjöltuna á Þórdísi, «ekki eru hèr silfurskeiðarnar, en eitthvað verður til að grípa, fáðu henni, Þórunn mín, sleifina mína, eg stakk henni í morgun þarna í holuna hjá vegglægjunni.»

«Og ekki fæ eg henni hana,» sagði Þórunn lágt.

«Hèr er þá annar gepill,» segir Bjarni, og rèttir að Þórdísi hrútshyrníng einn; ber nú ekki til tíðinda þar til Þórdís hafði matazt. Voru þau þá tvö inni, og tekur Þórdís svo til máls:

«Nú mun vera mál til komið, að bera fram erindið, Bjarni minn, mátt þú og nærri geta, að ekki hefi eg farið híngað erindislaust.»

«Heyra má eg hvað þú vilt, Þórdís mín, og skilið áttu það, að eg gjörði bón þína ef eg gæti,» sagði Bjarni.

«Þèr mun þykja kátleg bón mín, er þú heyrir hana,» sagði Þórdís, «en hún er sú, að

eg ætla að biðja þig að taka af mèr kvennmann til geymslu.»

«Nú ert þú að gjöra að gamni þínu þórdís mín! enda held eg, að eg tækist það ekki á hendur að passa kvennmann, því það er hlutur sem er vandgeymdur og brothættur; og heldur held eg að eg tæki að mèr að fara með nýklakníng til skírnar í flugahálku og hála-gleri, þó eg væri járnalaus, en að passa uppá kvennmann; en segðu mèr nú í alvöru, þórdís mín! hvað er það, sem þú átt við?»

«Ekki ætla eg, Bjarni minn, að bendla þig við nein vandræði, en svo eg tali nú spauglaust, þá er það erindið, að biðja þig að lofa stúlku að vera hèr í sumar hjá þèr, eða hvað sem lengur verður; það stendur svo á því, að eg vil ekki að hún sè á mínu heimili, en sjálf vona eg hún fari sèr ekki að voða, því ekki er hún skynskiptíngur, og komin er hún af höndunum.»

«Og hver er það?» — sagði Bjarni, eins og hann væri að glugga útí hver það gæti verið.»

«Sigrún, fóstra mín,» sagði þórdís.»

«Sigrún þorsteinsdóttir,» sagði Bjarni, «já vel lízt mèr á þá stúlku og stillilega; en hvernig stendur á þessu öllu, þórdís mín, ætlar þú að setja hana í skóla hèr hjá mèr til að fullkomnast í hannyrðunum, eptir það hún er búin að vera á prestssetrinu?

«Ónei, ekki var það nú ætlan mín, en ekki er það þar fyrir, að opt sannast það sem málshátturinn segir: margt er það í koti karls, sem kóngs er ei í ranni; margt held eg svo vera, að það megi ekki síður nema á smábýlunum en á höfðíngjasetrunum, en þessu víkur allt öðruvísi við en þú heldur, og vil eg nú segja af hið ljósasta, af því eg þekki þig svo, að þú ert ekki neinn flysjúngur: það stendur svo á í Hlíð, að þar á heimilinu er einn sá maður, er eg vil ekki að hún sè saman við, og hann heitir Egill Grímsson.»

«Egill Grímsson, segir þú; já, þekki eg þann mann að sjón, eg tala hispurslaust þegar eg tala; eg skil það, þú ert hrædd um að hann vili fífla hana, en það vilt þú ekki hafa að hann gjöri.»

«Ekki er eg hrædd um það, að hún verði ginníngarfífl Egils, en það get eg ímyndað mèr, að öfundarmenn hennar, ef nokkrir eru, kynni að ljósta því upp, sem henni mætti verða til hneysu, ef hún er samtýnis þeim manni, sem allir vita að hefir farið að Hlíð í þeim vændum að ná henni, en sá orðrómur vil eg ekki á komist, og eru fleiri orsakir til þess, er eg í þetta skipti vil ekki segja þèr; þækti mèr það nú vináttubragð, ef þú vildir verða við bæn minni um þetta; er það og vili fóstru minnar sjálfrar, að

komast burt frá Hlíð um nokkurn tíma, á meðan Egill er þar á bæ, en vart mun hennar verða leitað í þínar hendur, ef mig rètt grunar.»

Bjarni hugsaði sig um nokkra stund og segir síðan:

«Eg sè þèr gengur stór nauðsyn til þessarar bænar, heillin góð! það er fyrsta bænin sem þú biður mig — láttu stúlkuna koma, ekki skal eg henni illt gjöra, en láta verður hún sèr lynda, þó kotúngslegur verði viðurgjörníngurinn, því svo verður að búa sem á bæ er títt, hèr er gefin bónda-fæða, og húsrúmið er ekki körugt, hún verður að kotra sèr þarna niður í kómentunni hjá þórunni systur minni, en ekki á eg þess von, að Egill troði mig opt um tær, því engir vinir erum við Grímur, faðir hans.»

þórdís þakkaði Bjarna fyrir undirtekt sína, og gjöra þau nú svo ráð fyrir, að Sigrún skuli fara að Leiti í næstu viku, og hafa með sèr nauðsynlegasta fatnað sinn; býst þórdís síðan til brottferðar, og leiðir Bjarni hana á götu, út fyrir túngarð, og segir henni á leiðinni ymsar skríngilegar sögur, er hann jafnan var vanur að segja vildarmönnum sínum, og honum áður höfðu sagðar verið. Síðan skilja þau með mikilli vináttu, og ríður húsfreyja heim til Hlíðar, og kemur þar skömmu áður en sól gekk til viðar.

# ÁTJÁNDI KAPÍTULI

Sækjast sèr um líkir,
saman níðíngar skríða.

Nú skal aptur taka upphaf á máli því, er fyrir skömmu er frá horfið, þar sem þeir Egill og Hallvarður lágu í faðmlögum á grænni grundu hjá götunni, og fundum þeirra hafði fyrst saman borið, en Hlíðarfólk reið frá þeim til kirkju að Stað. þegar snaraðist af hesti Egils og hann steyptist úr söðlinum í fáng Hallvarði, þá var Hallvarður ekki svo fastur á fótum, að hann gæti tekið fallið af Agli, heldur fèll hann öfugur út af götubakkanum, og stúngust þeir báðir kollahnýs út á jafnslèttuna, varð Hallvarður undir og sleppti þá tökum á Agli, og hraut Egill lánga leið fram af honum; fauk hattur hans af höfðinu og ofan í leirpoll einn, og sat þar millum tveggja þúfna, en svo óheppilega vildi til um Egil, að höfuð hans lenti á steini einum jarðföstum; kom höggið framan á ennið og varð svo mikið, að þegar í stað fellur Egill í öngvit og stendur eigi upp. Hallvarður bröltir fyrst á fjóra fætur og litast um, kemur hann auga á hvar Egill liggur, kallar á hann og segir: «á þú liggur þá þarna, kunníngi!» Egill andæpti ekki og kallar Hallvarður enn:

«Gegnir þú ekki skikkanlegum og ærlegum mönnum, gikkurinn þinn! þú skalt vita, að eg skal læra þig til að vera artugri, kunníngi!» — í þessu stökkur hann á fætur hart og títt, og þángað sem Egill liggur, og rekur fótinn í síðuna á honum, og hreyfist Egill ekki að heldur; verður honum þá litið framan í Egil og sèr, að hann er náfölur, hallar hann sèr þá ofan að honum og kallar: «ertu steindauður, lagsi?» Ekki svaraði Egill enn; sèr nú Hallvarður, þó hann drukkinn væri, að þetta muni ekki allt vera með felldu; hugsar hann sig þá um nokkra hríð, en síðan seilist hann út á handlegg sèr og tekur upp flösku sína, sýpur fyrst á henni og skvettir síðan framan í Egil vænum skvett og segir: «kannske þú lifnir við ef þú fær eitt snás, kunníngi?» — En þegar kalt brennivínið kemur í andlit Agli, fer ómegin brátt að síga af honum, heyrist nú fyrst að korrar nokkuð í honum, og litlu síðar lýkur hann upp augunum og sezt upp, er hann þá enn máttfarinn mjög og eptir sig. Egill hafði við höggið og ómeginið fengið svo mikla ráðníngu, að honum var runnin öll reiði; sá hann og, að þó svo illa hefði til tekizt, var það þó ekki í rauninni ásetníngur Hallvarðs að vera skaðamaður hans, enda lèt Hallvarður það í ljósi, að honum þækti illa hafa til tekizt, og gat þess, að það hefði ekki verið

ætlan sín að káfsast upp á hann: »því eg káfsast upp á einkis manns jússu, lagsi!» segir hann. Egill segir nú, að hann mundi fljótt hressast ef hann næði að fá kalt vatn að drekka, og væta höfuð sitt í því, og kvartar helzt um þýngsli og svima í höfðinu. Þar skammt frá var uppsprettulind ein, og taka þeir fèlagar það ráð, að Hallvarður reisir Egil á fætur, og staulast þeir þángað, eys Egill vatninu yfir höfuð sèr, en Hallvarður leggst ofan að læknum og svolgrar stórum. Egill verður nú brátt heill heilsu, en á enni hans hafði hlaupið upp kúla stór, dregur Hallvarður um hana sjálfskeiðíng sinn, og hjaðnar hún þó ekki að fullu. Ránkar Egill þá við sèr, og man, að hann eittsinn átti reiðskjóta og ætlaði að ríða honum til kirkju, en nú sèr hann hvergi hross sitt, þykir honum það allillt, og það verst, að hann veit ekki í hverja átt hann skal leita þess; þykir honum tvennt til, og þó jafn-líklegt, að annaðhvort hafi hesturinn elt kirkjufólkið, og sèr hann þá, að ekki mundi hann af honum hafa fyr en á Stað, og yrði hann þá að koma þángað fótgángandi, en á þann hátt mundi hann vart ná síðari blessuninni; eður þá hitt, að hesturinn hefði hlaupið á leið til Hlíðar, þar sem hann var hagvanur. Fæst hann nokkuð um þetta, og þykir honum sín ferð óvirðuleg. Loks kemur

þeim það ásamt, Hallvarði og Agli, að Egill skuli sleppa kirkjuferðinni og fara með Hallvarði til Gils; þar var hann þá í kaupavinnu. Kvaðst hann mundu útvega Agli hest heim til Hlíðar. Síðan tekur Hallvarður hest sinn, rètta þeir við reiðverið, er áður var afsnarað, girða allar gjarðir sem fastast, sezt Hallvarður síðan á bak og reiðir Egil að baki sèr; gekk ferðin nokkuð skrykkjótt, en samt komust þeir heilir á hófi að Gili; er Egill þar fram eptir degi og allt til kvölds í góðu yfirlæti og lýkur svo, að þeir Hallvarður og Egill gjörast hinir kærustu vinir, segir hvor öðrum trúnaðarmál sín, og setjast þeir nú út í túnið og drekka þar saman, átti Hallvarður brennivínskút einn í kofforti sínu, sem mundi taka tvo eða þrjá potta, og gutlaði enn nokkuð á honum. Kúturinn var nú borinn út í tún, og settust þeir fèlagar þar að honum, sinn á hverja þúfu, og höfðu náúngann á milli sín, dreyptu á sig til skipta, og kölluðu hvor annan fèlaga og bróður. Sagði Hallvarður fyrst frá ferðum sínum, og hafði hann víða farið og verið með mörgum höfðíngjum og allstaðar þókt hinn mesti afreksmaður; nú sem stæði kvaðst hann hafa forþènustu við þær hinar nýju innrèttíngar í Reykjavík, við reipslagara-fabrikuna, og að virðíngum og öllu atlæti kvaðst hann gánga næst yfirmanninum, er á hverjum morgni biði sèr gú-

moren, og segði ætíð «Dí» til sín um leið; nú í sumar stæði fabrikan þángað til í september, vegna skorts á hampi, og hefði hann því tekið þetta ráð, að fara upp til sveita um sláttinn; «og púla eg hèr upp á kúgras,» segir hann. Þessu næst skyldi Egill segja æfisögu sína, var hinn fyrri hluti hennar fljótsagður, því maðurinn var úngur og hafði ekki staðið í mörgum stórræðum. Hið merkilegasta, sem fyrir hann hafði komið, var bónorðið við Sigrúnu; tjáir hann Hallvarði allt hið sannasta af því máli, og svo í hvert óefni sè komið, að stúlkan vili ekki þýðast hann, og fóstra hennar Þórdís muni vera því mest mótstæðileg, að það ráð takist.

Hallvarður hlýddi vel sögu Egils; en er Egill þagnaði, tekur hann kútinn, rèttir að Agli og segir: «súptu á, blessaður kunnínginn!» Egill tekur við, sýpur á og fær Hallvarði aptur, þurkar sèr með hendinni um munninn, kyssir hann og segir: «Guðsást, elsku vin!»

Það er ekki að þakka það, kunníngi! þetta skal vera eins og við eigum það báðir,« segir Hallvarður, og setur kútinn á þúfuna hjá sèr. «Já heil slètt er það fyrir þig, bróðir, og linur þykir mèr þú hafa verið í sóknum, kunníngi! eða hvað lengi hefir þú verið á bæ saman við hana?»

«það munu vera átta eða níu vikur,» sagði Egill, «síðan eg kom þángað.»

«Já, níu vikur,» sagði Hallvarður og hristi höfuðið, «og ert jafnnær; það segi eg þèr satt, ekki skyldi eg hafa verið svo vikuna saman við hana, að eg hefði ekki komið henni til við mig, hefði eg annars lagt vind upp á hana, því svo er það stundum, þar sem eg kem á bæ og er blánóttina, þá elta þær mig morguninn eptir ein eða tvær út fyrir tún, til að spyrja mig nær eg komi aptur, — eða hvað hefir þú næst henni komizt, tókstu nokkurntíma í höndina á henni?»

«það hefi eg gjört,» sagði Egill, «en það kom nú til lítils.»

«þú hefir þá ekki vitað hvað þènaði, kunníngi! — og settistu þá aldrei á rúmið hennar?»

«Opt og mörgum sinnum,» sagði Egill, «en til hvers var það?»

«Hefðirðu kunnað að bera þig rètt til, bróðir! — eg held eg hefði læðt einhverju undir sængurhornið hennar,» sagði Hallvarður.

«þú kannt þá eitthvað fyrir þèr,» sagði Egill.

«Og ekki er eg göldróttur, en eg veit svona það sem þènar við ymsu,» sagði Hallvarður, og kínkaði kolli, «en súptu nú á, lagsi! — og er það ekki mèr að þakka eiginlega, en eg átti kunníngja einusinni — eg kynntist við hann

á innrèttíngunni, hann var af Ströndum, eða úr Arnarfirði, eða einhverstaðar þaðan vestan að.»

«Og það var góður galdramaður, ha?»

«Hvað heldurðu! hann faðir hans kunni frá sèr, en hvað var hann hjá honum afa hans? hann var brendur á alþíngi, og þessi fèkk sumsè allar skræðurnar eptir þá báða, en ekki gjörði hann það fyrir slikk, ef hans var leitað; eg segi þèr það í trúnaði kunníngi! — þú dugar ekki til að fá þèr í staupinu — eg á eina tilfæríngu, sem eg veit að er ótvílug, dugað hefir hún mèr; eg held eg verði að sýna þèr hana, greyið mitt, fyrst við erum orðnir hálf-málkunnugir, en þú verður að lofa mèr uppá trú þína og æru, já, að þú segir engum frá því, já uppá trú og æru!»

«Ha?» sagði Egill, «já rækalli væri gaman að geta galdrað hana, en sem eg er lifandi maður, skal eg ekki segja það nokkrum, því lofa eg; — ætlarðu að hjálpa mèr til þess, ha?»

«Því lofa eg ekki,» sagði Hallvarður, «en í hitt ætla eg heldur að ráðast, að sýna þèr staf.»

Í þessu þrífur Hallvarður til bugsnavasa síns; var bundið fyrir ofan hann með bandtygli og margvafið; leysir hann það, og eru á margir hnútar, en síðan tekur hann upp úr vasanum brèfaveski eitt harðla mikið; var bundið tygli nokkrum yfir og leysti Hallvarður þann og lýkur upp veskinu, eru þar í hólf mörg, og í

hverju hólfi margir miðar og pappírs bindi. Hallvarður leitar í veskinu og tekur þaðan miða einn gamlan og lúðan, flettir hann miðanum í sundur, en leggur áður veskið hjá sèr, og segir um leið við Egil: «taktu nú ekki á tuðru minni! — því ef þú gjörir það, þá vil eg ekki ábyrgjast þitt líf, því hèr er, satan gali mig! ekki allt barna meðfæri, en þenna miða skal eg sýna þèr, því hann er meinlaus.» — Síðan fletti hann sundur miðanum og rètti hann að Agli. Þar var ritaður á stafur mikill með þessum formála: «Rist þenna staf á manns herðarblað, og haf mannsístru í munninum, og lát undir fætur stúlku, og lát hana standa þar á meðan hún talar við þig, eða lát hana sitja á honum.»

Egill horfði á miða þenna með mestu undrun, og las hann rækilega og segir síðan:

«Nei, sko, eru þetta klær, ha? Já, von er það sè kröptugt, mikill er stafurinn; en áttu það sem til hans þarf, elsku vinur, ha?»

«Vera kann það,» sagði Hallvarður, «að eg eigi einhverstaðar flís af herðarblaði, eg komst með hægu móti yfir hana; en sjáðu, Egill frændi,» sagði Hallvarður, og tók úr veski sínu knýti eitt lítið, «þessi moli hefir kostað mig nokkra fiska, eg get ekki eiginlega sagt hvað

eg hefi gefið fyrir hann, en þrefaldur líknabelgurinn er utanum hann.»

«þetta mun vera ístran, ha?» sagði Egill.

«Já, þetta er hún.»

«Já, mikill er umbúníngurinn, eg er nú hissa,» sagði Egill; «það mundi nú ekki vera fáanlegt, að þú lètir mig fá miðann, kunníngi, ha?» — tekur hann þá úr vasa sínum tvær spesíur og rèttir að Hallvarði, «þú lætur mig fá þetta, lagsi minn góður.»

Hallvarður lítur á peníngana og segir um leið: «Margt er fyrir vin sinn vel gjörandi, en ekki er það fyrir það, eg hefði haldið að þetta mundi slá til, ef þú kæmir því laglega undir fæturna á henni; já, eg held eg verði að hjálpa þèr um stafinn og beinið, en molann má eg ómögulega missa; eg skal segja þèr það, þó hann sè ekki stór, þá fæst hann ekki alstaðar, það var rètt af stærstu heppni að eg gat komizt yfir hann.»

«þá verður mèr það ónýtt,» sagði Egill, «eða á maður ekki að hafa hann uppí sèr á meðan maður talar við kvennmanninn?»

«Jú,» sagði Hallvarður, «vissulega, maður á að hafa hann hèrna, kunníngi, hægra megin útí gúlnum, — eg sè það þú verður að fá molann, annars verður þèr það ekki til neins, eg held eg verði þá heldur að ljá þèr hann, en

ekki sel eg þèr hann, hvað sem þú býður mèr, en þetta verð eg að gjöra af því þú ert í mestu forleiginheitum, en ekki hefði eg gjört það fyrir alla.»

Í þessu rètti hann að honum herðablaðkinn og ístrumolann, en stíngur hjá sèr peníngunum. Egill stendur þá upp og kyssir Hallvarð, en Hallvarður segir: «vertu ekki að þakka það kunníngi, fyr en þú veizt hvernig það reynist, en eg vona það verði þèr að góðu, ef þú kannt með að fara.»

«Það verða nú vandræði fyrir mèr, hvernig eg á að koma henni til að standa á herðarblaðinu.«

«Ekki ætla eg að vorkenna þèr það, kunníngi, að finna upp eitthvað ráð til þess; eg hafði það svo, að eg saumaði beinið innan í vetlínginn minn og svo lèt eg hann detta niður þar sem hún stóð, svo hún varð ekki vör við, og á meðan var eg að tala við hana, og svo steig hún óvart ofan á hann — og þarna vissi eg ekki fyrri til, en hún fór að gefa mèr auga, svona eins og þær gjöra, þegar þeim lízt á mann, og kafroðnaði í framan; þá vissi eg hvað stúlkunni var og þá þurfti ekki meira heldur.»

«Egill kvaðst hinu sama ráði fylgja vilja; sátu þeir nú um hríð og tæmdu kútinn, er þá og kominn dagur að kveldi, og hugsar Egill

til heimferðar; stíngur hann nú miðanum, herðarblaðinu og molanum í vasa sinn og býr um sem vandlegast. Útvegar hann sèr nú hest á Gili og er honum lèður hann og sagt að skilja hann eptir á Hlíðarhálsi, mundi hann þá rata heim aptur; og er Egill er á bak seztur, gengur Hallvarður á veg með honum út fyrir tún; kveðjast þeir þar með kossum og blíðlátum og mæla til vináttu hvor við annan, en síðan ríður Egill af stað. Hallvarður gengur til bæjar, og er þeir eru skammt farnir, snýr Hallvarður við aptur og kallar á eptir Agli og segir:

«Blessaður mundu mig um molann!»

«Uppá trú og æru!» svaraði Egill.

Eptir það ríður Egill leið sína heim til Hlíðar, og er honum nú fremur lètt í skapi og þykir sín ferð vel hafa ráðizt; er hann nú alla leiðina ýmist að hugsa um, hvernig hann geti laglegast komið beininu undir fætur Sigrúnar eða í sæti hennar eins og fyrir hann var lagt, og virðist honum það enginn hægðarleikur; þess á milli var hann að ímynda sèr og gjöra ráð fyrir öllu, hvernig fara mundi, þegar hann væri búinn að töfra Sigrúnu, og henni væri snúinn hugur, svo hún vildi fyrir hvern mun eiga hann. Hann kvaðst mundu verða drýldinn við hana í fyrstu og láta hana gánga eptir sèr og stríða henni dálítið fyrst, og launa henni svo lambið

grá, hvernig hún tók bónorði hans áður, en því meira mundi hún sækja á. þórdísi gömlu skyldi hann storka með því, að hann væri ekki þurfandi fyrir að taka Sigrúnu upp af götu sinni, hún væri þó ekki annað en munaðarlaus og fèlaus vinnumanns dóttir, hún yrði þá að gefa henni alla sína fjármuni fasta og lausa eptir sig, og kerlíng mundi allt til vinna, að Sigrún gengi ekki frá vitinu.

Slíkt og þvílíkt hugsaði Egill á leiðinni; hann lèt hestinn lötra götuna fót fyrir fót og vildi að vegurinn yrði sem lengstur og seinfarnastur, svo hann mætti sem lengst hafa skemtun af hugsun sinni.

Loksins kemur hann þángað, sem honum var leyfður hesturinn, steig hann þá af baki og sleppti honum þar, en fór á fæti það eptir var vegarins til Hlíðar; kom hann þángað, er menn voru fyrir löngu háttaðir; finnur hann að dyr eru ólokaðar og fer til rúms síns, en getur þó ekki sofnað fyr en undir sólaruppkomu fyrir umhugsun og tilhlökkun. Á mánudagsmorguninn, er menn vöknuðu í Hlíð, er skygnzt eptir hvort Egill sè heim kominn, og sjá menn þá, að heima er höfuð Egils, rak hann það undan klæðum, en þó þókti mönnum nokkur missmíði á orðin, er þar kúla ein mikil og blá í miðju enni. Menn inntu hann eptir, hverju það sætti,

en hann lèt fátt yfir, og hvað það þó eigi af manna völdum; sagði hann og, að Hallvarður, sá er hann hafði hitt, væri drengur hínn bezti. Þann dag hafði Egill það að hjáverkum, að rista rúnir á manns herðarblað; en um kvöldið fór Sigrún vistferlum frá Hlíð og að Leiti, eins og þau Þórdís og Bjarni höfðu ráð fyrir gjört.

---

# NÍTJÁNDI KAPÍTULI.

---

*Bjarmalandsför Egils.*

Brottför Sigrúnar frá Hlíð þókti mönnum allkynleg og bera brátt að, og töluðu menn allmisjafnt um, og lèt Þórdís húsfreyja hvern tala þar um, sem hann vildi. Ekki þókti Agli nú greiðast um sitt mál, og var nú fokið í flest skjól, er sá máttarstólpi vonar hans, er hann vænti sèr hins mesta trausts að, var fallinn, en það var töfrastafur Hallvarðs. Skömmu eptir það, að Sigrún fór að Leiti, fer Egill að hitta Grím, föður sinn, og tjáði honum í hvert óefni komið var um kvonbænirnar, það fyrst, hversu þúnglega Sigrún hafði tekið því máli, er hann bar það upp fyrir henni; það annað, að Sigrún

væri brott farin frá Hlíð, og væri honum þar með allar bjargir bannaðar, en ekki örvænt um, að Sigrúnu kynni að hafa snúizt hugur síðar, hefði þau Egill kynnzt betur og mátt til lengdar saman vera. Grími þókti nú þúnglega horfast til um mál Egils, sagði það ljóst, að brottför Sigrúnar hefði gjörð verið til bekkni við þá feðga, og sagði, að ekki hefði allt verið brigðalaust af hendi þeirra Hlíðarhjóna, þar sem Sigurður hefði þó heitið því, að vera flytjandi þessa máls. Báru þeir feðgar þetta fyrir sèra Sigvalda og báðu hann nokkuð gott ráð leggja. Prestur rèði þeim feðgum, að Egill skyldi ekki hætta við svo búið, skyldi hann smátt og smátt venja komur sínar að Leiti, og freista hvort hann gæti ekki náð fundi Sigrúnar og viðtali, mundi þá smámsaman draga saman með þeim; færi svo opt, þó ólíklega áhorfðist í fyrstu, að konur lèti um síðir tilleiðast, er þær sæju að biðlar þreyttust eigi, en legðu því meira kapp á, þó þeim væri eitt sinn frá vísað. Grími líkaði allvel þessi ráðagjörð, sagði og, að Egill mætti vel fara að dæmum Móses og slá optar en eitt skipti á helluna, þar til hann fengi af henni rennanda vatn. Egill kvaðst þeirra forsjá fylgja vilja, og eptir það tekur hann að venja komur sínar að Leiti. Biður hann nú Sigurð bónda eitt laugardagskvöld um orlof, og kveðst

ætla að hitta föður sinn, leyfði bóndi honum það. Egill tekur þá gráan hest er hann átti og ríður til Leitis. Lætur hann hestinn eptir fyrir utan túngarð og gengur síðan til bæjar; hittist þá svo á, að Sigrún situr undir bæjarvegg og saumar; sezt Egill þegar hjá henni og hefst nú aptur máls á því, er hann áður hafði frá horfið um einkamálin, og gjörir sig nú sem blíðastan. Bjarni bóndi var við slátt á túni og piltur einn hjá honum; Bjarna var brátt sagt, að Egill sè þar kominn og seztur á tal við Sigrúnu. Bjarni stíngur þegar niður orfi sínu, og gengur heim úr slægjunni, en talar þó áður nokkur orð hljóðlega við piltinn, er hjá honum var. Bjarni gengur þar að, sem Egill situr og varpar kveðju á hann og spyr tíðinda; þar næst spyr hann Egil, hverju gegni um ferðir hans. Egill lætur fátt yfir og kveðst fara sinna erinda. Í þessu bili sèr Bjarni, að hundar margir standa í hesti Egils, og er hann á flugferð út frá túni, snýr hann þá að Agli og segir:

«Eg held þèr væri þarfara, Egill góður! að líta eptir reiðskjóta þínum en sitja hèr, eg sè að hundar vorir leika lausum hala við hann, enda muntu hafa það eina erindi, að þèr sè hollast að dragnast á brott, en mat skaltu fá áður, ef þú ert svángur,» segir hann.

Egill kvaðst mundu ráða ferðum sínum,

en stökkur þó upp og ætlar að taka hrossið, og er hann kemur að túngarði, er hesturinn hlaupinn út á mýri eina fyrir neðan túnið, og á harða stökki, hleypur Egill eptir honum, en piltur sá, sem áður er um getið, stendur á túngarði og hefir hrossaskellu eina mikla í hendi og sigar hundunum sem hann má. Agli varð torsókt yfir mýrina, er þar voru fen mörg, og þá er hann er á miðri mýrinni, er Gráni kominn af henni og á slètta mela, fylgja hundar honum jafnan við hæla, og dró hann skjótt undan Agli. Egill kemst við illan leik yfir mýrina, en svo hafði hann hlaupið geyst, að hann var nær því sprúnginn af mæði, og nálega var enginn hnappur eptir á buxnastreng hans. Verður hann nú að stöðva hlaupið um stund og blása, og dregur Gráni enn undan, en fyrir hvern mun vill hann hafa hest sinn; dragnast hann í humótt á eptir hestinum, og er skjótt af að segja, að hann nær ekki hesti sínum fyr en hjá túni; hafði hann staðnæmzt þar hjá hestum nokkrum; var þá beizli týnt og lendklæði, og leitar hann þess lengi áður hann finnur það. Sèr þá Egill ekki annað vænna ráð, en hverfa aptur og ríða heim við svo búið. Hinn næsta laugardag á eptir biður Egill enn um orlof og hefir enn hið sama á orði, að hann muni ríða og hitta föður sinn, hafði hann nú og frètt, að Bjarni mundi

ekki heima vera. Kemur hann að Leiti, og er það litlu áður en menn gengi til kvöldverðar. Egill hyggst nú mundu betur sjá ráð fyrir hesti sínum en áður; hefir hann nú með sèr reipi eitt, og tjóðrar hestinn í lág einni, skammt frá túni, þar er ekki mátti sjá hann heiman að frá bænum, síðan gengur hann heim. Bjarni var úti staddur, og þekkir hann þegar manninn álengdar. Tekur hann nú í skyndi það ráð, að hann safnar saman öllu heimilisfólki sínu og rekur það inn til baðstofu. Þar næst tekur hann mykjukvísl eina mikla í hönd sèr og sezt síðan á bæjarþröskuldinn, fyllir hann þá nær því upp í dyrnar, og heldur tveim höndum um kvíslarskaptið og er heldur ófrýnn. Egill gengur til bæjardyra og kastar kveðju á Bjarna, og tekur hann því að eins, en ekki yrðir hann á Egil. Egill snuddaði um hríð fyrir dyrunum þegjandi, en er hann sèr að ekki verður af að Bjarni bjóði sèr inn, og honum virðist ekki heldur árennilegt til inngöngu hjá Bjarna, þá kastar hann orðum á hann og segir:

«Þú ert þá ekki svo góður heim að sækja, að þú bjóðir inn gestum þeim er að garði koma, Bjarni sæll?»

«Eg hefi lítil húsakynni til að bjóða inn slíkum höfðíngjum, sem þú ert,» sagði Bjarni, «en hafir þú nokkurt erindi við mig að mæla,

þá get eg heyrt það hèr, eða sèrtu þyrstur og vilir drekka, þá skaltu fá það. Þórunn! komdu með mjólk í kálfsdallinum og láttu hann vera fullan.»

Egill kveðst ekki eiga erindi við hann, «en er Sigrún hèr inni?» segir hann.

«Svo er víst,» segir Bjarni, «en hún er háttuð, eða áttu nokkuð vantalað við hana? eg get skilað því.»

Egill kvað hann það mundu litlu skipta, hvort hann talaði fleira eður færra við hana.

Við þetta tók að þykkna í Bjarna, og segir: «Þá skaltu vita, Egill sæll, að eigir þú ekkert annað erindi híngað, þá vil eg ráða þèr að venja eigi komur þínar híngað til þeirra erindagjörða optar, og vil eg ekki hafa á mínum bæ þessháttar daður eða díngl, en hèrna er mjólkin, ef þú villt drekka.»

Egill kvaðst ekki mjólkur þurfi, og slær fætinum í dallinn, svo hann hrökkur úr hendi Bjarna, og reiðist hann, og í því bili stökkur Bjarni upp hart og títt, og tvíhendir kvíslina, og ætlar að slá henni í höfuð Agli; sèr Egill þann beztan, að hörfa undan, og tekur hann þegar á rás, en Bjarni eltir hann. En er Egill er kominn að túngarði, stökkur hann þegar yfir, en Bjarni kemur þá að með reidda kvíslina og slángrar henni til Egils, í því hann steypist yfir

garðinn, og ræður Bjarni það þar af, að Egill grípur hendinni aptur fyrir sig, hvar á hefði komið. Ekki veitti Bjarni honum lengri eptirför. Hleypur Egill þá til hests síns, leysir hann og stígur á bak, og skorti þá ekki stór orð og heitíngar af hans hendi, kvaðst hann svo skyldu koma til Leitis hið þriðja skipti, að Bjarna mundi minni til reka. Ekki skeytti Bjarni heitíngum þeim, og ríður nú Egill á brott, og kemur til Gríms föður síns, og segir honum sínar farir eigi slèttar, og er Egill þar um nóttina. Grímur verður ákaflega reiður við þessar frèttir, en stillti sig þó vel, og liðu honum af munni þessi orð prèdikara Salomonis: «leyf ekki þínum munni, að hann láti þitt hold syndga.» En með því áður hafði verið kalt með þeim Grími og Bjarna, eins og áður er nokkuð frá sagt, þá verður það nú, að þeir leggja fullan fjandskap á Bjarna; gjöra þeir þá ráðagjörð fyrir sèr, að þeir muni fara einhvern dag til Leitis, og heimta bætur að Bjarna fyrir óvirðíng þá, er hann hafði veitt Agli; en fari svo, að Bjarni svari ekki góðu um, skuli þeir gjöra honum ráðníngu nokkra, og kemst Grímur að þeirri niðurstöðu við rannsak ritnínganna, að hestinum hæfi svipan, asnanum beizli og Bjarna vöndur á bakið. Ekki lögðu þeir feðgar miklar dulur á fyrirætlun sína, og fær Þórdís í Hlíð pata nokkurn af

ráðagjörðum þeirra, gjörir hún Bjarna þegar orð og biður hann vera varan um sig og gefa þeim ekki færi á sèr; kvaðst hún hafa sannspurt, að þeir ætli að gjöra honum aðför.

---

## TUTTUGASTI KAPÍTULI.

---

*Herför Gríms gegn Filisteanum.*

Nú líður fram sumarið, og verður ekki af atförinni að Bjarna á Leiti; hyggja menn nú, að þeir Hjallafeðgar muni láta svo búið standa; en nokkru eptir rèttir um haustið er það eitt skipti, að Grímur gjörir Agli orð að koma til fundar við sig. Egill bregður skjótt við og fer til Hjalla; er honum þar vel fagnað, og er hann þar um nóttina. Næsta dag er veður fagurt, og er Grímur snemma á ferli; gengur hann þángað, sem Egill sefur, og er hann ekki vaknaður; Grímur vekur hann og biður hann upp standa, «og þykir mèr þú ekki árrisull, frændi,» segir hann, «eða er þèr úr minni liðið viðtal okkar það í gær, að við mundum fara að hitta Filisteann á Leiti, og vita hvort hann vill ekki bæta þèr þá svívirðíng, sem hann hefir þèr

gjörða; mun þessi dagur verða honum dagur grimdarinnar, dagur hörmúnga og eymdardagur storms og vinda, eins og spámaðurinn Sófonías að orði kemst; hefi eg, sonur sæll, látið hross vor heim reka, því svo er til ætlazt, sonur, að eg dragnist með þèr, þó þèr kunni að verða það að litlu liði, en láttu vera til leppana mína, kona! þó eg kirkjubúi mig nú ekki í þessar ferðir, það er ekki svo, sem eg ætli að setjast við altarishornið, og setja upp gleraugun og sýngja á Gradúalið og kyrja kredó eða intróítum.» Kona Gríms andæpti ekki, en mumlaði þó eitthvað í hálfum hljóðum um það, að hún hèldi að þessi för mundi vart verða til mikillar frægðar eða nytsemi; snýr Grímur þá máli sínu til hennar, veltir vöngum, gengur fram á mitt baðstofugólfið, spennir greipar og segir: Hefi eg ekki sagt þèr það, kona, að venja þig af þessu nöldri; þú ert einn sífeldur leki, eins og Salomon segir um hina kífnu konu, eða þykir þèr ekki nauðsyn bera til þessarar ferðar, eða hefir þú ekki heyrt Móabs bríxlyrði og spottanir Ammons barna, með hverjum þeir svívirtu mitt fólk.» Kona Gríms gekk þegjandi burt og svaraði engu, en kom bráðum aptur og lagði föt nokkur, er hann skyldi klædast í, á rúm þeirra hjóna, og tekur Grímur þau og skrýðist. Egill klæðist og skjótt, eru hestar á hlað

komnir. Egill reið Grána, en Grímur meðhjálpari reið öðrum hesti, og var sá fæddur brúnn að lit, en með því hann var gamall mjög, og ekki ýngri en Grímur sjálfur, er hann var tannfè hans, voru víða dottnir á hann blettir, og skáldað af hár allt, var hann því tilsýndar að sjá, sem hann væri skjóttur. Söðull Gríms var þannig, að setan í honum var úr bláu vaðmáli, og gagnstönguð og troðin kálfshári; hliðarskinnin voru úr íslenzku leðri og öll jafnbreið aptan og framan og negld á með látúnsbólum mörgum, er stóðu í lángri röð aptur og fram millum hnakkboganna; á hvorutveggja hnakkbogann, þann hinn aptara og hinn fremra, voru negldar bryggjur eða bríkur, háfar og líkar í lagi hálfkrínglu. Framan í framboganum var látúnskúla mikil eða drílmynduð strýta af látúni, er greypt var í hnakkbogann, og gekk jafnsíðis makka hestsins. Ístaða-ólar hafði Grímur all-ramgjörvar af leðri, og fóðraðar beggja megin með járni, voru þær að ofan festar í hnakkinn með snærum, en að neðan lèku í þeim ístöð mikil og sterkleg á sigurnöglum. Yfirklæði blátt var yfir hnakknum, það var nær því ferskeytt að lögun, voru á því pokar stórir, sem hnakkbríkunum var smokkað upp í; loksins var flossessa með fángamarki Gríms í miðju; bæði sessan og lendklæðið voru bundin ofan í hnakk-

inn með svörtum hollinda, á þann hátt, að litlir látúnshríngir voru í hliðartrjám hnakksins, og snældugöt í lendklæðinu, og lindanum svo brugðið í gegnum ofan í hríngana. Þegar þeir feðgar eru á bak seztir og ríða út traðirnar, taka þeir hatta af höfðum og lesa ferðamannsbæn sína, og varð þá þögn lánga hríð, nema hvað Grímur varð einusinni að andæpta upp úr bænagjörðinni, er hestur hans hnaut um þúfu: «stattu á fótunum fjandi,» segir hann. Þegar bænunum var lokið, setur Grímur aptur upp, og bjóða þeir þá hvor öðrum góðar stundir, feðgarnir, síðan tekur Grímur til máls og veltir vöngum:

«Þess vil eg óska, sonur, að óvinir vorir ífærist forsmáninni og skömmina hafi þeir sem eina kápu, eins og guðsmaðurinn Davíð segir, í sálminum 109da að mig minnir.» Á leiðinni tala þeir margt saman um ferðir sínar, kemur þeim það ásamt, að þeir skuli bjóða Bjarna sættir, ef hann vili bæta þeim svívirðíng þá, er hann hafi gjört Agli, og vili friðmælast, og þessu næst, að hann amist ekki við komum Egils að Leiti. En vili Bjarni ekki taka þessum kostum, muni þeir tæla hann burt frá bænum og berja hann þar, og færir Grímur óræk rök til þess úr ritníngunni, að slíkt sè rètt, og sjáist það þar, að Drottinn hafi boðið Sál og Davíð

að slá Filisteana og Ammoníta, og Malakías segi: «Þèr skuluð undirtroða þá óguðlegu, og þeir skulu vera aska undir yðar fótum.» Gjöra þeir nú ráð sín, hvernig þeir skuli haga atgöngunni, ef orusta tækist; kvað Grímur, að Egill skyldi gánga framan að Bjarna, en sjálfur mundi hann veita honum bakslettu nokkra, ef á þyrfti að halda, en sagði samt, að Bjarni væri afarmenni mikið, en þó mundi duga ef þeir gengi báðir djarflega fram. Egill gat þess, að hundar á Leiti væri grimmir mjög, og gæti það orðið þeim að óliði, ef þeim væri sigað á hesta þeirra meðan þeir fengist við Bjarna, kom þeim það ásamt, að þeir skyldu fara að Stað og biðja sèra Sigvalda um mann til farar með sèr að gæta hestanna. Ríða þeir um á Stað og segja presti frá fyrirætlun sinni, að þeir muni gjöra atreið að Bjarna og biðja hann bóta, og sagði prestur: «maklegt, já meir en maklegt, hum, hum, — að óvirða slíka menn og sveitarprýði, hum, hum,» taldi hann og rètt, að Bjarni bætti þeim að nokkru fyrir illmæli sín og ofbeldi við Egil. Biðja þeir þá prest, að ljá sjer mann til fylgdar, að gæta hesta, meðan þeir eigi tal við Bjarna. Prestur hafði þá ekki neinn húskarla heima, fær hann þeim því Hjálmar til fylgdar, og segir prestur honum að veita þeim góða fylgd. Hjálmar býst þá til farar, og verður hann

síðbúinn mjög, er hann þurfti að vefja sig snærum mörgum; hann var svo búinn, að hann hafði lambhúshúfu svarta á höfði og brækur mórendar, en kufl gráan og girtur hrosshárs-reiptagli digru. Segir nú ekki af ferðum þeirra feðga, fyr en þeir koma að Leiti; sjá þeir hvar maður er allskammt frá túngarði og fæst við steina, kenna þeir að þar er Bjarni bóndi, en Þórunn, systir Bjarna, er þar allskammt frá og þvær föt úr lækjarsitru, er rann hjá túngarði. Þeir Grímur stíga af hestum sínum og fá þá í hendur Hjálmari, og biðja hann gæta þeirra vel, og heita þeir honum fullsælu tóbaks og matar ef hann sè þeim trúr, en sitja skal hann hjá viðskiptum þeirra Bjarna, nema svo ólíklega kunni til að bera, að þeir gjöri honum vísbendíng, eða sóknin verði ógreið. Þykir þeim feðgum nú vel í veiði bera, er þeir hitta Bjarna úti, «því torsótt hafa öll afarmenni orðið inni,» segir Grímur. Þeir Grímur gánga nú þángað, sem Bjarni er og tekur upp grjótið, segir Grímur þá við Egil: «nú mun eg tala við Bjarna, því jafnan hæfir að hinn eldri og reyndari haldi uppi svörum, en hinir ýngri hlusti á, ««en hyggins manns kenníng flýtur fram líka sem fljótanda vatn, og lifandi uppspretta,»» segir Salomon, eða prèdikarinn, og skalt þú, sonur sæll! ekki til leggja nema eg segi þèr.»

Ekki lèt Bjarni, sem hann sæi til ferða þeirra, og er þeir koma allnærri Bjarna, kastar Grímur kveðju á hann og segir:

«Friður sè með þèr, Bjarni sæll!»

«Og með þínum anda, Grímur góður!» sagði Bjarni.

Grímur fór þá að velta vöngum og strjúka saman höndunum, en tekur síðan til orða:

«Þú sèr, Bjarni sæll, að vær erum híngað komnir feðgarnir í nokkrum erindagjörðum.»

«Já, það sè eg, að þið eruð komnir, en erindagjörðirnar veit eg ekki.»

«Eg heſi heyrt þá háðúng,» sagði Grímur, «að þú hafir óvirt Egil son minn, er hèr stendur, og þú munt kenna; það er sonur minn og frumburður sinnar móður; hverju vilt þú svara mèr til þess, Bjarni sæll?»

«Eg svara því, sem eg er spurður að,» sagði Bjarni, «því er eg vanur, Grímur góður!»

«Þá spyr eg þig, Bjarni, hverju þú vilt bæta Agli syni mínum fyrir þá óvirðíngu, sem þú sýndir honum, og áverka við hann, sem er, eins og eg sagði, frumburður móður sinnar og sonur meðhjálpara-myndarinnar?» sagði Grímur.

«Þá svara eg þèr, Grímur! ekki veit eg til, að eg hafi veitt frumburði þínum nokkurn áverka, en það telur þú mèr víst ekki til saka, að eg fylgdi honum hèr út fyrir túnið um dag-

inn, er hann kom híngað í kvennasnagi, og það getur verið, að eg hafi blakað til hans með spítu, sem eg hafði í hendinni, en hvort hún kom á sitjandann á honum eða ekki, það veit eg ógjörla, eg held hann hafi verið jafngóður fyrir því, og hitt sagði eg honum, að hann skyldi ekki koma hèr optar í þeim erindagjörðum.»

«Það var mál, sem þèr kom ekki við, Bjarni sæll, þó drengurinn hvarflaði híngað að tala við meyjuna; en hitt er víst, að þú hefir sýnt syni mínum Agli óvirðíng, og skaltu nú annaðhvort hafa gjörð okkar þar um og bæta honum það,» sagði Grímur, «eða þú skalt hafa ráðníngu.»

«Það skal eg gjöra fyrir þín orð,» segir Bjarni, «að bæta honum til.»

«Eg sè þú þekkir ekki veg friðarins, og mun því fara fyrir þèr eins og Móses segir: að þú verður sleginn með egipzkum kaunum og sárum á baka til, með ólæknanlegum kláða og óþrifum,» segir Grímur.

»Ekki hræðist eg hótanir þínar, Grímur kúluvambi», sagði Bjarni.

«Hann þekkir ekki veg friðarins,» sagði Grímur, «útrèttu þinn armlegg sonur! og látum oss slá Filisteann.»

Í þessu hleypur Egill fram, og er allreiður, og ætlar að slá hnefanum fyrir brjóst Bjarna og segir um leið: «smánarðu hann föður minn, ha?»

Bjarni sèr tilræðið og verður fyrri til og hrindir Agli svo hart frá sèr, að hann fellur öfugur aptur á bak, en sprettur þó óðara upp aptur, og þá segir Grímur: «sjö sinnum falla rèttlátir og rísa upp aptur, en nú skaltu, sonur, slá Filisteann, því dagur reiðinnar er kominn.» Hlaupa þeir feðgar þá báðir af bræði mikilli að Bjarna, og ætla að hafa hann undir; en ekki urðu þær sviptíngar lángar, áður Bjarni grípur annari hendi til Egils í buxnastrenginn aptanverðan, og hefur hann svo á lopt og kastar honum flötum niður, setur síðan hnèð fyrir bríngspalir honum og stendur á honum, en hinni hendinni verst hann Grími á meðan, og er Egill var fallinn, þrífur hann tveim höndum til Gríms, og rekur hann niður á grúfu fyrir framan sig; getur Grímur ekki komið neinu bolmagni við, og æpa þeir feðgar báðir þá hátt og biðja Hjálmar að duga sèr, og draga mannskratta þann ofan af sèr. En þá er Hjálmar sèr ófarir þeirra feðga, skellihlær hann, klappar saman lófunum og segir: «Nei sko, svona fór, sko bannað tröllið, he, he, he, he!» en er hann heyrir, að þeir heita á sig til liðveizlu, sleppir hann hestunum, sèr hann þá hellustein einn mikinn þar á holtinu og lýtur eptir honum, og þrífur til hans, og hefir Tuddi svo frá sagt, að þann stein hefði hann ætlað að færa í höfuð Bjarna.

þórunn systir Bjarna var þar skammt frá, eins og áður er sagt, og þvoði föt við lindina, stóð þar hjá henni fata ein full með keituþvæli, og þar í föt nokkur, sem enn þá voru óþvegin. Og þá er hún sèr hvað Tuddi hefst að, og grunar hvað hann ætli að gjöra, grípur hún í skyndi sokka eina, er lágu í fötunni og voru blautir mjög af þvælinu, hleypur síðan þar til, sem Tuddi er og rèttir sig upp með steininn. Reiðir hún þá upp sokkana og slær Tudda mikið högg þvert um andlitið með þeim; en er Tuddi kennir þvælisins í vitunum, grípur hann báðum höndum fyrir augun, fellur þá steinninn niður, en Tuddi rekur upp org mikið og öskrar sem naut og snýst í hríng og verður þá ekki af liðveizlu hans. En það er nú að segja af viðskiptum þeirra Bjarna og Gríms, að þegar Bjarni hefir rekið Grím niður, tekur hann að gjörast fjölþreifinn; seilist hann til buxnastrengs Gríms, og er hann hefir hneppt hnöppum þeim er þar voru, en slitið suma, færir hann brókina niður, en skyrtu fram yfir höfuð. Grímur var, sem vænta mátti, fátalaður, þó segja menn hann mælti það síðast í hálfum hljóðum: «svala þú ekki sinni þínu, er þú villt refsíng á leggja, segir Sýrak,» og heyrði Bjarni það, að hann nefndi Sýrak, og segir: «já, hvað segir Sýrak hèr um? en svona hirti Grettir Ásmundsson

Gísla, nema hèr vantar hrísluna, og verð eg þá að klappa þèr með lúkunni í þess stað, Grímur sæll, en vertu grafkyr á meðan, ella verð eg þúnghentari á þèr;» tekur hann þá bersýnilega að sýna Grími, að «tvisvar getur gamall maður orðið barn.»

Þórunn systir Bjarna sèr þá hvar komið er, og með því að hún uggir, að bróðir sinn muni verða, ef til vill, helzt til þúnghentur, hleypur hún þángað, sem þeir áttust við, og biður bróður sinn að hætta þessum leik; Bjarni segir, að svo skuli nú bráðum vera, «en þó verð eg að hafa nokkrar menjar þess, að við höfum fundizt; slítur hann þá tvo hnappa úr buxum Gríms, og fylgdi þar með stykki stórt af strengnum. Síðan sleppir Bjarni þeim, er Egill dasaður mjög, og svo þeir báðir. Bjarni gengur til bæjar, en þeir feðgar standa upp, og verður ekki af að þeir freisti optar til atlögu við Bjarna, enda höfðu þeir þá nóg að starfa, og ekki sízt Grímur. Hittu þeir nú Tudda, og situr hann þar á millum tveggja þúfna grenjandi, og þurkar úr andliti sèr með vetlíng sínum og er all-ófrýnn. Egill var þá og í illu skapi, og lætur hann reiði sína koma niður á Hjálmari, setur fótinn í hann allhart og segir:

«Hafðu þetta, skömmin þín, fyrir það sem

þú sveikst okkur, eða því hjálpaðir þú okkur ekki við mannskrattann?»

Tuddi stökkur upp hart, ránghvolfir augunum, blæs á Egil og segir: «sparkarðu í mig, þrællinn! það vilda eg molað væri hvert bein í skrokknum á þèr mèlinu smærra, eins og þú brýtur í sundur í mèr beinin, illyrmið þitt, fyrir sakleysi, það var þá rètt þó hann skelldi ykkur báða; eða hvernig átti eg að hræra mig, þegar bannsett skessan var búin að blinda mig á báðum augum? en það er ekki þar fyrir, það gilti einu þó þú fengir fyrir ferðina.»

Egill ætlaði þá að berja Hjálmar, en Tuddi tók til fótanna, og rann undan Agli, Egill elti hann nokkra stund, en Tuddi var ólaraður, en Egill þjakaður mjög af viðskiptunum við Bjarna, og jafnan, er Tuddi sá að hann var dreginn undan, stóð hann við og kastaði þá óþvegnum orðum á Egil. Egill elti hann um hríð, en loks snýr hann aptur, og er hann kemur þar, sem bardaginn hafði verið, finnur hann Grím föður sinn, og býr hann sig til að stíga á hest, er hann lerkaður mjög og vart einhlítur að komast á bak; þykir þeim þessi ferð hin háðuglegasta orðið hafa, og ráða þeir það af, að ríða heim við svo búið. En það er að segja af Hjálmari, að hann linnir ekki fyr, en hann kemur að Stað; segir hann þá nálega hverjum

manni, er hann sèr, frá ferðum þeirra feðga; segir hann, að tröllið á Leiti hafi tekið þá báða og leyst ofan um meðhjálparann. «En getur nokkur, prestur minn, setið í kór, sem hefir verið flengdur?» sagði Tuddi.

«Þegiðu bjáninn þinn,» svaraði prestur.

Þessi tíðindi urðu brátt hèraðsfleyg, og hendu menn mikið gaman að, og verður Bjarni mjög frægur af þessu verki. En er prestur heyrir kallz þetta, brást hann reiður við, segir það firn mikil, að slíkt tíðkist meðal kristinna manna, og nokkrum haldist það uppi óhegndum, að göfugir menn og ráðvandir sè meiddir og svívirtir; hótar hann, að setja Bjarna út af sakramenti, og segir hann væri þess maklegur, að búið væri til mál á hendur honum fyrir ofríki og illmannlegt frumhlaup að Grími. Þegar Grímur er heim kominn, gengur hann til hvílu og lætur gnúa mjaðmir og mjóhrygg og smyrja úr samsuðu, og batnar honum svo við það, að nokkrum dögum eptir er hann ferðafær, og fer hann þá brátt að hitta sèra Sigvalda; sitja þeir lengi á tali. Verður það ráð þeirra, að Grímur skuli kveðja heimiliskviðar og stefna Bjarna um barsmíðar-málið, en þeim Hlíðarhjónum um sáttmálarof við þá feðga, og telja þeir það víst, að ef málið komi í dóm, muni Bjarni verða alsekur skógarmaður, en Sig-

urður sæta útlátum; en með því Grímur þóktist ekki vanur að standa í þíngdeildum, handsalar hann presti sökina að lögmáli fullu til gjörðar eða dóms, og svo með að fara sem honum líki.

Um þessar mundir ræðst Egill frá Hlíð, og fer þaðan með sumarkaup sitt; hyggur hann nú ekki framar á ráðahag við Sigrúnu, og er svo sagt, að hann hèti því á fundinum, að hann skyldi hugsa af því ráði, mætti hann lífi halda, svo nauðulega sem hann þá þóktist staddur.

---

## TUTTUGASTI OG FYRSTI KAPÍTULI.

---

*Sættir.*

Eins og áður er frá sagt, varð Bjarni á Leiti frægur mjög af þeirri vörn, er hann hafði sýnt, þá er þeir feðgar Grímur og Egill veittu honum atförina, en Grímur djákni var hrópaður mjög af gárúngum, og kölluðu þeir hann í flimtíngum ýmist Grím skelli eða skellidaus. En ekki er lengi að snúast veður í lopti, segja menn. Það frèttist nú brátt um öll hèruð, að Grím-

ur meðhjálpari hefði handsalað Sigvalda presti Árnasyni á Stað sökina, og ætlaði prestur á vorþíngi að sækja Bjarna til fullra sekta um lögmætt frumhlaup að Grími; vissu menn, að Sigvaldi prestur var málafylgjumaður mikill og óvæginn, hafði hann og opt orðið þúngur í skauti þeim, sem minna höfðu til gjört; en Bjarni hafði hvorki frændastyrk nægan, eða traust höfðíngja til að etja kappi við jafn-ágætan mann, sem sèra Sigvaldi var. Varð nú ekki annað fjölræddara í hèraðinu en málið Bjarna, og þókti flestum óvænlega horfa. Töldu nokkrir það víst, að Bjarni yrði hýddur við staur og síðan látinn þrælka erlendis það sem eptir væri æfinnar í ánauð. Þá höfðu sumir það fyrir satt, að ekki yrði Bjarni af landi fluttur, heldur væri hitt líkara, eptir Norskulögum, er þá voru í gildi hèr á landi í sakamálum, að Bjarna yrði þröngvað í hærupoka og bundið fyrir opið og kastað í Öxará; allir töldu fè Bjarna sekt allt, hálft sèra Sigvalda og hálft konúngi, eða þeim, er sektarfè áttu að taka eptir hann að lögum. En þó að alþýða manna talaði svo, sem nú höfum vèr frá sagt, þá voru samt nokkrir, sem drógu efa á, hvort sök Bjarna mætti varða svo miklu, að hann yrði dæmdur sekur skógarmaður; sögðu þeir, sem satt var, að margur hefði gefið öðrum í öskjurnar, og samt ei orðið

óæll og óferjandi og óráðandi öllum bjargráðum, og hèldu, að slíkt mætti varða fèbótum einum. Bjarni á Leiti talaði fátt um mál sitt, og ekki urðu menn þess varir, að hann færi í liðsbón, og furðaði menn stórlega, að hann leitaði ekki ráða eða trausts hjá landshöfðíngjum, eins og þá var alltítt, og enn er venja á landi voru; gátu nokkrir þess, að Bjarni mundi sitja um sinn að búi sínu og sjá, hverju fram færi, en ef hann sæi sitt óvænna, mundi hann þegar minnst varði leita brott, og þá helzt ætla sèr til athvarfs í Ódáðahrauni; þar væri og landskostir góðir og sauðir feitir, og mundi hann allvel una þar hag sínum.

þórdís húsfreyja í Hlíð fregnar nú málatilbúníng þenna allan, svo og það, að prestur hefir tekið að sèr sökina til sátta eða sekta; þykir henni það illt, ef Bjarni kæmist í vanda nokkurn, og það hlytist af trúmennsku hans við þær fóstrur; kemur hún nú einhvern tíma um þessar mundir að máli við bónda sinn, og tjáir honum, hvað hún hafi spurt um fyrirætlun þeirra sèra Sigvalda og Gríms, og málatilbúnínginn, «og þykir mèr,» segir hún, «það allillt, ef Bjarni hefir vandræði stór fyrir mínar sakir, en það má kalla að svo sè, ef hann verður sektaður fyrir ráðníngu þá, er hann gjörði Grími, vildi eg að þú hlutaðist nokkuð til um

mál Bjarna og færir að hitta prest, og kæmist eptir, hverju hann ætlar fram að fara, og ef kostur væri á, að þú reyndir til að mýkja svo prest, að ekki væri ýfzt til við Bjarna um málsóknina; tel eg það og alllíklegt, sè prestur þinn vin svo mikill, sem hann læzt vera, að hann gjöri það fyrir þín orð, að hann láti málið niður falla, enda er það ekki þess vert að rekstur sè af því gjörður, og sökinni svo varið, að Grímur getur litla virðíng af henni haft, þótt hann beri hærra hlut yfir Bjarna. En með engu móti vil eg samt, að þú gángir að neinum afarkostum, hvorki fyrir hönd Bjarna eða fyrir sjálfan þig, og sjá svo um, Sigurður bóndi minn, að þú látir ekki hið mjúka túngutak prestsins fleka þig.» Sigurður bóndi segir það skylt, að hann leggi fram allt er hann má til fulltíngis við Bjarna, og að þessum málum verði miðlað. Eptir það ríður Sigurður til Staðar, og fagnar prestur honum vel; ber Sigurður upp erindi sitt fyrir presti, og segir, að hann er þar kominn í sáttaumleitun fyrir hönd Bjarna. Prestur tekur þeim málum mjög þúnglega í fyrstu, gengur um gólf og reykir og hummar nálega við hvert orð, segir hann, að fyrir sakir Guðs og konúngsins og embættis síns, megi hann ekki láta svo ósvífinn syndara sleppa óhegndan; hann hafi hörmulega brotið gegn hinu fimmta boðorðinu

og meiðt hold náúnga síns; sýnir hann það og sannar ítarlega, að slíku ofríki eigi harðlega að hegna, og vitnar ýmist til Norskulaga, Jónsbókar eða ritníngarinnar. Sigurður kveðst sjá það, að prestur hafi satt að mæla, og miklar og þúngar sakir liggi á Bjarna, en þó muni vera eins um brot hans og aðrar yfirsjónir, að «bætur sè til brots hvers;» kemur þá loks svo fyrir bæn Sigurðar, að prestur lætur til leiðast, og lofar að taka sættum fyrir hönd Gríms. Er nú sent eptir Bjarna, en hann kveðst eigi viðlátinn, kveðst hann þá daga hafa ærið mikið strit við stein einn, er hann hyggi vera legstein yfir einhverjum fornmanni, og hafi hann aldrei áður sigrazt á þeim steini, nema ef það nú verði, og kom sú orðsendíng frá honum, að ekki mundi hann koma til sáttafundar að Stað, enda vissi hann ekki annað, en að þeir Grímur hefði skilið svo síðast, að Grímur hefði verið að öllu ásáttur. Lítur enn ekki sáttavænlega út, en með því Sigurður fylgdi fast fram máli Bjarna, verður það, að þeir prestur semja það með sèr að leggja málið í gjörð; en það áskildi prestur, að Sigurður skyldi heita því, að halda uppi fèbótum ef nokkrar yrði gjörðar á hendur Bjarna, og kvaðst prestur ekki vilja rekast eptir þeim hjá Bjarna eða eiga nokkur viðskipti við hann, og hèt Sigurður því. Í þann tíma voru

tveir hreppstjórar í Staðarhrepp og hètu hvortveggja Ögmundur. þeir voru báðir Jónssynir, en til aðgreiníngar var annar kallaður Ögmundur hálfblindi, en hinn Ögmundur alblindi. Ögmundur hálfblindi var maður greindur og stilltur vel, nokkuð læs og nokkuð skrifandi; hann hafði mist annað augað í bólunni, og var það því sannnefni, er hann var kallaður hinn hálfblindi. þegar hèr var komið sögunni, var hann orðinn maður gamall, tók honum nú að glapnast sýn á því auganu sem heilt var, og hafði hann því jafnan gleraugu, ef hann þurfti eitthvað að lesa eða skrifa. Ögmundur hinn alblindi hafði bæði augu í höfði heil; sá hann og fullri sjón allt það, er vinna þurfti úti og inni, þó hann hefði átt að hæra sauðsvart vorullarþel á jólaföstu við skjáglugga; en sá var einn galli á sjón hans, að jafnan er hann skyldi lesa nokkuð, eða rita nafn sitt undir einhvern embættisgjörníng þeirra hreppstjóranna, sló svo mikilli þoku fyrir augu honum, að hann mátti ekki sjá nein stafaskil nema eins og í móðu; var það því orðin venja, ef eitthvað skyldi lesa eður birta alþýðu, er snerti hreppstjórnina, að hann vèk þeim málum frá sèr og til nafna síns, með þeim orðum: «lestu það, nafni! þú veizt það, eg sè ekki orðið á bókina.» Báðir voru þeir nafnar virðir vel, en meiri fram-

kvæmdarmaður þókti Ögmundur alblindi vera en nafni hans.

þessa menn kusu þeir prestur og Sigurður fyrir gjörðarmenn, en þriði gjörðarmaðurinn hèt Erlendur. Hann bjó þar í Staðarhrepp; flestum mönnum var hann liðugri í málfæri, og var það siður hans, þá er hann ræddi við einhvern, að þegar sá hafði lokið máli, er við hann talaði, þá át hann það allt upp orðrètt, og bætti svo við af eigin brjósti ymsum smáorðum, og setníngum, er hann smeygði inn í, t. a. m.: «sannarlega, hvað segir þú,» «já öldúngis rètt, segir þú,» «þetta ætlaði eg að segja,» «þetta var nærri því komið fram úr mèr.» Aldrei mælti hann móti nokkru því, sem aðrir sögðu, og sýndist honum jafnan það bezt, sem sá sagði, er seinast ræddi. Gárúngar kölluðu hann ýmist Erlend ójá eða ójú, amen eða halelújá.

Nú lèt prestur senda eptir þessum gjörðarmönnum öllum, og komu þeir eptir orðsendíng prests, og fagnaði hann þeim vel. þiggja þeir nú beina, en síðan settust gjörðarmenn á ráðstefnu. Stendur þá prestur upp og lýsir sök á hendur Bjarna, og hafði öll sömu orð í lýsíngu sakar, sem hann áður hafði mælt við Sigurð; talaði hann lángt erindi og snjallt, «og er yður kunnugt,» segir hann, «um þann hinn mikla ofríkismann, Bjarna á Leiti, hann hefir sýnt, hversu

mikið hneyxli hann hefir gjört í söfnuðinum, lagt hendur á saklausa menn, og meiðt hold náúngans, og lederað ærlegan mann, Grím meðhjálpara, á þann hátt, sem yður er allt kunnugra en frá þurfi að segja, hum, hum. Nú höfðum vèr raunar ætlað að sækja mann þenna til fullra sekta á vorþíngi, en með því góðir menn og vel forþèntir, hum, hum, hafa hlutazt um þetta mál, þá höfum vèr, eptir að hafa vel beþenkt sökina, látið tilleiðast að gjöra þá miðlun, að láta málið koma í gjörð, og höfum vèr þar til nefnt þessa hina alkunnu heiðursmenn, er nú eru hèr, með því skilyrði, að verði fèbætur gjörðar á hendur Bjarna, þá skal Sigurður minn, hvers bæn vèr í þessu höfum estímerað, hum, hum, handsala það, að þær verði áfrýjulaust af hendi greiddar.»

Síðan settist prestur niður, og tóku gjörðarmenn að ræða málið með sèr, kom þeim það öllum ásamt, að Bjarni hefði ratað í hinn mesta glæp, og vart mundi hann nú halda eignum og landsvist, ef málið kæmi til dóms, og segja þeir allir, að prestur hafi auðsýnt Sigurði vináttubragð mikið. Prestur tók frammí og segir: «og ekki má það heita vináttubragð, en satt er það, að við Sigurður minn erum málkunnugir, hum, hum,» er hann hafði leyft að leggja málið í gjörð. En um hitt urðu gjörðarmenn í fyrstu ekki á eitt sáttir, hverjar sektir þeir skyldu

gjöra á hönd Bjarna, eða hve miklar. Vildi Ögmundur alblindi, að Bjarni yrði sektaður mikilli fjársekt, og tók hann helzt á um þrjár ær loðnar og lembdar, og átta sauði gamla til Gríms, en 20 álnir til hrepps, en síðan skyldi öðrum til viðvörunar setja hann í gapastokk. Ekki var Ögmundur hálfblindi því samþykkur, «raunar virðist mèr,» sagði hann, «ekki fjárútlátin of mikil, en það þykir mèr óráð, að þröngva Bjarna í gapastokk;» kvaðst hann sjá það fyrir, að slíkt heljarmenni, sem Bjarni væri, mundi fátt láta fyrir brjósti brenna; mundi einhver þeirra, sem nú þættist alldjarfur, eiga um sárt að binda, áður en hann væri þángað kominn og búið væri að leggja hespu að hálsi honum. Erlendur lagði fátt til málanna; sýndist honum jafnan það rèttast, er sá sagði, sem síðar mælti af þeim nöfnum.

Þegar Ögmundur alblindi rèði til að setja Bjarna í gapastokkinn og hafði lokið máli sínu, sagði Erlendur það öldúngis rètt vera, og las upp hvert orð, «já, eg sè ekki betur en það sè rètt, sem þú segir, Ögmundur minn ýngri, já, svo sem Guð er uppyfir mèr þá er það rètt.» Á sömu leið fór, þá er Ögmundur hálfblindi talaði og latti þess að láta Bjarna í gapastokkinn; þá stóð Erlendur upp, og þuldi alla ræðu hans frá upphafi til enda, og lauk svo, að nú

væri ekki annað til álita í máli þessu. Horfðist þá til stórra vandræða, að ekki mundi saman gánga um gjörðina. Skora þá gjörðarmenn á prest, að segja hvað honum virtist um það, hvernig þessu máli yrði bezt til lykta ráðið. Prestur tók pípu sína og glóðarker, en hummaði og sagði síðan, sem var, að því hefði þeir verið í gjörð teknir, að þeir ætti um að gjöra málið, en þó gæti hann sagt hvað honum sýndist, og þyrfti þeir ekki að taka það til greina framar en þeim líkaði. Hann kvaðst vilja, þareð vinur sinn Sigurður ætti hlut að máli, gjöra fjársektir litlar; skyldi Bjarni aðeins greiða fjóra sauði þrèvetra og þrjá spesíudali, og skyldi þetta vera lokið til prests, sem hins setta aðila málsins, fyrir næsta vorþíng. Til hrepps skyldi Bjarni gjalda tuttugu fiska í góðum og gildum landaurum, «en að auki betali hann,» segir prestur, «tilbærilegan kost og tæríngu þessum heiðarlegu gjörðarmönnum, hum, hum!» þá skyldi og Bjarni ekki mega sitja í kór, fyr en hann opinberlega að ásjáanda söfnuðinum hefði beðið Grím fyrirgefníngar á því, er hann hefði misbrotið við hann, með því að hann hefði skemmt buxur hans og bakhluta.

Allir lofuðu það mjög, hversu vel sèra Sigvalda færist í þessu máli, og varð Erlendur þó einna fjölræddastur um það; urðu nú allir gjörð-

armenn á það sáttir að svo skyldi vera, og sögðu þeir nú upp svofellda gjörð í málinu.

Sigurði líkaði allvel þessar málalyktir, nema það þókti honum þýngst, er Bjarni skyldi ekki mega halda kórsetu nema hann beiddi Grím fyrirgefníngar; kvaðst hann það hyggja, að Bjarni yrði tregur mjög að uppfylla þetta skilyrði, og beiddi þess, að sú linkind mætti verða á gjör, að Bjarna væri gjör frekari útlát, en hèldi sæti sínu í kirkju og kór, sem híngað til. Ekki vildu gjörðarmenn eða prestur því játa, og verður Sigurður að láta sèr það líka; greiddi hann þegar af hendi fè það, er Bjarni átti að láta, og lofar að láta færa presti sauðina næsta dag.

Eptir að þessari sættagjörð var lokið, lætur Sigvaldi prestur bera inn drykk styrkan, og setjast þeir allir við drykkju, og er prestur hinn glaðasti, en einkum blíður við Sigurð; talar mjög um, hve mikill gæfumaður hann sè, að ráða þannig til lykta vandræðum þessum, er svo illa horfðu; segir hann og, að hann uni allvel þeim málalyktum, er á sè orðin, en friður og sættir sè í söfnuðinum; hafi og jafnan svo verið, og æ síðan hann tók við geymslu hjarðar Drottins, að menn lifðu í ástsemi og eindrægni andans hver við annan, og

hafi ekki átzt við illdeilur; rumdi þá prestur mjög ríkmannlega og hummaði.

þeir prestur og Sigurður drukku saman um kvöldið og fór allt vel á með þeim. Hreppstjórar og Erlendur drukku saman þrímenníng; bar þeim margt á góma og valt á ymsu fyrir þeim, er þeir hálsuðu hver annan og kystust, eða þeir hnakk-rifust svo, að prestur varð að miðla í millum þeirra og mýkja málin. Erlendur var eins og bergmál þeirra beggja hreppstjóranna, og át allt eptir, það sem talað var. Tóku þeir nú allir að verða ölvaðir, gestirnir, en prestur drekkur lítið; sáu menn þá, að hann hjalaði lengi hljóðlega við Sigurð, og vissu menn í fyrstu ekki hvað það var, en er á leið kvöldið, og Sigurður gjörðist ölvaður, kom það upp, að þeir töluðu um jarðakaup. Bar prestur það mál upp við Sigurð, að sèr hefði lengi leikið hugur á einni jörð þar í sókninni og væri sú Hamar; tjáði hann það raunar ekki vera af ágirni fyrir sèr, eða af því hann sæktist svo mikið eptir að eiga fleiri jarðir, en hann þegar ætti, heldur bæri það til þess, að Hamar hefði fyrrum verið í eign lángfeðga sinna, og verið meir en 200 ár í þeirri ætt, þar til afi sinn hefði skipt henni fyrir tvö kot. Sagði hann Sigurði lánga sögu af öllu þessu, er Sigurður hafði aldrei áður heyrt, svo og frá því, að einn af

forfeðrum sínum, Gunnar, hefði búið þar allan sinn aldur, hýst þar reisulegan bæ, og hefði Hamar þá verið haldinn einhver hin bezta jörð þar í sveitinni. En eptir það hún hefði gengið úr ættinni, hefði henni ár frá ári hnignað, er hún fór að gánga kaupum og sölum, og síðan verið skipt í sundur; — þar sem þau Hlíðarhjón ættu engin börn, mundi svo fara um Hamar eptir þeirra dag, að honum yrði skipt í alla staði millum útarfa, er væri margir, en af lángri tryggð til jarðarinnar gæti hann ekki sèð það, að svo færi um hana, þar sem forfeður hans hefðu blómgazt þar. Þá sagði hann, að þau hjón væri ekki skyldug að leifa útörfum sínum fremur lönd, en lausa aura. Sigurður bóndi tók í fyrstu því máli prests mjög fálega, en er prestur hèlt drykknum meira að Sigurði, og hann tók að gjörast ógáður og ölvaður, fór hann heldur að gefa nokkurn svig á um kaupin, og segir að svo geti farið, að hann seli honum jörðina, ef kona sín sè því ráði samþykk; en er prestur verður þess var, að Sigurður gjörist lausari fyrir, gengur hann að sem fastast, og vill að kaupunum sè lokið þegar um kvöldið; segir og, að hann þekki svo konu hans, að hún muni ekki brjóta það á bak aptur, sem hann gjöri; og með því prestur gengur ríkt

eptir, en Sigurður því nær óvita af öli, svo fer það fram, að prestur ritar kaupbrèf fyrir jörðinni.

þegar prestur nú hafði skrásett kaupgjörnínginn, biður hann Sigurð að rita nafn sitt undir hann. Sigurður var þá orðinn svo ölvaður, að hann gætti sín ekki að neinu, og kvaðst mundu rita undir hvað eina, sem prestur segði sèr; ekki skeytti hann heldur um að heyra brèfið upp lesið, en lèt sèr nægja, að prestur sagði honum ágrip af helztu atriðunum; las þá prestur brèfið upp, og kínkaði þá Sigurður kollinum við hvert orð og drafaði: «eins og yður lízt, elsku faðirinn!»

þeir voru kaupvottarnir Ögmundur hálfblindi og Erlendur, en prestur hafði þó raunar ætlazt til, að Ögmundur alblindi skyldi vera annar, svo að allt væri sem traustast og tveir hreppstjórar undir, en Ögmundur var þá úr sögunni; hafði hann litlu áður lokað augum sínum aptur, og lá með háblástrum og púi fram á borðið í fasta svefni, og varð hann ekki vakinn. En er að því kom, að Sigurður skyldi rita nafn sitt undir kaupbrèfið, sáu menn, að hann var lítt til fær; er það þá ráðs tekið, að prestur lætur hann taka um pennann og stýrir hendinni á meðan nafnið var ritað, gekk það ekki greitt, því Sigurði skalf höndin, og varð lángt

stryk út úr sumum stöfunum. þessu næst var brèfið innsiglað og geymir prestur það.

Skömmu eptir þetta gánga menn til svefns, og sefur Sigurður af um nóttina, en er hann vaknar næsta morgun, ránkar hann við sem í draumi, að nokkuð hafi verið talað kvöldið áður um jarðakaup af þeim presti, og man þó ó-gjörla til, hvað verið hafi; innir hann þá Ögmund hreppstjóra hálfblinda eptir, hvað fram hafi farið, og segir Ögmundur honum sem var, að hann hafi selt presti Hamar, og gjörníngur sá sè innsiglaður, «og undraði mig,» segir hann, «að þú vildir selja svo góða jörð fyrir hálf-virði eða minna, þó eg vildi ekki þá um tala, er mèr kom ekki það mál við, enda er hver fjár síns ráðandi.»

Sigurði brá heldur í brún, er hann heyrði þessi tíðindi, en sèr fátt til úrræða annað en að hitta prest og biðja hann að kaupin megi gánga aptur, er hann hafi ekki verið með öllu rètt gáður; mundi hann ekki hafa þann gjörníng gjört, hefði hann verið með öllu ráði, enda muni konu sinni lítt um finnast.

Hjá presti urðu lík svör, sem hjá embættis-bræðrum hans á Gyðíngalandi forðum, að hann sagði, að Sigurður skyldi sjálfur sjá þar fyrir; enda hefði hann ekki gjört neitt, er hann þyrfti að iðra. Fór Sigurður við það burt frá Stað,

að hann fèkk ekki rèttíng þeirra mála, og unir hann því allilla, en nokkru eptir heimkomu sína, segir hann konu sinni frá þeim tíðindum, er gjörzt hefði í ferð hans að Stað, og lætur hún hið versta yfir.

---

# TUTTUGASTI OG ANNAR KAPÍTULI.

---

*Þórarinn kemur í kynnisferð.*

Það var einn dag um haustið, skömmu eptir þetta og nokkru fyrir veturnætur, að Sigurður bóndi í Hlíð slátraði sauðum, og voru að þeim störfum vinnumenn hans, en griðkonur þvoðu innanúr og hrærðu í blóði. Sigrún var þá komin heim að Hlíð, og sitja þær fóstrur í túni skammt frá blóðvelli og ristu ristla og höfðu fyrir framan sig hrútshausa mikla og hnífa í höndum; var ristlunum brugðið um hornin á hausunum, og lètu þær svo hausana halda í á meðan þær ristu. Sigrún var svo klædd, að hún var yzt fata í pilsi einu, mjög slitnu og karbættu, og á alla vega litar bætur, sumar ljósbláar og sumar sauðsvartar, en pilsið hafði

í fyrstu verið dökkblátt, en var þó farið að upplitast fyrir elli sakir, og orðið gráleitt. Sigrún var og í peisugarmi, heldur töturlegum; hafði hún kastað þessum tötrum yfir sig á meðan hún var í sláturverkunum, svo hún skyldi ekki saurga föt sín, en innanundir var hún í hvers dags klæðum sínum, peisu og pilsi; húfu hafði hún á höfði, og brugðið hárinu uppundir í hnakkanum, fèll lykkjan ofan á herðarnar, allfögur, og huldi þær nær því allar. Sitja þær fóstrur svo um stund og tala á víð og dreif, og eru allkátar; tekur þá Sigrún svo til orða: «Nú held eg fáir þekktu mig í þessum skrúða álengdar, sem ekki væru því nákunnugri hèr, eða ekki hefðu sèð mig svona klædda áður.»

«Sá væri samt ekki mannglöggur, sem ekki þekkti þig, fóstra mín,» sagði þórdís, «altènd er þó hárið á þèr auðkennilegt, eða heldur þú hann þórarinn þinn þekkti þig ekki í þessum tötrum?»

«Ekki held eg það,» sagði Sigrún, og roðnaði við.

«Hver veit nema hann komi samt í dag; mig er farið að óra fyrir því, að hann komi bráðum; mèr þykir líklegt, að það líði ekki á löngu, ef hann á annað borð ætlar sèr að koma hingað.»

það var eins og við manninn mælt: í

þessu stendur einn af vinnumönnum upp, þar sem hann var að gjöra til einn af sauðunum, gengur með mörinn að troginu, og leggur hann þar samanbrotinn í blóðtrogið, dýfir fíngrinum í það og gjörir kross á mörinn til auðkenníngar; en er hann ætlar aptur til kindarinnar, sem hann var að gjöra til, verður honum litið til melanna fyrir utan túnið, kallar hann þá og segir: «þarna koma þá tveir menn ríðandi og reka tvo hesta lausa, og þeyta í loptinu, og er annar á kápu.» Nú standa allir upp og horfa á komumenn, en þá bar að svo fljótt, að þegar eru þeir komnir inn um túngarð, og hleypa þeir þá hestunum engu minna en áður. En er þeir eru komnir heimarlega í traðirnar, kennir Sigrún að þar er þórarinn, verður henni þá bilt við, og segir í hálfum hljóðum við fóstru sína: «Guð hjálpi mèr, það er þá hann!» — Svo voru þeir þórarinn þá nær komnir bænum, að Sigrún sèr ekkert ráðrúm til að skjótast inn í bæinn, en fyrir hvern mun vill hún ekki að þórarinn heilsi sèr þar, og sjái sig svo tötralega til fara, tekur hún það því til bragðs, að hún grúfir sig niður millum þúfnanna, en þórdís húsfreyja gengur heim á hlaðið. þeir þórarinn eru þá stignir af hestum, og gengur þórarinn til húsbónda og húsfreyju og heilsar þeim með kossi, og kastar kveðju á hitt fólkið.

Þórdís þekkti vel Þórarinn, og voru þau málkunnug; tekur hún þá svo til orða:

»Þèr megið ekki taka til þess, Þórarinn minn, þó við sèum hèrna hálf-sóðalega til-fara; þeir geta ekki verið prúðbúnir, sem gánga í ymsu, enda tekur enginn til þess, hvernig við erum, kerlíngarnar.»

Þórarinn kvaðst því alvanur, að sjá fólk í hversdagsfötum; síðan bjóða þau hjón honum inn, og er hann látinn fara í stofu; skýzt þá Sigrún til bæjar, kastar sem fljótast tötrunum og býst um, þvær sèr og greiðir hár sitt; en á meðan taka þau hjón og Þórarinn tal í stofu, og spyrja þau hann almæltra tíðinda, svo og um það, hvernig hann kunni við sig á Suðurlandi, og spyr bóndi margs um búskaparhætti og aflabrögð og fleira þessháttar. Loksins gengur húsfreyja úr stofu, og lætur setja mat á borð fyrir Þórarinn; kemur þá Sigrún til stofu, og heilsar hann henni blíðlega. Er nú matur fram reiddur, og gengur bóndi út meðan Þórarinn matast; hafði hann og ymsu að sinna við sláturverkin, og verða þær fóstrur einar eptir í stofu. En er Sigurður er út genginn, gengur húsfreyja einnig úr stofu og lítur til Sigrúnar um leið, en Sigrún skildi það svo, sem fóstra hennar segði: »nú fer eg út, Sigrún mín, en ekki þarft þú að hlaupa á dyr fyrir það; ef þið Þórarinn

eigið eitthvað vantalað, þá er nú tími til þess að ræðast við. Sigrún varð því eptir í stofunni hjá Þórarni. Ekki vitum vèr gjörla að segja frá því, er þau Þórarinn og Sigrún ræddu þar, og ekki höfum vèr sanna frètt um það, hvort Þórarinn hafi heilsað Sigrúnu nokkuð rækilegar, en hann gat áður í skyndíngu við snúizt, en það eitt höfum vèr afspurt af viðtali þeirra, að Þórarinn sagði Sigrúnu frá fyrirætlun sinni og erindagjörðum, kvaðst hann vera þar kominn til þess að bera upp við þau fósturforeldra hennar það mál, er þau hefðu áður sjálf aftalað, og leita samþykkis þeirra þar til; segir hann, að þær hinar suðrænu meyjar hafi ekki gengið svo í augu sèr, að sèr sè snúinn hugur um ráðahag við hana, og sè það ásetníngur sinn að bindast ekki einkamálum við neina stúlku, nema Sigrúnu; fer hann þar um mörgum fögrum orðum. Sigrún þakkar Þórarni trygð hans og staðfesti að maklegleikum; segir hún honum nú, að þetta mál muni auðsókt við fósturforeldra sína, og getur þess, að fóstra sín hafi grun á um samdrátt þeirra, og hafi hún sèð brèf það, er Þórarinn sendi henni; töluðu þau lengi og brugðu ekki talinu fyr, en Sigurður bóndi kemur í stofu; stendur Þórarinn þá upp frá borðum og þakkar bónda fyrir beinann. Býst Þórarinn nú til brottferðar, og fylgja þau hjón

honum út á hlað og svo Sigrún, þókti henni kynlega við bregða, er þórarinn sýnir á sèr fararsnið, en hefir þó ekki talað við þau hjón um einkamálin; en er þau eru öll út komin, víkur þórarinn til þeirra hjóna og kveðst hafa erindi við þau, svo að fleiri menn sè ekki áheyrandi, gánga þau Sigurður og þórdís með þórarni þar upp á túnið og setjast, og tekur þórarinn þá svo til máls:

«Svo er mál með vexti, að hèr í Hlíð er mær ein, sem Sigrún heitir, eru foreldrar hennar dánir, og ætla eg að þið hjón sèuð ráðamenn hennar, því að þið hafið alið hana upp og að öllu breytt við hana sem foreldrar; nú er því ekki að leyna, að mèr leikur hugur á mey þessari, er ykkur það og kunnugt, að eg hefi nokkurn kunnleik af henni haft, vorum við um stund á bæ saman, og er það skjótast af að segja, að eg hefi heitið að eiga hana, eða enga stúlku aðra, ef hún er því ekki mótfallin, og eg fæ ykkar samþykki til; þykir mèr miklu varða, hverju þið svarið til þessa máls.»

þegar þórarinn lauk máli sínu, varð nokkur þögn á þínginu; litu þau hjón hvort framaní annað, eins og þau hugsuðu hvort fyrir sig: «tala þú fyrst, elskan mín!» — en er húsfreyja sèr, að ekki verður af svarinu Sigurðar, segir hún:

«Hverju ætlar þú að svara þar til, Sigurður bóndi minn?»

«Eg svara ekki öðru, en þèr sýnist,» sagði Sigurður, «eða hvað lízt þèr?»

«Fyrst þú skýtur þessu máli til minna úrslita, Sigurður bóndi minn!» sagði húsfreyja, «þá mun eg segja það, sem mèr býr í skapi, og er það þá fyrst, að það er að vísu satt, að ekki á Sigrún marga svaramenn, en þó er sá til, sem mest varðar um, en það er vili hennar sjálfrar, eða hafið þèr, Þórarinn minn, spurt hana til ráða?»

«Ekki veit eg það, heillin góð,» sagði Þórarinn, og roðnaði við, «en gjörum ráð fyrir að svo sè, og að þessi ráðanautur sè því ekki fráhverfur.»

«Þetta mun svo vera,» sagði Þórdís, «þið eruð vanir að hafa það svo, karlmennirnir, að ráða fyrst að honum, áður en hinna er leitað, og það mun að vísu rètt, án efa er það forsjálegast, og þá er það ekki nema til málamyndar að spyrja aðra, sem hlut eiga að máli; þeim er þá sá einn kostur, að «segja amen til allra gjörnínganna.» En svo að eg sleppi nú þessu, en svari yður, Þórarinn minn, þá er það af mèr að segja, að eg er fullkomlega samþykk fyrirætlun ykkar, fyrst það er ljúfur vili ykkar beggja, enda sæti það ekki á mèr, sem lítið eða ekk-

ert hefi gjört Sigrúnu gott, að fyrirmuna henni það, sem eg sè að er henni til sóma; það munu flestir mæla, ef þessi ráðahagur tekst, að Sigrún heldur seilist í skárri endann, en að þèr takið upp fyrir yður, og það er von, ef litið er til ástæðanna; hún er umkomulítil, eg ætla ekki að segja umkomulaus, en þèr glæsilegur maður og líklegur til hamíngju, ef Guð gefur yður heilsu; en þó að Sigrún litla sè munaðarlaus, þá er mèr svo lángt til hennar, að ekki mundi mèr falla það lètt, ef hún yrði fyrir brigðmælgi, og segi eg það ekki af því, að eg haldi annað, en að þèr sèuð svo heiðvirður maður, að þèr talið ekki annað, en yður býr í brjósti.»

«Það þækti mèr illa fara,» sagði Þórarinn, «ef nokkur hefði grun um, að eg hefði nokkur undirmál í þessu eða öðru.»

«Eg hefi það ekki,» sagði húsfreyja, «en eg sagði þetta af því, að mèr sýnist þau sè nú farin að tíðkast hin breiðu spjótin; það eru ekki allir, sem álíta það stórt ábyrgðarmál, þó þeir pretti stúlku, ef þeim býður svo við að horfa, og í annan stað datt mèr í hug, að svo gæti verið fyrir yður eins og sumum öðrum, að þeir ráða ekki altènd við kríngumstæðurnar.»

«Það er satt,» sagði Þórarinn, «dauða og líf geta menn ekki ráðið við.»

«Ekki á eg nú svo við það,» svaraði húsfreyja; «dauðinn hefir aldrei brugðið nokkru heitorði karls og konu, en aðrar kríngumstæður eru það, sem stundum slíta trygðunum, til að mynda rógur og bakmælgi óvina, ráð og fortölur vina og vandamanna.»

þórarinn hugsaði sig um litla hríð, og segir síðan:

«Eg þykist nú skilja, hvar þèr beinið að, þó ekki sè talað ljósara; þèr haldið, að vinir mínir og frændur, eða ef til vill tengdamenn, muni verða því mótfallnir að eg eigi Sigrúnu; en eg verð þá að segja yður, að ekki á eg nokkurn þann vin, að eg meti svo mikils, að eg fyrir hans sakir bregði trú minni; frændur á eg fáa, sem eg þekki, eða hefi nokkuð gott upp að unna, nema systur mína, og veit eg það, að hún er heldur fýsandi en letjandi þessa máls. Telja má eg að sönnu mág minn, sèra Sigvalda, með vandamönnum mínum, en ógjörla veit eg, hvort eg á honum mikla velgjörnínga að þakka; hann hefir að vísu komið mèr til mennta, en eg ætla, að þar til hafi hann varið föðurarfi mínum; það veit eg að vísu, að vart mun hann hafa ætlað mèr þetta kvonfáng, en svo að eins hefi eg þetta upp tekið, að eg ætla mèr ekki hans ráðum til þess að hlíta.»

«þar mun þá fara sem Guð vill,» sagði

Þórdís, «og skal ekki draga yður lengur á þessu máli, og hafið þèr fullkomið samþykki okkar til þess að gánga að eiga Sigrúnu, þegar þèr sjáið yður geta því við komið, eða ertu því ekki samþykkur, Sigurður minn?»

«Jú, meir en og margfaldlega,» sagði Sigurður, «það er ekki að draga hann á því, og það slíkan mann.»

Við þetta skildu þau talið, og þakkaði Þórarinn þeim hjónum með hinni mestu blíðu; en síðan gánga þau öll til bæjar og í stofu, og er Sigrún þá sókt og spurt um vilja hennar, og var það mál auðsókt. Tala þau nú þetta mál betur, og er ákveðið, að það skyldi þó fara af hljóði, og Sigrún sitja í festum, þar til Þórarinn fengi brauð; bjóða þau Hlíðarhjón Þórarni að vera þar um nóttina, en hann vill það ekki, kveðst hann verða að hafa hraða ferð, muni hann verða þrjár nætur að kynni hjá systur sinni, en fara síðan suður, og ætli hann þá að hafa náttstað í Hlíð, er hann ríði um.

Nú ríður Þórarinn til Staðar, og er honum þar allvel fagnað, situr hann þar í góðu yfirlæti, og er prestur hinn kátasti, og segir honum mörg tíðindi, sem gjörzt höfðu þar í sveitinni, síðan hann fór frá Stað; getur hann þess og í óspurðum frèttum, hvernig farið hafi um vist Egils í Hlíð, og að þau Hlíðarhjón hafi orðið

að koma Sigrúnu þaðan brott, því sá orðrómur hafi þegar verið farinn að leggjast á, að fleiri kunnleikar hafi verið með þeim Agli og Sigrúnu, en góðu hófi gegndi, og hefir það í dylgjum, að nokkur tilhæfa muni hafa á verið. þórarinn eyðir því tali, en í annan stað spyr hann vin sinn Finn Bjarnason um þetta, og segir hann þórarni af hið ljósasta, og kveður það hina mestu lygð, að Sigrún hafi nokkurntíma viljað líta í þá átt, sem Egill var; en satt væri það, að Egill hefði farið að Hlíð með þeirri fyrirætlun, að fá Sigrúnar, en er þær fóstrur hefðu orðið þess vísar, hefði Sigrún þegar verið látin brott fara. þá er þórarinn hafði verið að kynni að Stað tvær nætur, kveðst hann mundu ríða næsta dag snemma, og lætur hann tjóðra hesta sína hjá túni. Sigvaldi lætur og sækja hest sinn, og segir hann þórarni, að hann muni ríða á veg með honum, og ætli hann að fylgja honum úr sókninni. þórarinn telur það úr og segir þess enga þörf, en er hann verður þess vís, að prestur vill ekki láta þá ferð undir höfuð leggjast, sèr hann, að svo muni verða að vera; veit hann þá og, að ef prestur ríður með honum, muni hann ekki geta komið við í Hlíð, eins og hann hafði heitið Sigrúnu, því ekki vildi hann að prestur væri í för með sèr, þá er hann þar kæmi; en fyrir hvern mun vill hann ekki fara

svo í brott, að hann efni ekki orð sín; tekur hann því það ráð, að hann talar við Finn, að hann muni ríða með sèr til Hlíðar um nóttina, þegar menn sè gengnir til hvílu, og hafa hljóðt yfir, lætur Finnur vel yfir því, og gánga menn nú að sofa á Stað; sefur þórarinn í svefnherbergi því, er hann var vanur að sofa í, þá er hann var þar, og lagðist niður í fötunum. Finnur háttaði, sem hann var vanur, og lætur á engu bera, en þá er hann heyrir hvern mann í baðstofu hrjóta í sínu rúmi, stendur hann upp og klæðist hljóðlega; fer hann þá ofan stiga og lýkur upp herbergi þórarins, og fer honum það svo kríngt, að þórarinn verður ekki var við, fyr en Finnur tekur um fót honum og biður hann upp standa. Tekur hann skó sína og bindur, síðan læðast þeir fèlagar út. Reiðtygi þórarins voru í hjalli, ólæstum, er stóð þar við bæinn; tekur Finnur þau og svo beizli tvö, en sjálfur hyggst hann að ríða berbakt. Niðamyrkur var á, og mátti ekki sjá handa skil. þeir fèlagar gánga úr garði, og ætla að taka hestana fyrir utan túnið, en er þeir koma upp fyrir bæjarhúsin, verður Finni litið til baðstofuveggjar, og sýnist honum þar vera flyksa ein mórauð, og á hæð við meðalmann. Finnur segir þá við þórarinn: «taktu nú við reiðtygjunum og beizlunum fèlagi, og taktu hestana úr

tjóðrinu og legðu við þá, mèr sýnist standa þarna einhver mannræfill, og ætla eg að forvitnast um, hver það er, og síðan kem eg aptur til þín. Þórarinn tók við reiðtygjunum og hèlt til hestanna. En það er af Finni að segja, að hann snýr aptur, og þángað að, sem hann sá manninn, sèr hann þá, að það er Hjálmar tuddi; kastar Finnur skjótum orðum á hann og segir:

«Hvern skrattann ertú að draugast hèr, Tuddi?»

«Hvern skollann varðar þig um það, Finnur illskubein? en hver var þarna með þèr?» sagði Hjálmar, «og vil eg nú fá að vita það, hverir eru að stelast út af bænum í blindösku náttmyrkrinu.»

«Það skaltu aldrei fá að vita, afmánin þín,» sagði Finnur, og greip annari hendinni til Tudda, en reiddi til höggs með hinni.

«Ætlarðu að sálga mèr, eins og þú ert vanur, og sýna mèr svo banatilræði á eptir?» — sagði Tuddi og fleygði sèr flötum niður og setti fæturna upp í loptið, eins og seppi, sem verið er að klóra á maganum.

Finnur stíngur þá hendinni fyrir kverk honum og segir:

«Hèr skaltu láta þitt auma líf, nema þú

segir mèr, hvað þú ert að rölta hèr úti um nætur, og segðu nú satt!»

«Æ, æ, æ, eg held þig varði ekki um það, eiturnaðran, mèr var líka bannað að segja það,» sagði Tuddi og öskraði hástöfum.

«Hefi eg ekki sagt þèr að þegja, óhræsið þitt!» sagði Finnur, og þrýsti hendinni sýnu fastara að hálsi Hjálmari.

«Á, á, þèr er þá alvara að drepa mig? eg skal heldur segja þèr það: presturinn sagði mèr að vaka í nótt, og gæta að, hvort nokkur tæki hestana og færi burt af bænum.»

«Og þú ætlar að segja honum það?»

Já, það gjöri eg.»

«Þá skal eg gefa þèr sögubitann, hróið mitt!» sagði Finnur, og grípur um leið stein einn, hnefastóran, og keyrir upp í munn Hjálmari. Steinninn var svo stór, að hann gekk nauðuglega inn um tanngarðinn, og slær Finnur á hann með hendinni, svo hann sleppur inn fyrir tennurnar, en síðan segir hann:

«Hafðu það nú að mínum ráðum, greyið mitt! vertu nú ekki lengur að rjátla hèr úti, ella verður það þinn bani, en leggstu heldur í bólið þitt og hafðu engan hávaða.» Síðan sleppir Finnur honum og hleypur til Þórarins, og hefir hann nú lagt á hest sinn; innir hann Finn eptir, hvort hann hafi orðið manna var; lítið mark

segir Finnur að því, að hann hafi mann hitt, «en Hjálmar tudda fann eg í svip, og hefi eg gjört svo ráð fyrir, að hann segi ekki af ferðum okkar að sinni. En það er þessu næst af Tudda að segja, að þá er Finnur sleppir honum stendur hann upp, og vill hann þá mæla nokkuð, en finnur að honum er þess varnað; grípur hann þá til steinsins, þess er Finnur hafði keyrt í munn honum, en steinn sá var ekki laus fyrir, fyllti hann nálega út í allan munninn, og var svo ósleitulega inn rekinn, að hann með engu móti mátti hann brott færa. Nú þó honum væri ekki gott í skapi til Finns, hugsar hann þó, hvað Finnur hafði síðast sagt við hann: «að það skyldi verða hans bani, ef hann gjörði hávaða nokkurn,» tekur hann því það ráð, að hann gengur til baðstofu og leggst þar niður í rúm sitt og stynur allþúnglega, og svo hátt, að nokkrir vöknuðu við í baðstofu, og kölluðu til hans og frèttu hvað að honum gengi, en Tudda varð ekki greiðlegt um svar, og hirtu menn ekki um framar að grennslast eptir hvort honum væri nokkuð meint, var hann og opt kunnur að greylegum látum. Liggur hann þar svo um hríð, unz hann sofnar.

Nú er að segja af þeim fèlögum, að þeir stíga á bak hestum sínum, og ríða allt hvað þeir mega til Hlíðar. Myrkur var á og niðdimma,

en samt runnu hestarnir veginn, eins og albjartan dag. Steinarnir fuku úr götunni sem hagl undan hestafótunum, og eldglæríngarnar tindruðu úr skeifunum. Reiðskjótarnir lögðust fast í taumana, þá er þeir fundu að mennirnir, sem sátu á þeim, vildu áfram, og hentu sig yfir hvern skurð og torfæru, sem fyrir varð, en gripu svo aptur fimlega til skeiðsins, undir eins og slèttara varð undir fæti.

«Upp hálsbrekkurnar megum við ekki ríða eins og gapar, því þá sprengjum við hestana,» sagði þórarinn.

«það skal vera, en varla mun þèr þykja sú stundin of löng, sem þú kyssir Sigrúnu,» sagði Finnur, «þó við ríðum greiðt, þar sem við getum,» og í því heyrist hár smellur, og er Finnur horfinn út í myrkrið, og sèr þórarinn ekki eptir af honum fyr en eptir litla stund, og hyllir þá undir hann hæst uppi á hálsbrekkunni. Nú kemst þórarinn upp hálsinn, og hvetur þá hest sinn, og stendur sá sprettur heim á hlað í Hlíð; stökkur þórarinn af baki, og svo þeir báðir. þórarinn biður Finn, að hann gjöri vart við þá; eru Finni kunnug þar öll húsakynni, og guðar hann á glugga yfir rúmi Sigrúnar, klæðist hún skjótt og kveikir ljós og gengur til dyra, síðan vísar hún þórarni í stofu; klæðast þau þá og hjónin, Sigurður og

þórdís, og fagna vel þórarni, segir hann þeim hvernig hagi til um ferðir sínar, og að hann sè þar kominn til að kveðja þau. Situr þórarinn þar í miklu yfirlæti um nóttina, og fer vel á með þeim öllum, er það ráðgjört, að Sigrún skuli sitja í festum um sinn, þar til þórarinn hafi fengið aldur, að hann megi vígslu taka, og hann fái embætti, þá skuli hann vitja heitmeyjar sinnar. það er aftalað, að Finnur skuli eptirleiðis koma brèfum milli þórarins og þess Hlíðarfólks, og Sigrún fá honum í hendur brèf sín til þórarins, en Finnur síðan senda þórarni; þókti með þessu betur girðt fyrir það, að brèfin misfærist, en ef þau væri send á skotspónum, og menn vissi hvaðan þau væri, eða ef til vill kæmist í hendur Staðarmanna, er þau grunuðu um græsku. En þórarinn skyldi koma á hverju hausti kynnisferð að Hlíð, ef hann mætti því við koma. En þegar skammt lifði nætur, búast þeir þórarinn aptur til heimferðar, og leiða þau Hlíðarhjón hann á götu, og svo Sigrún, og kveðjast þau öll nálægt túngarði; höfðu menn það fyrir satt, að þeim þórarni og Sigrúnu þækti mikið fyrir að skilja. Ekki segir af ferðum þeirra fèlaga, fyr en þeir koma að Stað, tjóðra þeir aptur hesta sína og gánga til bæjar, og sèst þá fyrst brún af degi. Fer þórarinn til herbergis síns og leggst þar niður, en Finnur

gengur til baðstofulopts og að bæli því, sem Tuddi lá í; styður hann þá hendi við Tudda, og vaknar hann með andfælum. Finnur grípur annari hendi um kjálka Tudda, og kreystir svo fast sem hann má; glennist þá munnur Tudda við það mjög svo í sundur; en með hinni hendinni smeygir hann tveim fíngrum upp í Hjálmar, og spennir greipum um steininn er var upp í honum, tekur þá Tuddi að brjótast um fast, er hann kennir sársaukans, hnykkir þá Finnur að sèr af alefli, og við það skreppur steinninn út fyrir tennurnar; þá segir Finnur:

«Nú máttu kjapta hvað sem þú villt, því nú segi eg þig ljúga það allt saman.»

Tuddi var þrútinn mjög um kjálkana, því mjög hafði sollið að, meðan steinninn var upp í honum; þó losnar honum nú svo um málbeinið, að hann tekur að blóta og ragna Finni sem ákafast; verður nú hávaði mikill, vakna menn við það í baðstofu, en skipta sèr þó fátt af viðskiptum þeirra Finns; vissu menn og, að opt voru ertíngar með þeim, og lauk svo því máli síðar, að Finnur sagði frásögu hans um steininn lygi tóma. Tuddi gat ekki heldur sýnt neinar jarteiknir þess, að hann hefði verið svo grátt leikinn, nema bólgu í kjálkum og þrota í munni, en það sögðu menn að gæti af ymsum orsökum að borið, töldu það og engan skaða vera.

---

# TUTTUGASTI OG ÞRIÐI KAPÍTULI.

---

Sama dag um dagmála bil reið Þórarinn frá Stað, og fylgdi prestur honum þángað sem ætlað var; stigu þeir prestur og Þórarinn þar af baki, og sezt prestur í brekku eina og bendir Þórarni að koma; Þórarinn sezt þá og hjá presti í brekkuna, en fylgdarmaður gætir hesta þeirra. Prestur tekur þá úr vasa sínum brennivínsflösku og silfurbikar einn gylltan. Skenkir prestur fyrst á, og drekkur Þórarni til, og rèttir að honum og segir:

«Nú er þá komið að því, Þórarinn mágur, að við skiljumst að sinni, og óska eg þèr fljótrar og góðrar farar heim til þín; en það er eitt, sem mèr þykir vantalað við þig, og vil eg því minnast á það áður en við skiljumst. Þú veizt, mágur, að mèr hefir fremur verið annt um þig híngað til, og ekki öllu síður, en þó þú hefðir verið sonur minn; var það og skylt vegna mágsemda okkar. Þú komst til mín á úngdóms aldri, þú varst á ellefta árinu, þegar faðir þinn heitinn dó, svo það má kalla þú sèrt uppalinn í mínum húsum, og af því eg sá, að þú varst meira hneigður til bókarinnar en búskaparins, þá brauzt eg í að koma þèr til læríngar; sem vonlegt

var kostaði mig það nokkra fyrirhöfn og drjúga skildínga, en eg tel það ekki eptir, það kom að góðu, hum, hum; þú ert heiðarlegur dimissus, og að svo miklu leyti mætti virðast, sem mitt ætlunarverk sè úti, en eg hefi þó einhverntíma hugsað nokkuð lengra fram í veginn um hagi þína, og eg hefi, ef til vill, látið þig ráða í það, að sú litla umönnun, sem eg hefi haft fyrir velfarnan þinni, væri ekki á enda, ef þú vildir hafa mín ráð og tilstyrk, eins og híngað til, og því dettur mèr nú í hug, bróðir góður, að spyrja þig: hvað hugsar þú nú fyrir þèr framvegis?»

«Eg hefi nú lítið hugsað fyrir því ennþá,» sagði Þórarinn, «en þó veit eg ekki betur, en að eg verði næsta ár þar sem eg er, hvað sem lengra verður; að vísu hefir sýslumaður talað að því við mig, og eg ber ekki á móti því, að eg hafi lofað því, að fara ekki burtu frá honum.»

«Eg er vel ánægður fyrir þína hönd, Þórarinn mágur, að þú sèrt þar næsta ár,» sagði prestur, «og vona eg að mín ráð hafi ekki orðið þar til óhagræðis, þegar eg rèði þig þángað, en á meðan maður er úngur og uppvaxandi og á ef til vill lángt líf fyrir hendi, verður maður að hugsa lengur fyrir sèr en eitt ár. Þú ert nú á fjórða árinu um tvítugt — þá fara

bændasynirnir, sem eitthvað hugsa, að líta í kríngum sig eptir konu og bújörð, presta-efnin hvernig þeir geti fljótast komizt til embættis, og svo framvegis, og þar að mun reka fyrir þèr. það eru fáir, sem þetta allt kemur svo að kalla sjálfkrafa upp í hendurnar á, jörðin, konan og embættið, og sízt er þess að vænta, að þeim bætist það fyrirhafnarlaust, sem fáa eiga að, eins og þú mágur, því ekki tel eg að þú eigir aðra aðstoðarmennina, en okkur systur þína, eða hafir átt; en hvað um það er, eg fer nú að gjörast gamall og letjast við prestsverkin og bús-umsvifin; ekki er það fyrir það, nógir eru til, og þökkuðu mèr, ef eg vildi taka þá inn í brauðið, en hver veit nema þú verðir þó hlutskarpastur, eða hverju mundir þú svara, ef eg byði þèr að verða kapelán hjá mèr með þolanlegum kostum, hum, hum?»

«Eg mundi,» sagði þórarinn, «svara því, að mèr þækti vandi velboðnu að neita, en hverir mundu þá kostirnir verða?»

«Viðunanlegir,» sagði prestur, «ekki er um annað að tala; sjálfsagt þriðjúngur af öllum föstum tekjum, hálf extraverk, og staðurinn hálfur, fyrst til ábúðar og líklegast allur bráðum, með ofanálagi, sem okkur um semur, og þá, ef til vill, þess ekki lángt að bíða, að eg segði af mèr, ef eg sæi við hentugleika, að þú gætir

fengið brauðið, því menn hafa nú opt haft það svo, þegar menn hafa viljað, að einhver fengi brauðið eptir sig, að segja af sèr, þegar þeir sæi að því yrði laglega við komið, að hann fengi það, eða maður hefir átt kunníngja, sem heldur hefir getað stuðt að því; kallarðu þetta ekki bærilega kosti, mágur? — eg vona þú sjáir, að eg vil þèr ekki úr hendi, hum, hum.»

«þessa kosti kalla eg góða,» sagði þórarinn, «ef ekki fylgja nein skilyrði önnur.»

«Sjálfsagt er skilyrðið að vera mèr hlýðinn og eptirlátur, eða kallar þú það ókosti, þó — hum, hum! — þó eg lèti konuna fyrir þig fylgja með — hum, hum,» — sagði prestur.

«Ekki mundi það mega teljast með ókostum,» sagði þórarinn, «ef þèr hefðuð þá fram að bjóða, sem eg gæti fellt mig við að eiga.»

«Ekki skal eg ráða þèr til annars kvonfángs, mágur, en þess, sem eg álít þèr vel sæmandi,» sagði prestur, «og er því ekki að leyna, að svo framarlega, sem þú vilt mínum ráðum fylgja, þá hefi eg ætlað þèr Guðrúnu frændkonu; það tel eg hverjum manni hentuga konu, sem eitthvað hugsar til að geta bjargast, áreiðanlegt konu-efni, vön búsýslu, roskin og ráðin, og efni nokkur; föðurarfur hennar er hjá mèr og honum svara eg út.

Er það þá skilyrðið,» sagði Þórarinn, «fyrir kapelánsdæminu, að eg eigi hana?»

«Að vísu,» sagði prestur, «það er skilmáli, en eg ætla að hann sè því að eins settur, að eg sè að þèr er það sjálfum bezt.»

«Ekki þarf þetta mál þá lengur að ræða,» sagði Þórarinn, og stóð upp allskyndilega, «það er yður skjótt af að segja, að aldrei á eg Guðrúnu, og vinn það eigi til nokkurs hlutar að gjöra svo á móti skapi mínu, og meira að segja, þó þèr ættuð ráð á Odda eða Grenjaðarstað, og öllum hlutum góðum með, og gæfuð mèr það, þá á eg hana aldrei, og er það vel að eg segi yður það nú einusinni í alvöru, en ekki er það svo, sem eg viti ekki, að þetta hefir áður verið vili yðar að binda mig þar við borð, þó þèr hafið ekki talað það fyr svo berlega.»

«Mikið tekur þú af, Þórarinn minn,» sagði sèra Sigvaldi og glotti við, «seztu niður aptur mágur, og tölum þetta betur; það er svo heitt í þèr blóðið stundum, að þú gætir þín ekki, en þegar þú stillist og af er mesta hitan, þá ertu þó svo hygginn, að þú sèr hvað er ráð og óráð, en óráð tel eg það, að hafna sæmilegum boðum þeirra, sem vilja þèr vel.»

«Þau boð eru banvæn,» sagði Þórarinn, «og eg geng aldrei að þeim, það er ekki til neins að tala um það við mig aptur.»

«Mundir þú þá heldur taka boðum mínum,» sagði prestur og glotti við, «ef eg byði þèr Sigrúnu þorsteinsdóttur fyrir hjákonu, og það með, að við gjörðum upp reikníng okkar í góðu tómi?»

þórarinn var maður skapbráður og reiddist skjótt; en við þau orð, er prestur sagði, setti hann dreyrrauðan og segir síðan:

«Ekki þurfið þèr, mágur minn, að minna mig á Sigrúnu, allt er það meinalaust af minni hendi, og þar sem þèr talið um reiknínga okkar, þá er eg þess allfús, að þeir sè gjörðir sem glöggvastir, en vita skuluð þèr það, að eg mun nokkra vitneskju af hafa, hvort þèr hafið með öllu gefið mèr uppeldi mitt, og engum sæti eg afarkostum fyrir þær sakir.»

«Til þess mun þá hætt verða, þórarinn minn, að gjöra þá svo glöggva sem má, ef ekki skipast á aðra leið, eins um þá og kvonfángs fyrirætlanirnar,» sagði prestur og glotti enn við.

«Ekki ræði eg nú meira um þetta,» sagði þórarinn, «og fari viðskipti okkar hèr eptir sem málavextir eru til! — og verið þèr nú sæll, mágur.»

Síðan gekk hvor þeirra mága til hests síns, og skildust í styttíngi; ríður sèra Sigvaldi heim til Staðar og sezt í bú sitt, og sèr enginn maður annað, en að hann væri hinn kátasti.

þórarinn ríður leiðar sinnar, og tekst honum vel og greiðlega, unz hann kemur að B. . ., en heldur var hann daufur og fámálugur um hríð, eptir að hann kom úr kynnisför þessari.

---

# TUTTUGASTI OG FJÓRÐI KAPÍTULI.

---

Skömmu eptir að þórarinn er suð ur riðinn, stendur Dreyri einn morgun á hlaðinu í Hlíð, reiðtygjaður og tyggur mèlin. þórdís húsfreyja er sezt í söðulinn, og lagar til á sèr fæturna á fótafjölinni, en Sigurður bóndi hagræðir fötunum, og bregður sessubandinu utan yfir. Sigrún stendur á hlaði, húsfreyja lútir fram úr söðlinum og kyssir hana og bónda sinn, blakar keyrinu á hestlendina, Dreyri hríngar makkann og tekur til fótanna.

«Hvert skal ríða, húsmóðir?» sagði Árni.

«Til Staðar er ferðinni heitið,» svaraði húsfreyja, «og ríddu greiðt þar sem þú getur.»

«það skal vera,» sagði Árni.

þau þórdís og Árni komu að Stað um hádegisbil; er prestur á gángi úti á hlaði, og er

hann sèr þau koma í traðirnar, kennir hann þegar þórdísi, og segir við sjálfan sig: «hum, hum, nú mun vera ætlað til einhverra stórræða;» síðan gengur hann móti þórdísi og fagnar henni með hinni mestu blíðu, tekur hana úr söðlinum og kallar hana heillina góða í hverju orði, leiðir hana svo í stofu og biður hana þar velkomna vera. þórdís er og hin kátasta, en hugsar samt með sèr: «Guð láti gott á vita, þess væri óskandi að við sèra Sigvaldi yrðum jafngóðir vinir áður við skildum. Situr þórdís um hríð í stofu, og tala þau prestur hitt og þetta um það er tíðindum þókti sæta; segir þá þórdís, að hún muni gjöra sig heimakomna og gánga til baðstofu og heilsa prestkonu, en síðan muni hún biðja prest að tala við sig, og hafi hún lítilfjörlegt erindi við hann. Prestur segir henni það guðvelkomið, að hann hlýði á erindi hennar, hvenær sem hún vili það flytja, leiðir hann nú þórdísi inn á baðstofulopt til konu sinnar og segir, að þar sè komin sóma- og heiðurskonan þórdís sín frá Hlíð: «þú verður eitthvað að beina henni, gæzka! og láta henni ekki leiðast þá stundina, sem hún stendur hèr við, það er ekki svo opt, sem hún kemur misreitis, góða kona, hum, hum.»

þær þórdís og prestkona voru eins og

áður er um getið, allgóðar vinkonur, og tekur prestkona henni vel, er þórdísi þar veittur beini góður, og tala þær konurnar lengi hljóðlega. Vissi þórdís, að prestkona var í vitorði um einkamál þeirra þórarins og Sigrúnar, og að henni var allkært að sá ráðahagur tækist, og segir hún henni því frá viðræðum þeirra Hlíðarhjóna, og lætur prestkona vel yfir, en segir aptur þórdísi, hverja fyrirætlun prestur hafi um giptumál Guðrúnar frændkonu sinnar, en aldrei hafi sèr verið það að skapi, að þórarinn bróðir sinn ætti hana. þórdís býst þessu næst til brottferðar, en kveðst þó verða að tala nokkuð við prest áður hún fari; er henni sagt, að hann sè í stofu, og gengur hún þángað; prestur vísar henni til sætis öðrum megin borðsins, en hann sjálfur lætur leika lausu við, gengur um gólf í stofunni og er hinn glaðasti. En er þórdís er niður sezt, tekur hún svo til máls:

«Undarlegar þóktu mèr, prestur minn, verða málalyktirnar hjá ykkur hreppshöfðíngjunum við karlinn hann Bjarna gamla á Leiti.»

«þar voru orsakir til, heillin góð!» sagði prestur, «miklar orsakir, skaðræðismaður Bjarni, hum, hum.»

»Eg vænti ykkur hafi þókt það nægar orsakir,» sagði þórdís, og brosti við, «hafi hann leyst ofan um meðhjálparann; en margur hef-

nú gefið öðrum í öskjurnar, og er ekki vísað úr kór eða settur út af sakramentinu, og hafi hann þá átt hendur sínar að verja, og honum verið veittar árásir að fyrra bragði, sem líklegt er að verið hafi, því enginn veit annað um hann, en hann sè spakur og óáleitinn karlhróið, ef hann er ekki áreittur.»

«Það er hneyxlið, heillin góð, í söfnuðinum, sem verður að vandlæta, öðrum til viðvörunar; það segist ekki lítið á því, að ráðast á saklausa menn, og jarðvarpa og misþyrma þeim, hum, hum; það yrði fagurt afspurnar, ef það færi að tíðkast, og þeir, sem það gjörðu, slyppi vítalausir,» sagði prestur með mikilli alvörugefni.

«Og svo er það,» svaraði Þórdís, «ef það færi þá ekki svo fyrir ykkur, blessuðum, um hneyxlanirnar og vandlætið, að þið síuðuð mýfluguna en svelgduð úlfaldann stundum, höfðíngjarnir.»

«Þú segir altènd eitthvað, Þórdís mín, hum, hum, og eg bar mig að því að miðla málum, eins og eg hafði vit á, að hvorum tveggja væri sem vanvirðuminnst, og þetta lagaðist allt á endanum; karlinn fær nú sakramentið, þegar hann vill, og maðurinn yðar gjörði gott úr öllu, og borgaði þessa skildínga fyrir hann.»

«Það skyldi nú aldrei verið hafa, hefði eg mátt ráða, að hann hefði borgað nokkurn skild-

íng fyrir hann,» sagði þórdís, «en það er nú komið sem komið er, og líklegast að hver hafi það, sem hann hefir hlotið, Grímur skellinn og skildíngana, Bjarni útlátin og ánægjuna, og piltarnir gamanið, og þar með sè þessum málum lokið. — En ekki var það raunar það, sem eg ætlaði við yður að tala, prestur minn! heldur hitt: Sigurður bóndi minn beiddi mig að taka hjá yður blaðsneypu, sem óvart hefði orðið eptir hjá yður, þegar hann kom hèr síðast, það er ekki vert að það flækist víða.»

«Hvernig stendur á því, heillin góð?» sagði prestur, «eg held hann misminni það, að hann hafi skilið hèr eptir nokkurt brèf, nema það sem við vissum til báðir, kaupbrèfið okkar fyrir kotinu, hann á víst ekki við það.»

«það getur verið, þèr kallið það kaupbrèf,» sagði þórdís.

«Eg skal segja yður, heillin góð! þèr vitið það, ef til vill, ekki eins og það er,» sagði prestur ofur-ísmeygilega: — «það er reglulegt kaupbrèf, með nafni Sigurðar míns undir og innsigli, item tveggja viðverandi kaupvotta; hann gjörði það frjáls og óneyddur að selja mèr kotið.»

«Ekki veit eg það, hvort það er undirskrifað af mörgum eða fáum, en hvort sem nú heldur er, þá er það nú þetta brèf, sem við

ætlum hjónin að biðja yður, prestur minn, að skila aptur; við höfum svo lengi átt Hamar, að við ætlum ekki að farga honum, meðan við þurfum þess ekki með.»

«Og verið þèr að gamna yður, Þórdís mín,» sagði prestur hálfhlægjandi, «eg get ekki verið að gjöra það ónýtt, sem búið er að gjöra vottanlegt og skriflegt; eg held líka, Þórdís mín, að þèr þurfið ekki að iðrast eptir þeim kaupum, þetta er ekki sem höfuðbólið sè, hann Hamar, það er túnskikinn þar, sem teljandi er, kotið niður níðt og úr sèr gengið á allar lundir, — og eins og eg sagði honum Sigurði mínum, þetta var ekki til neins fyrir ykkur, gömul hjón, að vera að halda í þetta kot, eptirgjaldið til lítilla muna, og því haldið þið, meðan þið lifið, en kostnaðurinn að rètta það við, þegar það losnar, lendir á kaupandanum; það er orðið til lítils annars en byrðar og andstreymis, að eiga þessar jarðir í misjafnri ábúð, hum, hum.»

«Ef jarðar skinnið er svo ónýtt og einkis vert, sem þèr segið, prestur minn,» sagði Þórdís stillilega, «þá er heldur ekki eptir miklu að slægjast.»

«Annað mál er það, þó mèr kynni að verða eitthvað úr kotinu, því eg hefi, ef til vill, þau ráð, sem Sigurður minn ekki hefir, að koma á það viðunanlegri byggíngu, þegar fram líða

stundir; en það èr bæði, að Sigurður minn er enginn eptirgángsmaður, og svo eru þeir skilmálar milli þeirra Þóris, sem hann á bágt með að raska, en að öðru leyti veit eg ekki, hvað eg kynni að gjöra fyrir vild og vináttu, ef þið sæið svo mikið eptir koti þessu; hver veit nema eg seli ykkur það aptur fyrir það verð, sem okkur um semur, og eg sæi mig vera skaðlausan af.»

»Mèr þykir þèr, prestur minn, bjóða góða kosti, þar sem þèr segist ætla að selja okkur það, sem við eigum sjálf, og þèr eigið ekkert með, ef við ekki verðum rænd rètti okkar, og fyrst eg nú á annað borð er farin að segja það, sem mèr býr í brjósti, þá skuluð þèr vita, prestur minn, að eg álít það enga sölu, þó þèr hafið tælt Sigurð bónda minn til þess að setja eða láta setja nafn sitt undir þetta skjal, sem þèr kallið kaupbrèf; þèr vitið sjálfur bezt, hvernig það atvikaðist, og þarf eg ekki að hafa það upp, svo eg gjöri hvorugum-ykkar vanvirðu; en það segi eg yður fyrir fullt og fast, að blaðsneypuna vil eg fá, til að rífa hana sundur, þá er þessu máli þar með eyðt, og þarf þá hvorugur ykkar að hafa vansæmi af; bóndi minn þarf þá ekki að hafa mínkun af því, að hann hafi látið gjöra sig að óvita, og þèr, prestur minn, ekki af því, að hafa auðgað yður af annara fávizku.»

Presti þókti að sönnu þórdís taka að gjörast harðla djarfmælt, þó virtist þórdísi honum ekki bregða, að öðru en því, að í kinnar hans færðist svo sem gómstór blettur af roða, og hann fór nokkuð örara en áður að sjúga pípu sína, og humma tíðara en hann var vanur, og spýta optar, en ekki heyrðist á mæli hans, að honum þækti fyrir, og segir hann nú af mestu stillíngu:

«Ekki er eg maður orðsjúkur, og mun eg láta hvern ræða hèr um sem honum líkar; fjarri fer því, að eg kalli Sigurð minn í Hlíð óvita, enda hygg eg flestir muni halda það, að hann sè fjár síns ráðandi, og sízt munuð þèr verða til þess, heillin góð, að bera á móti því; en hafi hann ekki verið rètt gáður hèrna um kvöldið, þegar hann seldi mèr kotið, þá átti eg ekki að sjá fyrir því, og það er yður í stuttu máli að segja, þórdís mín, að ekki læt eg kaupbrèfið fyrir Hamri af hendi, en lofi Guð mèr að lifa, ber eg mig að dragnast suður að sumri og þínglýsa þar kaupinu fyrir kotinu á alþíngi, hum, hum, eins og fyrir öðrum parti, sem eg eignaðist um daginn, en alla skilmála mun eg og mínir erfíngjar halda, svo sem að láta heiðurlegan og hans standi samboðinn stein á leiði Sigurðar míns, og borga yður og erfíngjunum það sem áskilið er.»

þórdís stóð upp skjótlega frá borðinu, og var auðsèð, að henni var þúngt í skapi, og segir hún, í því hún krækir að sèr hempu sinni:

«það mun þá fara um viðskipti okkar, prestur minn, sem Drottni þóknast; það getur verið, að yður takist það með prettum og ofríki, að koma fram rángindum yðar, og svæla út af okkur þessa einu jarðarþúfu, sem við eigum, eins og þèr ætlið yður, og segi eg það nú, svo mátulega margir heyra til: það er líkast til að fleiri verði yðar fylgismenn, þó illt mál sè, en okkar, sem engan eigum að, þó eg viti, að Guð hafi stundum gjört það, að rètta upp önglа hinna illgjörnu, hversu veiðilegir sem þeir voru, og látið hina ágjörnu draga upp þöngul fyrir þorsk; en fari svo, að þèr berið sigur úr þessum málum og vèlið af okkur jörðina, þá bið eg yður að njóta eins og þèr hafið aflað, en óheimildarmann lýsi eg yður fyr og síðar að hverri þúfu í Hamars landi, sem þèr eignið yður, og það segi eg yður, að kaupbrèfið, sem þèr svo kallið, tek eg, hvenær sem eg næ því, og hvernig sem eg get, þegar eg fæ færi á, og með hverskyns brögðum sem eg get.»

«því trúi eg dável,» sagði prestur og glotti við, «ef það lægi á glámbekk, eptir því sem yður hafa farizt orð, þórdís mín, en það er líklegt, að það vili svo til, að það verði geymt.»

«það er líklegt,» sagði þórdís, «þeir þurfa að fela sem stela.»

Við þessi orð gekk þórdís út úr stofunni mjög skyndilega, og gætti þess ekki, fyr en hún kom í bæjardyr, að hún hafði skilið eptir hanzka sína og keyri á stofuborði, gat hún þá ekki fengið sèr geð til að biðja prest að ljúka upp stofunni, svo hún gæti tekið þetta, og skilur hún það eptir viljandi. þá er hún kemur út á hlað, sèr hún, að Árni vinnumaður stendur þar á hlaðinu, og kallar á hann og biður hann að koma með hest sinn þar að stèttinni. Prestur fylgdi þórdísi út, og sá ekki á honum annað, en ekkert hefði milli borið, leiðir þá Árni Dreyra að stèttinni, og segir prestur: «eg ætla nú, heillin góð, að hjálpa yður á bak,» og gengur hann að hestinum. þórdís ansar því engu, en í sama bili grípur hún annari hendi um söðulbríkina og setur annan fótinn í fótafjölina, og kippir sèr svo upp í söðulinn; kastar þá prestur kveðju á hana og segir:

«Farið þèr alla tíma vel, þórdís mín! eg óska yður góðs og manninum yðar.»

Í þessu tekur Dreyri til fótanna, en prestur heyrir, að þórdís svarar uppá kveðju hans, í því hún fór af stað:

«Eg óska yður einkis, eg óska yður hvorki góðs nè ills.»

Eptir brottför þórdísar gengur prestur aptur til stofu sinnar, og verður honum það fyrst fyrir, er hann þángað kemur, að hann tekur upp úr vasa sínum lykla sína að skápnum mikla, er áður er nokkuð frá sagt. Þar geymdi hann í ræður sínar, en eitt draghólfið í skápnum var ætlað fyrir eignarskjöl prests og önnur áríðandi brèf hans og penínga; sannaðist það því á þessum skáp, sem er þó sjaldgæft, að hann þjónaði jafnt Guði og Mammoni. Prestur lýkur upp maurahólfinu, og tekur þar nokkur eignarskjöl' sín, og þar á meðal kaupbrèfið fyrir Hamri; flettir hann því sundur, les það vandlega og leggur svo niður aptur, og brosir í kamp og hummar. Það vitum vèr ógjörla, hvað honum hefir þá dottið í hug, hvort það hefir heldur verið sú hugsun, að hann þar hefði safnað sèr fjársjóð, sem mölur og ryð gæti ekki grandað, eða hitt, að honum fórst eins og mörgum, sem hafa einhvern þann hlut undir höndum, sem þeir eru miðlúngi vel að komnir, að þeir eru nálega aldrei óhræddir um hann, nema þeir horfi alltaf á hann, svo hann gleddist nú af því, að sjá kaupbrèf sitt vel og vandlega geymt.

En af þórdísi er það að segja, að hún ríður heim til Hlíðar; var hún allfátöluð á leiðinni og orti lítt orðum á fylgdarmann sinn. Fyrst þegar hún skildi við prest, var hún reið

mjög, en er nokkuð leið frá tók hún að hugsa mál sitt, og virtist henni all-þúnglega horfa, og gjörðist heldur ókát, og svo hefir Árni fylgdarmaður hennar frá sagt, að honum sýndist stundum sem hvítt hagl hrjóta af augum hennar; var hún stundum föl sem nár, en stuudum setti hana dreyrrauða. Þau Þórdís komu að Hlíð að áliðnum degi, og lætur húsfreyja þá ekki bera á ógleði neinni; segir hún síðar bónda sínum frá viðtali þeirra prests, og kvað hann sèr ekki koma það á óvart, að svo hefði farið sem hann grunaði. Ekki gjöra þau hjón ráð fyrir málatilbúníngi; vissu þau og ógjörla, hvernig með skyldi fara, en opt hafði húsfreyja um þessar mundir áhyggjur stórar.

---

## TUTTUGASTI OG FIMMTI KAPÍTULI.

---

*Sigurður leggst veikur og andast.*

Sigvaldi prestur situr nú í búi sínu um hríð, eptir samtal þeirra Þórdísar, og er hinn glaðasti. En það er nú að segja frá Sigurði í Hlíð, að nokkrum tíma eptir að húsfreyja var

komin aptur úr ferð sinni að Stað, tekur hann sótt, og þó hæga í fyrstu; er hann á fótum nokkra daga, svo hann þjáist ekki mjög, en þó kemur svo um síðir, að hann má ekki fylgja fötum, og leggst hann sjúkur til fulls; elnar honum sóttin dag frá degi. Í þann tíma voru fáir menn á Íslandi, þeir er lærðir voru til læknismenntar, eða þá sýslu hefði af konúngs hendi að lækna sjúka menn, en margir voru þeir klerkar og leikir menn á landi hèr, er fengust við lækníngar; höfðu sumir numið þá íþrótt af bókum, en sumir af öðrum mönnum; var það sannast að segja um lækna þessa, sem opt kann verða, að misjafnir sauðir finnast í mörgu fè, voru sumir að nokkru nýtir, en sumir blönduðu læknislyf sín eða höfðu við þau yms hindurvitni og galdrakukl; var það og alltítt um sjúkdóma þá, er ekki voru algengir, og menn skildu eigi orsakir til, að þeir voru kenndir göldrum og gjörníngum, sendíngum eða ættarfylgjum, en við þær meinsemdir, er menn hèldu berlega af þeirra völdum, þóktu aðrar tilraunir ekki tækilegri en að leita þeirra manna, er líklegir voru til að geta rekið þá fjanda af höndum sèr. Draugarnar voru þá annaðhvort settir niður í eitthvert holt eða hraun, gil eða gjótu, og þókti þar jafnan vera reimt síðan, eða menn sendu þá aptur til þeirra, er í fyrstu

höfðu vakið þá upp, en sá var opt hinum jafnsnjallur í kunnáttunni, og bar þá svo tíðum til, að þeir sendust á draugum, líkt og góðir kunníngjar nú á dögum láta hlaupa brèfmiða millum sín, er þeir geta eigi fundizt. Ekki leitaði Þórdís húsfreyja bónda sínum lækninga, enda voru engir læknar þar í nágrenni, en hún stundaði hann með þeirri kostgæfni og alúð, sem henni var unnt; var húsfreyja margfróð, og hafði tekið eptir ymsu, er lækníngar snerti, en aldrei hafði hún lagt mikla trú á hindurvitni eða hègóma í þeim efnum; reyndi hún nú og það, er henni þókti líklegast, og hún hafði sèð viðhaft í eins háttuðum sjúkdómum, sem henni virtist sótt bónda síns; leið svo fram nokkra daga, að ekki skiptist til batnaðar um heilsufar Sigurðar, en eptir það tók sjúkleiki hans að snúast á undarlegan hátt, mátti hann nú nálega enga værð fá, en þá sjaldan hann fèkk svefnhöfga nokkurn, hafði hann drauma illa og vaknaði þá með ráðleysi og órum, fylgdi þar með hræðsla mikil, ofsjónir og ofboð, svo að varla mátti hann haldast í sænginni. Þórdís húsfreyja vakti yfir bónda sínum nætur og daga, bjó hún sèr til flatsæng eina fyrir framan rúmstokk bónda, og lá þar, svo hún ætti hægra með að líta til hans, er hann vekti eða þyrfti einhverrar hjúkrunar við. En þegar hana sigraði svefn eða þreyta,

að hún gat ekki lengur vakað, tók Sigrún við af henni, og vöktu þær fóstrur þannig til skipta öllum dægrum.

Það var eina nótt, um það leyti sem menn voru flestir gengnir til sængur í Hlíð, að Þórdísi sigraði svefn; tók hún þá nokkur sængurföt og lagði niður í rúm eitt, sem var þar frammi á loptinu og jafnan var auðt; hugði hún, að hún gæti betur sofnað þar en inni í svefnherbergi þeirra hjóna, og segir hún Sigrúnu að kalla til sín, ef nokkuð beri það til, er hún geti ekki úr ráðið. Og er húsfreyja ætlar niður að leggjast, heyrir hún, að Þuríður kerlíng vakir; svaf hún þar í næsta rúmi, sem fyr, um þveran gafl, og gjörðist nú gömluð mjög, var hún þá hálfáttræð að aldri; hlustar húsfreyja, hvort hún heyri hana mæla nokkuð fyrir munni sèr, sem hún jafnan var vön, er hún vakti. Verður hún þess þá vör, að Þuríður les nokkuð fyrir munni sèr, og er hún hlerar betur, heyrir hún öll orðaskil, og að þetta er kvöldbæn kerlíngar, er hún þylur, og var þetta eitt þar af:

Ó Jerúsalem, upp til þín
önd lángar mín,
þú sem í gullinu glóir og skín
með guðvefs lín,

þar muntu birtast börnum þín
með berjaskrín,
gleymd er öll pín,
gleður þau vín,
já vín, já feiti og vín.

þessu næst býst hún til að leggjast útaf, en síðan les hún:

Guðs engil til höfða og fóta
hefi eg mèr til unaðs bóta,
Pètur og Páll á miðri mèr!
en marghataður Lussifer
flæmist aptur fyrir skut,
já skut.

þórdís vill ekki, að þuríður verði vör við komu sína, og læðist hún ofur hægt og leggur sig í fötunum útaf í rúminu, þar sem hún hafði ætlað, og í þann enda rúmsins, sem nær var rúmi kerlíngar, svo að ekki var nema brík ein á millum þeirra. En þá er kerlíng hefir lesið þulur sínar, þegir hún um hríð, og verður þórdís þess vís, að kerlíng getur eigi sofnað; tekur hún þá að tauta við sjálfa sig í hálfum hljóðum, og heyrir húsfreyja, að það er því líkast, sem hún ræði við einhvern, og tveir tali saman, spyr annar, en hinn svarar og eru í hróka-ræðu; og þó að kerlíng talaði lágt,

heyrir hún eigi að síður hvert orð, og tekur kerlíng þá svo til máls:

«Hvernig ætla húsbóndanum hèrna líði núna?«

«Og það er allt við það sama, óráðið og óskö̈pin aðra stundina, hörmúngarnar, hrellíngarnar og harmkvælin þess á millum.»

«Er honum leitað nokkurra ráða?»

«Og það læzt vera að leita honum ráða, já ráða! en hver eru þá ráðin? já það eru ráðin, að þær sitja þarna og rorra uppi yfir honum, en ekki verður því að vegi að reyna til að koma af sèr bèaðri ei þó sendíngunni, — fyrirgefðu mèr að eg blóta!»

«En það mun sumsè ekki eiga að vera sendíng?»

«Ónei, ekki vill það heyra það, og þó er það sendíng; hún gengur hèrna eins og grár köttur á hverju kvöldi, og lítur öldúngis eins út og hún Hamars-Skotta, sem fylgdi Hvammsfólkinu í mínu úngdæmi; já, mikið var þá um draugagáng hèr í sveitinni, Drottinn minn! þá voru þeir hèr: hann Móri og hann Goggur, og fjandinn hún Hamars-Skotta, og liðið sem henni fylgdi; hún drap einusinni þar í Lundi fjórar skárstu ærnar í húsinu á einni nóttu, og sligaði bleikmóalóttan kapal, mesta úlfaldagrip, braut baðstofuhurðina, stal ketinu af ránum úr

eldhúsinu, og sleikti ofan af trogunum og fór ofan í dallana, — kröptugur er hann Satan, sá bèaður týranni, í börnum vantrúarinnar — fyrirgefðu mèr að eg blóta! — þángað til hann þorvarður heitinn kom henni fyrir og setti hana niður í honum Skrattahvammi; væri hann kominn hèr, eða annar eins maður, þá væri hann ekki lengi að sjá fyrir þessari sneypu; — og þá var hann Móri fallegur, hann drap nú sumsè kúna á básnum þar á Leiti, nýborna og bráðfeita, en hann setti hann nú niður líka, það var maður, sem kunni fyrir sèr.»

«En hver ætli nú hafi sent þenna skratta híngað?»

«Hver nema hann Grímur, hann hefir fengið einhvern til þess.»

þórdísi leiddist að heyra þetta rugl þuríðar, og segir því hátt við þuríði: «þú heldur fyrir mèr vöku með ruglinu í þèr, þuríður gamla, enda held eg það sè ekki þarflegt hjal, sem þú ert að tauta við sjálfa þig.» þá segir þuríður: «þú hefir þá lagt þig þarna, þórdís mín, eg var ekki að tauta neitt, nema bænirnar mínar, eins og eg er vön, kelli mín, og nú fer eg að sofa. Síðan þagnar kerlíng, en er hún hafði þagað litla hríð, heyrir þórdís að þuríður tautar enn nokkuð og segir:

«Nú les eg seinast bænina um þau sjö

Jesú nöfn: Fyrsta Domino, annað Meus, þriðja Messias, fjórða Rabbuni, fimmta Emanuel, sjötta Lávarður, sjöunda Benidictus, öll þessi sjö nöfn set eg yfir mèr og undir og allt um kríng, og milli mín og allra minna óvina og djöfulsins erindsreka, amen.»

Að svo búnu sofnaði þuríður, en ekki varð húsfreyju svefnsamt, og getur hun ekki sofnað, og það mest af þeim orsökum, að henni flugu í hug ymsar hugsanir. Að sönnu lagði þórdís engan trúnað á ræðu kerlíngar, og virti það sem óvita hjal og hègylju, en samt gjörði það svo mikið að verkum, að hjá henni vaknaði umhugsun um sjúkdóm bónda síns, og gjörði það henni því meiri óróa, að hún var nú í einrúmi, og setti sèr fyrir sjónir, hver endalok veikindi hans kynnu að hafa, fannst henni þá sem hana óraði fyrir, að þessi sótt mundi leiða hann til bana. Hún ímyndaði sèr sorg sína eptir hann, og hver bágindi hún mundi komast í, þegar hún yrði einstæðíngur og ætti að berjast við ymsar þrautir í ekkjustandi. þá datt henni og í hug, hversu óforsjálega þau hjón höfðu breytt, að þau höfðu ekki neina ráðstöfun fyrir fjármunum sínum, ef annarshvors misti við. það sárnaði henni mest, að henni fannst allt líta svo út, sem meginhluti fjármunanna eptir Sigurð bónda mundi falla í hendur

séra Sigvalda, en honum unni hún sízt allra manna nokkurn peníng af þeim að hafa, og gramdist henni það, að svo skyldi fara, að hann bæri sigur úr málum þeirra, en beitt slægsmunum einum og prettum. Sigrúnu unni hún mest allra lifandi manna, og vildi gjarnan, að hún yrði þess aðnjótandi, sem þau áttu, en til þess sá hún engin ráð, því Sigurður bóndi hennar væri horfinn allri rænu, svo að ekki mætti slíkt við hann ræða. Þessar og þvílíkar hugsanir hèldu vöku fyrir Þórdísi alla nóttina, og var hún heldur ángurvær, en þegar skammt lifði nætur sofnar hún, og vaknar aptur við það, að stuðt var hendi á vánga hennar, er Sigrún þar komin fóstra hennar, og er þá orðið bjart af degi. Sigrún segir þá, að Sigurður fóstri hennar sè vaknaður og hafi sofið nokkurnveginn værl mestalla nóttina, sè hann nú með ráði og vili tala við húsfreyju. Þórdís gengur til svefnherbergis þeirra hjóna, situr Sigurður þá upp við herðadýnu, heilsar hann konu sinni, og sezt hún á rúmstokkinn; tekur Sigurður bóndi þá svo til orða:

«Guð hefir gefið mèr það, að eg hefi getað haft góða værð í nótt, eg hefi sofið þángað til áðan, litlu áður en þú komst, og hefi nú fulla rænu sem stendur, en Drottinn má ráða hvað það verður lengi, en bústu við því, elsk-

an mín, að við eigum nú skamma hríð eptir að vera saman, því svo segir mèr hugur um, að eg eigi nú ekki lángt eptir ólifað; eg hefi aldrei fyr lagzt veikur, og mun þetta verða mín fyrsta og síðasta lega; þykir mèr gott til að hugsa til minnar heimferðar; eg dey í Drottni og er sáttur við heiminn; eg vona, að Guð leiði þig og styði, það sem þú átt enn eptir ólifað.»

þórdís tárfelldi og laut ofan að manni sínum og kysti hann þegjandi, en Sigurður hèlt áfram tölu sinni með ró og stilli, og segir:

«það vildi eg, elskan mín, að þú nytir þess litla sem eptir mig verður, það er ekki til tvískipta, en það gæti þó orðið þèr til uppheldis ef það væri ódeilt, þú getur gjört við það eptir því sem þèr lízt.»

«Ætlarðu þá ekki til að það haldist, sem presturinn hermir uppá þig um jarðakaupin?»

«Ekki vil eg að það haldist, því þann gjörníng gjörði eg ekki með fullri skynsemi, og það á ekki að standa,» sagði Sigurður.

«það skal þá heldur aldrei verða, að hann fái nokkurt hundrað, ef eg má ráða, — en þú verður, Sigurður minn, að gá að því, að þú átt ættíngja, sem að rèttu á að taka arf eptir þig, og þó mèr sè svo varið, að eg hefði helzt óskað, að þessar reitur, sem við eigum, færi allar í einn stað, — í því varð henni litið til

Sigrúnar, sem sat þar á rúmi sínu — þá er það þó rètt sem rètt er, og uni eg því betur, að rèttir erfíngjar þínir fái það, sem þeir eiga, heldur en þeir, sem ekkert tilkall eiga til fjármuna þinna, en vilja ná þeim með svikum og falsi.»

«Eg á engan erfíngja mèr vitanlega annan en hann Þórð, bróður minn, og eg er viss um, að hann gjörir ekki tilkall til arfs eptir mig, ef hann veit, að eg hefi ánafnað öðrum eigur mínar áður en eg dey; hann er velmegandi maður, og dregur hann lítið um þessar reitur, sem eptir mig kunna að verða, og svo veizt þú, Þórdís mín, að við einhverntíma veittum honum litla aðstoð, þó lángt sè síðan, og á eg ekki von á að honum farist svo ómannlega, að seilast eptir þessu smáræði.»

Þórdís þagði um hríð, eins og hún hugsaði sig nokkuð um, en síðan segir hún:

«Mèr þykir það nú ekki allólíklegt, sem þú segir, elskan mín, eptir þeirri kynníngu, sem eg hefi af bróður þínum; en þó þetta sè nú svona talað af okkur, þá þekki eg svo veröldina, að nógir munu verða til þess að segja, eptir það þú ert dáinn, að eg hafi diktað þetta allt upp, ef ekki vita fleiri menn af vilja þínum, og með því þetta er þó þinn vili, að eg verði njótandi þess litla sem hèr er — Guð veit hvað lengi eg þarf að halda á því — þá er það

mitt ráð, að þetta sè gjört skriflegt og vottanlegt, og ef Guð sparar þig svo lengi, að bróðir þinn Þórður komi híngað, getur hann þá sjálfur sagt sinn vilja, hvort hann ætlar að kalla til arfs eða ekki.«

»Það vil eg þá,» sagði Sigurður, »sem þèr sýnist, elskan mín! en ekki er víst að eg eigi lángt eptir ólifað, og vil eg ekki að því sè frestað.»

Eptir þetta samtal brá Þórdís við, lèt hún skjóta hesti undir vinnumann einn, og bað hann ríða sem hvatast og hitta Þórð, bróður Sigurðar, og færa honum þá orðsendíng, að Sigurður biði hann að koma til Hlíðar samdægurs; í annan stað sendi húsfreyja boð til næstu bæja við Hlíð, og gjörði bændum, þeim er þar bjuggu, orð að koma til fundar við sig. Þórður bróðir Sigurðar bjó að þeim bæ, sem heitir að Holti, það var í næsta hrepp við Staðarsókn, og þó ekki mjög lángt frá Hlíð. Þórður var nokkru ýngstur þeirra bræðra, hafði hann í fyrstu verið fèlítill, en Sigurður var þá orðinn efnaður vel, og efldi hann bróður sinn mjög til bús; en með því Þórður var framkvæmdamaður góður og búsýslumaður, græddist honum brátt fè, og var hann nú talinn með gildustu bændum þar um sveitir. Þórður brá skjótt við, er hann fèkk orðsendíng bróður síns, og ríður hann til Hlíðar, eru þá og þar komnir bændur þeir, er Þór-

dís hafði orð til sent. Sigurður var þá enn með fullu ráði. Húsfreyja segir Þórði erindið, og talast þeir bræður síðan við, og fer allt vel á með þeim; segir Þórður, sem var, að hann mundi ekki fè skorta, þó hann sleppti öllu arfstilkalli eptir Sigurð, enda mundi ekki sá arfur nema svo miklu, að hann mætti ekki vel af sjá. Kemur þeim það þá öllum ásamt, að gjöra skuli brèf þar um, en með því vottarnir þóktust eigi svo ritfærir, að þeir treystu sèr til að skrásetja gjörnínginn, þá varð húsfreyja sjálf að rita hann og stíla, var hann þess efnis, að Sigurður bóndi gefur konu sinni eptir sinn dag allar eigur sínar fastar og lausar, og skuli enginn maður annar hafa tilkall til arfs eptir hann, og skuli öll þau gjafabrèf, hverju nafni sem nefnist, er þessu væri gagnstæð, ógild og marklaus. Er síðan gjörníngurinn upp lesinn fyrir Sigurði, og lætur hann setja innsigli sitt undir hann. Þessu næst ritaði Þórður nafn sitt undir, með þeim formála, að hann fyrir sitt leyti afsalaði sèr öllu arfstilkalli eptir Sigurð, fyrir sig og sína erfíngja, og síðan innsiglaði hann það, en er vottarnir skyldu undir skrifa, þá kom það upp, að hvorugur þeirra hafði numið svo mikið í leturgjörð, að þeir mættu rita nöfn sín, var þá Sigrún til fengin að skrásetja nöfnin, og handsöluðu þeir þau. Eptir það riðu vottarnir á brott, en Þórður

dvaldist þar eptir í Hlíð, og vildi vita hver endir yrði á um sjúkleika Sigurðar. Var Sigurður enn málhress það eptir var dagsins, en að aptni tók honum aptur að þýngja, svaf lítið og óvært um nóttina og andaðist næsta dag eptir; harmaði kona hans mjög lát hans, en bar þó harm sinn með stillíngu mikilli.

---

# TUTTUGASTI OG SJÖTTI KAPÍTULI.

---

*Tilkall prests til Hamars.*

Skömmu eptir það, að Sigurður var andaður, var maður sendur frá Hlíð til Staðar, að segja presti frá, hver tíðindi þar höfðu gjörzt um andlát Sigurðar bónda, og flutti hann presti þau orð frá Þórði, bróður Sigurðar, að hann mundi standa fyrir útför bróður síns, og bað hann prest tiltaka greptrunardaginn. Séra Sigvaldi sat í stofu, er honum bárust þessi tíðindi, og urðu honum þau orð af munni, að hann sagði, að Guð skyldi vera lofaður fyrir hans lausn, og hummaði við, sagði síðan sendimanni greptrunardaginn, og rètti um leið nýjan áttskild-

íng úr vasa sínum að sendimanni, með þeim ummælum, að hann skyldi hafa það fyrir ómak sitt, og ættu hjú Sigurðar síns heitins jafnan gott skilið. Fjórum dögum eptir það var Sigurður jarðsettur að Stað, og stóð þórður fyrir útförinni og fór hún vel fram, og er erfi drukkið að Stað, komu til þess margir hinir heldri bændur úr sveitinni, en Bjarni á Leiti var einn líkmanna. Sigrún þorsteinsdóttir stóð fyrir beina með þórði, en ekki kom þórdís húsfreyja þángað, og lögðu sumir menn henni það til ámælis, því venja var til, að jafnt fylgdu konur sem karlar ættíngjum sínum og venzlamönnum til grafar, en þórdís lèt sem hún heyrði ekki, hvað menn töluðu þar um, og sat heima. þegar við erfidrykkjuna minntist prestur á við þórð, hvort honum væri eigi kunnugt um kaup þeirra Sigurðar heitins á Hamri, og að sú jörð mundi því ekki koma til virðíngar eður arfaskipta eptir Sigurð. þórður eyddi því umtali, og kvað nógan tíma til að tala um það síðar, og sleppti prestur þeirri umræðu að sinni, enda sýndist honum ráð, að ýfast ei til við þórð, að minnsta kosti áður hann hefði greiðt líksöngseyrinn, fèkk prestur hann og með góðum skilum og allríflegan. Ríður nú hver heim til sín eptir erfið. Líður nú svo fram um hríð, að prestur situr í búi sínu og gjörist ekkert til tíðinda.»

En er rúmur hálfur mánuður var liðinn frá jarðarför Sigurðar, býst prestur að heiman og hefir með sèr tvo landseta sína þar af næstu bæjum. Ríður hann fyrst til Hamars, og hittir þar Þóri bónda úti og segir honum: «svo er, Þórir bóndi! sem þú munt heyrt hafa, að eg er orðinn eigandi að Hamri; nú vil eg segja þèr, að skilmálar ykkar Sigurðar um ábúð þína og upphæð jarðarafgjalds vil eg að haldist; landskuldina borgar þú mèr, Þórir minn, í fardögum í vor, og gjöri eg ekki aðra breytíngu á henni, en þá, að eg vil hún sè öll í fríðu, í stað þess að þú galdst Sigurði heitnum sextíu álnir í ótilteknu og þrjátíu pör af lesi, smjörið er sjálfsagt að venju tíu fjórðúngar eptir fimm kúgildi jarðarinnar, velverkaðir til mín reiddir fyrir næstkomandi Mikaelismessu.«

Þórir kveðst ekkert til vita um það, að Sigurður hefði selt presti Hamar, og svo mundi hann að venju flytja leigur og landskuld að Hlíð, nema ekkjan segi sèr annað við að gjöra.

Prestur spurði Þóri, hvort hann rengdi það sem hann segði, að hann væri orðinn eigandi Hamars. Þórir kvaðst hvorugt gjöra, en álíta mundi hann Þórdísi í Hlíð landsdrottinn sinn, þar til hún segði, að hún væri búin að selja Hamar. Prestur sagði, að hann rèði gjörðum sínum um það, «en því lýsi eg yfir,» segir hann,

«svo að þessir menn heyra, sem hèr eru við staddir, að greiðir þú mèr ekki landskuldina í fardögum, ítem, sýnir þig ekki hlýðinn og auðsveipan, eins og einum góðum, ærlegum landseta byrjar og hæfir við sinn landsdrottinn, þá óheimila eg þèr jörðina Hamar, liggjandi í Staðar sókn, til allra nota og afnytja.» Þórir kvað sig litlu varða, hver orð prestur hefði hèr um og gekk inn, en prestur stè á bak hesti sínum, og varð fátt um kveðjur þeirra Þóris. Biður prestur fylgdarmenn sína ríða til Hlíðar, og gjöra þeir svo. Ekki var manna úti í Hlíð, og skipar prestur fylgdarmönnunum að berja á dyr. Vinnukona ein kom til dyra, og biður prestur hana segja húsfreyju, að hann sè þar kominn og vili finna hana; gengur Þórdís húsfreyja út og heilsar presti og vísar honum til stofu, og svo þeim fylgdarmönnum hans; situr prestur þar um hríð, og lætur Þórdís Sigrúnu veita þeim beina, en sjálf situr hún í stofu og ræðir við gesti. Prestur er allblíður á manninn við Þórdísi, kveðst hann vera þar kominn til að vita, hvernig hún berist af eptir þann mikla mannskaða, er hún hafi orðið fyrir í láti bónda síns, og fer hann þar um mörgum fögrum orðum, hve mikil eptirsjá sèr og öðrum hreppsmönnum sè að svo ágætum manni, sem Sigurð hafi verið. Þórdís játti því sem prestur sag

en auðsèð var þó á henni, að ekki fannst henni mikið til fagurgala prests. Snýr prestur þessu-næst ræðu sinni í þá átt, að hann spyr húsfreyju um fyrirætlun hennar, og hvort hún hafi í hyggju að halda áfram búskap, eða segja Hlíð lausri, og svo um það, hvern hún hafi í hyggju að taka sèr til ráðaneytis eða lögráðanda, og lèt prestur á sèr heyra, að hann mundi ekki ófús til þess starfa, ef hún æskti þess. Þórdís svaraði presti hægt og stillilega, kvaðst hún litla fyrirhyggju hafa um hagi sína að svo stöddu; þó mundi það helzt verða, að hún reyndi til að hokra eitt ár ennþá, og ekki segja Hlíð lausri hið næsta árið; en þar sem prestur lèti á sèr heyra, að hann mundi gjörast lögráðandi hennar, þá kveðst hún kunna honum þakkir fyrir tilboð sitt, og væri gott að eiga þess von síðar, ef hún leitaði þess. Þegar prestur hafði staðið nokkra stund við í Hlíð, og notið beina þess, er framborinn var, fer hann að sýna á sèr ferðasnið, tekur til hatt sinn og vetlínga og lætur sem hann ætli nú þegar á brott. Húsfreyja var í stofu, og vindur prestur sèr þá að henni og segir:

»Eptir á að hyggja og að að gá, eg var nærri því búinn að gleyma nokkru af erindinu; eg kom hèrna, Þórdís mín, með það sem þèr eigið hjá mèr, það mun vera kominn tími til að losa sig við það.»

þórdísi setti dreyrrauða út undir eyru, og var sem hana undir eins óraði fyrir í hverjum erindagjörðum sèra Sigvaldi væri þar kominn. Hún lèt samt sem sèr yrði ekki bilt við og segir:

«þèr eruð eitthvað að gjöra að gamni yðar, prestur minn, núna, ekki skil eg í hvað það getur verið, sem eg á hjá yður. það mun heldur vera svo, þegar öllu er á botninn hvolft, að þèr eigið eitthvað hjá mèr, það kemur ætíð einhverntíma að skuldadögunum fyrir þá, sem eiga að gjalda öllum stèttum, og þèr munuð, sem von er, vilja, að eg sýni einhvern lit á að gjalda yður, eins og vant hefir verið, um það vorar.»

«Já, tölum ekki um það, þórdís mín, það hefir allt verið með heiðri híngað til, en eg heyri þèr skilið mig ekki, eg kom hèrna með skildíngana, sem þèr áttuð hjá mèr.»

«Margur er ríkari en hann hyggur,» sagði þórdís og hló við kaldahlátur, «ekki hugsaði eg það, að við hjónin hefðum átt peninga í geymslu hjá yður, p restur minn»

«það eru peníngarnir fyrir partinn, eg á við Hamarinn, sem hann Sigurður minn sálugi seldi mèr, og eg fór að rænast eptir að kaupa í haust; það er, eins og þèr vitið, sextíu ríkisdalir, og eg ætla að losa mig við þá áður en e eyði þeim, hum, hum.»

«Ekki tel eg til neinnar skuldar, prest

minn, fyrir Hamar,» sagði Þórdís, «njótið þèr peníngu yðar, ekki mun eg ágirnast þá, en hitt hefi eg einhverntíma sagt yður áður, að Hamar munduð þèr aldrei eignast meðan eg tóri, að minnsta kosti ekki með rèttu.»

«Það hefir nú hvort okkar sína meiníngu um það, Þórdís mín, hum, hum, en þèr vitið þó, að eg hefi í höndum afsalsbrèf mannsins yðar sáluga fyrir kotinu, hum, hum, og ætla eg mèr muni duga það við yður og Þórð minn í Holti, hum, hum,» sagði prestur.

«Ekki þurfið þèr að minna mig, sèra Sigvaldi, á einstæðíngsskap minn, veit eg það, að eg er ekkja og á engan að, samt vantreysti eg því ekki, að Guð geti ekki vakið einhvern upp til þess að veita mèr liðsinni, hefir það og verið sagt, að illa sezt opt ofsinn,» sagði Þórdís, og sáu menn þá, að tár hrutu af augum hennar, líkast sem högl væri.

Það sáu menn, að presti brá heldur en ekki við þessi orð, af því að þá tók hann að velta tuggunni harðara í munni sèr, en hann var vanur, svaraði hann þó af mestu stillíngu og segir:

«Ekki tek eg þessi orð til mín, Þórdís mín, .nnað mál er það, þó eg vili að orð og gjörðir haldist, og Sigurður minn sè ekki gjörður ó-myndugur í gröfinni, eins og hann hefði ekki

verið fjár síns ráðandi meðan hann lifði; og kemur þetta víst til af því, að þèr þekkið ekki rètt hvernig á stendur og hvernig kaupbrèfið er lagað, enda skuluð þèr nú fá að heyra það, því eg hefi hèr afskript af því í vasa mínum.»

Þórdís kvað sèr standa á sama, hvort hann læsi það eður ekki; dró þá prestur úr vasa sínum skjal nokkurt og las, og var það þannig:

«Anno Domini 17.., framfór og fullgjörðist að Stað svolátandi sala á jörðinni Hamri, að eg undirskrifaður gjöri kunnugt, öllum sem þetta mitt brèf heyra og lesa, að eg sel hèr með frá mèr og mínum erfíngjum eignar og óðalsjörð mína og konu minnar Hamar, liggjandi í S... hreppi, þrjátíu hundruð að dýrleika, með fimm ásauðar kúgildum og eins hundraðs og tuttugu álna landskuld, samt öllu, sem tèðri jörðu fylgir og fylgja ber, og þeim landamerkjum, sem að fornu verið hafa og vera eiga, heiðurlegum prestinum sèra Sigvalda Árnasyni til Staðar fyrir eitt hundrað og tuttugu ríkisdali, er skulu af honum betalaðir verða að mèr afgengnum, uppá þann máta, að einn fjórðapart eður þrjátíu ríkisdali lúki hann til nafna míns Sigurðar, sem er sonur áður umgetins sèra Sigvalda, hverir honum af mèr ei minn dag gefnir eru sem ein órjúfanleg tes mentisgjöf; öðrum fjórðaparti, eður þrjátíu rík

dölum andvirðisins, beheldur velnefndur sèra Sigvaldi fyrir sig, en skuldbindur og obligerar sig og sína erfíngja til, eina heiðurlega grafskript eptir mig að láta foranstalta, og hana síðan í gylltum römmum í kirkjuna hèr á staðnum láta upphengja. Loks borgi hann sextíu ríkisdali til konu minnar og annara minna löglegra erfíngja. Meðan eg lifi áskil eg mèr að hafa öll umráð tèðrar jarðar, ágóða og prófít án alls tilkalls af kaupanda. Segi eg svo velnefndan sèra Sigvalda hèðan af rèttan eiganda að jörðunni Hamri, riptalaust af mèr og mínum erfíngjum. Hèr á móti lofa eg, sèra Sigvaldi Árnason, pastor loci, fyrir mig og mína erfíngja, alla framanskrifaða skilmála í öllum þeirra puncter og clausulis að uppfylla.

Setjum við svo, þessu okkar kaupbrèfi til staðfestíngar, nöfn okkar og hjá þrykkt signet, að nærverandi þeim dándismönnum, heiðarlegum hreppstjóra Ögmundi Jónssyni og heiðarlegum bónda Erlendi Bjarnasyni.

actum ut supra.

Sigurður Jónsson. Sigvaldi Árnason.
(L. S.) (L. S.)
Ögmundur Jónsson. Erlendur Bjarnason.
hreppstjóri. (L. S.)»
(L. S.)

Brèf þetta las prestur stillt og hægt, en þórdís húsfreyja hlustaði á, og sáu menn henni ekki bregða. En er prestur hafði lesið, rèttir hann brèfið að þórdísi og segir hálf-glottandi: «vilið þèr ekki lesa það sjálf, heillin góð, en ábyrgjast skal eg að rètt sè eptirritið, og orígínalinn hefi eg hjá mèr heima vel geymdan, hum, hum; haldið þèr, að það sè svo illa um búið, að því verði hnekkt, eða hvað virðist ykkur, vinir?» segir hann við fylgdarmenn sína, þeir sögðu að sèr sýndist sem presti, að ekki mundi hægt að vefengja það. Tekur þá prestur í annað skipti að þreifa til kjólvasa síns, og dregur hann þar upp sjóð, ekki all-lítinn og setur á borðið, leysir frá og segir síðan:

«Hèr er þá ekki annað eptir, en telja yður peníngana, þórdís mín! en þessa heiðursmenn, sem hèr eru nærstaddir, hefi eg beðið að vera við, og sjá, að eg afhendi yður þá.» Síðan hellti hann peníngunum á borðið, og ætlar að fara að telja. þá stóð húsfreyja upp, gengur fram á mitt stofugólfið og segir til fylgdarmanna prests:

«þar sem sóknarpresturinn hefir tekið ykkur híngað, til að vera vitni sín við afhendíngu penínga, þá er það sjálfsagt, að þið vitnið ur það sem þið sjáið og heyrið, og lýsi eg því þ yfir í ykkar áheyrn, að eg tek ekki við nokkrur

skildíng af honum, í því skyni, að það sè andvirði fyrir Hamar; og svo megið þið hafa það eptir mèr, að eg lýsi sèra Sigvalda óheimildarmann að hverri þúfu í Hamars landareign, en þóknist yður, prestur minn, að vera hèr í stofunni og yfirlíta fjársjóði yðar um stund, þá er yður það heimilt, en ekki stend eg lengur hèr, þar eg hygg að þèr hafið af lokið brýnasta erindinu, fyrst að hugga mig, eins og yðar embætti heyrði til, eptir lát mannsins míns, og þar næst að sýna mèr lítil deili þess, hvað þèr eruð óeigingjarn, og hvers eg má vænta í mínum einstæðíngsskap; en eg fer nú að kasta bót á peisuna mína, sem eg hætti við þegar þèr komuð, og það ætla eg mèr þarfara.»

Þegar húsfreyja hafði sagt þetta, gekk hún úr stofunni, en læsti henni ekki eptir sèr.

Meðan húsfreyja lèt dæluna gánga, stóð prestur sem agndofa, og varð honum orðfall, en er hann sá Þórdísi gánga úr stofunni, kallaði hann eptir henni, en hún var þá þegar burtu. Prestur hugsaði nú líklega, að húsfreyja mundi vonum bráðara koma aptur og fèkkst ekki um, raðar hann peníngunum á borðið og telur þá vandlega, eptir það gengur hann um hríð um gólf í stofunni, en er honum tók að lengjast um apturkomu húsfreyju, ræðir hann til við annan ylgdarmann sinn, að hann gángi til baðstofu og

kalli á hana. Sá fór, er sendur var, og kemur hann að lítilli stundu liðinni og segir að þórdís finnist ekki, og ekki viti heimilismenn hvað af henni hafi orðið. Er hennar nú leitað úti og inni, og fannst hún ekki að heldur. Meðan á leitinni stóð, gekk sèra Sigvaldi fram og aptur um gólf í stofunni, og var honum heldur þúngt í skapi, tuggði hann nú svo ákaft tóbakið í munni sèr, að undrum gengdi, og spýtti um tönn sèr svo ótt, að stórir straumar af tóbakslegi kvísluðust um allt gólfið, eins og ár í leysíngu yfir slèttar eyrar, en tuggurnar, sem hann kastaði jafnóðum útúr sèr á gólfið hálf-notuðum, lágu þar eins og stóreflis jakar, þegar stórstraumsflóð hafa brotið axlarháan móð á vordag og kastað honum upp á sjávargrundir, en sjórinn síðan fallið aptur út undan.

Loks komu fylgdarmenn prests aptur í stofuna, og sögðu þess enga von, að þórdís fyndist, mundi hún vera hlaupin til næstu bæja. þegar prestur heyrir þessar frèttir, seilist hann með hendinni ofan í vestisvasa sinn og dregur þar upp enda nokkurn af rullutóbaki, stýfir af honum góðan þumlúng og veltir í munni sèr, gengur síðan að borðinu og sveiflar í skyndi peníngunum saman og hirðir, en segir síð. við fylgdarmenn sína:

«þið hafið þá verið vitni til þess, að

hefi framboðið þórdísi peníngana.» þeir kváðu já við því, «og svo að hún hefir neitað að taka á móti þeim að þessu sinni, tek eg þá því aptur, en grunur minn er sá, að eg svo að eins frambjóði þá næsta sinn, að hún sjái sèr sæmra að veita þeim viðtöku, ella hafa ekkert.»

Síðan tekur prestur hatt sinn og vetlínga, og kveður fylgdarmenn sína til brottferðar, og ríða þeir svo heim til Staðar við svo búið.

---

## TUTTUGASTI OG SJÖUNDI KAPÍTULI.

---

*Ráðagjörð þeirra fóstra.*

Ekki var svo, sem fylgdarmenn prests hugðu, að þórdís húsfreyja hefði stokkið á aðra bæi, þó hún fyndist ekki er hennar var leitað. þar í Hlíð var dyralopt eitt lítið, sem haft var til þess að geyma í ýmislegt. þángað hafði húsfreyja farið meðan á leitinni stóð. Sigrún vissi gjörla hvar fóstra hennar var, en vildi ekki segja til hennar. En er þeir prestur voru fyrir stundu burt riðnir, gengur Sigrún til loptsins, að vitja fóstru sinnar; situr þórdís þá á kistu,

sem var þar í loptinu, og styður hönd undir kinn, og sèr Sigrún að hún grætur, gengur hún þá til hennar og ávarpar hana blíðlega og segir:

«Æ, það liggur þá eitthvað illa á yður, fóstra mín góð!», og klappar um leið á kinnina á fóstru sinni.

«Æi nei nei,» sagði Þórdís og strauk um leið tárin úr augunum á sèr, «það er ekkert, elskan mín, eg hristi það fram af mèr, en maður getur ekki altènd að því gjört, þó það hvarfli eitthvað að manni í einrúmi; mig gildir einu hvað þú heyrir og sèr fóstra mín, en ekki er það eptir skapi mínu, að lofa heiminum að hafa tárin mín að leikfángi, og þó er eg ekki það harðgerðari en allir aðrir, að eg geti ekki grátið. Reynslan hefir kennt mèr, að það er lítið lið í því, að vola framan í veröldina; hún hæðir þann, sem hefir einhverja tilfinníngu, en heiðrar þann, sem er tilfinníngarlaus. Þegar eg var á þínum aldri, fóstra mín, þá grèt eg af öllu, hvað lítið sem á bjátaði, allt eins og grösin, sem digna upp undireins og dregur fyrir sólina; nú er eg eins og steinarnir, sem verða aðeins þvalir á næturnar; þegar eg er í einrúmi eða leggst útaf og get ekki sofið, þá verður mèr það, að eg hugsa um hagi mína og einstæðíngsskap, og þá get eg grátið, þegar Guð sèr það, en ekk

mennirnir.» Um leið og þórdís sagði þetta, strauk hún aptur með svuntuhorninu um augun á sèr, og allt í einu var eins og hún væri orðin annar maður, segir hún þá, eins og hún vildi eyða þessu umtali, blátt áfram við Sigrúnu:

«þeir munu vera farnir, presturinn og fylgdarmenn hans?»

«Já,» sagði Sigrún, «þeir eru komnir af stað fyrir góðri stundu; þeir voru lengi að leita að yður, en eg sagðist ekki vita hvar þèr væruð, af því mig grunaði að yður gilti það einu.»

«það var rètt gjört, Sigrún mín, eg þóktist vera búin að tala við hann það sem eg ætlaði; en eg þarf að segja þèr, hvað hann var að erinda, góði maður; hann kom sumsè híngað með peNínga fyrir Hamarinn, sem hann ætlaði að troða uppá mig, svo það er auðsèð, að honum er alvara, blessuðum, að krækja í kotið, og það er líklegast að honum takist það; það sèr á, að eg er kvennvæfla og á engan að, og sízt nokkurn þann, sem hefir vit og kjark til að rètta hluta minn, en svo er mèr varið, Sigrún mín, að heldur vildi eg vita það, að verðið hans Hamars gengi í málskostnaðinn, en að hann èra Sigvaldi eignaðist nokkurntíma eina þúfu í onum, því hann hefir farið að þessu öllu með girni og prettum.»

«það er von þèr segið það, fóstra mín góð,» sagði Sigrún, «æ, mèr er svo illa við bèaðan karlinn, að hann skuli vera að þessu við yður, eg vildi hann væri dauður, karlskrúnkan.»

«Óskaðu þess ekki, elskan mín,» sagði þórdís, «biddu heldur þess, að hann væri orðinn Guðs barn, það væri honum þarfara.»

«Tókuð þèr við peníngunum af honum?» sagði Sigrún.

«Nei, nei, ekki er eg farin til þess ennþá, Sigrún mín, og eg mun varla fara til þess fyrst um sinn; það skal vera annaðhvort um það, að hann aldrei fái Hamar, ellegar þá, eins og honum er kærast, að hann njóti hans fyrir ekkert; það var raunar vili minn, ef allt fer eins og áformað er fyrir þèr fóstra mín, að einhver annar en sèra Sigvaldi yrði aðnjótandi Hamars, en það lítur svo út sem það uppfyllist ekki, þó eg hafi eitthvað hugsað.»

Sigrúnu rámaði í, hvað fóstra hennar átti við, og segir:

«Vilið þèr ekki, fóstra mín, skrifa honum til og láta hann vita um þetta; eg er viss um, að hann vill styrkja yður svo sem hann getur.»

«Hvern áttu við, Sigrún mín?»

«Eg átti við þèr skrifuðuð honum þóra til,» sagði Sigrún og blóðroðnaði út undir ey

«Já,» sagði þórdís, «hann er nú lán

burtu, og svo er hann bundinn í báða skó sem maður segir, þar sem mágur hans á í hlut; en ekki er það þarfyrir, skyldastan held eg hann vera til þess að styrkja mig, því ekki er það annars vegna, að mig lángar til að halda í jarðar tetrið, en að þið gætuð notið hennar, og svo lízt mèr á þórarinn, og þekki eg hann lítið, sem hann muni ekki láta hluta sinn fyrir öllum, ef hann annars tekur það í sig; en hvernig á eg að koma brèfi til hans, Sigrún mín?»

«Eg held það væri bezt,» sagði Sigrún, «rètt að senda til hans, eður þá að biðja einhvern, sem fer hèðan úr sveitinni til útróðra, fyrir það.»

«Já, eg ætla að ráða það af, að skrifa honum,» sagði þórdís, og hugsaði sig um dálitla stund, «já, eg ætla að ráða það af, til hvers sem það verður; eg ætla að senda það með honum Gísla á Grundum, eg veit hann tekur af mèr miða, þegar hann fer suður, og hann er trúr og ráðvandur.«

þær fóstrur töluðu um þetta mál, og varð það ráð þeirra, að rita þórarni og segja honum hvar komið sè; skrifaði þórdís sjálf brèfið; segir hún honum fyrst frá láti Sigurðar bónda síns, og hver harmur sèr hafi verið í missi hans. Síðan tjáir hún honum frá kaupmála þeirra Sigurðar heitins og prests, og hvernig

það hafi atvikazt, og að prestur teli nú Hamar orðinn sína eign; biður hún þórarinn ásjár um sitt mál, og að lyktum lætur hún þórarinn ráða í, að það sè ætlan sín, að hann verði aðnjótandi þeirra efna, er hún eigi, ef hann eigi Sigrúnu, eins og ráð sè fyrir gjört; ræður hún honum að koma norður um vorið, og taka við búi í Hlíð, þar til honum verði veitt brauð. Sigrún ritaði og þórarni brèf eigi allstutt, en ekki er þess getið hvert efnið var. Líður nú fram veturinn, og gjöra þær Hlíðar-fóstrur Gísla á Grundum orð, að finna sig áður hann fari suður til róðranna, og heitir hann því, að fara ekki svo suður, að hann finni þær ekki áður.

---

## TUTTUGASTI OG ÁTTUNDI KAPÍTULI.

Eptir viðskipti þeirra þórdísar sat sèra Sigvaldi í búi sínu, og söng messur sem ver hans var til; líður nú fram til jóla, svo að ek ber til tíðinda annað en það, að í Staðarhre kom upp orðasveimur nokkur, og fór þó í fyrs

allhljótt. Var það nú sagt um Sigrúnu í Hlíð, að hún væri ekki óhindruð, eða færi ekki kona ein saman. þóktu þetta ekki alllítil tíðindi, því Sigrún var talin einhver hin fríðasta og efnilegasta stúlka í sveitinni. Fregn þessi fór bæ frá bæ, hraðara en hersaga, og fylgdi þar með sá kvittur, að Egill sonur Gríms meðhjálpara mundi vera þar við riðinn, þó að allólíklega hefði látið verið af því Hlíðarfólki. Enginn vissi hvaðan þessi orðasveimur var í fyrstu kominn; sögðu nokkrir, að þeir hefðu frètt það fyrst á staðnum, en aðrir þóktust hafa heyrt það af heimilisfólki í Hlíð. Enginn maður heyrði sèra Sigvalda nokkurntíma segja frá þessu, en jafnan, er einhverir utanbæjarmenn komu að Stað, spurði hann þá meðal annara frètta á þá leið: «ætli það sè satt ótætis kvisið, sem menn eru að fleygja hèrna í sveitinni, að það sè fjölgunar von þar í Hlíð?» Ef nú svo bar undir, að gestur kvaðst hafa heyrt eitthvert hop á um það, kvað prestur jafnan svo að orði, að þetta mundi ekki vera annað en mas og tilhæfulaus þvættíngur, og hèlt lánga og fagra ræðu um það, að varlega væri trúandi öllu, sem sagt væri, en á endanum var þó sú niðurstaðan, að hann sagðist ekki vita hverjum hann ætti að trúa, þareð svo margir sannorðir :nn, sem hefðu sèð Sigrúnu, fullyrtu það, að n væri ekki einsömul. Aptur á móti, ef gestur

þóktist ekki hafa heyrt neitt um þenna orðasveim, segir prestur: «nú, það var líklegra, að það væri ekki nein tilhæfa í því, sem fólkið er að slaðra, fyrst þú hefir ekki heyrt það, eg trúði því heldur ekki, góðurinn minn, en því er ver og miður, altalað er það.» Engir sem komu að Stað, fóru því að öllu jafnnær um þenna orðasveim; þeir, sem höfðu heyrt áður einhvern ávæníng af honum, staðfestust í trúnni á því, að hann mundi ekki með öllu orsakalaus. Hinir, sem ekkert höfðu áður um þetta heyrt, fengu nægilegt nesti til næsta bæjar. Fór nú þessi fregn um sveitina, eins og tíðum verður, þegar einhver tilhæfulaus þvættíngur er borinn bæja á milli; voru það sumir sem lögðu trúnað á hann, en aðrir báru það til baka, eða lètu sèr á litlu standa hvort sannara væri. Það var hvorttveggja, að þær Hlíðar-fóstrur ekki komu á marga mannfundi þá um veturinn, eða áttu mikið tal við utanbæjarmenn, enda barst þetta ekki fyrir eyru þeirra. Á jóladaginn var messað að Stað, og fór Sigrún þá til kirkju, ásamt nokkru af heimilisfólki frá Hlíð. Frost var mikið um daginn, og sló kulda að Sigrúnu í kirkjunni, og var hún all-óbragðleg í andliti, eptir því sem hún átti að sè- -vera. Eptir messu fór hún bráðlega af stað, sumt af kirkjufólki fór í baðstofu, og drr

eptir. Var Guðrún ráðskona all-skrafhreyfin við kvennþjóðina, og kom ræðan mest niður á Sigrúnu. Spurði hún að, hvort enginn hefði tekið eptir, hvernig Sigrún frá Hlíð hefði litið út í dag; það væri ekki að marka sem sèr sýndist, en svo hefði hún komið fyrir sínar sjónir, að annaðhvort hefði hún verið veik, eða öllu væri ekki logið, sem um hana væri sagt. Flestar, sem við voru, glottu við og sögðu, að það mundi ekki hafa verið hún ein, sem hefði tekið eptir því, hvernig Sigrún leit út. Sèra Sigvaldi gekk um gólf á baðstofulopti, þegar Guðrún hóf umræðuna, og reykti; hann lagði ekki í fyrstu til málanna, en glotti við og hummaði í hljóði, en segir síðan við Guðrúnu:

«Þú áttir, systir góð, ekki að hafa þetta hjal, það er ekki vert að trúa þessum þvættíngi; maður má ekki trúa helmíngnum af því, sem sagt er; þið áttuð ekki, systur, að hneyxla stúlkuna fyrir það, að hún er föl, hum, hum, þar til geta verið margar orsakir; satt var það, undarlega bragðlaus var hún í dag, hum, hum.» Eptir þetta gekk prestur í burtu.

Nú líður svo fram yfir nýjár, og býst Gísli á Grundum til suðurferðarinnar. Kemur hann að Hlíð og segir Þórdísi, að nú muni hann taka við brèfi því, er hún hafi beðið sig að bera suður, því ferðinni sè heitið hvern dag, sem

veður leyfi. Ekki var Gísli svo kunnandi, að hann gæti lesið kveðju á brèfi; samt sem áður þókti hann manna skilsamastur með allt, er sent var með honum, og var opt í sendiferðum með brèf og penínga, og fórst honum það jafnan vel og liðmannlega; hafði hann þó opt tuttugu eða þrjátíu brèf undir höndum. það var venja hans, ef einhver beiddi hann fyrir brèf, að hann spurði þann sem sendi það, hvert það ætti að fara og til hvers; síðan skoðaði hann brèfið í krók og kríng, gáði að hve stórt það var, hvernig lakkið væri fyrir því, lagði það síðan niður í skjóðu sína og sagði: »það skal koma til skila;» enda brást það aldrei, að ætti hann einhverstaðar að skila brèfi, leysti hann frá skjóðu sinni og skoðaði hvert brèf, og tók jafnan það brèfið, er hann átti að skila, leit utaná það, og rètti að þeim sem við átti að taka, og sagði síðan: »þetta var eg beðinn að fá þèr,» eða, »þetta brèf á híngað að fara,» og stóð það þá heima. Hèldu því allir, sem ekki voru Gísla því nákunnugri, að hann væri fljótskarpur og fluglæs, en allir nákunnugir vissu, að það var ekki, heldur hitt, að Gísli var svo glöggur á kveðjur, sem sauðglöggvasti smali á kindur, sem undireins þekkir kindina af fjárbragði og svipnum, þó hann sjái ekki eyrun (markið.«

Þórdís gjörir nú Gísla góðan beina, en síðan fær hún honum brèfið og segir: «hèrna er nú brèfið, sem eg ætla að biðja þig fyrir, Gísli minn, og eg ætla að biðja þig að láta fara vel um það, það er raunar ekkert í því, sem allir mega ekki vita, en það er svo samt, að eg vildi að það kæmist áfram með skilum, Gísli minn! og því ætlaði eg ekki að senda það með öðrum en þèr, því eg veit, að það má biðja þig fyrir lítilræði.

«Og jæja, Þórdís mín, það skal verða eitthvað til um það, en hvert á það nú sumsè að fara?»

«Það á að fara til hans Þórarins prestmágs, hann beiddi mig um lítilræði í haust, þegar hann kom hèr; þú kemur þar víst við?»

Og það hefi eg ásett, Þórdís mín, það er rètt í leiðinni, og svo þekki eg hann dálítið, síðan hann var hèrna í sveitinni.»

«Þú fær honum þá brèfið,» sagði Þórdís, «og heilsaðu honum um leið frá mèr, og þar með, að mig lángi til einhverntíma að fá seðil frá honum aptur.»

«Eg skal segja honum það,» sagði Gísli og skoðaði brèfið í krók og kríng og stakk því á ;, «þú munt frètta einhverntíma, hvort það mur ekki fram.»

Við þetta slitu þau Þórdís og Gísli talinu;

fór Gísli heim að Grundum um kvöldið. Sèra Sigvaldi á Stað hafði einnig gjört Gísla boð, að hann færi ekki svo suður, að hann tæki ekki af sèr brèf, og hèt Gísli því; bjó hann sig nú að heiman daginn eptir, að hann fór að Hlíð; ætlar hann þá svo til, að hann komist um kvöldið að Stað, af því það var í leiðinni, taka þar brèfin og halda svo af stað. Hann kemur að Stað, og hittir sèra Sigvalda, og er honum þar vel fagnað; biður prestur hann að vera þar um nóttina, segist prestur ekki hafa vænt hans svo snemma, og sè hann ekki búinn að rita það er hann ætlaði. Prestur er hinn blíðasti við Gísla og vísar honum til stofu, ræðir hann nú við hann um hitt og þetta, og spyr hann meðal annars, hvort hann muni ekki koma að B . . . og hitta Þórarinn mág sinn; ætli hann einnig að biðja hann fyrir brèf til hans. Gísli kveðst þar mundu koma, því hann hafi brèf til hans, sem hann hafi verið beðinn fyrir.

«Frá Hlíð vænti eg,» sagði prestur og hummaði við.

«Já, það er þar af bæjunum,» sagði Gísli.

«Já, hún gat þess við mig hún Þórdís mín um daginn, að hún þyrfti að skrifa honum Þórarni mínum til, og var búin að biðja mig -- klóra það fyrir sig, og láta sig vita ef ferð : suður; eg þori ekki annað en gjöra henni c

fyrra málið, þú staldrar þó við svo lengi, Gísli minn, fyrir mig?»

«Eg held þess þurfi ekki,» sagði Gísli, «eg kom þar í gær.»

«Og hún vissi af, að þú ætlaðir suður,» sagði prestur.

«Meir en og margfaldlega, því eg kom þar í gær, og sagði henni að eg færi suður.»

«Það er þá gott,» sagði prestur, «og hún hefir líklega beðið þig fyrir brèfið?

«Já, það á að vera einhverstaðar brèfmiði hjá mèr frá henni, sem eg lofaði að koma áfram, ef eg verð ekki svikari fyrir það.»

Prestur lèzt verða harðla glaður að svo væri, svo að hann þyrfti ekki að senda til Þórdísar, mundi hún hafa fengið einhvern annan til að skrifa fyrir sig. Spurði hann nú Gísla frètta frá Hlíð, og hvernig Þórdís sín mætti; kveðst Gísli ekki hafa orðið áskynja annars, en hún væri heilbrigð, og lýsti prestur því yfir, að sèr væri stór gleði að heyra það. Þá spurði prestur, hvort Gísli hefði sèð Sigrúnu, fósturdóttur Þórdísar. Ekki kvaðst Gísli hana sèð hafa. Prestur hummaði við og sagði: «hún mun ekki láta sjá sig, stúlkan, mikið, þegar utanbæjarmenn koma , ef það er satt sem farið er að kvisa um, eða ir þú ekki heyrt það eins og aðrir, Gísli minn! hún eigi ekki að vera ósjúk? — Gísli kveðst

ekki bera á móti því, að hann hefði heyrt því fleygt, en aptur hefðu þó sumir borið á móti því, og hèldi hann það orðum aukið; áttu þeir nú tal um þetta um hríð, en svo lauk þó samtali þeirra, að Gísli var orðinn þess fulltrúa, að svo mundi vera sem prestur sagði og altalað var. Árèttaði sèra Sigvaldi með því, að hann sagði: «ekki er það fyrir það, Gísli minn, að eg vili koma því á lopt, mèr þækti vænna um, að það væri ósatt um hana, stúlku-tetrið, en því mun nú vera verr og miður, hum, hum; en nú ætla eg bezt fyrir mig að fara að skrifa það sem eg ætla, þú munt vilja komast af stað tímanlega á morgun, og viltu þá ekki setja þig inn í baðstofuna til kvennfólksins, en hafir þú eitthvað meðferðis, þá er þèr bezt að láta það vera hèr í nótt, eg læsi stofunni og hèr hefir enginn umgöngur.»

«Og eg hefi nú ekki neitt meðferðis nema pokasnigilinn minn, prestur minn, og er ekkert annað í honum en skjóða, með nokkrum brèfum, og svo nestisbiti, því eg fer aldrei svo af heimilinu í þessar lángferðir, að eg hafi ekki ögn með mèr, því ef maður fer snemma af stað, þá er það ekki allstaðar að fólk hafi greiða tilbúinn; en þar sem eg er ókenndur á bæ, þá hefi eg þann sið, hafi eg eitthvað meðfe s, þá ber eg það með mèr og stíng því ir

höfðalagið hjá mèr, því margur getur verið misjafnlega vandaður.

«Þú villt þá taka hann með þèr, Gísli minn, hum, hum,» sagði prestur og varð heldur svosem styggur við.

«Og ekki hèrna, prestur minn, hèr þekki eg fólk, þegar þèr lofið honum að liggja hèrna einhverstaðar; eg ætla þá að láta hann hèrna i skotið hjá kistunni,» sagði Gísli, og ítrekaði prestur það, að þar skyldi enginn við honum hreyfa, fylgdi síðan Gísla til baðstofu; er Gísli þar um nóttina í góðu yfirlæti, en prestur skrifar um kvöldið í stofu, og tekur Gísli við brèfunum um morguninn, og heldur af stað.

---

## TUTTUGASTI OG NÍUNDI KAPÍTULI.

---

*Frá Þórarni.*

Færðir voru góðar, og gekk Gísla greiðt ferðin; segir ekki af honum, fyr en hann eitt ıld kemur að B . . ., og hyggur hann að a þar náttstað. Kom hann í það mund, sem ıamaður gengur til fjóss, og hittir Gísli hann

þar á túninu; heilsast þeir, og spyr heimamaður hann almæltra tíðinda, en Gísli segir af það er hann vissi. Aptur frètti Gísli heimamann, hvort þar á heimilinu sè ekki maður, sem Þórarinn heiti, Jónsson, því hann hafi brèf til hans að norðan, og svo til sýslumanns, sem hann hafi tekið á leiðinni, kveðst hann og ætla að biðja þar gistíngar um nóttina. Heimamaður sagði, að um gistínguna mundi honum ekki verða neitað, það sè ekki vani að úthýsa ferðamönnum, «en sýslumann getur þú ekki fundið, hann er vanur að leggja sig útaf í rökkrunum, og má þá ekki vekja hann, og ekki má hann heyra neinn hávaða, en Þórarinn held eg þú getir fundið, mèr sýndist hann vera búinn að kveikja hjá sèr í húsinu, eg skal fylgja þèr til hans,» sagði heimamaður.

«Þökk er mèr á því,» sagði Gísli.

Heimamaður fylgdi síðan Gísla til bæjar, og innar á baðstofugólf; þar var í öðrum enda baðstofunnar hús undir lopti, og sat Þórarinn þar í rökkrinu, og las og skrifaði, því aðrar stundir hafði hann ekki til þess. Heimamaður lauk upp húsinu, og segir Þórarni, að þar sè kominn maður að norðan, og hafi meðferðis brèf til hans. Þórarinn stóð upp og segir he... manni að láta hann koma inn til sín, og g... hann það. Þórarinn þekkti brátt Gísla,

tók honum vinsamlega, og bauð honum að sitja þar, «eða ertu með nokkur brèf til mín, Gísli minn, og hvernig líður þar nyrðra?»

«Allþolanlega,» sagði Gísli; «ef þau eru ekki týnd, þá áttuð þèr að eiga einhverstaðar hjá mèr tvö brèf, og til sýslumannsins eru tvö, en annað tók eg á leiðinni, hitt er frá honum mági yðar.»

Gísli tók nú að leysa frá poka sínum, og varð honum það ógreiðt, því bundið var með snæri og pokinn allmikið fjötraður, en frost hafði verið um daginn, og voru hnútar harðir og óþjálgir, og varð Gísli bæði að neyta handa og tanna, að leysa þá. En er því var lokið, dregur hann úr öðrum enda pokans skjóðu, eigi allstóra; var hún og vel um búin, og stóð enn nokkra stund á að opna hana, enda fannst Þórarni hver stund, er hann beið eptir brèfunum, tvöfalt lengri en hún var í rauninni, svo hlakkaði hann til að fá frèttir og brèf úr átthögum sínum. Loks var Gísli búinn að rýmka um skjóðuopið, hellir hann þá brèfunum á knè sèr, og fer að kanna þau, eins og þegar smali ætlar að taka frá einhverja aðkomukind. Þórarinn stóð þar nærri, og ætlar að hafa hönd á með Gísla, er Gísli varð þess var, segir hann: «eg skal ,ður þau, lofið þèr mèr að leita, hver er sín- hnútum kunnugastur, segir hann meistari

Jón; eg vil ætíð vita, elskulegur! hvað eg afhendi, — hèrna sjáið þèr, það er brèfið, sem eg tók á leiðinni til sýslumannsins, það er auðþekkt, því það er á engu brèfi, sem eg hefi, eins stórt lakk; eg ætla að biðja yður, þórarinn minn, að fá honum það, þegar hann vaknar, eða er hann ekki sofandi góði maður? — og svo eru hèr tvö brèf frá honum sèra Sigvalda mínum, annað til yðar og annað til sýslumannsins; eg batt rauðum spotta — hvar eru þau nú? — utan um þau.»

«þarna er eitthvað, sem bundið er utanum rauðum enda,» sagði þórarinn.

«Jæja, takið þèr þau, það er ekki um að villast, og hèrna er brèfmiði til yðar, hann tók eg á leiðinni, en ekki er það mèr að kenna þó hann sè svona útlítandi og kvolaður, hann var svona þegar mèr var fenginn hann, og sást varla á honum kveðjan; og nú eigið þèr að eiga eitt eptir hjá mèr, hvar sem það er nú; — það er þarna,» sagði Gísli, og grípur upp sendibrèfskorn eitt, sem lá í brèfabúnkanum, og horfði lakkið upp, «það er það, rètt er það, með svörtu lakki,» í þessu velti hann brèfinu við og leit á kveðjuna og segir: «það er þó ekki þetta, kveðjan hallaðist meira uppá við ei þessu.» þórarinn leit utan á brèfið, og sá var til sín og segir: «þetta er þó til mín.

«Nú, já, það er rètt, það mun vera til yðar, hvar hefi eg tekið það? — það er þó ekki brèfið sem eg tók af henni Þórdísi minni í Hlíð til yðar, nei ekki er það; þetta hefi eg þá tekið einhverstaðar á leiðinni, þó eg muni ekki eptir því, og þá ættuð þèr að eiga hèr ennþá brèf.»

Síðan leitaði Gísli af nýju í öllum brèfunum, en hvergi fann hann neitt brèf með svörtu lakki og hallri utanáskript; verður honum nokkuð bilt við, og segir við Þórarinn: »leitið þèr nú sjálfur í brèfunum, Þórarinn minn, eg get ekki fundið fleiri brèf til yðar.»

Þórarinn gjörði það, og fann ekki heldur en Gísli; segir þá Gísli, að það verði þá að vera þetta brèf, sem hann hafi tekið í Hlíð, þó hann kannist ekki við hvernig á því standi, að hvorki sè kveðjan á því höll, eða blekklessa á neðra horninu á því, eins og sig minni að hafi átt að vera á því, sem hann tók í Hlíð, og sè þetta brèf þaðan, þá muni það vera misminni sitt. Þórarinn kvaðst brátt skuli gjöra enda á allri þrætu, og sjá, hvaðan brèfið sè; opnar hann það og sèr undir eins að það er frá Þórdísi í Hlíð; segir hann þá Gísla, og lætur hann sèr það lynda. Þórarinn lýkur upp litlu skáborði, sem þar var í herbergi hans, og leggur brèf sín þar niður; ðan spyr hann Gísla frètta, og biður hann o koma með sèr inn á baðstofulopt, segir

hann vinnukonum að taka við Gísla og annast skóföt hans.

Eptir það gengur þórarinn aptur til herbergis síns og fer að lesa brèfin. Brèf sèra Sigvalda var all-þægilegt; getur prestur þess í því, að þó að þeir mágar hefðu skilið í styttíngi er þeir fundust, og sitt hefði sýnzt hvorum, vildi hann ekki fyrir sitt leyti erfa það, eða vera þess valdandi, að mágsemdir þeirra væri ekki jafngóðar eptir sem áður. Hitt og þetta var til tínt í frèttum, eins og venja er til í brèfum, er fara kunníngja á milli. það var einn kafli í brèfi prests: «Umskipti urðu hèr í Hlíð. Sigurður bóndi lagðist skömmu eptir að þú varst farinn suður í haust, lá ekki lengi, og er fyrir tímanlegan dauða burt kallaður, þremur dögum fyrir Marteinsmessu. Margur má með rèttu hans sakna; hann var ætíð friðsemdarmaður og stóð mörgum fremur í skilum við prest og kirkju. Ekkja hans þórdís heldur víst áfram búskap, og sagt er að þángað fari í vor aptur Egill Grímsson, líklega sem hennar fyrirvinna, etc.; læt svo hèr um úttalað.»

þórarni þóktu þetta all-kynlegar frèttir, en hugðist mundi fá allt greinilegra um þetta í brèfum þeirra fóstra í Hlíð. Undarlegt hafði þ( arni þókt, er hann lauk upp brèfi þórdísar, þar var ekki innaní lagt neitt brèf frá Sigrú

til hans, en ennþá meira brá honum, er hann las brèfið; sá hann af því, hvernig ráða mátti dylgjur þær, sem voru í brèfi Sigvalda prests, mágs hans. Brèfið var ritað með viðvaníngshönd og heldur illa, og var það á þessa leið:

«Hlíð 30. Decbr. 17..

Velæðla herra studiosus!

Innilega er eg yður þakkandi fyrir vinsemi yðar á seinustu samfundum í haust, sömuleiðis fyrir yðar mikið þægilega tilskrif, skrifað litlu eptir að þèr voruð aptur heim til yðar kominn; þarnæst vil eg láta yður vita, sem þèr þó máske hafið fengið undirrèttíng um af milliferðamönnum, að litlu eptir að þèr fóruð hèðan þóknaðist Drottni mínum að kalla burt manninn minn úr þessum táradal til betra lífs. Hvílíkur krossburður það hafi verið mèr, að missa hann, ætla eg nú ekki að tala um, mín eina huggun er sú, að eiga þess von innan skamms, einnig að losast úr baráttu þessarar mæðusömu hèrveru: ««Æ, hvað mig leysast lángar.»»

Í annan máta verð eg að láta yður vita það, þó mèr finnist eg ekki eiga hægt með það, að hèr á heimili hefir orðið sú breytíng, sem eg ekki ímyndaði mèr, þegar við sáustum seinast, að mundi upp koma; en svo mikið vil eg segja yður, og álít skyldu mína að láta yður

vita, þar eg einusinni varð áskynja um fyrirætlun yðar með Sigrúnu þorsteinsdóttur, sem hjá okkur hefir verið, að eg býst ekki við, að hún hafi gæfu til þess, sem einusinni var af ykkur umtalað. Kríngumstæðurnar hafa lagað það svoleiðis, og það er orðið augljóst, sem eg vissi ekki þá. Hún er ólánsamari en svo, hróið; eg ætla ekki að tala frekar um það við yður en þetta. Líklegast verður hún hjá mèr næsta ár, því ekki get eg fengið af mèr að vísa henni svona út á klakann, þar hún hefir svo lengi dvalizt hjá mèr, og í ráðagjörð er það, að Egill Grímsson, sem hèr var í sumar eð var, og aldrei skyldi verið hafa, komi híngað aptur. þetta vildi eg ekki láta bíða að segja yður allt saman, svo að þèr vissuð það í tíma, því eg vil ekki draga prett að neinum. Eg vona þèr takið ekki illa upp einlægni mína, og fyrirgefið mèr þessar fáu og stirðu línur. Lifið þèr ætíð farsæll! — vil eg svo mega finnast, með beztu óskum

yðar skuldbundin vinkona
þórdís Bjarnadóttir.»

þess er áður getið, að þórarinn unni Sigrúnu heitt og alúðlega. Hann hafði áður á hverri einverustund sinni hugsað um heitmey sína, sem hann unni jafnt öndinni í brjósti

sínu. Hvert sinn, sem hann vaknaði af værum blundi, hvarflaði hugurinn til hennar. þó hann væri að lesa, eða skrifa, og hann ætlaði að líma huga sinn við það, sem hann var að gjöra, var hann óðara horfinn til hennar, eins og ótaminn fugl, sem elskar sjálfræði, flýgur út í loptið, óðara en sleppt er af honum hendinni; hjá henni lèk hann sèr stundum saman, þar til þórarinn eins og með valdi neyddi hann til að hugsa um vinnu sína. Á kvöldin var seinasta hugsunin, sem hann sofnaði út frá, um hana; í svefninum hafði hann hugsað um hana, og vakandi dreymt um þá ánægju stund, er hann fengi brèf frá henni; svo það mátti svo að orði kveða, að hann margfaldlega var búinn að njóta þeirrar gleði í huga sínum, sem nú varð að engu. það getur því hver, sem hefir tilfinníng, ímyndað sèr, hvernig þórarni nú muni hafa brugðið við að fá þetta brèf. það var tvennt, er varnaði þórarni við örvæntíngu; það fyrst, að hann var maður stilltur og hafði tamið sèr að stjórna geði sínu, ef honum bárust snögglega gleðifrèttir eða sorgartíðindi, og þar næst unni hann Sigrúnu svo mikið, að hann gat ekki trúað því um hana sem miður mátti vera, eða að hún hefði reynzt sèr ótrú, þar sem hann aldrei hefði getað fundið annað í fari hennar, en hreinskilni og einlæga ást til sín. Hann velti þessu fyrir sèr, og þá

barðist hjarta hans um hríð, ýmist við oftraust eða kvíða, um það, hverju hann ætti að trúa. þó varð sú hugsun yfirsterkari hjá honum, að svo mundi vera, að Sigrún hefði brugðið trúnaði við sig. Hann gat ekki ímyndað sèr, er hann fór betur að gæta að, að þórdís fóstra Sigrúnar hefði farið að skrifa honum þetta, nema það væri satt. Til hins sama sá hann og að var bent í brèfi sèra Sigvalda, og mundi mági hans ekki hafa verið það óljúft, að geta orðið fyrstur til að segja honum frá þessu, þareð hann hefði jafnan róið að því öllum árum, að þau mætti ekki njótast.

þegar þórarinn var að berjast við þessar hugsanir, kemur sýslumaður í herbergið og færir honum brèf, er hann átti að skrifa, og töluðust þeir við um hríð. Fór þórarinn síðan að rita það, er sýslumaður hafði fyrir hann lagt, en ekki gekk honum það greiðt, því þrisvarsinnum um kvöldið varð þórarinn að rita brèfið upp, áður sýslumaður sagði að nú mætti það vera. Virtist sýslumanni þetta kynlegt, því þórarinn var skrifari hinn bezti og ritaði bæði sett og fagurt; ekki fèkkst hann samt um þetta annað, en hann sagði: «Eg held, þórarinn minn, að það logi illa hjá þèr ljósið í kvöld, það er þó ekki vant að gánga svona stirt fyrir okkur, eða er þèr nokkuð leitt?»

Þórarinn roðnaði við, og gekk út; fór síðan venju fremur snemma að hátta, en ekki varð honum svefnsælt þá nótt, því ætíð, er hann ætlaði að sofna, hvörfluðu hinar sömu hugsanir í huga hans, hvort það væri nokkur tilhæfa í því, er hann hefði sèð og lesið í brèfi Þórdísar, eða eigi; þó hafði sú hugsun jafnan yfirhöndina, að það mundi satt vera. Þá datt honum ýmislegt í hug, stundum ásetti hann sèr að fara norður undireins og vita vissu sína um hagi Sigrúnar, og ef það reyndist nú satt, sem honum var frá hermt, var hann að efast um hvað hann ætti að gjöra; fannst honum þá ýmist, að sèr væri orðið svo illa við hana, að hann vel gæti nú gjört henni allt til stríðs og skapraunar, og nærri vildi hann gánga að eiga Guðrúnu ráðskonu, ef hann hèldi að Sigrúnu væri nokkur mótgjörð í því, af því hann vissi, að þeim var ekki neitt vel til vina áður; væri og Sigrún þess ekki verð, að hann ætti hana. Aðra stundina fannst honum, sem ást hans til Sigrúnar hefði aldrei verið meiri en nú, virtist honum þá, sem hann mundi geta fyrirgefið henni allt; grèt hann þá fögrum tárum yfir forlögum sínum, og aumkaði ólán hennar, ef það ætti fyrir henni að liggja, að eiga Egil Grímsson, en fóstra hennar sleppti hendi af

henni, eins og hún líkast til mundi gjöra, eptir því sem henni færust orð í brèfinu.

þannig lá hann alla nóttina, og gat ekki notið svefns, fyr en rètt um dægramótin að nokkur blundur rann á hann. Hann vaknaði fyrir hálfbirtu morguninn eptir; klæddist hann þá skjótt og gengur út, voru heimamenn þá ekki upp staðnir, nema þeir, er sinntu útistörfum. Gísli var og kominn á fætur; hafði honum heldur ekki orðið svefnsamt um nóttina, var hann lengi að hugsa um það, hvernig á því gæti staðið, að hann hefði ekki sèð blekklessuna, sem átti að vera á horninu á brèfi því, er hann tók í Hlíð, en ekki var á því, er hann fèkk þórarni; hann gekk nú og litaðist um kríng þar hjá bænum, en er hann sèr að þórarinn er kominn á fætur, gengur hann til hans og býður honum góðan dag. Tóku þeir nú tal saman, og frèttir þórarinn um tíðindi úr Staðarhrepp. þórarni var kunnugt um fólk á hverjum bæ, og þykir Gísla það engin furða, þó hann spyrði all-ítarlega, þar sem hann var grandkunnugur. Spyr þórarinn fyrst á víð og dreif, og leysir Gísli úr af lètta. þar kemur loks, að þórarinn víkur ræðunni til Hlíðarfólks; spyr hann Gísla að, hvort hann hafi komið að Hlíð, áður en hann fó suður, og játar Gísli því; þá spyr hann Gísl. hvort hann hafi sèð þær fóstrur, og segir Gís

sem var, að hann hafi hitt þórdísi, og hún hafi beðið sig fyrir brèfið, en ekki hafi hann sèð Sigrúnu. Hyggur þá þórarinn, að hann muni segja sèr í óspurðum frèttum eitthvað af henni, þareð hann minntist á hana; en það varð þó ekki, annaðhvort af því, að Gísli var raunar ekki laginn á það að bera út óhróður af mönnum, eða hins vegna, að hann hefir haft einhverja vitneskju af því, að þeim þórarni og Sigrúnu hefði einhverntíma verið vel til vina. þórarinn þagði litla hríð, eins og hann biði eptir að Gísli segði sèr eitthvað meira, en er hann sá að það mundi ekki verða, hófst hann sjálfur máls á því, er hann vildi vita, og segir:

«Segðu mèr lagsmaður, er nokkuð hæft í því, sem mèr hefir verið skrifað, að Egill Grímsson fari aptur að Hlíð, er þaðan fór í haust eð var, og að Sigrún þorsteinsdóttir muni ekki vera óhindruð með honum, mèr er sagt það fortakslaust.»

«Og ekki veit eg það,» sagði Gísli, «hvaða hæfa er til í því, en yður í einlægni að segja, fyrst þèr spyrið mig að því, þá hefi eg heyrt því fleygt af fleirum en einum, en eins og eg sagði, fullyrði eg ekki neitt þar um, en þetta r skrafað, og ekki veit eg nema það berist tilıka, og þá vil eg ekki láta hafa það eptir mèr.»

«Svo þú hefir heyrt það talað?» sagði Þórarinn.

«Já, meir en,» sagði Gísli.

«Það hefir þá dregið saman með þeim,» sagði Þórarinn og glotti við, «þó það Hlíðarfólk þæktist ekki ætla að gefa honum hana í sumar.»

«Svo hefir það orðið að vera,» sagði Gísli, «því líka var það sagt í sumar, að þeim hjónunum í Hlíð væri ekkert um, að hann drægi sig eptir henni.»

Lengra gat ekki samtal þeirra Gísla og Þórarins orðið um þetta efni, því í þessu bili komu heimamenn þar að, sem þeir töluðu, og kallaði annar á Gísla og sagði, að sýslumaður vildi finna hann, áður hann færi af stað; gengu þeir þá báðir inn, og fór Þórarinn til herbergis síns; en er Gísli nokkru síðar ætlaði af stað og vildi kveðja Þórarinn, fannst hann hvergi, og fór það svo, að þeir kvöddust ekki að því sinni.

---

# ÞRÍTUGASTI KAPÍTULI.

---

*Þórarinn fer utan.*

Ef saga sú, er hèr er rituð, hefði gjörzt suður á Vallandi, eða einhverstaðar í hinum suðrænu löndum, þar sem kallað er, að blóðið í mönnum sè mörgum mælistigum heitara en í Íslendíngum, mundi án efa efnið í þessum kapítula annaðhvort hafa orðið það, að segja frá, að Þórarinn prestmágur hefði þotið norður í land og boðið Agli Grímssyni til einvígis; þeir hefði þá, eptir margar vífilengjur og vafnínga, annaðhvort sæzt heilum sáttum, ellegar annarhvor fellt hinn á hólmi, en síðan, er hið sanna kom upp, iðrazt verksins og ráðið sjálfum sèr bana, og Sigrún notið hvorugs, en setið eptir með sárt enni, eða þá gengið sömu götuna á eptir og haldið til Heljar. Ástin hjá Íslendíngum er ekki svo ofsa-bráð, hún sígur heldur svona á og seiglast, eins og þeim, ef til vill, er eðlilegra í flestum efnum, og fáum mun hún hafa sálgað, síðan á dögum þeirra Skáld-Rafns og Gunnlaugs ormstúngu, er deildu um Helgu hina fögru; enda mundi oss ekki farast það kríngilega, er vart ...um sèð nokkra grèlu, að yrkja af þeim æf...rum, þar sem kutinn er ætíð látinn vera á ...i ef útaf orðinu bregður. Góðu heilli gefur

heldur ekki saga vor tilefni til þess, og viljum vèr því segja satt frá, og byrja þar aptur, sem þeir Gísli og Þórarinn skildu, og ekki varð af kveðjum þeirra. Af hinu stutta viðtali þeirra þóktist Þórarinn orðinn þess vís, er hann vildi; virtist honum enginn efi vera á því, að það væri satt, sem Þórdís hefði látið hann ráða í, um hagi Sigrúnar. Nokkru síðar, en Gísli var brott farinn, komu að B . . . tveir útróðramenn norðan úr Staðarhrepp, hafði Þórarinn einnig tal af þeim, og sögðu þeir hið sama um það, hvað rætt væri um Sigrúnu; þetta staðfesti Þórarinn algjörlega í trúnni, tók hann nú fáleika mikla, og gat það ekki dulizt fyrir húsbónda hans og heimilisfólki að B . . ., en enginn vissi hvað valda mundi. Sýslumaður var vel til hans sem áður, en þókti þó kynlegt um, að Þórarinn svo að segja aldrei var með hýrri há, en hafði þó áður verið hinn glaðasti. Samt leysti Þórarinn jafnan vel af hendi ritstörf þau, er sýslumaður ætlaði honum. Líður nú svo fram um veturinn, að sýslumaður fæst ekki um, þó hann sjái Þórarinn dapran löngum.

Það var eitt skipti, að sýslumaður sat einnsaman hjá konu sinni, og lá allvel á honum og ræddu þau um hitt og þetta. Spyr þá sý maður hana, hvað hún hyggi bera til þess Þórarinn hafi tekið svo miklum stakkaskip

hafi hann áður leikið á als oddi, en nú hafi hann um stund verið ofantekinn og daufur, sem hann byggi yfir einhverri sorg, er hann vildi dylja. Kona sýslumanns lèzt ekki vita hvað til þess bæri, en kvaðst þó hafa tekið eptir því, að honum væri að nokkru brugðið; gat hún þess fyrst, að þórarinn mundi ekki kunna þar við sig, og lánga til átthaga sinna þar nyrðra; ekki kvað sýslumaður það mundi vera tilefni ógleði þórarins. Kona sýslumanns gat enn annars til, og þókti sýslumanni það ekkert að líkindum; þá þagnaði húsfreyja við um hríð, leggur á vángann og segir:

«Mèr getur þá ekki hugsast neitt, heillin mín, hvað hann kynni að setja fyrir sig, nema ef það skyldi vera eitthvað heilaslángur í honum um hana Íngibjörgu okkar, og hann ímyndaði sèr að það gengi ekki.»

«Og þetta getur verið, eða hefir þú sèð nokkur deili til þess?» sagði sýslumaður.

«Ónei,» sagði húsfreyja, «eg sè það er gott og þægilegt á millum þeirra, en ekkert sem sè orð á gjörandi; en mèr hefir nú ætíð fundizt á Imbu minni, að hún heldur hún kæmi ekki hátt niður, þó hún fengi einhvern fátækan, óvalinn ent; hún hefir það af einhverjum sínum, kkinn,» sagði hún og hreykti sèr dálítið upp etinu, «og get eg ekki láð henni það, því

vel er hún af Guði gjörð, og svo munu sumir segja, að hún standi til að eignast nokkuð.»

Sýslumaður stansaði dálítið við, strauk dósir sínar og svarar síðan:

«Svo mun það kallað; en það er ekki fyrir það, Þórarinn held eg vera gott mannsefni, mèr hefir líkað ágætlega við hann, síðan hann híngað kom, og veit ekki hvort mèr væri það svo mikið á móti skapi, ef hún vildi það.»

«Já, en trú þú mèr til,» sagði húsfreyja, «hún mundi varla eiga hann; tiltökumál væri það, ef hann hefði siglt, og eitthvað gæti orðið úr honum.»

Við þetta felldu þau talið, en ekki er þess getið, hvort það var þessi umræða eða annað, sem var orsök til þess, að nokkrum dögum síðar kom sýslumaður eitt skipti að máli við Þórarinn, og er nú allblíður í viðmóti; spyr hann þá Þórarinn, hvað valdi ógleði hans. Þórarinn er í fyrstu alltregur að segja honum það, og lætur sem lítið sè til hæft um það; en er sýslumaður skorar fastara á hann um þetta mál, þá verður það, að Þórarinn þagnar um hríð, en síðan segir hann:

«Þèr hafið, herra sýslumaður minn, jafnan sýnt mèr svo mikla einlægni og ástsemi, eg kom til yðar, sem eg hefði verið upp sonur yðar, og sæmir mèr ekki að dylja

þess, sem þèr spyrið mig, og er yður þá satt frá að segja, að síðan eg var barn að aldri, og man fyrst til mín, hefir sú löngun ætíð verið föst hjá mèr, að mig hefir lángað til að fara utan. þessi löngun hefir nú orðið ríkari og ríkari hjá mèr, og er nú orðin svo föst í huga mínum, að eg get ekki lengur við hana stríðt. Að sönnu sè eg nú lítið eða ekkert ráð í þessu, er eg lít á efnahaginn, en yður að segja hefi eg þó fastráðið það, ef yður er það ekki móti skapi, og fellur mèr það þó á aðra hliðina þúngt, að slíta mig úr svo góðra foreldra höndum, sem eg hefi hèr í verið, ef þèr á annað borð hefðuð viljað halda mig lengur.»

Sýslumaður sagði, að raunar hefði hann óskað að hafa þórarinn í sinni þjónustu, því vel hefði sèr við hann fallið í alla staði, en ekki vildi hann letja hann fararinnar; mundi það og reynast, að hvar sem þórarinn kæmi, mundi hann kallaður góður drengur, enda væri það úngra manna að framast erlendis, og fannst það á, að sýslumaður fýsti hann í öllu; hèt hann þórarni, að greiða honum árskaup hans, og þar að auki styrkja hann nokkuð með fararefni. þórarinn átti og eptir af föðurarfi sínum ɔkkur hundruð í jörðu. þenna jarðarpart veðʋtti hann manni þar syðra, og var það gjört ıeð ráði sýslumanns; sýndi og sýslumaður, að

hann vildi styrkja þórarinn, og hefir þess því verið til getið, að hann hafi ætlað, ef utanferð hans tækist vel, að gefa honum Íngibjörgu dóttur sína, og er það ekki ólíklegt, er hann sá, að hann var hinn efnilegasti maður og líklegur til frama; en svo var hann sèður, að hvorki vildi hann láta þórarinn ráða neitt í þessa fyrirætlun sína fyrst um sinn, eða binda það neinum fastmælum, enda fór þórarinn ekki þess á nokkurn hátt á leit; en svo sagði hann frá síðar, eptir að hann var aptur kominn hèr til lands, að hefði Íngibjörg þá verið ógefin, er hann kom aptur úr siglíngu, mundi hann hafa leitað þar ráðahags, því næst Sigrúnu hafi Íngibjörg verið hin fegursta íslenzk stúlka, er hann hafi sèð, og um marga hluti hinn bezti kvennkostur.

Um haustið áður hafði skip eitt, sem átti að fara til Kaupmannahafnar, orðið apturreka, og lá það um veturinn á Búðum; átti það nú, undir eins og ísa leysti, að sigla til Danmerkur. Með skipi þessu tók þórarinn sèr far, og átti að vera kominn til skips í seinustu viku einmánaðar, en þángað til dvaldi hann hjá sýslumanni; var hann nú allglaður, það er menn gátu sèð, en bar harm sinn í hljóði. Engu að síður hann ekki gleymt Sigrúnu sinni, og fannst um svo jafnan, er hann var í einrúmi,

hann aldrei þaðan af mundi geta fellt ástarhug til neinnar annarar konu. Lá hann opt vakandi um nætur í rúmi sínu, og gat ekki fest svefn fyrir þeirri umhugsun; en því hafði hann tekið þetta ráð, að fara utan, að honum fannst, að hann mundi aldrei yndi nema hèr á landi, úr því að Sigrún hefði brugðizt sèr, en á hina bliðina var hann hugsjúkur um það, hver forlög mundi vænta sín á ókunnu landi, þar sem hann ekki átti neitt athvarf, en átti lítinn farareyri. Eina nótt, nokkru áður en hann ætlaði heiman, lá hann sem optar vakandi og var að hugsa um hagi sína og Sigrúnu; datt honum það í hug, að áður hann færi af landi burt skyldi hann rita Sigrúnu, og láta hana að minnsta kosti vita, hvern harm hún hefði búið honum með ótrúleik sínum, hugsaði hann sèr brèfsefnið um nóttina. — —

---

# ÞRÍTUGASTI OG FYRSTI KAPÍTULI.

---

Þórarinn var nú farinn af landi. Þá er hinn salti sær hafði hulið fósturjörð hans sýnum fyrir honum, og vaggað honum um hríð, þar sem hann lá í rúmi stýrimanns, yfirkomnum af söknuði unnustu og ástvina, tók Svefninn hann loks sèr á arm, en lèt son sinn Draum bía honum vel og lengi, en Draumur er, eins og allir vita, gjarn og fús á að fara með sofanda fólk í gandreiðir út um alla heima og geima, og sýna því allskonar firn og fádæmi. Þetta gjörði hinn gázkafulli Draumur einnig Þórarni. Hann flaug með hann yfir láð og lög, sýndi honum fagrar og dýrðlegar borgir og bæi, skrautlegar hallir og hús, stóra turna, og stræti með margvíslegum dýrum og mannagrúa. — — —

---

# Efniságrip
## af endanum á skáldsögunni:
## «Maður og kona.»

---

þórarinn stúdent sigldi um vorið með Búðaskipi til Kaupmannahafnar, kemst þar á háskólann og lærir guðfræði, útskrifast síðan með góðum vitnisburði, og dvelur þar eptir í Kaupmannahöfn nokkur ár. Ekki skrifaði hann Sigrúnu áður hèðan færi, og fèkk engar sannari fregnir um hagi hennar, en áður er sagt í brèfum sèra Sigvalda og þórdísar. Egill Grímsson fór burt frá Hlíð um haustið, sem áður er sagt, en Sigrún var nú með fóstru sinni. Allt var það lygi, er kvisazt hafði um hana, að hún væri vanfær, og enginn þóktist vita, hvar sú fregn hefði upp komið, en þeir, sem bezt voru að sèr í þeirri ættfræði, mundu eptir því, að sèra Sigvaldi hafði sagt þeim þessar nýjúngar fyrstur ...a, og haft þær eptir öðrum. þær fóstrur ... nú utanferð þórarins og orsakir hennar, ...ktust þær hafa allt illt hlotið af komu Egils

að Hlíð, er þær urðu vísari alls hins sanna. Um sumarið ríður sèra Sigvaldi til alþíngis, og lèt þar lýsa kaupi sínu á Hamri; gat þórdís þar enga leiðrèttíngu á fengið, lèt hún því höfða mál móti presti, en tapaði málinu, því prestur flækti það fyrir dómendum bæði með kænsku og fè; hafði þórdís ekki efni til að fylgja fram málinu til hlítar; líka brugðust henni góðir svaramenn, er þeir sáu þurð á eigum hennar. Ekki borgaði prestur henni heldur penínga þá fyrir Hamar, er fyr var um getið, enda gekk hún aldrei eptir þeim. Prestur lèt um haustið leggja blágrýtisklett yfir leiði Sigurðar bónda sem minnismark, og lèt þar klappa á nafn hans; kvað prestur stein þenna mundu geta enzt um aldur og æfi, ef eigi sykki hann í jörð niður, en sig hefði hann kostað ærna penínga, ómak og fyrirhöfn, enda hefði Sigurður sinn heitinn átt það skilið, því hann hefði borgað sèr þetta heiðarlega í lifanda lífi; þóktist hann nú vel kominn að kaupi sínu á Hamri. Nú þrengdi svo að kosti þórdísar, að hún varð að selja allt lausafè sitt til skuldalúkninga og hætta við búskap; prestur lèt og byggja henni út af Hlíð um veturinn, og sá hún þá engan veg til að vera þar lengur, enda var hún þá búin að reyna svo m Hlíð, að hana fýsti nú að fara þaðan, o öllu bústángi og fyrirhyggju. Rèðust þær

þá frá Hlíð um vorið, til bónda eins í næstu sveit. Sá bóndi hèt Helgi; voru þær í húsmennsku hjá honum; bærinn hèt Skarð. Helgi var úngur maður og kvæntur fyrir skömmu; hann var hinn vænsti maður, og hafði almenníngs hylli. Hreppstjóri var hann í sveit sinni, og var í því sem öðru vel metinn. þegar þær fóstrur höfðu dvalið þar eitt ár, andaðist kona Helga, fèkk hann þá Sigrúnu til að vera fyrir framan í búi sínu næsta ár. Nú með því maðurinn var vænn, álitlegur og vel efnaður, en þær fóstrur fèlausar og þórdís hnigin að aldri, þá gjörist það með þeim, að Helgi fær Sigrúnar, og giptust þau að ári liðnu. Gjörði Sigrún það að áeggjun fóstru sinnar, og til þess að geta annast hana í elli hennar. En undir niðri hèlt hún þó vel trygð sína við þórarinn, þó hún lèti lítið á bera, enda hugði hún þau mundi ekki optar sjást. Helgi unni Sigrúnu mjög, og voru samfarir þeirra enar beztu, eignuðust þau eina dóttur, sem var nefnd «þórdís þórarna.» Ekki varð þetta hjónaband Sigrúnar lánggæðt, því þá er þau höfðu búið saman tvö ár, legst bóndi í sótt og liggur lengi, unz hann andast úr sótt þessari; hafði hann þá ráð-""ıfað eigum sínum svo, að Sigrún fèkk að lda búinu óskertu eptir hans dag. Sigrúnu

þókti enn mesti skaði um fráfall manns síns, en bar þó harm sinn með stillíngu mikilli; bjó hún nú á Skarði eptir mann sinn, og hafði gott bú, og þókti en mesta sæmdarkona; urðu margir til að biðja hennar, en hún neitaði þeim öllum. — Egill Grímsson var með föður sínum, eptir að hann fór frá Hlíð; og kærði jafnan fyrir honum, hversu prestur hefði gabbað sig á Sigrúnu. Grímur bar þetta mál undir prest, og bað hann ráða bót á. Prestur hugsaði þá lengi um þetta, og kom honum þá Guðrún ráðskona í hug, og að eigi mundi tjá að láta hana bíða eptir Þórarni, enda mundi hann eigi skeyta um hana, er hann frètti öll brögð prests, þó hann kæmi aptur, hvað mjög var óvíst. Guðrún ámálgaði opt við prest, að hann efndi loforð sín með að sjá henni fyrir giptíngu; tók prestur það til bragðs, er svo var komið, að hann gefur þau Egil og Guðrúnu í hjónaband; þókti mönnum fljótt að því undið, en prestur fann næga ástæðu til að flýta öllu, og koma því fram er hann vildi. Þau Egill og Guðrún fóru að búa í Hlíð, er þá var laus, og var sagt, að prestur hefði ætlað Guðrúnu þá jörð ráðskonukaup. Ekki gekk búskapur þeirra vel, og samfarir því miður, áttu þeir fullt í fan- Grímur og prestur að tala niður milli þeirr

og komu stundum til opinberar forlíkanir, var mikið orð um ósamlyndi þeirra hjóna, og sættaumleitun prests. Sèra Sigvaldi eldist nú, og tekur hann sèr kapelán, förlaðist honum mest sýn; ekki urðu kapelánar lánggæðir hjá honum, því kaup þeirra var ei meira en meðal-vinnumannskaup, og sagði prestur þeir ynnu ekki fyrir meiru. Skipti hann árlega í þrjú ár um kapelána, en úr því fèkk hann engan; sagði hann þá af sèr prestskap, voru þá sjö ár liðin frá því þórarinn sigldi, og kom hann það vor út híngað með skipi frá Reykjavík. þórarinn frèttir nú, að Staðurinn er laus, og þareð hann var þá atvinnulaus, sækir hann um Stað og fær brauðið, tekur hann þá vígslu í Reykjavík, og leigir sèr síðan hesta norður. það var um krossmessu leyti, er hann byrjaði ferð sína norður, og segir ekki um ferðir hans, fyr en hann kemur að Skarði, þar er Sigrún bjó nú. Helgi hafði búið þar áður þórarinn sigldi, og voru þeir málkunnugir; ætlar þórarinn að hafa þar náttstað, og fregna úr hèraði sínu hjá Helga, en hafði enn ekkert frètt úr þeim sveitum. Hann kemur síðla að Skarði, og sèr ekki manna úti, utan stúlkubarn í bæjardyrum, mjög efnilegt, èrumbil fjögra eða fimm ára gamalt; þórarinn ..star kveðju á barnið, og í því kemur kona

út í dyrnar, var það Sigrún; heilsar hann henni, en ekki þekktust þau í fyrstu; spyr Þórarinn þá um Helga bónda, en hún segir honum sem var; biður hann þó gistíngar, og fèkk hana; kemur þá svo tali þeirra, að þau þekkja hvort annað, og segja nú hvort öðru frá, hvað drifið hafi á daga sína síðan þau skildu; verða þá mestu fagnaðarfundir með þeim. Þórdís gamla fagnar og vel Þórarni; dvelur hann þar nokkra daga, og heyrir nú allt um brögð og hrekki sèra Sigvalda, og finnst mikið um. Þar frètti hann og lát systur sinnar, konu sèra Sigvalda, og harmaði hann hana mjög. Þórarinn gjörir nú ráð sín þar á Skarði, og er það fyrst, að hann sendir mann til sèra Sigvalda með brèf, í hverju hinn nýi prestur á Stað biður gamla klerkinn að flytja alfarið burt frá Stað. Sèra Sigvalda verður hverft við, er hann sèr hversu nú er komið, og mundi hann nú engan síður hafa kosið til eptirmanns síns, en Þórarinn; bjóst hann við engu góðu af honum, eða hans komu; fær sèr nú þegar kot eitt þar skammt frá, og flytur þángað allt sem hann getur. Þessu næst stefnir Þórarinn sèra Sigvalda um öll undanfarin hrekkjabrögð við sig og þær fóstrur; fylgdi hann þ... máli svo fast, að sèra Sigvaldi gugnaði nú fy... alvöru, einkum er þau Þórdís og hann höf...

talazt við fyrir rètti. Í þetta mál komust flestallir þeir, er fyr var getið í sögunni, og stóð það lengi yfir. Varð prestur fyrir fèsektum stórum. Þórarinn prestur flutti bú Sigrúnar að Stað, með samþykki hennar, og giptust þau um haustið og unnust vel, og lýkur þar með sögunni.

---

## Prentvillur helztu.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| bls. | 98 l. | 9 að neð.: | þá fyr. þú. |
| — | 103 - | 14 — — | Gurðrún f. Guðrún. |
| — | 111 - | 10 — — | þú f. þá. |
| — | 118 - | 9 að of. | hanbókarl. f. handbókarl. |
| — | 208 - | 10 — — | Hjalli f. Leiti. |
| — | 237 | neðstu l. | g f. og. |
| — | 371 - | 4 að n. | draugarnar f. draugarnir. |
| — | 390 - | 4 - - | Sigurðar f. Sigþórs. |

